


# SNORRA STURLUSONAR,

EÐA

## GYLFAGINNÍNG, SKÁLDSKAPARMAL

OG

## HÁTTATAL.



Útgefin af

**Sveinbirni Egilssyni**

Rektor og Dr. Theol.



**Reykjavík.**

Prentuð í prentsmiðju landsins, af prentara Helga Helgasyni,

1848.

# Formáli.

Þegar farið var í vetur að kenna lærisveinum hèr við skólann norræna goðafræði, og jafnframt var gert ráð fyrir, að þeir, þegar fram liði stundir, feingi tilsögn í norrænum skáldskap: þá þókti þörf á, að þeir hefðu einhvern þann bækling, er innihèldi nokkurn grundvöll til þessa hvorstveggja. En það er einmitt Snorra-edda, sem inniheldur þetta hvortveggja; því í *Gylfaginning* og á nokkurum stöðum í (Bragaræðum og) *Skáldskaparmálum* eru framsettar goðasögurnar, en í *Háttatali* Snorra eru norrænir bragarhættir og margskonar tilbreytíngar þeirra ítarlega útlistaðir, og í Skáldskaparmálum raktar ýmsar kenníngar og talin hluta-heiti og uppruni og tildrög nokkurra kennínga. Þetta var nú tilefnið til þess, að eg fór að gefa út þessa Snorra-eddu. En af Snorra-eddu eru til þrjár skinnbækur: 1) *Konúngsbókin* (Codex regius, hèr merkt *Kb*) á hinni miklu bókhlöðu Danakonúngs í Kaupmannahöfn, sem er allra Eddubóka ágætust; 2) *Ormsbók* (Codex Wormianus, merkt *Ob*) á sívalaturni í Kaupmannahöfn; 3) *Uppsalabók* (Codex Upsaliensis, merkt *Ub*) á bókhlöðu Svíakonúngs í Uppsölum. Auk þessara bóka eru til á sívalaturni þrjú skinnbókarbrot, viðkomandi Snorra-eddu, merkt Skbr. 748, 757 og 1 *eb.* R. K. Rask, málfræðíngurinn mikli og ástvinur Íslands, gaf út Snorra-eddu (*Snorra-Edda* ásamt *Skáldu* og þar með fylgjandi ritgjörðum. Eptir gömlum skinnbókum útgefin af R. Kr. Rask, Stokkhólmi, 1818) eptir ágætu pappírs-handriti, sem skrifað hafði verið eptir Konúngsbókinni; því í það mund fannst ekki Konúngsbókin á bókhlöðunni miklu, og hèldu menn þá, að hún mundi vera týnd. Var útgáfa Rasks hin ágætasta allra þeirra, sem þá höfðu útkomið af Snorra-eddu: er þar í helzti orðamunur tilfærður af Ormsbók, Uppsalabók, og enn öðrum miður merk-

um pappírs-afskriptum; textinn rètt prentaður og víða leiðrèttur, og upptekinn orðatvika-munur, sem Rask hefir álitið sennilegri, en hitt sett aptur í neðanmáls-greinir, til þess þó mætti sjá, hvað afskript konúngsbókarinnar hafði; efnisröðina hefir hann fært í skipulegra lag, en í skinnbókunum er, og aðgreint formála og eptirmála Snorra-eddu með öðru letri; allar vísurnar hefir hann vandlega gegnum geingið, og aðgreint málsgreinir þeirra velflestra með sveigum og hornklofum, svo þar af má sjá, hversu upp skal taka hverja málsgrein í hverri vísu. Er af öllu auðsèð, að hann hefir rètt skilið lángflestar þeirra. Nú fannst Konúngsbókin sjálf, skömmu eptir að Rask var heim kominn úr Indíaför sinni, en eptir andlát Rasks lèt Árnamagnússonar-nefndin *Candid. philos.* og *Stip. Arnam.* Jón Sigurðsson, sem er allra manna glöggskygnastur og ritvandastur á gömul bókfell og handrit, bera saman Rasks-eddu við Konúngsbókina, sendi mèr svo þá afskript og samburðinn til þess að leggja út Snorra-eddu alla á latínu, ásamt með þeim málslistar-ritgjörðum, sem henni fylgja, og ekki eru á Konúngsbókinni. Þetta gerði eg hèrna um árið (eg man nú ekki, hvaða ár það var), og teiknaði upp hjá mèr um leið merkilegasta orðatvika-muninn eptir *Kb*, *Ob*, *Ub*, og Skbr. 748, 757 og 1 *eb*. Eptir þessum samburði og Rasks-útgáfu er nú þessi Snorra-edda löguð. Fyrirsögnunum, sem vanta í *Kb* og *Ob*, hefi eg að mestu leyti hagað eptir *Ub*. Fyrirsögnin fyri *Gylfaginníng* er í *Ub* svona: „Hèr hefr Gylvaginníng, frá því er Gylvi sótti heim Alföðr í Ásgarð með fjölkungi, ok frá villu Ása ok frá spurníngu Gylva". Fyrirsögnunum fyrir *Skáldskaparmálum* og *Háttalykli* hefi eg hagað eptir hinni almennu fyrirsögn, sem *Ub* hefir fyrir allri Snorra-eddu, og þannig hljóðar: „Bók þessi heitir Edda, hana hefir samansetta Snorri Sturluson eptir þeim hætti, sem hèr er skipat, er fyrst frá Ásum ok Ými, þar næst *skáldskaparmál* ok heiti margra hluta, síðast *háttatal, er Snorri hefir ort um Hákon konúng ok Skúla hertuga*". En því setti eg *Bragarœður* í hornklofum fyrir neðan *Skáldskaparmál* í fyrirsögninni, að einhver pappírsbók nefnir svo þenna kaflann, þó hann sè raunar ekki annað en inngángur til skáldskaparmálanna. Háttatal, sem í daglegu tali alment kallast *Háttalykill,* nefnir og Ólafur hvítaskáld Þórðarson († 1259) í málskrúðsfræði sinni (Rasks-edda, bls. 324. l. 12) með þess-

um orðum: „Þetta köllum vèr aðalhendíngar í skáldskap, ok tóku af þessi fígúru upphaf þeir hættir, er með hendíngum eru samansettir, ok breytist þat á marga vega, sem finnast má í *háttatuli* því, er Snorri hefir ort". Formála og eptirmála Eddu setti eg aptast (bls. 144—55); er þar við athugandi, að í *Kb* vantar í Formálann allt fram að bls. 151, l. 14. neð., þar sem til er vísað neðan máls, er allur fremri hlutinn allt þángað að tekinn úr *Ob*. Textann sjálfan hefi eg leitazt við að hafa svo rèttan, sem eg hafði vit á, og svo nálægt *Kb*, sem mèr þókti gjörlegt, ok eptir þeim faungum, sem eg átti kost á. Sá sem ætlar sèr að leiðrètta Snorra-eddu til fulls, verður að vera kunnugri fornmálinu og einkum skáldskaparmálinu, en eg er, og hafa fleiri bækur til stuðníngs, en eg nú hefi faung á, og einkum að eiga kost á að skoða skinnbækurnar og afskriptirnar með eigin augum, sem eg hefi nú ekki færi á. Eg hefi leitazt við að gera vísurnar skiljanlegri, með því, eins og Rask hefir gert, að sundurgreina málsgreinirnar með sveigum ( ) og hornklofum [ ], þàr sem fleirum greinum, en einni, var steypt saman í vísuhelmíngi, t. d. bls. 103. 4. vh., þar sem þremur málsgreinum er hleypt hverri inn í aðra, eins og hulstur eða sem blöðkur a lauk, og bls. 102. 13. vh., þar sem fimm málsgreinum er hleypt inn í eina. Hvar eg hefi vikið frá *Kb* og fylgt öðrum bókum, eða hagað orðum eptir því sem mèr hugkvæmdist, það hefi eg hvergi tekið fram neðan máls, eða næsta óvíða; þókti mèr það síður eiga við í þesskonar útgáfu, sem ætluð er viðvæníngum, en allstaðar hefi eg vísað til, þegar einhver vísa eða vísubrot kom fyrir í öðrum sögum eða kvæðum, að því leyti sem mèr var kunnugt. Þó vil eg bæta fáeinu hèr við um það, sem milli ber þessarar útgáfu og Rasks:

*a)* Bls. 55. l. 16. neð., það er án efa misprentað í Rasksútg., bls. 104, 4. er. (hèr bls. 55, l. 16. neð.), að þar stendur *baugr,* því bæði *Kb* og *Ub* hafa *börg,* og *Ob borg.* Bls. 56. l. 10. neð., hefir *Kb einnar,* og þá er getgáta Rasks rètt, að lesa *ok* næst þar á undan, í staðinn fyrir *en,* sem *Kb* hefir. Bls. 61. l. 8. neð., hèr hefir *Kb entögnir* í einu orði; því skipti eg í tvö, *en tögnir,* og þó *tögnir* komi ekki fyrir annarstaðar, held eg það megi til sanns færast, og *Rögnir,* sem Rasksútg. og *Ob* hafa, gat skapazt af því. Bls. 62. l. 6. of., vísuorðið, *sverð runnar fen gunnar,* eptir *Kb,* hefi eg leitazt við

að gera skiljanlegt með sundurgreiníngum; R. hefir (líklega eptir Skúla Þórðarsyni Thorlacius) *sverð runn at feng unnar.* Bls. 62. l. 10. neð., hefi eg fylgt *Kb,* sem hefir *salvanið (=salvanit, Ob);* verður hèr þá, þegar kenníngin er rètt upptekin, ekki annað frábreytið, en að orðkornið *of* sezt heldur lángt frá sögninni *laut,* og hafa menn þess dæmi í einfaldari kvæðum, en Þórsdrápa er, t. d. í Sæmundar-Eddu Grímnism. 52. og Hyndl. 34. Bls. 63. l. 12. neð., er *áfyrir,* sem *Kb* og *Ob* hafa, samkvæmara bls. 100. l. 10., en *ei fyrir,* sem R. hefir eptir Sk. Thorlacius. Bls. 63. l. 8. neð., er *ósvífrandi* rètt, eptir *Kb,* og verður skiljanlegt, ef samanborið er bls. 108. l. 18. neð.; hèr hefir *Ob ósviptandi,* en R. gizkaði á *ofsviptandi.* Bls. 63. l. 1. neð., er *ballastan (Kb)* miklu viðkunnanlegra en *balladan (Ob).* Bls. 64. l. 11., mun "*Veiðr mælti svo*" vera rètt skrifað eptir *Kb,* er því og *Ob* samhljóða, nema hvað hún hefir *mýil* fyrir *mælti,* enda er síðasti kafli þessa kvæðis í *Ob* skrifaður í Skb. með nýrri hendi óskýrri og mjög misskrifaðri, sem Grunnavíkur-Jón eignar sèra Magnúsi Ólafssyni í Laufási; hafa menn gizkað ýmist á þessum stað, sem sjá má í útg. Rasks, hafa menn, til að geta, vilzt á *leiðar,* sem kemur næst eptir, og tekið það fyrir e. et. af *leið,* kv., vegur, ferð, í staðinn fyrir að það getur verið sögn (2. et. aflh. af *leiða*), en *veiðr* skýrist af bls. 112. l. 1. neð. Bls. 64. l. 19. of., *leikblaðs,* og l. 22., *hófu — skófu,* er bæði eptir *Kb* og *Ob,* en *leið—blaðs* og *juko—skóko,* í Rasks-útg., ágizkanir Skúla Thorl. Bls. 64. l. 27. of.; hèr er í *Kb* ritað *FiNz ilja;* þetta hefir *Ob* lesið *finnst ilja,* en Skúli Thorl. gerði úr því *Finn-stilja,* og svona komst þetta inn í R. útg., hèlt Skúli, að *stili* væri sama sem *stillir,* og tók *fjalla Finnstili,* konúngur fjalla-Finna, fyrir jötuns-kenníngu. Bls. 133. l. 11. of., *avrar, Kb.* (afar, *Ob;* avar, Rask), samanb., *arar* Sigurðar kv. Fofnisb. 3, 14. í Sæm. Eddu, og getgátur um það orð í Sæm. Edd. útg. Khfn. 1818 3. b. 218. bls. og Sæm. Edd. útg. í Kristjaníu 1847, bls. 118. 201.

*b)* Dæmi, þar sem eg hefi fylgt *Ub:* 1) Bls. 64. l. 4. neð., *Böðvarr halti Ub* (sem þó hefir rángt *ballti*): *Kolli, Kb.* Af Noregskonúnga-sögum (Fms. 7, 336—7 og 354) sèst, að Kolli prúði hefir ort dróttkveðið lofkvæði um Ínga konúng Haraldsson, og að Böðvar halti orti dróttkvæða drápu um Sigurð konúng Haraldsson, bróður Ínga. Með því nú þessi vísuhelmíng-

ur ber það með sèr, að hèr er kveðið um bróður Ínga konúngs, en ekki um sjálfan Ínga, þá þyki mèr líklegra, að vísuhelmíngurinn sè úr drápu Böðvars, en úr drápu Kolla. 2) Bls. 88. l. 5. neð., *eikiborðs (Ub); eikin borz*, 748; *eikin bozt, Ob; eikinn bezt, Kb.* Þó eg neiti því ekki, að koma megi saman málsgreininni nokkurneginn eptir *Kb,* þá kann eg samt miklu betur við orðtæki *Ub* og held það samkvæmara fornum talshætti, ef *lofum* næst á undan er rètt tekið. Bls. 95. l. 18. neð., *firr (Ub), fiþr (Kb);* hèr gerir skilníngur vísunnar það vafalaust, að *firr* er rèttara en *fiðr.* 3) Bls. 103. l. 1. of., *heina (Ub), hveina (Kb).* Mèr þykir líklegt, að vísan sè úr einhverri drápu Arnórs um Harald konúng harðráða, og að hèr bendi til hernaðar Haralds á Upplöndum 1065, þegar Upplendíngar vildu ekki gjalda honum skyldir og skatta; er þá getið um, að hann hafi farið með her upp á Raumaríki, Heiðmörk, Haðaland og Hríngaríki, og brent víða fyrir bændum (Fms. 6, 333. 338—41); en *Heinir* kallast þeir, sem búa á Heiðmörk.

*c)* Dæmi, þar sem eg hefi fylgt O*b:* 1) Háttat. 12, 2, *teitr — heiti (Ob),* sem Rask hefir upptekið, er auðsjáanlega rèttara en *"harðráðum guð jarðar" (Kb).* 2) Háttat. 28, 1, *vandbaugs (Ob), vannbaugs (Kb).* Bragarhátturinn, sem hèr er *tvískelft,* sýnir berlega, að *vandbaugs* er rèttara en *vannbaugs,* þó þetta merki hið sama, ef kenníngin er rètt rakin (sjá háttatal, 86, 8).

*d)* Dæmi, þar sem eg hefi fylgt Skbr. 748, 757, *1eb:* 1) Bls. 50. l. 20. of., *er styrðu (Kb): styrðu goð* (757). 2) Bls. 52. l. 17. of., hèr hefir *Kb asksaung,* og eins Rasks Edda, en Skbr. 757 *asksögn,* sem sýnist rèttara, bæði vegna hendíngarinnar *"magnar",* og vegna kenníngarinnar *"Ullar asksögn".* 3) Bls. 88. l. 14. of.,hèr hefir *Kb. baug nafagðrs,* sem er óskiljanlegt, en *Ob baug navar,* sem Rask hefir upp tekið, má vera vegna þeirrar skýríngar, sem eptir kemur, að *baugr* kallist hèr *nöf hjóls;* þar á móti hefir Skbr. 748 *baug navaðs,* 757 *baug nafaðs;* þessu hefi eg fylgt, en tekið það sem eitt samsett lýsíngarorð, *baugnafaðs,* og sýnist, sem þetta felist í orðmynd þeirri, sem afbökuð er í *Kb.* Eg held eg skilji þenna vísuhelmíng rètt, en það sem Edda segir, að Bragi hafi kveðið þetta um bauginn á skildinum og að hann hafi kallað bauginn nöf hjólsins, það mun ekkert viðkoma skilníngi þeim, er í vísunni er fólginn, heldur að eins

líkíngu þeirri, er vakað hefir fyrir huga skáldsins, þegar hann myndaði þetta lýsíngarorð. 4) Bls. 97. l. 1. of., *"jarl"*, er tekið upp eptir *1eb*, en *Kb* og 748 hefir ekki nema eitt *I*; og sömu bls. l. 12. neð., er *"byrjuð"* tekið upp eptir sama Skbr., því *Kb* og *Ob* og Skbr. 748 og 757 hafa ekkert orð í stað þess; Rask tók upp *kjörin*, sem var sennileg getgáta Gunnars Pálssonar.

*e)* Getgátur mínar: 1) Bls. 52. l. 17. of., *grunnlá* (grumila, *Kb;* grymila, *Ub;* grymi lá, *Ob;* grynni lá, 757). 2) Bls. 79. l. 13. neð., *en* (*Kb.* nè). 3) Bls. 81. l. 5. of., *járni varðar* (jarnar fjarþar, *Kb).* 4) Bls. 104. l. 8. neð., *hins* (hin, *Kb).* 5) Bls. 139. l. 3. of., *náhent* (stúfhent, *Kb, Ob*): l. 11., *stúfhent* (náhent, *Kb, Ob*). 6) Bls. 141. l. 19—20. of., *valstaða vannbaugskaða* (val saða vann baug skaða, *Kb, Ob*). 7) Bls. 143. l. 13. of., *örverðr* (öruᶜþr, *Kb:* ör uþr, *Ob:* örráðr, getg. G. Pálssonar: örverpr, getg. Rasks).





## [Gylfaginning].

**Gylfi** konúngr rèð þar löndum, er nú heitir Svíþjóð. Frá honum er þat sagt, at hann gaf einni farandi konu at launum skemtunar sinnar eitt plógsland í ríki sínu, þat er 4 oxn drægi upp dag ok nótt. En sú kona var ein af Ása ætt; hon er nefnd *Gefjun*. Hon tók 4 oxn norðan or Jötunheimum, en þat voru synir jötuns ok hennar, ok setti þá firir plóg: en plógrinn gekk svo hart ok djúpt, at upp leysti landit; ok drógu oxninn þat land út á hafit, og vestr, ok námu staðar í sundi nokkvoru. Þar setti *Gefjun* landit, ok gaf nafn, ok kallaði *Selund*. Ok þar sem landit hafði upp gengit, varð eptir vatn; þat er nú *Lögrinn* kallaðr í Svíþjóð, ok liggja svo víkr í Leginum, sem nes í Selundi. Svo segir Bragi skáld gamli:

Gefjun dró frá Gylfa
glöð djúpröðul-öðla,
svo at af renniröknum
rauk, Danmarkar auka:
báru oxn ok átta
ennitúngl, þar er gengu
firir vineyjar víðri
valröf, fjögur höfuð[1].

Gylfi konúngr var maðr vitr ok fjölkunnigr; hann undraðist þat mjök, er Ása fólk var svo kunnigt, at allir lutir gengu at vilja þeirra. Þat hugsaði hann, hvort þat mundi vera af eðli sjálfra þeirra, eða mundi því valda goðmögn þau, er þeir blótuðu. Hann byrjaði ferð sína til Ásgarðs, ok fór með laun, ok brá á sik gamals manns líki, ok duldist svo. En Æsir voru því vísari, at þeir höfðu spádóm, ok sá þeir ferð hans, fyrr en hann kom, ok gerðu í móti honum sjónhverfingar. En er hann kom inn í borgina, þá sá hann þar

1) Hkr, Ýnglíngasaga, k. 5.

háfa höll, svo at varla mátti hann sjá ifir hana; þak hennar var lagt gyltum skjöldum, svo sem spónþak. Svo segir Þjóðólfr enn hvinverski, at Valhöll var skjöldum þökt:

Á baki lètu blikja
(barðir voru grjóti)
Svafnis salnæfrar
seggir hyggjandi[2].

Gylfi sá mann í hallardurunum, ok lèk at handsöxum, ok hafði 7 senn á lopti: sá spurði hann fyrr at nafni; hann nefndist *Gángleri,* ok kominn af refilstigum, ok beiddist at sækja til náttstaðar, ok spurði, hverr höllina ætti. Hann svarar, at þat var konúngur þeirra: en fylgja má ek þèr at sjá hann, skaltu þá sjálfr spyrja hann nafns; ok snèrist sá maðr firir honum inn í höllina, en hann gekk eptir, ok þegar laukst hurðin á hæla honum. Þar sá hann mörg gólf ok mart fólk, sumt með leikum, sumir drukku, sumir með vopnum ok börðust; þá litaðist hann umb, ok þótti margir lutir útrúligir, þeir er hann sá; þá mælti hann:

Gáttir allar,
áðr gángi fram,
um skygnast skyli;
því at óvíst er at vita,
hvar úvinir sitja
á fleti firir[3].

Hann sá 3 hásæti, ok hvert upp frá öðru, ok sátu 3 menn sinn í hverju. Þá spurði hann, hvert nafn höfðíngja þeirra veri. Sá svarar, er hann leiddi inn, at sá, er í enu nezta hásæti sat, var konúngr, ok heitir *Hár,* en þar næst, er heitir *Jafnhár,* en sá ofarst, er *Þriði* heitir. Þá spyrr Hár komandann, hvat fleira er eyrindi hans, en heimill er matr ok drykkr honum, sem öllum, þar í Háva höll. Hann segir, at fyrst vill hann spyrja, ef nokkvorr er fróðr maðr inni. Hár segir, at hann komi ei heill út, nema hann sè fróðari,

ok stattu fram,
meðan þú fregn;
sitja skal sá, er segir.

**Gángleri** hóf svo mál sitt: hverr er æztr eða elztr allra goða? Hár segir: sá heitir *Allföðr* at voru máli, en í Ásgarði enum forna átti hann 12 nöfn: eitt er Allföðr, annat er Herran eða Herjan, 3. er Nikarr eða Hnikarr, 4. er Nikuz eða Hnikuðr, 5. Fjölnir, 6. Óski, 7. Ómi, 8. Bifliði eða Biflindi, 9. Sviðorr, 10. Sviðrir, 11. Viðrir, 12. Jálg eða Jálkr. Þá spyrr Gángleri: hvar er sá guð? eða hvat má hann? eða hvat hefir hann unnit framaverka? Hár segir: lifir hann of allar

---

2) Hkr, Har. hárf., k. 19, 5. 3) Hávamál, 1.

aldir, ok stjórnar öllu ríki sínu, ok ræðr öllum lutum, stórum ok smám. Þá mælti Jafnhár: hann smíðaði himin ok jörð ok loptin ok alla eign þeirra. Þá mælti Þriði: hitt er mest, er hann gerði manninn, ok gaf honum önd þá, er lifa skal ok aldri týnast, þótt líkaminn fúni at moldu eða brenni at ösku; ok skulu allir menn lifa, þeir er rètt eru siðaðir, ok vera með honum sjálfum, þar sem heitir Gimli eða Vingólf. En vondir menn fara til Heljar, ok þaðan í Niflhel, þat er niðr í enn níunda heim. Þá mælti Gángleri: hvat hafðist hann áðr at, en himinn ok jörð veri görr? Þá svarar Hár: þá var hann með hrímþussum.

**Gángleri** mælti: hvat var upphaf? eða hversu hófst? eða hvat var áðr? Hár svarar: svo sem segir í Völuspá:

Ár var alda
þat er ekki var:
var-a sandr nè sær,
nè svalar unnir;
jörð fannst eigi,
nè upphimin;
gap var ginnúnga,
en gras ekki[4].

Þá mælti Jafnhár: fyrr var þat mörgum öldum, en jörð var sköput, er Niflheimr var görr; ok í honum miðjum liggr bruðr sá, er Hvergelmir heitir, ok þaðan af falla ár, er svo heita: Svöl, Gunnþro, Form, Fimbul, Þul, Slíðr ok Hríð, Sylgr ok Ylgr, Víð, Leiptr, Gjöll er næst helgrindum. Þá mælti Þriði: fyrst var þó sá heimr í suðrhálfu, er Múspell heitir; hann er ljóss ok heitr, svot hann er logandi ok brennandi; er hann ok ófærr þeim, er þar eru útlendir, ok eigi eigu þar óðul. Sá er Surtr nefndr, er þar sitr á landsenda til landvarnar; hann hefir loganda sverð, ok í enda veraldar mun hann fara ok herja, ok sigra öll goðin, ok brenna allan heim með eldi. Svo segir í Völuspá:

Surtr ferr sunnan
með sviga leifi,
skínn af sverði
sól valtíva;
grjótbjörg gnata,
en gífr rata;
troða halir helveg,
en himinn klofnar[5].

**Gángleri** mælti: hversu skipaðist, áðr en ættirnar yrði eða aukaðist mannfólkit? Þá mælti Hár: ár þær, sem kallaðar eru Elivogar, þá er þær voru svo lángt komnar frá uppsprettunni, at eitrkvikja sú, er þar fylgði, harðnaði, svo sem sindr þat, er renn or eldinum: þá varð þat íss; ok þá er sá íss gaf staðar ok rann eigi, þá heldi yfir þannig úren þat, er af stóð

4) Völuspá, 3. 5) Völuspá, 51.

eitrinu, ok fraus at hrími, ok jók hrímit hvert yfir annat allt í ginnúnga-gap. Þá mælti Jafnhár: ginnúnga-gap, þat er vissi til norðrs ættar, fyltist með þúnga ok höfugleik íss og hríms, ok inn í frá úr ok gustr; en hinn syðri lutr ginnúngagaps lèttist móti gneistum ok síum þeim, er flugu or Múspellsheimi. Þá mælti Þriði: svo sem kalt stóð af Niflheimi, ok allir lutir grimmir, svo var þat, er vissi námunda Múspelli, heitt og ljóst. En ginnúnga-gap var svo hlætt, sem lopt vindlaust; ok þá er mættist hrímin og blær hitans, svo at bráðnaði ok draup, ok af þeim kvikudropum kviknaði með krapti þess, er til sendi hitann, ok varð manns líkandi, ok var sá nefndr *Ýmir*, en Hrímþussar kalla hann Örgelmi, ok eru þaðan komnar ættir Hrímþussa; svo sem segir í Völuspá hinni skömmu:

Eru völur allar
frá Viðólfi,
vitkar allir
frá Vilmeiði,
en seiðberendr
frá Svarthöfða,
allir jötnar
frá Ými komnir[6].

En hèr segir svo Vafþroðnir jötunn.

Hvaðan Örgelmir kom
með jötna sonum
fyrst, enn fróði jötunn?[7]
Þá er or Elivogum
stukku eitrdropar,
ok óx, uns or varð jötunn[8].
Þar eru orar ættir
komnar allar saman;
því er þat æ alt til atalt.

Þá mælti Gángleri: hvernig óxu ættir saman þaðan? eða skapaðist svo, að fleiri menn urðu? eða trúir þú þann guð, er nú sagðir þú frá? Þá svarar Hár: firi öngan mun játum vèr hann guð; hann var illr ok allir hans ættmenn; þá köllum vèr Hrímþursa; ok svo er sagt, þá er hann svaf, fèkk hann sveita, þá óx undir vinstri hönd honum maðr ok kona, ok annarr fótr hans gat son við öðrum; en þaðan af komu ættir, þat eru Hrímþursar. Hinn gamli hrímþurs, hann köllum vær Ými.

**Þá mælti** Gángleri: hvar bygði Ýmir? eða við hvat lifði hann? Næst var þat, þá er hrímit draup, at þar varð af kýr, sú er *Auðhumla* hèt, en 4 mjólkár runnu or spenum hennar, ok fæddi hon Ými. Þá mælti Gángleri: við hvat fæddist kýrin? Hár segir: hon sleikti hrímsteina, er saltir voru, ok hinn fyrsta dag, er hon sleikti steina, kom or steininum at kveldi manns hár, annan dag manns höfuð, þriðja dag var

---

6) Hyndluljóð, 32. 7) Vafþr. mál, 30. 8) Vafþr. mál 31.

þar allr maðr: sá er nefndr Buri; hann var fagr álitum, mikill ok máttugr, hann gat son þann, er Börr hèt. Hann fèkk þeirrar konu, er Besla hèt, dóttir Bölþorns jötuns, ok fengu þau 3 sonu: hèt einn Óðinn, annar Vili, 3. Ve; ok þat er mín trúa, at sá Óðinn ok hans bræðr munu vera stýrande himins ok jarðar; þat ætlum vèr, at hann muni svo heita; svo heitir sá maðr, er vèr vitum mestan ok ágæztan, ok vel megu þeir hann láta svo heita.

**Þá mælti** Gángleri: hvat varð þá um þeirra sætt? eða hvorir voru ríkari? Þá svarar Hár: synir Börs drápu Ými jötun; en er hann fèll, þá ljóp svo mikit blóð or sárum hans, at með því drekðu þeir allri ætt hrímþursa, nema einn komst undan með sínu hyski; þann kalla jötnar Bergelmi, hann fór upp á lúðr sinn ok kona hans, ok hèlzt þar, og eru af þeim komnar hrímþursa ættir, svo sem hèr segir:

Orófi vetra,
áðr veri jörð sköpuð,
þá var Bergelmir borinn.
þat ek fyrst of man,
er sá hinn fróði jötunn
á var lúðr of lagiðr[9].

**Þá svarar** Gángleri: hvat höfðust þá at Börs synir, ef þú trúir, at þeir sè guð? Hár segir: eigi er þar lítið af at segja; þeir tóku Ými, ok fluttu í mitt ginnúnga-gap, ok gerðu af honum jörðina: af blóði hans sæinn ok vötnin, jörðin var gör af holdinu, en björgin af beinunum, grjót ok urðir gerðu þeir af tönnum ok jöxlum, ok af þeim beinum, er brotin voru. Þá mælti Jafnhár: af því blóði, er or sárum rann ok laust fór, þar af gerðu þeir sjá þann, er þeir gerðu ok festu saman jörðina, ok lögðu þann sjá í hríng utan um hana, ok mun þat flestum manne úfæra þikja, at komast þar yfir. Þá mælti Þriði: tóku þeir ok haus hans ok gerðu þar af himin, ok settu hann upp ifir jörðina með 4 skautum, ok undir hvert horn settu þeir dverg, þeir heita svo: Austri, Vestri, Norðri, Suðri. Þá tóku þeir síur ok gneista, þá er lausir fóru, ok kastað hafði or Múspells heimi, ok settu á miðjan ginnúnga-himin bæði ofan ok neðan, til at lýsa himin ok jörð. Þeir gáfu staðar öllum eldíngum, sumum á himnum, sumar fóru lausar undir himni, ok settu þó þeim stað ok sköpuðu gaungu þeim. Svo er sagt í fornum vísindum, at þaðan af voru dægr greind ok áratal, svo sem segir í Völuspá:

---

9) Vafþr. mál, 29. 35.

Sól þat nè vissi,
hvar hon sali átti;
máni þat nè vissi,
hvat hann megins átti;
stjörnur þat nè vissu,
hvar þær staði áttu[10].

Svo var, áðr en þetta væri of jörð. Þá mælti Gángleri: þetta eru mikil tíðindi, er nú heyri ek; furðu mikil smíð er þat, ok hagliga gert. Hvernig var jörðin háttuð? Þá svarar Hár: hon er kringlótt utan, ok þar utan um liggr hinn djúpi sjár, ok með þeirri sjávarströndu gáfu þeir lönd til bygðar jötna ættum; en firi innan á jörðunni gerðu þeir borg umhverfis heim firir úfriði jötna, en til þeirrar borgar höfðu þeir brár Ýmis jötuns, ok kölluðu þá borg Miðgarð. Þeir tóku ok heila hans, ok köstuðu í lopt, ok gerðu af skýin, svo sem hèr segir:

Or Ymis holdi
var jörð of sköput,
en or sveita sjár;
björg or beinum,
baðmr or hári,
en or hausi himinn.
En or hans brám
gerðu blíð regin
Miðgarð manna sonum:
en or hans heila
voru þau hin harðmóðgu
ský öll of sköput[11].

**Þá mælti** Gángleri: mikit þótti mèr þeir hafa þá snúit til leiðar, er jörð ok himinn var gert, ok sól ok himintúngl voru sett, ok skipt dægrum; en hvaðan komu menninir, þeir er heim byggja? Þá svarar Hár: Þá er þeir Börs synir gengu með sævarströndu, fundu þeir trè tvö, ok tóku upp trèin, sköpuðu af menn: gaf hinn fyrsti önd ok líf, annarr vit ok hræríng, 3. ásjónu, málit ok heyrn ok sjón: gáfu þeim klæði ok nöfn: hèt karlmaðrinn *Askr,* en konan *Embla,* ok ólust þaðan af mannkindir, þeim er bygðin var gefin undir Miðgarði. Þar næst gerðu þeir sèr borg í miðjum heimi, er kallat er *Ásgarðr;* þat köllum vèr Trója. Þar bygðu guðin ok ættir þeirra, ok gerðust þaðan af mörg tíðindi ok greinir bæði á jörð ok í lopti. Þar er einn staðr, er *Hliðskjálf* heitir, ok þá er Óðinn settist þar í hásæti, þá sá hann of alla heima ok hvers manns athæfi, ok vissi alla luti, þá er hann sá. Kona hans hèt Frigg Fjörgvinsdóttir, ok af þeirra ætt er sú kynslóð komin, er vèr köllum Ása ættir, er bygt hafa Ásgarð hinn forna, ok þau ríki, er þar liggja til, ok er þat alt goðkunnig ætt. Ok firir því má hann heita Allföðr, at hann er faðir allra goðanna ok manna ok alls þess, er af honum ok hans krapti var

---

10) Völuspá, 5. 11) Grímnismál, 40. 41: Vafþr. mál, 21.

fullt gert. Jörðin var dóttir hans ok kona hans; af henni gerði hann hinn fyrsta soninn, en þat er Ásaþórr; honum fylgði afl ok sterkleikr, þar af sigrar hann öll kvikkvendi.

**Nörfi** eða Narfi hèt jötunn, er bygði í Jötunheimum; hann átti dóttur, er Nótt hèt, hon var svört ok dökk, sem hon átti ætt til. Hon var gipt þeim manni, er Naglfare hèt, þeirra son hèt *Uðr.* Því næst var hon gipt þeim, er Annarr hèt; Jörð hèt þeirra dóttir. Síðarst átti hana Dellíngr, var hann Ása ættar; var þeirra son *Dagr,* var hann ljóss ok fagr eptir faðerni sínu. Þá tók Allföðr Nótt ok Dag, son hennar, ok gaf þeim 2 hesta ok 2 kerrur, ok setti þau upp á himin, at þau skulu ríða á hverjum 2 dægrum umhverfis jörðina. Ríðr Nótt fyrri þeim hesti, er kallaðr er Hrímfaxi, ok at morni hverjum döggvir hann jörðina af mèldropum sínum. Sá hestr, er Dagr á, heitir Skinfaxi, ok lýsir alt lopt ok jörðina af faxi hans.

**Þá mælti** Gángleri: hversu stýrir hann gáng sólar ok túngls? Hár segir: sá maðr er nefndr *Mundilföri,* er átti 2 börn: þau voru svo fögr ok fríð, at hann kallaði annat *Mána,* en dóttur sína *Sól,* ok gipti hana þeim manni, er Glenr hèt. En goðin reiddust þessu ofdrambi, ok tóku þau syskin ok settu upp á himin, lètu Sól keyra þá hesta, er drógu kerru sólarinnar, þeirrar er guðin höfðu skapat, til at lýsa heimana, af þeirri síu, er flaug or Múspellsheimi. Þeir hestar heita svo: Árvakr ok Alsviðr, en undir bógum hestanna settu guðin tvo vinnbelgi at kæla þá, en í sumum fræðum er þat kallat ísarnkol. Máni stýrir gaungu túngls ok ræðr nýjum ok niðum; hann tók 2 börn af jörðunni, er svo heita, Bil ok Hjúki, er þau gengu frá brunni þeim, er Byrgir heitir, ok báru á öxlum sèr sá, er heitir Sægr, en staungin Simul. Viðfinnr er nefndr faðir þeirra; þessi börn fylgja Mána, svo sem sjá má af jörðu.

**Þá mælti** Gángleri: skjótt ferr sólin, ok nær svo sem hún sè hrædd, ok eigi mundi hon þá meirr hvata göngunni, at hon hræddist bana sinn. Þá svarar Hár: eigi er þat undarlikt, at hon fari ákafliga: nær gengr sá, er hana sækir, ok öngan útveg á hon, nema renna undan. Þá mælti Gángleri: hverr er sá, er henni gerir þann ómaka? Hár segir: þat eru 2 úlfar, ok heitir sá, er eptir henni ferr, Sköll: hann hræðist hon, ok hann mun taka hana; en sá heitir Hati Hroðvitnisson, er firir henni leypr, ok vill hann taka túnglit, ok svo

mun verða. Þá mælti Gángleri: hver er ætt úlfanna? Hár segir: gýgr ein býr firir austan Miðgarð í þeim skógi, er Járnviðr heitir: í þeim skógi byggja þær tröllkonor, er Járnviðjur heita. En gamla gýgr fæðir at sonum marga jötna, ok alla í vargs líkjum, ok þaðan af eru komnir þessir úlfar. Ok svo er sagt, at af ættinni verðr einn máttkastr, er kallaðr er Mánagarmr; hann fyllist með fjörvi allra þeirra manna, er deyja, ok hann gleypir túngl, ok stökkvir blóðe himin ok lopt öll; þaðan týnir sól skini sínu, ok vindar eru þá ókyrrir ok gnýja hèðan ok handan. Svo segir í Völuspá:

Austr býr en aldna
í járnviði,
ok fæðir þar
Fenris kindir:
verðr or þeim öllum
einna nokkorr
túngls tjúgari
í trölls hami.

Fyllist fjörvi
feigra manna
rýðr ragna sjöt
rauðum dreyra:
svört verða sólskin
of sumor eptir,
veðr öll volund.
Vituð èr enn, eða hvat?[12]

**Þá mælti** Gángleri: hver er leið til himins af jörðu? Þá svarar Hár, ok hló við: eigi er nú fróðlega spurt; er þèr eigi sagt þat, at guðin gerðu brú til himins af jörðu, ok heitir *Bifröst?* Hana muntu sèt hafa; kann vera, at þat kallir þú regnboga. Hon er með 3 litum ok mjök sterk, ok ger með list ok kunnáttu meiri en aðrar smíðir. Ok svo sem hon er sterk, þá mun hon brotna, þá er Múspells megir fara ok ríða hana, ok svima hestar þeirra ifir stórar ár; svo koma þeir fram. Þá mælti Gángleri: eigi þótti mèr goðin gera af trúnaði brúna, er hon skal brotna mega, er þau megu gera, sem þau vilja. Þá mælti Hár: eigi eru goðin hallmælis verð firir þessa smíð; góð brú er Bifröst, en engi lutr er sá í þessum heimi, er sèr megi treystast, þá er Múspells synir herja.

**Þá mælti** Gángleri: hvat hafðist Allföðr þá at, er gorr var Ásgarðr? Hár mælti: í upphafi setti hann stjórnarmenn, ok beiddi þá at dæma með sèr örlög manna, ok ráða um skipun borgarinnar; þat var, þar sem heitir *Iðavöllr* í miðri borginni. Var þat hit fyrsta þeirra verk, at gera hof, þat er sæti þeirra standa í, 12 önnor, en hásætið, þat er Allföðr á; þat hús er bezt gert á jörðu ok mest: allt er þat utan ok innan svo sem gull eitt; í þeim stað kalla menn Glaðs-

12) Völuspá, 32. 33.

heim. Annan sal gerðu þeir: þat var hörgr, er gyðjurnar áttu, ok var hann allfagr; þat hús kalla menn Vingólf. Þar næst gerðu þeir þat, at þeir lögðu afla, ok þar til gerðu þeir hamar ok taung ok steðja, ok þaðan af öll tól önnur, ok því næst smíðuðu þeir málm ok stein ok trè, ok svo gnóglega þann málm, er gull heitir, at öll búsgögn höfðu þeir af gulli, ok er sú öld köllut gullaldr, áðr en spiltist af tilkvomu kvennanna; þær komu or Jötunheimum. Þar næst settust guðin upp í sæti sín, ok rèttu dóma sína, ok mintust, hvaðan dvergar höfðu kviknat í moldunni ok niðri í jörðunni, svo sem maðkar í holdi. Dvergarnir höfðu skipazt fyrst, ok tekit kviknan í holdi Ýmis, ok voro þá maðkar. En af atkvæði guðanna urðu þeir vitandi mannvits, ok höfðu manns líki, en búa þó í jörðu ok í steinum. Moðsögnir var dvergr, ok annarr Durinn; svo segir í Völuspá:

þá gengu regin öll
á rökstóla,
ginnheilug goð,
ok of þat gettust,
at skyldi dverga
drótt of skepja
or brimi blóðgo
ok or Bláins leggjum.
Þar mannlíkun
mörg of gerðust,
dvergar í jörðu,
sem Durinn sagði[13].

Ok þessi segir hon nöfn þeirra dverganna:

Nýi, Niði,
Norðri, Suðri,
Austri, Vestri,
Alþjólfr, Dvalinn,
Nár, Náinn,
Nipíngr, Dáinn,
Bifurr, Bafurr,
Bömbörr, Nori,
Ori, Onarr,
Óinn, Moðvitnir,
Vigr ok Gandálfr,
Vindálfr, Þorinn,
Fili, Kili,
Fundinn, Vali,
Þrór, Þróinn,
Þekkr, Litr, Vitr,
Nýr, Nýráðr,
Rekkr, Ráðsviðr[14].

En þessir eru ok dvergar ok búa í steinum, en enir fyrri í moldu:

Draupnir, Dólgþvari
Hörr, Hugstari,
Hleðjólfr, Glóinn,
Dori, Ori,
Dúfr, Andvari,
Hepti, Fili,
Hárr, Síarr[15].

En þessir komu frá Svarins haugi til Aurvánga á Joruvöllu, ok eru komnir þaðan Lovarr. Þessi eru nöfn þeirra:

Skirfir, Virfir,
Skafiðr, Ái,

13) Völuspá, 9, 10. 14) Völuspá, 11—13. 15) Völuspá, 13. 15

| | |
|---|---|
| Álfr, Íngi, | Falr, Frosti, |
| Eikinskjaldi, | Fiðr, Ginnarr[16]. |

**Þá mælti** Gángleri: hvar er höfuðstaðrinn eðr helgistaðrinn goðanna? Hár svarar: þat er at aski *Ýdrasils*, þar skulo guðin eiga dóma sína hvern dag. Þá mælti Gángleri: hvat er at segja frá þeim stað? Þá segir Jafnhár: askrinn er allra trjá mestr ok beztr: limar hans dreifast ifir heim allan, ok standa yfir himni; þrjár rætr trèsins halda því upp, ok standa afar breitt. Ein er með Ásum, en önnur með Hrímþussum, þar sem forðum var ginnúnga-gap; en þriðja stendr ifir Niflheimi, ok undir þeirri rót er Hvergelmir, en Níðhöggr gnagar neðan rótina. En undir þeirri rót, er til Hrímþursa horfir, þar er Mímisbrunnr, er spekð ok mannvit er í fólgit, ok heitir sá Mímir, er á brunninn; hann er fullr af vísindum, firir því at hann drekkr or brunninum af horninu Gjallarhorni. Þar kom Allföðr ok beiddist eins drykkjar af brunninum, en hann fèkk eigi, fyrr en hann lagði auga sitt at veði. Svo segir í Völuspá:

| | |
|---|---|
| Alt veit ek, Óðinn, | drekkr möð Mímir |
| hvar þú auga falt. | morgun hverjan |
| Úr þeim enum mæra | af veði Valföðrs. |
| Mímis-brunni | Vituð þèr enn, eða hvat?[17] |

Þriðja rót asksins stendr á himni, ok undir þeirri rót er brunnr sá, er mjök er heilagr, er heitir Urðarbrunnr; þar eigu guðin dómstað sinn: hvern dag ríða Æsir þángat upp um Bifröst; hon heitir ok Ásbrú. Hestar Ásanna heita svo: Sleipnir er baztr, hann á Óðinn, hann hefir átta fætr; annar er Glaðr, 3. Gyllir, 4. Gler, 5. Skeiðbrímir, 6. Silfrtoppr, 7. Sinir, 8. Gils, 9. Falhófnir, 10. Gulltoppr, Lèttfet ellefti; Baldrs hestr var brendr með honum, en þórr gengr til dómsins, ok veðr ár þær, er svo heita:

| | |
|---|---|
| Körmt ok Örmt | at aski Ýdrasils; |
| ok Kerlaugar 2, | því at Ásbrú |
| þær skal Þórr vaða | brenn öll loga, |
| dag hvern, | heilug vötn hlóa[18]. |
| er hann dæma skal | |

Þá mælti Gángleri: brenn eldr yfir Bifröst? Hár segir: þat er þú sèr rautt í boganum, er eldr brennandi; upp á himin mundu gánga hrímþursar ok bergrisar, ef öllum veri fært á Bifröst,

---

16) Völuspá 15. 16. 17) Völuspá, 22. 18) Grímnismál, 29.

þeim er fara vilja. Margir staðir eru á himni fagrir, ok er þar allt guðleg vörn fyrir: þar stendr salr einn fagr undir askinum við brunninn, ok or þeim sal koma 3 meyjar, þær er svo heita: Urðr, Verðandi, Skuld. Þessar meyjar skapa mönnum aldr; þær köllum vær *Nornir*. Enn eru fleiri nornir, þær er koma til hvers manns, er borinn er, at skapa aldr, ok eru þessar goðkunnigar, en aðrar álfaættar, en enar 3. dvergaættar. Svo sem hèr segir:

Sundrbornar mjök
hygg ek at nornir sè,
eigo-t þær ætt saman;
sumar eru áskunnar,
sumar eru álfkunnar,
sumar dætr Dvalins[19].

Þá mælti Gángleri: ef nornir ráða orlögum manna, þá skipta þær geysi újafnt, er sumir hafa gott líf ok ríkulikt, en sumir hafa lítið lèn eðr lof, sumir lángt líf, sumir skamt. Hár svarar: góðar nornir ok vel ættaðar skapa góðan aldr; en þeir menn, er firir úsköpum verða, þá valda því illar nornir.

**Þá mælti** Gángleri: hvat er fleira at segja stórmerkja frá askinum? Hár segir: mart er þar af at segja. Örn einn sitr í limum asksins, ok er hann margs vitandi; en í milli augna honum sitr haukr sá, er heitir Veðrfölnir. Íkorni sá, er heitir Ratatöskr, renn upp ok niðr eptir askinum, ok berr öfundarorð milli arnarins ok Níðhöggs. En 4 hirtir renna í limum asksins ok bíta barr, þeir heita svo: Dáinn, Dvalinn, Duneyrr, Duraþrór. En svo margir ormar eru í Hvergelmí með Níðhögg, at engi túnga má telja. Svo segir hèr:

Askr Ygdrasils
drýgir erfiði
meira, en menn viti:
hjörtr bítr ofan,
en á hliðu fúnar,
skerðir Níðhöggr neðan[20].

Svo er enn sagt:

Ormar fleiri liggja
und aski Ygdrasils,
en þat of hyggi hverr ósviðra apa:
Góinn ok Móinn,
þeir ro Grafvitnis synir,
Grábakr ok Grafvölluðr,
Ofnir ok Svafnir
hygg ek at æ myni
meiðs kvistu má[21].

Enn er þat sagt, at nornir þær, er byggja Urðarbrunn, taka hvern dag vatn í brunninum, ok með aurinn, þann er liggr um brunninn, ok ausa upp yfir askinn, til þess at eigi skyli limar hans trèna eðr fúna. En þat vatn er svo heilakt, at allir lutir, þeir sem þar koma í brunninn, verða svo hvitir sem

19) Fofnismál, 13. 20) Grímnismál, 35. 21) Grímnismál, 34.

hinna sú, er skjall heitir, er innan liggur við eggskurn. Svo sem hèr segir:

Ask veit ek ausinn,
heitir Yggdrasils
hár baðmr heilagr,
hvíta-aure:
þaðan koma döggvar,
er í dali falla;
stendr hann æ yfir grunn
Urðarbrunni[22].

Sú dögg, er þaðan af fellr á jörðina, þat kalla menn hunángsfall, ok þar af fæðast býflugur. Fuglar 2 fæðast í Urðarbrunni; þeir heita Svanir, ok af þeim fuglum hefir komit þat fuglakyn, er svo heitir.

**Þá mælti** Gángleri: mikil tíðindi kann þú at segja af himnum; hvat er þar fleira höfuðstaða, en at Urðarbrunni? Hár svarar: margir staðir eru þar göfugligir; sá er einn staðr, þar er kallat er Álfheimr; þar byggvir fólk þat, er Ljósálfar heita; en Dökkálfar búa niðri í jörðu, ok eru þeir úlíkir þeim sýnum, en miklu úlíkari reyndum. Ljósálfar eru fegri en sól sýnum, en Dökkálfar eru svartari en bik. Þar er einn sá staðr, er Breiðablik er kallat, ok engi er þar fegri staðr. Þar er ok sá, er Glitnir heitir, ok eru veggir hans ok steðr ok stólpar af rauðu gulli, en þak hans af silfri. Þar er enn sá staðr, er Himinbjörg heita; sá stendr á himins-enda við brúarsporð, þar er Bifröst kemr til himins. Þar er enn mikill staðr, er Valaskjálf heitir; þann stað á Óðinn, þann gerðu guðin ok þökðu skíru silfri; ok þar er Hliðskjálfin í þessum sal, þat hásæti er svo heitir, ok þá er Allföðr sitr í því sæti, þá sèr hann of allan heim. Á sunnanverðum himins-enda er sá salr, er allra er fegrstr ok bjartari en sólin, er Gimli heitir; hann skal standa, þá er bæði himinn ok jörð hefir farizt, ok byggja þann stað góðir menn ok rèttlátir of allar aldir: Svo segir í Völuspá:

Sal veit ek standa
sólo fegra,
gulle betra,
á Gimle;
þar skulo dyggvar
dróttir byggja
ok of aldrdaga
yndis njóta[23].

Þá mælti Gángleri: hvat gætir þess staðar, þá er Surtalogi brennir himin ok jörð? Hár segir: svo er sagt, at annarr himinn sè suðr ok upp frá þessum himni, ok heitir sá himinn Andlángr, en hinn 3. himinn sè enn upp frá þeim, ok heitir

---

22) Völuspá, 19. 23) Völuspá, 62.

sá Víðbláinn, ok á þeim himni hyggjum vèr þenna stað vera, en Ljósálfar einir hyggjum vèr at nú byggvi þá staði.

**Þá mælti** Gángleri: hvaðan kemr *vindr?* Hann er sterkr, svo at hann hrærir stór höf, ok hann æsir eld; en svo sterkr sem hann er, þá má eigi sjá hann; því er hann undarlega skapaðr. Þá svarar Hár: þat kann ek vel segja þèr; á norðanverðum himins-enda sitr jötunn, sá er Hræsvelgur heitir, hann hefir arnar-ham; en er hann beinir flug, þá standa vindar undan vöngum honum. Hèr segir svo:

Hræsvelgr heitir,
er sitr á himins-enda,
jötunn í arnar-ham:
af hans vængum
kveða vind koma
alla menn yfir[24].

**Þá mælti** Gángleri: hví skilr svo mikit, at *sumar* skal vera heitt, en *vetr* kaldr? Hár svarar: eigi mundi svo fróðr maðr spyrja, því at þetta vitu allir at segja; en ef þú ert einn orðinn svo fávís, at eigi hefir þetta heyrt, þá vil ek þó þat vel virða, at heldr spyrir þú eitt sinn ófróðliga, en þú gángir lengr duliðr þess, er skylt er at vita. Svasuðr heitir, sá er faðir Sumars er, ok er hann sællífr, svo at af hans heiti er þat kallat svaslekt, er blítt er. En faðir Vetrar er ýmist kallaðr Vindlóni eðr Vindsvalr, hann er Vasaðar son, ok voru þeir áttúngar grimmir ok svalbrjóstaðir, ok hefir Vetr þeirra skaplyndi.

**Þá mælti** Gángleri: hverir eru Æsir, þeir er mönnum er skylt at trúa? Hár svarar: tólf eru Æsir guðkunnigir. Þá mælti Jafnhár: eigi eru Ásynjurnar úhelgari, ok eigi megu þær minna. Þá mælti Þriði: *Óðinn* er æztur ok elztr Ásanna, hann ræðr öllum lutum, ok svo sem önnur guðin eru máttug, þá þjóna honum öll, svo sem börn föðr. En Frigg er kona hans, ok veit hon örlog manna, þótt hon segi eigi spár. Svo sem hèr er sagt, at Óðinn mælti sjálfr við þann Ás, er Loki heitir:

Ærr ertu Loki,
ok örviti;
hví nè legskaþu, Loki?[25]
Örlög Frigg
hygg ek at öll viti,
þótt hon sjálfgi segi[26].

Óðinn heitir Allföðr, því at hann er faðir alra goða; hann heitir ok Valföðr, því at hans óskasynir eru allir, þeir er í val falla; þeim skipar hann Valhöll ok Vingólf, ok heita þeir þá

24) Vafþr. mál, 37. 25) Ægisdrekka, 47. 26) Ægisdr. 29.

Einherjar. Hann heitir ok Hángaguð ok Haptaguð, Farmaguð, ok enn hefir hann nefnzt á fleire vega, þá er hann var kominn til Geirröðar konúngs:

Hètumsk Grímr
ok Gángari,
Herjan, Hjálmberi;
þekkr, þriði,
þuðr, Uðr,
Helblindi, Hár.
Saðr, Svipall,
Sanngetall,
Herteitr, Hnikarr.
Tileygr, Báleygr,
Bölverkr, Fjölnir,
Grímnir, Glapsviðr, Fjölsviðr.

Síðhöttr, Síðskeggr,
Sigföðr, Hnikuðr,
Allföðr, Atriðr, Farmatýr:
Óski, Ómi,
Jafnhár, Biflindi,
Göndler, Harbarðr.
Sviðurr, Sviðrir,
Jálkr, Kjalarr, Viðurr,
þrór, Yggr, þundr:
Vakr, Skilvíngr,
Vafuðr, Hroptatýr,
Gautr, Veratýr[27].

þá mælti Gángleri: geysi mörg heiti hafi þèr gefit honum, ok þat veit trúa mín, at þetta mun vera mikill fróðleikr, sá er hèr kann skyn ok dæmi, hverir atburðir hafa orðit sèr til hvers þessa nafns. þá svarar Hár: mikil skynseme er at rifja vandlega þat; en þó er þèr þat skjótast at segja, at flest heiti hafa verit gefin af þeim atburði, at svo margar sem eru greinir túngnanna í veröldunni, þá þikkjast allar þjóðir þurfa at breyta nafni hans til sinnar túngu til ákalls ok bæna firir sjálfum sèr; en sumir atburðir til þessa heita hafa gerzt í ferðum hans: er þat fært í frásagnir, ok muntu eigi mega fróðr maðr heita, ef þú skalt eigi kunna segja frá þeim stórtíðindum.

**þá mælti** Gángleri: hver eru nöfn annarra Ásanna? eðr hvat hafast þeir at? eðr hvat hafa þeir gert til frama? Hár svarar: þórr er þeirra framast, sá er kallaðr Ásaþórr eðr Ökuþórr, hann er sterkastr allra guða ok manna. Hann á þar ríki, er þrúðvángar heita, en höll hans heitir Bilskirnir: í þeim sal eru 5 hundrut gólfa ok fjórir tigir, þat er hús mest, svo at menn hafa gert. Svo segir í Grímnismálum:

Fimm hundrut gólfa
ok um fjórum tögum,
svo hygg ek Bilskirni með bugum;
ranna þeirra,
er ek rept vita,
míns veit ek mest magar[28].

þórr á hafra 2, er svo heita: Tanngnjóstr ok Tanngrisnir, ok reið, þá er hann ekkr, en hafrarnir draga reiðna; því er hann

27) Grímnismál, 46—50. 28) Grímnismál, 24.

kallaðr Ökuþórr. Hann á ok 3 kostgripi: einn þeirra er hamarinn Mjölnir, er hrímþursar ok bergrisar kenna, þá er hann kemr, ok er þat eigi undarligt; hann hefir lamit margan haus á feðrum eðr frændum þeirra. Annan grip á hann beztan, megingjarðar, ok er hann spennir þeim um sik, þá vex honum ásmegn hálfu. Enn 3. lut á hann, þann er mikill gripr er í, þat eru járnglófar; þeirra má hann eigi missa við hamarsskaptit. En engi er svo fróðr, at telja kunni öll stórvirki hans; en segja kann ek þèr svo mörg tíðindi frá honum, at dveljast munu stundirnar, áðr en sagt er allt, þat er ek veit.

**Þá mælti** Gángleri: spyrja vil ek tíðinda af fleiri Ásunum. Hár segir: Annarr son Óðins er *Baldr*, ok er frá honum gott at segja: hann er beztr, ok hann lofa allir. Hann er svo fagr álitum ok bjartr, svo at lýsir af honum, ok eitt gras er svo hvítt, at jafnat er til Baldrs-brár, þat er allra grasa hvítast; ok þar eptir mát-þú marka hans fegurð, bæði hár ok líki; hann er vitrastr Ásanna ok fegrst talaðr ok líknsamastr. En sú náttúra fylgir honum, at engi má haldast dómr hans. Hann býr, þar sem heitir Breiðablik, þat er á himni; í þeim stað má ekki vera óhreint, svo sem hèr segir:

Breiðablik heita, í því landi
þar er Baldr hefir er ek liggja veit
sèr of gerva sali; fæsta feiknstafi[29].

**Hinn þriði** Áss er sá, er kallaðr er *Njörðr;* hann býr á himni, þar sem heitir Nóatún. Hann ræðr firir gaungu vinds, ok stillir sjá ok eld; á hann skal heita til sæfara ok til veiða. Hann er svo auðigr ok fèsæll, at hann má gefa þeim auð landa eðr lausafjár, er á hann heita til þess. Hann var uppfæddr í Vanaheimum, en Vanir gisluðu hann goðunum, ok tóku í mót at Ásagislíngu þann er Hænir heitir: hann varð at sætt með goðunum ok Vönum. Njörðr á þá konu, er Skaði heitir, dóttir Þjassa jötuns. Skaði vill hafa bústað þann, er átt hafði faðir hennar, þat er á fjöllum nokkvorum, þar sem heitir Þrumheimr; en Njörðr vill vera nær sæ: þau sættust á þat, at þau skyldu vera 9 vetr í Þrumheimi, en þá aðra 9 at Nóatúnum. En er Njörðr kom aptr til Nóatúna af fjallinu, þá kvað hann þetta;

Leið erumk fjöll, vark-a ek lengi,

---

29) Grímnismál, 12.

nætr einar 9:
úlfa-þytr
mèr þótti illr vera
hjá söngvi svana.

Þá kvað Skaði þetta:

Sofa ek nè máttak
sæfar beðjum á
fugls jarmi firir;
sá mik vekr,
er af víði kemr,
morgun hverjan már.

Þá fór Skaði upp á fjallit, ok bygði í Þrymheimi, ok ferr hon mjök á skíðum ok með boga, ok skýtr dýr; hon heitir öndurguð eðr öndordís. Svo er sagt:

Þrymheimr heitir,
er Þjassi bjó,
sá hinn ámátki jötunn;
en nú Skaði byggvir,
skír brúðr guða,
fornar tóptir föður[30].

**Njörðr** í Nóatúnum gat síðan 2 börn: hèt sonr Freyr, en dóttir Freyja, þau voro fögr álitum ok máttug. *Freyr* er hinn ágætasti af Ásum; hann ræðr firir regni ok skini sólar, ok þar með ávexti jarðar, ok á hann er gott at heita til árs ok friðar: hann ræðr ok fèsælu manna. En Freyja er ágætust af Ásynjum: hon á þann bæ á himni, er Fólkvángar heita; ok hvar sem hon ríðr til vígs, þá á hon hálfan val, en hálfan Óðinn, svo sem hèr segir:

Fólkvángr heitir,
en þar Freyja ræðr
sessa kostum í sal;
hálfan val hon kýss
á hverjan dag,
en hálfan Óðinn á[31].

Salr hennar Sessrýmnir, hann er mikill ok fagr. En er hon ferr, ekr hon köttum 2, ok sitr í reið. Hon er nákvæmust mönnum til áheita, ok af hennar nafni er þat nafn, er ríkiskonor eru kallaðar frovor. Henni líkaði vel mansaungr, á hana er gott at heita til ásta.

**Þá mælti** Gángleri: miklir þikkja mèr þessir firir sèr Æsirnir; ok eigi er undarligt, at mikill kraptr fylgi yðr, er þèr skulot kunna skyn goðanna, ok vita, hvert biðja skal hverrar bænarinnar. Eða eru fleiri en goðin? Hár svarar: Sá er enn Áss, er *Týr* heitir. Hann er djarfastr ok bezt hugaðr, ok hann ræðr mjök sigri í orostum; á hann er gott at heita hreystimönnum. Þat er orðtak, at sá er týhraustr, er um fram er aðra menn, ok ekki sèst firir. Hann var ok vitr, svo at þat er mælt, at sá er týspakr, er vitr er. Þat er eitt hans mark um djarfleik hans: þá er Æsir lokkuðu Fenrisúlf, til þess at leggja fjötrinn á hann, Gleipni, þá trúði hann þeim

---

30) Grímnismál, 11. 31) Grímnism. 14.

eigi, at þeir mundu leysa hann, fyrr en þeir lögðu honum at veði hönd Týrs í munn úlfsins. En þá er Æsir vildu eigi leysa hann, þá beit hann höndina af, þar er nú heitir úlfliðr, ok er hann einhendr, ok ekki kallaðr sættir manna.

**Bragi** heitir einn, hann er ágætr at speki, ok mest at málsnild ok orðfimi: hann kann mest af skáldskap, ok af honum er bragr kallaðr skáldskapr, ok af hans nafni er sá kallaðr bragr karla eða kvenna, er orðsnild hefir framar en aðrir, kona eða karlmaðr. Kona hans er Iðunn, hon varðveitir í eski sínu epli þau, er goðin skulu á bíta, þá er þau eldast, ok verða þá allir úngir, ok svo mun vera allt til ragnarökrs. Þá mælti Gángleri: allmikit þykki mèr goðin eiga undir gæzlu eða trúnaði Iðunnar. Þá mælti Hár, ok hló við: nær lagði þat úfæru einu sinni; kunna mun ek þar af at segja, en þú skalt nú fyrst heyra nöfn Ásanna fleiri.

**Heimdallr** heitir einn, hann er kallaðr hvíti Áss, hann er mikill ok heilagr; hann báru at syni meyjar níu, ok allar systr; hann heitir ok Hallinskíði ok Gullintanni, tennr hans voru af gulli; hestr hans heitir Gulltoppr. Hann býr, þar er heitir Himinbjörg við Bifröst: hann er vörðr goða, ok sitr þar við himins-enda, at gæta brúarinnar firir bergrisum; þarf hann minna svefn, en fugl: hann sèr jafnt nótt sem dag hundrat rasta frá sèr: hann heyrir ok þat, er gras vex á jörðu eða ull á sauðum, ok allt þat er hærra lætr: hann hefir lúðr þann, er Gjallarhorn heitir, ok heyrir blástr hans í alla heima. Heimdalar sverð er kallat höfut. Hèr er svo sagt:

Himinbjörg heita,
en þar Heimdall
kveða valda veum:
þar vörðr goða drekkr
í veru ranni
glaðr hinn góða mjöð[32].

Ok enn segir hann sjálfr í Heimdalar - galdri:

Níu em ek mæðra mögr,
9 em ek systra sonr.

**Höðr** heitir einn Ássinn, hann er blindr; ærit er hann styrkr, en vilja mundu goðin, at þenna Ás þyrfti eigi at nefna, því at hans handaverk munu lengi vera höfð at minnum með goðum ok mönnum.

**Viðarr** heitir einn, hinn þögli Áss; hann hefir skó þjokkvan. Hann er sterkr, næst því sem Þórr er; af honum hafa goðin mikit traust í allar þrautir.

**Áli** eða **Vali** heitir einn, sonr Óðins ok Rindar; hann er djarfr í orostum ok mjök happskeytr.

32) Grímnismál, 13.

fara til Ása aptr, en haldast með Helju, ef nakkvarr mælir við, eða vill eigi gráta. Þá stóð Hermóðr upp, en Baldr leiðir hann út or höllinni, ok tók hrínginn Draupni, ok sendi Óðni til minja, en Nanna sendi Frigg ripti, ok enn fleiri gjafar, Fullu fíngrgull. Þá reið Hermóðr aptr leið sína, ok kom í Ásgarð, ok sagði öll tíðindi, þau er hann hafði sèt ok heyrt.

Því næst sendu Æsir um allan heim örindreka, at biðja, at Baldr veri grátinn or helju. Allir gerðu þat, menninir ok kykvendin ok jörðin ok steinarnir ok trè ok allr málmr: svo sem þú munt sèt hafa, at þessir lutir gráta, þá er þeir koma or frosti ok í hita. Þá er sendimenn fóru heim, ok höfðu vel rekit sín eyrindi, þá finna þeir í helli nokkvorum, hvar gýgr sat; hon nefndist Þökk. Þeir biðja hana gráta Baldr or helju. Hon svarar:

Þökk mun gráta kyks nè dauðs
þurrum tárum nautka ek karls sonar:
Baldrs bálfarar; haldi Hel því er hefir!

En þess geta menn, at þar hafi verit Loki Laufeyjarson, er flest hefir íllt gert með Ásum.

**Þá mælti** Gángleri: allmiklu kom Loki á leið, er hann olli fyrst því, er Baldr var veginn, ok svo því, er hann varð eigi leystr frá Helju. Eða hvort varð honum þessa nakkvat hefnt? Hár svarar: goldit var honum þetta, svo at hann mun lengi kennast. Þá er guðin voru orðin honum svo reið, sem von var, hljóp hann á braut, ok fal sik í fjalli nokkvoru, gerði þar hús, ok 4 dyrr, at hann mátti sjá or húsinu í allar áttir. En opt um daga brá hann sèr í laxlíki, ok falst þá, þar sem heitir Fránángrs fors; þá hugsaði hann firir sèr, hverja væl Æsir mundu til finna, at taka hann í forsinum. En er hann sat í húsinu, tók hann lín ok garn, ok reið á möskva, svo sem net er síðan; en eldr brann firir honum. Þá sá hann, at Æsir áttu skamt til hans, ok hafði Óðinn sèt or Hliðskjálfinni, hvar hann var. Hann hljóp þegar upp, ok út í ána, ok kastaði netinu fram á eldinn. En er Æsir koma til hússins, þá gekk sá fyrst inn, er allra var vitrastr, er Kvásir heitir: ok er hann sá á eldinn, fölskvann, er netit hafði brunnit, þá skildi hann, at þat mundi væl vera til at taka fiska, ok sagði Ásunum. Því næst tóku þeir ok gerðu sèr net, eptir því sem þeir sá á fölskva, at Loki hafði gert. Ok er búit var netit, þá fara Æsir til árinnar, ok kasta neti í

forsinn; hèlt Þórr enda öðrum, en öðrum hèldu allir Æsir, ok drógu netit. En Loki fór firir, ok leggst niðr milli steina tveggja; drógu þeir netit ifir hann, ok kendu, at kykt var firir, ok fara í annat sinn upp til forsins, ok kasta út netinu, ok binda við svo þúngt, at eigi skyli undir mega fara; ferr þá Loki firir netinu, en er hann sèr, at skamt var til sævar, þá hleypr hann ifir þinulinn, ok rennir upp í forsinn. Nú sá Æsirnir, hvar hann fór; fara enn upp til forsins, ok skipta liðinu í tvo staði, en Þórr veðr þá eptir miðri ánni, ok fara svo til sævar. En er Loki sèr tvo kosti: var þat lífsháski at hlaupa á sæinn, en hitt var annarr, at hlaupa enn ifir netit: ok þat gerði hann, hljóp sem snarast ifir netþinulinn. Þórr greip eptir honum, ok tók um hann, ok rendi hann í hendi honum, svo at staðar naf höndin við sporðinn, ok er firir þá sök laxinn aptrmjór. Nú var Loki tekinn griðalauss, ok farit með hann í helli nokkvorn. Þá tóku þeir 3 hellur, ok settu á egg, ok lustu á rauf á hellunni hverri. Þá voru teknir synir Loka, Vali ok Nari eða Narfi; brugðu Æsir Vala í vargslíki, ok reif hann í sundr Narfa, bróður sinn; þá tóku Æsir þarma hans, ok bundu Loka með yfir þá 3 steina, einn undir herðum, annarr undir lendum, 3. undir knèsbótum, ok urðu þau bönd at járni. Þá tók Skaði eitrorm, ok festi upp ifir hann, svo at eitrit skyldi drjúpa or orminum í andlit honum; en Sigyn, kona hans, stendr hjá honum, ok heldr möndlaugu undir eitrdropa. En þá er full er munnlaugin, þá gengr hon ok slær út eitrinu, en meðan drýpr eitrit í andlit honum; þá kippist hann svo hart við, at jörð öll skelfr, þat kallit þèr landskjálfta. Þar liggr hann í böndum til ragnarökurs.

**Þá mælti** Gángleri: hver tíðindi eru at segja frá um ragnarökr? Þess hefi ek eigi fyrr heyrt getit. Hár svarar: Mikil tíðindi eru þaðan at segja: þau en fyrstu, at vetr sá kemr, er kallaðr er fimbulvetr; þá drífr snær or öllum áttum, frost eru þá mikil, ok vindar hvassir, ekki nýtr sólar: þeir vetr fara 3 saman, ok ekki sumar milli. En áðr gánga svo aðrir 3 vetr, at þá er um alla veröld orostur miklar, þá drepast bræðr firir ágirni sakar, ok engi þyrmir föður eða syni í manndrápum ok sifjasliti. Svo segir í Völuspá:

Bræðr munu berjast [illegible] sifjum spilla:
ok at bönum verðast, [illegible] hart er með höldum,
munu systrúngar [illegible] hórdómr mikill,

skeggjöld, skálmöld, vindöld, vargöld,
skildir klofnir, áðr veröld steypist[43].

Þá verðr þat, er mikil tíðindi þikkja, at úlfrinn gleypir sólna, ok þikkir mönnum þat mikit mein; þá tekkr annarr úlfrinn túnglit, ok gerir sá ok mikit úgagn: stjörnurnar hverfa af himninum. Þá er ok þat til tíðinda, at svo skelfr jörð öll ok björg, at viðir losna or jörðu upp, en björgin hrynja, en fjötrar allir ok bönd brotna ok slitna. Þá verðr Fenrisúlfr lauss: þá geysist hafit á löndin, firir því at þá snýst Miðgarðsormr í jötunmóð, ok sækir upp á landit: þá verðr ok, at Naglfar losnar, skip þat, er svo heitir, þat er gert af nöglum dauðra manna; ok er þat firir því varnanar vert, ef maðr deyr með óskornum nöglum, at sá maðr eykr mikit efni til skipsins Naglfars, er goðin ok menn vildi seint at gert yrði. En í þessum sæfargáng flýtr Naglfar; Hrymr heitir jötunn, er stýrir Naglfara. En Fenrisúlfr ferr með gapanda munn, ok er hinn efri kjöptr við himni, en hinn neðri við jörðu; gapa mundi hann meira, ef rúm veri til; eldar brenna or augum hans ok nösum. Miðgarðsormr blæss svo eitrinu, at hann dreifir lopt öll ok lög, ok er hann allógurligr, ok er hann á aðra hlið úlfinum. Í þessum gný klofnar himininn, ok ríða þaðan Múspellssynir: Surtr ríðr fyrst, ok firir honum ok eptir bæði eldr brennandi; sverð hans er gott mjök, af því skínn bjartara, en af sólu; en er þeir ríða Bifröst, þá brotnar hon, sem fyrr er sagt. Múspells megir sæka fram á þann völl, er Vígriðr heitir; þar kemr ok þá Fenrisúlfr ok Miðgarðsormr: þar er ok þá Loki kominn, ok Hrymr ok með honum allir Hrímþursar, en Loka fylgja allir Heljar-sinnar; en Múspells synir hafa einir sèr fylkíng, er sú björt mjök. Völlrinn Vígriðr er hundrat rasta víðr á hvern veg.

En er þessi tíðindi verða, þá stendr upp Heimdallr, ok blæss ákafliga í Gjallarhorn, ok vekr upp öll guðin, ok eiga þau þíng saman. Þá ríðr Óðinn til Mímis brunns, ok tekr ráð af Mími firir sèr ok sínu liði; þá skelfr askr Ygdrasils, ok engi lutr er þá óttalauss á himni eða jörðu. Æsir hervæða sik, ok allir Einherjar, ok sækja fram á völluna: ríðr fyrstr Óðinn með gullhjálm ok fagra brynju ok geir sinn, er Gúngnir heitir; stefnir hann móti Fenrisúlfi, en Þórr fram á aðra

43) Völuspá, 45. 46.

hlið honum, ok má hann ekki duga honum, því at hann hefir fullt fáng, at berjast við Miðgarðsorm. Freyr berst móti Surti, ok verðr harðr samgángr, áðr Freyr fellr; þat verðr hans bani, er hann missir þess hins góða sverðs, er hann gaf Skírni. Þá er ok lauss orðinn hundrinn Garmr, er bundinn er firir Gnípahelli, hann er it mesta forat; hann á víg móti Tý, ok verðr hvorr öðrum at bana. Þórr berr banaorð af Miðgarðsormi, og stígr þaðan braut 9 fet; þá fellr hann dauðr til jarðar firir eitri því, er ormrinn blæss á hann. Úlfrinn gleypir Óðin, verðr þat hans bani; en þegar eptir snýr fram Viðarr, ok stígr öðrum fæti í neðra keypt úlfsins; á þeim fæti hefir hann þann skó, er allan aldr hefir verit til samnat: þat eru bjórar, þeir er menn sníða or skóm sínum firir tám eða hæl; því skal þeim bjórum braut kasta sá maðr, er at því vill hyggja, at koma Ásunum at liði. Annarri hendi tekr hann enn efra keypt úlfsins, ok rífr sundr gin hans, ok verðr þat úlfsins bani. Loki á orostu við Heimdall, ok verðr hvorr annars bani. Því næst slýngr Surtr eldi ifir jörðina, ok brennir allan heim. Svo er sagt í Völuspá:

Hátt blæss Heimdallr,
horn er á lopti,
mælir Óðinn
við Míms höfut:
skelfr Ygdrasils
askr standandi,
ymr it aldna tré,
en jötunn losnar[44].
Hvat er með Ásum?
hvat er með Álfum?
ymr allr Jötunheimr,
Æsir ro á þíngi.
Stynja dvergar
firir steindurum
veggbergs vísir.
Vituð èr enn, eða hvat?[45]
Hrymr ekr austan,
hefist lind firir,
Snýst Jormungandr
í jötunmóði;
ormr knýr unnir,
örn mun hlakka,
slítr nái níðfölr;
Naglfar losnar[46].
Kjöll ferr austan,
koma munu Múspells
of lög lýðir,
en Loki stýrir:
þar ro fíflmegir
með freka allir,
þeim er bróðir
Býleists í för.
Surtr ferr sunnan
með sviga leivi,
skínn af sverði
sól valtíva.
Grjótbjörg gnata,
en gífr rata,
troða halir helveg,
en himinn klofnar[47].
Þá kömr Hlínar
harmr annarr fram,
er Óðinn ferr
við úlf vega,

44) Völuspá, 47. 48. 45) Völuspá, 52. 46) Völuspá, 49. 47) Völuspá, 50. 51.

en bani Belja
bjartr at Surti;
þar mun Friggjar
falla ángan.
Gengr Óðins son
við úlf vega,
Viðarr of veg
at valdýri;
lætr hann megi hveðrúngs
mund of standa
hjör til hjarta;
þá er hefnt föður.
Gengr hinn mæri
mögr Hlóðynjar
nepr at naðri
níðs ókvíðnum;
munu halir allir
heimsteð ryðja,
er af móði drepr
Miðgarðs veorr.
Sól mun sortna,
sökkr fold í mar,
hverfa af himni
heiðar stjörnur,
geisar eimi
ok aldrnari,
leikr hár hiti
við himin sjálfan[48].

Hèr segir enn svo:

Vígriðr heitir völlr,
er finnast vígi at
Surtr ok in svasu guð:
hundrat rasta
hann er á hverjan veg;
sá er þeim völlr vitaðr[49].

**Þá mælti** Gángleri: hvat verðr þá eptir, er brendr er himinn ok jörð ok heimr allr, ok dauð goðin öll ok allir Einherjar ok alt mannfólk? ok hafit þèr áðr sagt, at hverr maðr skal lifa í nokkvorum heimi um allar aldir. Þá svarar Hár: margar eru þá vistir góðar, ok margar illar. Bazt er þá at vera á Gimli inn á himni; ok allgott er til góðs drykkjar, þeim er þat þykkir gaman, í þeim sal, er Brímir heitir, hann stendr ok á himni; sá er ok góðr salr, er stendr á Niðafjöllum, gjörr af rauðu gulli, er heitir Sindri: í þessum sölum skulu byggja góðir menn ok siðlátir. Á Náströndum er mikill salr ok illr, ok horfa í norðr dyrr, hann er ok ofinn allr ormahryggjum, sem vandahús, en ormahöfut öll vitu inn í húsit, ok blása eitri, svo at eptir salnum renna eitrár, ok vaða þær ár eiðrofar ok morðvargar. Svo sem hèr segir:

Sal veit ek standa
sólu fjarri
Náströndu á,
norðr horfa dyrr,
falla eitrdropar
inn of ljóra,
sá er undinn salr
ormahryggjum.
Skulu þar vaða
þúnga strauma
menn meinsvara
ok morðvargar[50].

En í Hvergelmi er verst:

Þar kvelr Níðhöggr
nái framgengna[51].

48) Völuspá, 53. 54. 55. 56. 49) Vafþr. mál, 18. 50) Völuspá, 42. 43. 51) Völuspá, 43.

**Þá mælti** Gángleri: hvort lifa nokkvorr goðin þá? Eða er þá nokkvorr jörð eða himinn? Hár svarar: upp skýtr jörðunni þá or sænum, ok er þá græn ok fögr; vaxa þá akrar ósánir. Viðarr ok Vali lifa, svo at eigi hefir særinn ok Surtalogi grandat þeim, ok byggja þeir á Iðavelli, þar sem fyrr var Ásgarðr; ok þar koma þá synir Þórs, Móði ok Magni, ok hafa þar Mjölni. Því næst koma þeir Baldr ok Höðr frá Heljar: setjast þá allir samt ok talast við, ok minnast á rúnar sínar, ok ræða of tíðindi, þau er fyrrum höfðu verit, ok Miðgarðsorm, ok um Fenrisúlf; þá finna þeir í grasinu gulltöflur þær, er Æsirnir höfðu átt. Svo er sagt:

Viðarr ok Vali
byggja ve goða,
þá er sortnar Surtalogi;
Móði ok Magni
skulu Mjölni hafa
Víngnis at vígþroti[52].

En þar sem heitir Hoddmímis-holt leynast menn 2 í Surtaloga, er svo heita, Líf ok Leifþrasir, ok hafa morgindöggvar firir mat. En af þessum mönnum kemr svo mikil kynslóð, at byggvist heimr allr; svo sem hèr segir:

Líf ok Leifþrasir,
en þau leynast munu
í holti Hoddmímis;
morgindöggvar
þau er at mat hafa,
en þaðan af aldir alast[53].

Ok hitt mun þèr undarlikt þykkja, er sólin hefir getit dóttur eigi ófegri, en hon er, ok ferr sú þá stigu móður sinnar, sem hèr segir:

Eina dóttur
berr álfröðull,
áðr hana Fenrir fari:
sú skal ríða,
er regin deyja,
móður brautir mær[54].

En nú ef þú kant lengra fram at spyrja, þá veit ek eigi, hvaðan þèr kemr þat, firir því at öngan mann heyrða ek lengra segja aldarfarit, ok njóttu nú, sem þú namt.

**Því næst** heyrði Gángleri dyni mikkla hvern veg frá sèr, ok leit út á hlið sèr; ok þá er hann sèst meirr um, þá stendr hann úti á slèttum velli, sèr þá önga höll ok önga borg. Gengr hann þá leið sína braut, ok kemr heim í ríki sitt, ok segir þau tíðindi, er hann hefir sèt ok heyrt, ok eptir honum sagði hverr maðr öðrum þessar sögur.

---

52) Vafþr. mál, 51. 53) Vafþr. mál, 45. 54) Vafþr. mál, 47.

# [Skáldskaparmál].

## *[Braga-ræður].*

**Einn maðr** er nefndr Ægir eða Hlèr, hann bjó í ey þeirri, er nú er köllut Hlèsey, hann var mjök fjölkunnigr. Hann gerði ferð sína til Ásgarðs; en er Æsir vissu ferð hans, var honum fagnat vel, ok þó margir lutir með sjónhverfíngum: ok um kveldit, er drekka skyldi, þá lèt Óðinn bera inn í höllina sverð, ok voru svo björt, at þar af lýsti, ok var ekki haft ljós annat, meðan við drykkju var setit. Þá gengu Æsir at gildi sínu, ok settust í hásæti 12 Æsir, þeir er dómendr skyldu vera, ok svo voru nefndir: Þórr, Njörðr, Freyr, Týr, Heimdallr, Bragi, Viðarr, Vali, Ullr, Hænir, Forseti, Loki. Slíkt sama Ásynjur: Frigg, Freyja, Gefjun, Iðunn, Gerðr, Sigun, Fulla, Nanna. Ægi þótti göfuglikt þar um at sjást: veggþili öll voru þar tjöldut með fögrum skjöldum; þar var ok áfenginn mjöðr, ok mjök drukkit. Næsti maðr Ægi sat Bragi, ok áttust þeir við drykkju ok orðaskipti; sagði Bragi Ægi frá mörgum tíðindum, þeim er Æsir höfðu átt.

**Hann hóf** þar frásögn, at þrír Æsir fóru heiman, Óðinn ok Loki ok Hænir, ok fóru um fjöll ok eyðimerkr, ok var íllt til matar. En er þeir koma ofan í dal nakkvarn, sjá þeir oxnaflokk, ok taka einn uxann, ok snúa til seyðis. En er þeir hyggja, at soðit mun vera, raufa þeir seyðinn, ok var ekki soðit. Ok í annat sinn er þeir raufa söðinn, þá er stund var liðin, ok var ekki soðit; mæla þeir þá sín á milli, hverju þetta mun gegna. Þá heyra þeir mál í eikina upp ifir sik, at sá, er þar sat, kvazt ráða því, er eigi soðnaði á seyðinum. Þeir litu til, ok sat þar örn, ok eigi lítill. Þá mælti örninn: vilit þèr gefa mèr fylli mína af oxanum, þá mun soðna á seyðinum. Þeir játa því. Þá lætr hann sígast or trènu ok sezt á seyðinn, ok leggr upp þegar it fyrsta lær oxans 2 ok báða bógana. Þá varð Loki reiðr, ok greip upp mikla staung, ok reiðir af öllu afli, ok rekr á kroppinn erninum. Örninn bregzt við höggit, ok flýgr upp; þá var föst staungin við kropp arnarins, ok hendr Loka við annan enda. Örninn flýgr hart, svo at fætr Loka taka niðr grjótit ok urðir ok viðu: hendr hans hyggr hann at slitna munu or öxlum. Hann kallar, ok biðr allþarfliga örninn friðar; en hann segir, at Loki skal aldri

lauss verða, nema hann veiti honum svardaga, at koma Iðunni út of Ásgarð með epli sín; en Loki vill þat, verðr hann þá lauss, ok ferr til lagsmanna sinna; ok er eigi at sinni sögð fleiri tíðindi um þeirra ferð, áðr þeir koma heim. En at ákveðinni stundu teygir Loki Iðunni út um Ásgarð í skóg nokkvorn, ok segir, at hann hefir fundit epli, þau er henni munu gripir í þikkja, ok bað, at hon skal hafa með sèr sín epli, ok bera saman ok hin. Þá kemr þar Þjassi jötunn í arnarham, ok tekr Iðunni ok flýgr braut með, ok í Þrymheim til búss síns. En Æsir urðu illa við hvarf Iðunnar, ok gerðust þeir brátt hárir ok gamlir. Þá áttu þeir Æsir þíng, ok spyrr hverr annan, hvat síðarst vissi til Iðunnar; en þat var sèt síðarst, at hon gekk út or Ásgarði með Loka. Þá var Loki tekinn ok færðr á þíngit, ok var honum heitit bana eða píslum. En er hann varð ræddr, þá kvazt hann mundu sæka eptir Iðunni í Jötunheima, ef Freyja vill ljá honum valshams, er hon á. Ok er hann fær valshaminn, flýgr hann norðr í Jötunheima, ok kemr einn dag til Þjassa jötuns: var hann róinn á sæ, en Iðunn var ein heima; brá Loki henni í hnotarlíki, ok hafði í klóm sèr, ok flýgr sem mest. En er Þjassi kom heim ok saknar Iðunnar, tekkr hann arnarhaminn, ok flýgr eptir Loka, ok dró arnsúg í flugnum. En er Æsirnir sá, er valrinn flaug með hnotina, ok hvar örninn flaug, þá gengu þeir út undir Ásgarð, ok báru þannig byrðar af lokarspónum. Ok þá er valrinn flaug inn of borgina, lèt hann fallast niðr við borgarvegginn; þá slógu Æsirnir eldi í lokarspónu, en örninn mátti eigi stöðva sik, er hann misti valsins: laust þá eldinum í fiðri arnarins, ok tók þá af fluginn. Þá voru Æsirnir nær, ok drápu Þjassa jötun firir innan Ásgrindr, ok er þat víg allfrægt. En Skaði, dóttir Þjassa jötuns, tók hjálm ok brynju ok öll hervopn, ok ferr til Ásgarðs, at hefna föður síns; en Æsir buðu henni sætt ok yfirbætr: ok hit fyrsta, at hon skal kjósa sèr mann af Ásum, ok kjósa at fótum, ok sjá ekki fleira af. Þá sá hon eins manns fætr forkunnar fagra, ok mælti: þenna kýs ek, fátt mun ljótt á Baldri. En þat var Njörðr or Nóatúnum. Þat hafði hon ok í sættargjörð sinni, at Æsir skyldu þat gera, er hon hugði at þeir skyldu eigi mega, at hlæja hana. Þá gerði Loki þat, at hann batt um skegg geitar nokkvorrar, ok öðrum enda um hreðjar sèr, ok lètu þau ýmsi eptir, ok skrækti hvortveggja við hátt; þá lèt Loki fall-

ast í knè Skaða, ok þá hló hon; var þá gjör sætt af Ásanna hendi við hana. Svo er sagt, at Óðinn gerði þat til yfirbóta við hana, at hann tók augu Þjassa ok kastaði upp á himin, ok gerði af stjörnur 2. Þá mælti Ægir: mikill þykki mèr Þjassi firir sèr hafa verit; eða hvers kyns var hann? Bragi svarar: Ölvaldi hèt faðir hans, ok merki munu þèr at þikkja, ef ek segi þèr frá honum. Hann var mjök gullauðigr; en er hann dó, ok synir hans skyldu skipta arfi, þá höfðu þeir mælíng at gullinu, er þeir skiptu, at hverr skyldi taka munnfylli sína, ok allir jafnmargar. Einn þeirra var Þjassi, 2. Iði, 3. Gángr. En þat höfum vær orðtak nú með oss, at kalla gullit munntal þessa jötna; en vèr felum í rúnum eða í skáldskap svo, at vèr köllum þat mál eða orð eða tal þessa jötna. Þá mælti Ægir: þat þikki mèr vera vel fólgit í rúnum. Ok enn mælti Ægir:

**Hvaðan af** hefir hafizt sú íþrótt, er þèr kallit skáldskap? Bragi svarar: þat voru upphöf til þess, at guðin höfðu ósætt við þat fólk, er Vanir heita; en þeir lögðu með sèr friðstefnu, ok settu grið á þá lund, at þeir gengu hvorirtveggju til eins kers, ok spýttu í hráka sína. En at skilnaði, þá tóku goðin ok vildu eigi láta týnast þat griðamark, ok sköpuðu þar or mann: sá heitir Kvásir. Hann er svo vitr, at engi spyrr hann þeirra luta, er eigi kann hann orlausn: ok hann fór víða um heim, at kenna mönnum fræði, ok þá er hann kom at heimboði til dverga nokkvorra, Fjalars ok Galars, þá kölluðu þeir hann með sèr á einmæli, ok drápu hann, lètu renna blóð hans í tvö ker ok einn ketil, ok heitir sá Ódreyrir, en kerin hètu Són ok Boðn; þeir blendu hunángi við blóðit, ok varð þar af mjöðr sá, er hverr, er af drekkr, verðr skáld eða fræðamaðr. Dvergarnir sögðu Ásum, at Kvásir hefði kafnat í mannviti, firir því at engi var þar svo fróðr, at spyrja kynni hann fróðleiks.

Þá buðu þessir dvergar til sín jötni þeim, er Gillíngr heitir, ok konu hans; þá buðu dvergarnir Gillíngi at róa á sæ með sèr. En er þeir fóru firir land fram, röru dvergarnir á boða, ok hvelfði skipinu. Gillíngr var ósyndr, ok týndist hann; en dvergarnir rèttu skip sitt ok reru til lands. Þeir sögðu konu hans þenna atburð, en hon kunni illa, ok grèt hátt. Þá spurði Fjalar hana, ef henni mundi huglèttara, ef hon sæi út á sæinn, þar er hann hafði týnzt; en hon vildi

þat. Þá mælti hann við Galar, bróður sinn, at hann skal fara upp ifir dyrnar, er hon gengi út, ok láta kvernstein falla í höfut henni, ok taldi sèr leiðast óp hennar; ok svo gerði hann. Þá er þetta spurði Suttúngr jötunn, son Gillíngs, ferr hann til, ok tók dvergana, ok flytr á sæ út, ok setr þá í flæðarsker. Þeir biðja Suttúng sèr lífsgriða, ok bjóða honum til sættar í föðurgjöld mjöðinn dýra, ok þat verðr at sætt með þeim; flytr Suttúngr mjöðinn heim, ok hirðir, þar sem heita Hnitbjörg, setr þar til gæzlu dóttur sína, Gunnlöðu. Af þessu köllum vær skáldskapinn Kvásis blóð eða dverga drekku eða fylli eða nakkvarskonar lög Ódreris eða Boðnar eða Sónar eða farkost dverga, firir því at sá mjöðr flutti þeim fjörlausn or skerinu, eða Suttúnga mjöð, eða Hnitbjarga lögr.

**Þá mælti** Ægir: myrkt þikki mèr þat mælt, at kalla skáldskap með þessum heitum; en hvernig komu þèr Æsir at Suttúnga miði? Bragi svarar: sjá saga er til þess, at Óðinn fór heiman, ok kom þar er þrælar níu slógu hey. Hann spyrr, ef þeir vili, at hann brýni ljá þeirra. Þeir játa því. Þá tekr hann hein af belti sèr, ok brýndi; en þeim þótti bíta ljárnir myklu betr, ok föluðu heinina. En hann mat svo, at sá, er kaupa vildi, skyldi gefa við hóf; en allir kvoðust vilja, ok báðu hann sèr selja; en hann kastaði heininni í lopt upp, en allir vildu henda: þá skiptust þeir svo við, at hverr brá ljánum á háls öðrum. Óðinn sótti til náttstaðar til jötuns þess, er Baugi hèt, bróðir Suttúngs. Baugi kallaði íllt fjárhald sitt, ok sagði, at þrælar hans níu höfðu drepizt, en taldist eigi vita sèr von verkmanna. En Óðinn nefndist firir honum Bölverkr; hann bauð at taka upp 9 manna verk firir Bauga, en mælti sèr til kaups einn drykk af Suttúnga miði. Baugi kvað enskis ráðs eiga af miðinum; sagði, at Suttúngr vildi einn hafa, en fara kvezt hann mundu með Bölverki, ok freista, ef þeir fengi mjöðinn. Bölverkr vann um sumarit 9 mannsverk firir Bauga, en at vetri beiddist hann Bauga leigu sinnar. Þá fara þeir báðir. Baugi segir Suttúngi, bróður sínum, kaup þeirra Bölverks, en Suttúngr synjar þverliga hvers dropa af miðinum. Þá mælti Bölverkr til Bauga, at þeir skyldu freista væla nokkvorra, ef þeir megi ná miðinum, en Baugi lætr þat vel vera. Þá dregr Bölverkr fram nafar, þann er Rati heitir, ok mælti, at Baugi skal bora bjargit, ef nafarrinn bítr. Hann gerir svo. Þá segir Baugi, at gögnum er borat bjargit, en

Bölverkr blæss í nafars-raufina, ok hrjóta spænirnir upp í móti honum. Þá fann hann, at Baugi vildi svíkja hann, ok bað bora gögnum bjargit. Baugi boraði enn; en er Bölverkr blèss annat sinn, þá fuku inn spænirnir. Þá brást Bölverkr í ormslíki, ok skreið í nafars-raufina, en Baugi stakk eptir honum nafrinum, ok misti hans. Fór Bölverkr þar til, sem Gunnlöð var, ok lá hjá henni 3 nætr, ok þá lofaði hon honum at drekka af miðinum 3 drykki: í enum fyrsta drykk drakk hann allt or Óðreri, en í öðrum or Boðn, í enum þriðja or Són, ok hafði hann þá allan mjöðinn. Þá brást hann í arnarham, ok flaug sem ákafast. En er Suttúngr sá flug arnarins, tók hann sèr arnarham, ok flaug eptir honum. En er Æsir sá, hvar Óðinn flaug, þá settu þeir út í garðinn ker sín. En er Óðinn kom inn of Ásgarð, þá spýtti hann upp miðinum í kerin; en honum var þá svo nær komit, at Suttúngr mundi ná honum, at hann sendi aptr suman mjöðinn; ok var þess ekki gætt, hafði þat hverr er vildi, ok köllum vèr þat skáldfifla lit. En Suttúnga mjöð gaf Óðinn Ásunum, ok þeim mönnum, er yrkja kunnu; því köllum vèr skáldskapinn feng Óðins ok fund, ok drykk hans ok gjöf hans, ok drykk Ásanna.

**Þá mælti** Ægir: hversu á marga lund breytit þèr orðtökum skáldskapar? eða hversu mörg eru kyn skáldskaparins? Þá mælti Bragi: tvenn eru kyn, þau er greina skáldskap allan. Ægir spyrr: hver tvenn? Bragi svarar: mál ok hættir. Hvert máltak er haft til skáldskapar? Þrenn er grein skáldskapar-máls. Hver? Svo, at nefna hvern lut, sem heitir; önnur grein er sú, er heita fornöfn; en 3. málsgrein, er köllut er kenníng, ok er sú grein svo sett, at vèr köllum Óðin eða Þór eða Tý, eða einhvern af Ásum eða Álfum, at hverr þeirra er ek nefni til, þá tek ek með heiti af eign annars Ássins, eða get ek hans verka nokkvorra: þá eignast hann nafnit, en eigi hinn, er nefndr var. Svo sem vær köllum Sigtý eða Hángatý eða Farmatý, þat er þá Óðins heiti, ok köllum vèr þat kent heiti. Svo ok at kalla Reiðartý.

---

**Enn skal** láta heyra dæmin, hvernig höfuðskáldin hafa látit sèr sóma at yrkja eptir þessum heitum ok kenníngum; svo sem segir Arnórr jarlaskáld, at hann heiti Allföðr:

Nú hykk slíðrhugaðs segja
(síð lèttir mèr stríða)
(þýtr Allföðr) ýtum
jarls kostu (brim hrosta).

Hèr kallar hann ok skáldskapinn *hrosta - brim Allföðr.*

Hávarðr halti kvað svo:

Nú er jódraugum ægis
arnar flaug (ok bauga
hygg ek at heimboð þiggi
Hánga - goðs) of vángi.

Svo kvað Vígaglúmr:

Lattist herr með höttu
Hángatýs at gánga
(þótti-t þeim at hætta
þekkiligt) firir brekku[52].

Sva kvað Refr:

Opt kom (jarðar leiptra
er Baldr hníginn) skaldi
(hollr) at helgu fulli
Hrafnásar, mèr (stafna).

Svo kvað Eyvindr skáldaspillir:

Ok Sigurð, hinn
er svönum veitti
hrauka bjór
Haddíngja vals
Farmatýs,
fjörvi næmdu
jarðráðendr
á Oglóe[53].

Svo kvað Glúmr Geirason:

Þar var (þrafna byrjar
þeim styrðu goð heima)
sjálfr í söki-álfi
Sigtýr atals dýra.

Svo kvað Eyvindr enn:

Göndul ok Skögul
sendi Gauta-týr,
at kjósa of konúnga,
hverr Ýngva ættar
skyldi með Óðni fara
ok í Valhöllu vera[54].

Svo kvað Úlfr Uggason:

Ríðr at vilgi víðu
víðfrægr (en mèr líða)
Hropta týr (of hvopta
hróðrmál) sonar báli.

Svo kvað Þjóðólfr enn hvinverski:

Valr lá þar á sandi,
vitinn inum eineygja
Friggjar faðmbyggvi
fögnuðum dáð slíkri.

Þetta kvað Hallfröðr:

Sannyrðum spenr sverða
snarr þiggjandi viggjar
barrhaddaða byrjar
biðkvon und sik þriðja.

Hèr er þess dæmi, at jörð er köllut kona Óðins í skáldskap.

Svo er hèr sagt at Eyvindr kvað:

Hermóðr ok Bragi,
kvað Hroptatýr,
gángit í gögn grami;
því at konúngr ferr,
sá er kappi þikkir,
til hallar hinnig[55].

Svo kvað Kórmákr:

Eykr með ennidúki
jarðhlutr Día fjarðar
breyti, hún sá er beinan
bindr. Seið Yggr til Rindar.

---

52) Vígagl. saga, k. 27, 3. 53) Hkr, Har. gráf., k. 6, 1. 54) Hkr, Hák. góða, k. 33, 1, í Hákonarmálum. 55) Hákonarmál, 14.

Svo sagði Steinþórr:

Forngervum á ek, firna, horna fors at hrósa
farms Gunnlaðar arma hlítstyks, ok þó litlum.

Svo kvað Úlfr Uggason:

Þar hykk sigrunni svinnum heilags tafns ok hrafna.
sylgs valkyrjur fylgja Hlaut innan svo minnum.

Svo kvað Egill Skallagrímsson:

Blót ek ei af því bölva bætr,
bróður Vílis, er it betra telk.
guð jarðar, Gáfumk íþrótt
at ek gjarn sjá; úlfs ok bagi
þó hefir Míms-vinr vígi vanr
mèr of fengit vammi firða[56].

Hèr er hann kallaðr guð jarðar ok Míms-vinr ok úlfs-bagi.

Svo kvað Refr:

Þèr eigu vèr veigar fals (hrannvala fannar,
(valgautr, salar brautar) framr, valdi tamr!) gjalda.

Svo kvað Einarr skálaglam:

Hljóta mun ek (nè hlític) firir örþeysi at ausa
Hertýss (of þat Fröju) austr víngnoðar flausta.

Svo sem Úlfr kvað Uggason:

Kostigr ríðr at kesti hrafnfreistaðar hesti
kynfróðs, þeim er goð hlóðu, Heimdallr at mög fallinn.

Svo er sagt í Eyríksmálum:

Hvat er þat drauma? (kvað Óðinn) bæða ek upp rísa,
Ek hugðumk firir dag rísa, bekki at strá,
Valhöll ryðja bjór-ker leyðra;
firir vegnu fólki: valkyrjur vín bera,
vekða ek einherja, sem vísi komi[57].

Þat kvað Kórmákr:

Algildan bið ek aldar ýs bifvángi Yngva
allvald of mèr halda úngr. Fór Hroptr með Gúngni.

Þat kvað Þórólfr:

Sagði hitt, er hugði, hlífar-styggr, þar er höggnir
Hliðskjálfar gramr sjálfum Háreks liðar varu.

Svo kvað Eyvindr:

Hinn er Surts Far-magnuðr
or sökkdölum fljúgandi bar.

Svo kvað Bragi:

Þat erumk sent, at snemma afls við úri þafðan
sonr alda-föðrs vildi jarðar reist of freista.

Svo kvað Einarr:

---

56) Sonartorrek (í Egils s. Skallagr.), 22—3 57) Fagrskinna, bls. 16.

því at fjölkostigr (flestu)
flestr ræðr við son Bestlu
(væri ek) morðs (til mærðar)
mærîngr, en þú færa.

Svo kvað Þorvaldr blönduskáld:

Nú hefi ek mart
í miði greipat
borar Bors
Bura arfa.

**Hèr skal** heyra, hve skáldin hafa kent skáldskapinn eptir þessum heitum, er áðr eru rituð: svo sem er, at kalla Kvásis-dreyra ok dverga-skip, dverga-mjöð, jötna-mjöð, Suttúnga-mjöð, Óðins-mjöð, Ása-mjöð, föðurgjöld jötna: lögr Ódreris ok Boðnar ok Sónar ok fylli, lögr Hnitbjarga, fengr ok fundr ok farmr ok gjöf Óðins. Svo sem hèr er kveðit, er orti Einarr skálaglam:

Hugstóran bið ek heyra
(heyr, jarl, Kvásiss dreyra!)
foldar vörð á fyrða
fjarðleggjar brim dreggjar.

Ok sem kvað Einarr enn, skálaglam:

Ullar gengr of alla
asksögn þess, er hvöt magnar
byrgis böðvar sorgar,
bergs grunnlá dverga.

Svo sem kvað Ormr Steinþórsson:

At veri borit bjórs
bríkar ok mitt lík
(rekkar nemi) dauðs (drykk
Dvalins!) í einn sal.

Ok sem Refr kvað:

Grjót-aldar rær gildi
geð reinar Þorsteini;
bergmöra glymr bára,
bið ek lýða kyn hlýða.

Svo, sem kvað Egill:

Buðumk hilmir löð,
nú á ek hróðrs of kvöð,
bar ek Óðins mjöð
á Engla bjöð[58].

Svo, sem kvað Glúmr Geirason:

Hlýði! Hapta beiðis
hefk mildínga gildi;
því bjóðum vèr þögnar,
þegna tjón at fregnum.

Ok sem kvað Eyvindr:

Vilja ek hljóð
at hans liði,
meðan Gillíngs
gjöldum yppik:
meðan hans ætt
í hverlegi
Gálga-grams
til goða teljum[59].

Svo, sem Einarr kvað, skálaglam:

Eisar vargr firir vísa
[verk rögnis mèr högna]
(þýtr Ódreris alda
aldr) hafs (við fles galdra).

Ok enn, sem hann kvað:

Nú er þats Boðnar bára
(bergsaxa) tèr vaxa
(görvi í höll, ok hlýði,
hljóð, fley jöfurs þjóðir).

Ok sem kvað Eilífr Guðrúnarson:

58) Höfuðlausn Egils Skallagr., 2. 59) líklega úr Háleygjatali.

Verði þèr, alls orða | á sefreinu Sónar
oss grær of kon mæran | sáð vingjöfum, ráða.

Svo, sem kvað Völusteinn:

Heyr Míms-vinar mína | við góma sker glymja,
(mèr er fundr gefinn Þundar) | Glaumbergs Egill, strauma.

Svo kvað Ormr Steinþórsson:

Seggir þurfu-t ala ugg | háði: kunnum hróðrsmíð
(engu snýr ek í Viðurs feng | haga) of minn brag.

Svo kvað Úlfr Uggason:

Hoddmildum tèc hildar | (hann vil ek at gjöf Grímnis)
hugreifum Óleifi | geð njarðar lá (kveðja).

Skáldskapr er kallaðr sjár eða lögr dverganna, firir því at Kvásis blóð var lögr í Ódreri, áðr mjöðrinn veri gjörr, ok þar gerðist hann í katlinum, ok er hann kallaðr firir því hverlögr Óðins, svo sem kvað Eyvindr, ok fyrr var ritað:

Meðan hans ætt | Gálga-grams
í hverlegi | til goða teljum.

Enn er kallaðr skáldskaprinn far eða lið dverganna; lið heitir öl, ok lið heitir skip: svo er tekið til dæma, at skáldskapr er nú kallaðr firir því skip dverga. Svo sem hèr segir:

Bæði á ek til brúðar | sollinn vind at senda
bergjarls ok skip dverga | seinfirnd götu eina.

**Hvernig** skal kenna Þór? Svo, at kalla hann son Óðins ok Jarðar: faðir Magna ok Móða ok Þrúðar: verr Sifjar; stjúpfaðir Ullar; stýrandi ok eigandi Mjölnis ok megingjarða, Bilskirnis; verjanði Ásgarðs, Miðgarðs; dólgr ok bani jötna ok tröllkvenna: vegandi Hrúngnis, Geirröðar, Þrívalda: drottinn Þjálfa ok Rösku: dólgr Miðgarðsorms: fóstri Víngnis ok Hlóru. Svo kvað Bragi skáld:

Vaðr lá Viðris arfa | á Eynefis öndri
vilgi slakr, er raktist | Jormungandr at sandi.

Svo kvað Ölver hnúfa:

Östist allra landa | umgjörð ok sonr Jarðar.

Svo kvað Eilífr:

Reiðr stóð Rösku bróðir. | Skelfr-a Þórs nè Þjálfa
Vo gagn faðir Magna. | þróttar steinn við ótta.

Ok sem kvað Eysteinn Valdason:

Leit á brattrar brautar | (æstist áðr at flausti
baug hvassligum augum | augs búð) faðir Þrúðar.

Enn kvað Eysteinn:

Sín bjó Sifjar rúni | (hornstraum getum Hrímnis
snarla fram með karli | hræra) veiðarfæri.

Ok enn kvað hann:

Svo brá viðr, at (sýjur), jarðar, út at borði
seiðr (rendi fram breiðar) Ulls mágar hnefar skullu.

Svo kvað Bragi:

Hamri fórsk í hægri eygir öflugbarða,
hönd, þá er allra landa, endi-skeiðs of kendi.

Svo kvað Gamli:

Meðan, gramr, hinn er svik samdi, grundar fisk, með grandi
snart, Bilskirnis, hjarta, gljúfr skeljúngs nam rjúfa.

Svo kvað Þorbjörn dísar-skáld:

Þórr hefir Yggs með árum Ásgarð af þrek varðan.

Svo kvað Bragi:

Ok borðróins barða á haussprengi Hrúngnis
brautar hríngr enn ljóti harðgeðr neðan starði.

Enn kvað Bragi:

Vel hafit yðrum eykjum simbli sumbls of mærum
aptr (Þrívalda) haldit (sundrkljúfr níu höfða!).

Svo kvað Eilífr:

Þröngvir gein við þúngum kveldrunninna kvenna
þángs rauðbita tángar kunnleggs alinn munni.

Svo kvað Bragi:

Þjokkvöxnum kvað þikkja hafra njóts at höfgum
þiklíng firíng-mikla hætting megindrætti.

Svo kvað Úlfr:

Fullöflugr lèt fellir (ramt mein var þat) reyni
fjallgauts hnefa skjalla reyrar leggs við eyra.

Enn kvað Úlfr:

Víðgymnir laust Vimrar hlusta grunn við hrönnum.
vaðs af fránum naðri (Hlaut innan svo minnum).

Hèr er hann kallaðr jötunn Vimrar-vaðs. Á heitir Vimur, er Þórr óð, þá er hann sótti til Geirröðargarða. Ok svo kvað Vetrliði:

Leggi brauzt þú Leiknar, steypðir Starkaði,
limðir Þrívalda, stèttu of Gjálp dauða.

Ok svo kvað Þorbjörn dísar-skáld:

Ball í Keilu kolli, heptir þú Hengjankjöptu,
Kjallandi brauzt þú alla, Hyrrokkin dó fyrri;
áðr draptu Lut ok Leiða, þó var snemr in sáma
lèztu dreyra Bússeyru; Svívör numin lífi.

**Hvernig** skal kenna Baldr? Svo, at kalla hann son Óðins ok Friggjar, ver Nönnu: faðir Forseta, eigandi Hríng-horna ok Draupnis, dólgr Haðar, Heljar sinni, Grátaguð. Úlfr Uggason hefir kveðit eptir sögu Baldrs lángt skeið í Hús-drápu, ok ritat er áðr dæmi til þess, er Baldr er svo kendr.

**Hvernig** skal kenna Njörð? Svo, at kalla hann vagnaguð eða Vana-nið eða Van, ok föður Freys ok Freyju, gefjanda guð. Svo segir Þórðr Sjárreksson:

Varð sjálf suna: Goðrún bani.
Nam-a snotr una: goðbrúðr Vani.
Kjalarr of tamði: heldr vel mara.
Kvoðu-t Hamði: hjörleik spara.

Hèr er þess getit, er Skaði gekk frá Nirði, sem fyrr er ritat.

**Hvernig** skal kenna Frey? Svo, at kalla hann son Njarðar, bróður Freyju, ok enn Vana-guð ok Vana-nið: ok Vanr ok árguð: ok fègjafa. Svo kvað Egill Skallagrímsson:

Því at Grjótbjörn Freyr ok Njörðr
of gæddan hefr at fjárafli[60].

Freyr er kallaðr Belja-dólgr, svo sem kvað Eyvindr skáldaspillir:

Þá er útröst Belja dólgs
jarla bagi byggja vildi[61]

Hann er eigandi Skíðblaðnis ok galtar þess, er Gullinbusti heitir. Svo sem hèr segir:

Ívaldasynir skipa bazt,
gengu í árdaga skírum Frey,
Skíðblaðni at skipa, nýtum Njarðar bur[62].

Svo segir Úlfr Uggason:

Riðr á börg til borgar Freyr ok fólkum stýrir
böðfróðr sonar Óðins fyrstr gulli byrstum.

Hann heitir ok Slíðrugtanni.

**Hvernig** skal Heimdall kenna? Svo, at kalla hann son níu mæðra, vörð goða, svo sem fyrr er ritat, eða hvíta Ás, Loka-dólg, mensækir Freyju. Heimdalar höfut heitir sverð: svo er sagt, at hann var lostinn mannshöfði í gögnum. Um hann er kveðit í Heimdalar galdri, ok er síðan kallat höfut mjötuðr Heimdalar: sverð heitir manns-mjötuðr. Heimdalr er eigandi Gulltopps; hann er ok tilsækir Vogaskers ok Síngasteins: þá deildi hann við Loka um Brísíngamen; hann heitir ok Vindler. Úlfr Uggason kvað í Húsdrápu lánga stund eptir þeirri frásögu, er þess þar getit, er þeir voru í sela-líkjum. Hann er ok sonr Óðins.

**Hvernig** skal kenna Tý? Svo, at kalla hann einhenda Ás ok Úlfs-fóstra, víga-guð, son Óðins.

---

60) Arinbjarnardrápa, 18. 61) úr Háleygjatali? 62) Grimnismál, 43.

**Hvernig** skal kenna Braga? Svo, at kalla hann Iðunnar ver, frumsmið bragar, ok hinn síðskeggja Ás; af hans nafni er sá kallaðr skeggbragi, er mikit skegg hefir: ok sonr Óðins.

**Hvernig** skal kenna Viðar? Hann má kalla hinn þögla Ás, eiganda járnskóss, dólg ok bana Fenrisúlfs, hefniás goðanna, byggvi-ás föðurtópta, ok son Óðins, bróður Ásanna.

**Hvernig** skal kenna Vala? Svo, at kalla hann son Óðins ok Rindar, stjúp Friggjar, bróður Ásanna, hefniás Baldrs, dólg Haðar ok bana hans, byggvanda föðurtópta.

**Hvernig** skal kenna Höð? Svo, at kalla hann blinda Ás, Baldrs bana, skjótanda Mistilteins, son Óðins, Heljar sinna, Vala-dólg.

**Hvernig** skal kenna Ull? Svo, at kalla hann son Sifjar, stjúp Þórs, öndur-ás, boga-ás, veiði-ás, Skjaldar-ás.

**Hvernig** skal kenna Hæni? Svo, at kalla hann sessa eða sinna eða mála Óðins, ok hinn skjóta ás, ok hinn lánga fót, ok aur-konúng.

**Hvernig** skal kenna Loka? Svo, at kalla son Farbauta ok Laufeyjar ok Nálar, bróður Býleists ok Helblinda, föður Vonargands (þat er Fenrisúlfr) ok Jormungands (þat er Miðgarðsormr) ok Heljar ok Nara ok Ala, frænda ok föðurbróður, sinna ok sessa Óðins ok Ása, heimsæki ok kistuskrúð Geirröðar: þjófr jötna hafurs ok Brísíngamens ok Iðunnar epla: Sleipnis frænda: verr Sigynjar, goða dólgr, hárskaði Sifjar, bölva-smiðr, hinn slægi Áss, rægjandi ok vælandi goðanna, ráðbani Baldrs, hinn bundni Áss, þrætudólgr Heimdalar ok Skaða. Svo sem hèr segir Úlfr Uggason:

| | |
|---|---|
| Ráðgegninn bregðr ragna- | Móðöflugr ræðr mæðra |
| rein- at Síngasteini | mögr hafnýra fögru |
| frægr við firna slægjum | (kynni ek) áðr ok einnar |
| Farbauta mögr -vari. | átta (mærðar þáttum). |

Hèr er þess getit, at Heimdallr er son níu mæðra.

**Nú skal enn** segja dæmi, af hverju þær kenníngar eru, er nú voru ritaðar, er áðr voru eigi dæmi til sögð. Svo sem Bragi sagði Ægi, at Þórr var farinn í austrvega at berja tröll, en Óðinn reið Sleipni í Jötunheima, ok kom til þess jötuns, er Hrúngnir hèt. Þá spyrr Hrúngnir, hvat manna sá er með gullhjálminn, er ríðr lopt ok lög; ok segir, at hann á furðu góðan hest. Óðinn sagði, at þar vill hann veðja firir

höfði sínu, at engi hestr skal vera jafngóðr í Jötunheimum. Hrúngnir segir, at sá er góðr hestr, en hafa lèzt hann mundu myklu stórfetaðra hest: sá heitir Gullfaxi. Hrúngnir varð reiðr, ok hleypr upp á hest sinn, ok hleypir eptir honum, ok hyggr at launa honum ofrmæli. Óðinn hleypti svo mikit, at hann var á öðru leiti firir; en Hrúngnir var í svo miklum jötunmóð, at hann fann eigi fyrr, en hann sótti inn of Ásgrindr. Ok er hann kom at hallardurum, buðu Æsir honum til drykkju; hann gekk í höllina, ok bað fá sèr drykkju; voru þá teknar þær skálir, er Þórr var vanr at drekka or, ok snerti Hrúngnir or hverri. En er hann gerðist drukkinn, þá skorti eigi stór orð: hann lèzt skyldu taka upp Valhöll, ok færa í Jötunheima, en sökkva Ásgarði, en drepa guð öll, nema Freyju ok Sif vill haun heimfera með sèr; en Freyja fór þá at skenkja honum: ok drekka lèzt hann mundu allt Ása-öl. En er Ásum leiddust ofryrði hans, þá nefna þeir Þór. Því næst kom Þórr í höllina, ok hafði uppi á lopti hamarinn, ok var allreiðr, ok spyrr, hverr því ræðr, er jötnar hundvísir skulu þar drekka, eða hverr seldi Hrúngni grið at vera í Valhöll, eða hví Freyja skal skenkja honum, sem at gildi Ása. Þá svarar Hrúngnir, ok sèr ekki vinaraugum til Þórs: sagði, at Óðinn bauð honum til drykkju, ok hann var á hans griðum. Þá mælti Þórr, at þess boðs skal Hrúngnir iðrast, áðr hann komi út. Hrúngnir segir, at Ásaþór er þat lítill frami, at drepa hann vopnlausan; hitt er meiri hugraun, ef hann þorir at berjast við hann at landamæri á Grjótunagörðum: ok hefir þat verit mikit fólskuverk, sagði hann, er ek lèt eptir heima skjöld minn ok hein; en ef ek hefða hèr vopn mín, þá skyldu við nú reyna hólmgaunguna, en at öðrum kosti, legg ek þèr við níðíngskap, ef þú vill drepa mik vopnlausan. Þórr vill firir öngan mun bila at koma til einvígis, er honum var hólmr skoraðr, því at engi hefir honum þat fyrr veitt. Fór þá Hrúngnir braut leið sína, ok hleypti ákafliga, þar til er hann kom í Jötunheima; ok var för hans allfræg með Jötnum, ok þat, at stefnulag var komit á með þeim Þór; þóttust jötnar hafa mikit í ábyrgð, hverr sigr fengi: þeim var ílls von at Þór, ef Hrúngnir lètist, firir því at hann var þeirra sterkastr. Þá gerðu Jötnar mann á Grjótunagörðum af leiri, ok var hann 9 rasta hár, en þriggja breiðr undir hönd, en ekki fengu þeir hjarta svo mikit, at honum sómði, fyrr en þeir tóku or meri

nokkvorri, ok varð honum þat eigi stöðugt, þá er Þórr kom. Hrúngnir átti hjarta þat, er frægt er, af hörðum steini, ok tindótt með 3 hornum, svo sem síðan er gert ristubragð þat, er Hrúngnishjarta heitir; af steini var ok höfut hans, skjöldr var ok steinn víðr ok þjokkr, ok hafði hann skjöldinn firir sèr, er hann stóð á Grjótunagörðum, ok beið Þórs, en hein hafði hann firir vopn, ok reiddi of öxl, ok var ekki dælligr. Á aðra hlið honum stóð leirjötuninn, er nefndr er Mökkrkálfi, ok var hann allhræddr: svo er sagt, at hann meig, er hann sá Þór. Þórr fór til hólmstefnu, ok með honum Þjálfi. Þá rann Þjálbi fram at, þar er Hrúngnir stóð, ok mælti til hans: þú stendr úvarliga, jötunn, hefir skjöldinn firir þèr, en Þórr hefir sèt þik, ok ferr hann it neðra í jörðu, ok mun hann koma neðan at þèr. Þá skaut Hrúngnir skildinum undir fætr sèr, ok stóð á, en tvíhendi heinina. Því næst sá hann eldíngar, ok heyrði þrumur stórar; sá hann þá Þór í ásmóði, fór hann ákafliga, ok reiddi hamarinn, ok kastaði um lánga leið at Hrúngni. Hrúngnir færir upp heinina báðum höndum, kastar í mót; mætir hon hamrinum á flugi, ok brotnar sundr heinin, fellr annarr lutr á jörð, ok eru þar af orðin öll heinberg; annarr lutr brast í höfði Þór, svo at hann fèll fram á jörð; en hamarrinn Mjölnir kom í mitt höfut Hrúngni, ok lamði hausinn í smán mola, ok fèll hann fram ifir Þór, svo at fótr hans lá of háls Þór. En Þjálfi vo at Mökkrkálfa, ok fèll hann við lítinn orðstír. Þá gekk Þjálfi til Þórs, ok skyldi taka fót Hrúngnis af honum, ok gat hvergi valdit. Þá gengu til Æsir allir, er þeir spurðu, at Þórr var fallinn, ok skyldu taka fótinn af honum, ok fengu hvergi komit. Þá kom til Magni, sonr Þórs ok Járnsöxu, hann var þá þrínættr; hann kastaði fæti Hrúngnis af Þór, ok mælti: sè þar ljótan harm, faðir, er ek kom svo síð; ek hygg, at jötun þenna mundak hafa lostit í hel með hnefa mèr, ef ek hefða fundit hann. Þá stóð Þórr upp, ok fagnaði vel syni sínum, ok sagði hann mundu verða mikinn firir sèr: ok vil ek, sagði hann, gefa þèr hestinn Gullfaxa, er Hrúngnir hafði átt. Þá mælti Óðinn, ok sagði, at Þórr gerði rángt, er hann gaf þann hinn góða hest gýgjar syni, en eigi föður sínum. Þórr fór heim til Þrúðvánga, ok stóð heinin í höfði honum. Þá kom til völva sú, er Gróa hèt, kona Örvandils hins frækna; hon gól galdra sína yfir Þór, til þess er heinin losnaði. En er Þórr fann þat, ok þótti þá von, at

braut mundi ná heininni, þá vildi hann launa Gró lækníngina, ok gera hana fegna: sagði henni þau tíðindi, at hann hafði vaðit norðan yfir Elivoga, ok hafði borit í meis á baki sèr Örvandil norðan or Jötunheimum, ok þat til jartegna, at ein tá hans hafði staðit or meisinum, ok var sú frerin, svo at Þórr braut af, ok kastaði upp á himin, ok gerði af stjörnu þá, er heitir Örvandils-tá. Þórr sagði, at eigi mundi lángt til, at Örvandill mundi heim koma. En Gróa varð svo fegin, at hon mundi önga galdra, ok varð heinin eigi lausari, ok stendr enn í höfði Þór. Ok er þat boðit til varnanar, at kasta hein of gólf þvert, því at þá hræríst heinin í höfoð Þór. Eptir þessi sögu hefir ort Þjóðólfr hvinverski í Haustlaung. Svo segir þar:

1. Eðr of sèr, er jötna
ótti lèt of sóttan
hellis brör á hyrjar
haug Grjótuna baugi.
Ók at ísarnleiki
Jarðar sunr, en dundi
(móðr svall Meila bróður)
mána vegr und honum.

2. Knáttu öll (en Ullar
endilág firir mági
grund var grapi hrundin)
ginnjúnga-ve hrinna:
þá er hofreginn hafrir
hógreiðar fram drógu
(seðr gekk Svölnis ekkja
sundr) at Hrúngnis fundi.

3. Þyrmðit Baldrs of barmi
(berg) sólgnum þar dólgi
(hristust björg ok brustu)
(brann upphiminn) manna.
Mjök frá ek móti hrökkva
myrk hreins baka reinar,
þá er vígligan, vögna
varr, sinn bana þarri.

4. Brátt fló bjarga gæti
[bönd ollu því] randa
(ímun-) fölr und iljar
íss (vildu svo -dísir).
Varð-at höggs frá hörðum
hraundrengr þaðan lengi
trjónu-trölls of runa
tíðr fjöllama at bíða.

5. Fjörspillir lèt falla
fjálbrs ólágra gjálbra
bölverðúngar Belja
bólm á randar hólmi.
þar hnè grundar gilja
gramr firir skörpum hamri,
en bergdana bagði
brjótr við jormunþrjóti.

6. Ok harðbrotin herju
heimþínguðar víngnis
hvein í hjarna mæni
hein at grundar sveini;
þar svo eðr í Óðins
ólaus burar hausi
stála vikr of stokkinn
stóð Eindriða blóði:

7. Áðr or hneigi-hlíðum
hárs ölgefjon sára
reiðityrs it rauða
ryðs heyli böl göli.
Görla lít ek á Geitis
garði þer of farðir;
baugs þá ec bifum fáða
bifkleif at Þorleifi.

Þá mælti Ægir: mikill þótti mèr Hrúngnir firir sèr. Vann Þórr meira þrekvirki nokkvot, þá er hann átti við tröll? Þá svarar Bragi:

**Mikillar** frásagnar er þat vert, er Þórr fór til Geir-

röðargarða; þá hafði hann eigi hamarinn Mjölni eða megingjarðar eða járngreipr, ok olli því Loki; hann fór með honum. Því at Loka hafði þat hent, þá er hann flaug einu sinni at skemta sèr með valsham Friggjar, at hann flaug firir forvitni sakar í Geirröðargarða, ok sá þar höll mikla, settist, ok sá inn of glugg; en Geirröðr leit í móti honum, ok mælti, at taka skyldi fuglinn ok færa honum; en sendimaðr komst nauðuliga á hallar-vegginn, svo var hann hár; þat þótti Loka gott, er hann sótti erfiðliga til hans, ok ætlaði sèr stund, at fljúga eigi upp, fyrr en hann hafði farit allt torleiðit. En er maðrinn sótti at honum, þá beinir hann fluginn, ok spyrnir við fast, ok eru þá fæturnir fastir; var Loki tekinn þar höndum ok færðr Geirröði jötni. En er hann sá augu hans, þá grunaði hann, at maðr mundi vera, ok bað hann svara, en Loki þagði. Þá læsti Geirröðr Loka í kistu, ok svelti hann þar 3 mánuði. En þá er Geirröðr tók hann upp, ok beiddi hann orða: ok sagði Loki, hverrr hann var, ok til fjörlausnar vann hann Geirröði þess eiða, at hann skyldi koma Þór í Geirröðargarða, svo at hann hefði hvorki hamarinn nè meg ingjarðar.

Þórr kom til gistíngar til gýgjar þeirrar, er Gríðr er köllut, hon var móðir Viðars hins þögla; hon sagði Þór satt frá Geirröði, at hann var jötunn hundvíss ok illr viðreignar; hon lèði honum megingjarða ok járngreipr, er hon átti, ok staf sinn, er heitir Gríðarvölr. Þá fór Þórr til ár þeirrar, er Vimur heitir, allra á mest. Þá spenti hann sik megingjörðum, ok studdi forstreymis Gríðarvöl, en Loki hèlt undir megingjarðar. Ok þá er Þórr kom á miðja ána, þá óx svo mjök áin, at uppi braut á öxl honum. Þá kvað Þórr þetta:

Vax-attu nú, Vimur,
alls mik vaða tíðir
Jötna garða í!

Veiztu, ef þú vex,
at þá vex mèr ásmegin
jafnhátt upp, sem himinn?

Þá sèr Þórr uppi í gljúfrum nokkvorum, at Gjálp, dóttir Geirröðar, stóð þar tveim megin árinnar, ok gerði hon árvöxtinn. Þá tók Þórr upp or ánni stein mikinn, ok kastaði at henni, ok mælti svo: at ósi skal á stemma. Eigi misti hann, þar er hann kastaði til. Ok í því bili bar hann at landi, ok fèkk tekit reynirunn nokkvorn, ok steig svo or ánni; því er þat orðtak haft, at reynir er björg Þórs. En er Þórr kom til Geirröðar, þá var þeim fèlögum vísat fyrst í gestahús til her-

bergis, ok var þar einn stóll til sætis, ok sat þar Þórr. Þá varð hann þess varr, at stóllinn fór undir honum upp at ræfri. Hann stakk Gríðarveli upp í raptana, ok lèt sígast fast á stólinn, varð þá brestr mikill, ok fylgði skrækr mikill. Þar höfðu verit undir stólinum dætr Geirröðar, Gjálp ok Greip, ok hafði hann brotit hrygginn í báðum. Þá kvað Þórr:

Einu sinni neyttak
ásmegins
Jötna görðum í:
þá er Gjálp ok Greip,
Geirraðar dætr,
vildu hefja mik til himins.

Þá lèt Geirröðr kalla Þór í höllina til leika. Þar voru eldar stórir eptir endilángri höllinni; en er Þórr kom í höllina gagnvart Geirröði, þá tók Geirröðr með töng járnsíu glóandi, ok kastar at Þór, en Þórr tók í móti með járngreipum, ok færir á lopt síuna, en Geirröðr hljóp undir járnsúlu at forða sèr. Þórr kastaði síunni, ok laust gögnum súluna, ok gögnum Geirröð, ok gögnum vegginn, ok svo firir utan í jörðina. Eptir þessi sögu hefir ort Eilífr Guðrúnarson í Þórsdrápu:

1. Flugstalla rèð fellir
Fornjóts goða at hvetja
(drjúgr var Loptr at ljúga)
lögseims faðir heiman:
geðreynir kvað grenar
gauts herþrumu brautir
vilgi tryggr til veggjar
viggs Geirröðar liggja.

2. Geðstrángrar lèt göngu
gammleið Þórr skömmu
(fýstust þeir at þrýsta
Þorns niðjum) sik biðja.
Þá er gjarðvenjoðr görðist,
Gandvíkr skötum ríkri,
endr til ymsa kindar,
Iðja setrs, frá Þriðja:

3. Gorr varð í för fyrri
farmr meinsvarans arma
sóknar hapts með svipti
sagna galdrs en tögnir.
Þyl ek grunnstrauma Grímnis:
gall- manntelir halla
-opnis ilja gaupnum
Endils á mó spendu.

4. Ok gagns vanir gengu
gunn vargs (himintörgu)
friðar (vers til fljóða
frumseyris kom dreyra):
þá er bölkveitir brjóta
braðgmildr Loka vildi
bræði vændr á brúði
bág sefgrímnis mága.

5. Ok vegþverrir vorru
vann fetrunnar nönnu
hjalts af hjalli oltnar
hlaupár um ver gaupu.
Mjök leið or stað stökkvir
stikleiðar veg breiðan
urðar þrjóts, þar er eitri,
æstr, þjóðár fnæstu.

6. Þar í -mörk firir (markar)
málhvettan byr- settu
(nè hvelvölur hálar)
háf skot-naðra (sváfu);
knátti hreggi höggvin
hlymþèl við möl glymja,
en fellihryn fjalla
Feðju þaut með steðja.

7. Harðvaxnar sèr herðir
hallands of sik falla
(gat-at) mar njótr (hin neytri)
njarð- (ráð firir sèr)-gjarðar:
þverrir lætr (nema þyrri)
þorns barna sèr (mörnar

sneriblóð) til svíra
salþax megin vaxa.
8. Óðu fast (en) friðar
(flaut) eiðsvara Gauta
setrs, víkingar snotrir
(sverð-) [runnar] (-fen) [gunnar!];
Þurði hrönn at (herði-)
hauðrs runn (kykva nauðar)
jarðar skafls af afli
(-áss!) hretvíðri blásin.
9. Unns með ýta sinni
(aflraun var þat) skaunar-
á seil himinsjóla
sjálflopta kom Þjálfi.
Áðu stáli stríðan
straum hrekkmímis ekkjur;
stophnísu fór steypir
stríðlundr með völ Gríðar.
10. Nè djúp akorn drápu
dólgs vams fírum glamma
stríð kviðjöndum stöðvar
stall við rastar falli.
Ógndjarfan hlaut arfi
eiðs firðar hug meira:
skalf-a Þórs nè Þjálfa
þróttar steinn við ótta.
11. Ok sif-una síðan
sverðs liðhattar gerðu
hlífar borðs við hörða
harðgleipnis dyn barði:
áðr hylríðar bæði
hrjóðendr fjöru þjóðar
við skyldbreta skytju
(skál-eik!) Hèðins reikar.
12. Dreif með dróttar kneyfi
(dólg Svíþjóðar kólga
sótti ferð á flotta)
flesdrótt Ívu nesja.
þá er funristis fasta
(flóðrifs-Danir) stóðu
(knáttu jólnis) ættir
(útves firir lúta).
13. Þers íþróttar hersa
þornranns hugum bornir,
hlymr varð hellis kumra,
hrinbálkar framgingu:
listi ferðr í fasta
(friðsein var þar) hreini
gnípu hlöðr á greypan
granhött res kvanar.
14. Ok hám loga himni
hall fylvíngum vallar
tróðust þer und troði
túngls brá sólar þúngu:
húfstjóri braut hvoru
hreggs vafreyða tveggja
hlátr-elliða hellis
hundfornan kjöl sprundi.
15. Fátíða nam fröði
fjarðeplis kon jarðar,
mörar leggs nè mugðu
menn ölteiti kenna.
(Almtögar) laust (Ægir!)
ángrþjóf sega töngu
Óðnis afli soðnum
átruðr í gin Suðra.
16. Svo at (hraðskyndir) handa
hrapmunnum svalg (gunnar!)
lypti-sylg á lopti
lángvinr síu Þrúngvar:
þá er örþrasis eisu
ás hrímnis fló drósar
til þrámóðnis Þrúðar
þjóst af Greipar brjósti.
17. Bifðist höll, þá er höfði
heiðreks of kom breiðu
und fletbjarnar fornan
fótlegg þurnis veggjar.
Ítr gulli laust Ullar
jótrs vegtögar þrjóti
meina niðr í miðjan
mest bígyrðil nestu.
18. Glaums niðjum fór görva
gramr með dreyrgum hamri;
of sal-vanið Synjar
sigr laut arin-brauti.
Kom at tvíviðar tývi
tollr karms, sá er harmi,
brautar liðs, of beiti
bekk falljötuns rekka.
19. Helblótinn vo hneitir
hógbrotníngi skógar
undir jálfrs af afli
Álfheims bliku kálfa.

Nè liðföstum Lista
látr valrúgar mátu
aldrmínkanda eldar
Ellu steins of bella.

**Hvernig** skal kenna Frigg? Svo, at kalla hana dóttur Fjörgyns, konu Óðins, móður Baldrs, elju Jarðar ok Rindar ok Gunnhlaðar ok Gerðar: sværa Nönnu, drotníng Ása ok Ásynja, Fullu ok valshams ok Fensala.

**Hvernig** skal Freyju kenna? Svo, at kalla dóttur Njarðar, systur Freys, konu Óðs, móður Hnossar: eigandi valfalls ok Sessrúmnis ok fressa, Brísingamens: Vanagoð, Vanadís, it grátfagra goð. Svo má kenna allar Ásynjur, at nefna annarrar nafni, ok kenna við eign eða verk sín eða ættir.

**Hvernig** skal kenna Sif? Svo, at kalla hana konu Þórs, Móður Ullar, it hárfagra goð: elja Járnsöxu, móðir Þrúðar.

**Hvernig** skal kenna Iðunni? Kalla hana konu Braga ok gætandi eplanna, en eplin ellilyf Ásanna; hon er ok ránfengr Þjassa jötuns, svo sem fyrr er sagt, at hann tók hana braut frá Ásum. Eptir þeirri sögu orti Þjóðólfr hinn hvinverski í Haustlaung:

1. Hve skal galla gjöldum,
gunnveggjar, brú leggja
raums, þá er rekka sæmi,
raddsveif, at Þorleifi?
Týframra sè ek tíva
trygglaust of far þriggja
á hreingoru hlýri
hildar ves, ok Þjassa.

2. Seggjondum fló sagna
snótar úlfr at móti
í gemlis-ham gömlum
glamma áfyrir skömmu.
Settist örn, þar er Æsir
(árgefnar!) mat báru
(var-a byrgitýr bjarga
bleyðivöndr) á seyði.

3. Tormiðlaðr var tífom
tálhreinn meðal beina
(hvat kvoðo) hapta snytrir
hjálmfaldinn (því valda).
Margspakr of nam mæla
már valkastar báru
(var-a Hænis vinr honum
hollr) af fornum þolli.

4. Fjallgylðir bað fullan
Fetmeila sèr deila
hlut af helgo skutli
Hrafnásar vin blása.
Víngrögnir lèt vagna.
vígfrekr ofan sígast,
þar er vèlsparir voru
varnendr goða farnir.

5. Fljótt bað foldar drottinn
Farbauta mög voro
þekkiligr með þegnum
þrymseilar hval deila.
En af breiðu bjóði
bragðvíss at þat lagði
ósvífrandi Ása
upp þjórhluti fjóra.

6. Ok slíðrliga síðan
svángr (var þat firir löngu)
át af eikirótu
okbjörn faðir mörna:
áðr djúphugaðr drepi
dólg ballastan vallar

hirðitýr meðal herða
herfángs ofan stöngu.
7. Þá varð fastr við fóstra
farmr Sigynjar arma,
sá er öll regin eygja,
Öndorguðs, í böndum.
Loddi rá við ramman
reimoð Jötunheima,
en holls vinar Hænis
hendr við stángar enda.
8. Fló með fróðgum tífi
fángsæll of veg lángan
sveita nagr, svo at slitna
sundr úlfs-föðr mundi.
Þá varð Þórs of runni
(þúngr var Loptr) of sprúnginn,
málunautr hvats mátti
mildíngs friðar biðja.
9. Sèr bað sagna hræri
sorgeyra mey færa,
þá er ellilyf Ása,
áttrunnr Ilýmis, kunni:
Brunnakrs of kom bekkjar
Brísíngs goða dísi
girði-þjófr í garða
Grjótniðaðar síðan.
10. Urðu-t bjartra borða
byggvendr at þat hryggvir;
þá var Ið- með jötnum
-uðr nýkomin sunnan.
Gorðost allar áttir
Íngifreys (at þíngi
voru heldr) ok hárar
(hamljót regin) gamlar.
11. Uns hrunsæva hræva
hund, ölgefnar! fundu,
leiðiþir ok læva
lund, ölgefnar! bundu.
Þú skalt, vèltr, nema vælum
(Veiðr mælti svo) leiðar
munstærandi mæra
mey aptr, Loki, deyja.
12. Heyrðak svo, þat síðan
(sveik opt Ása leikum)
hugreynandi Hænis
hauks flug bjálba aukinn:
ok lómhugaðr lagði
leikblaðs reginn fjaðrar
ern at öglis barni
arnsúg faðir morna.
13. Hófu skjótt, en skófu
sköpt, ginnregin brinna;
en son biðils sviðnar
(sveipr varð í för) Greipar.
Þats of far á fjalla
Finns ilja brú minni;
baugs þá ec bifum fáða
bifkleif at Þorleifi.

**Hvernig** skal kenna himin? Svo, at kalla hann Ýmis-haus, ok þar af jötuns haus, ok erfiði eða byrði dverganna, eða hjálm, Vestra ok Austra, Suðra, Norðra: land sólar ok túngls ok himintúngla, vagna ok veðra: hjálmr eða hús lopts ok jarðar ok sólar. Svo kvað Arnórr jarlaskáld:

Úngr skjöldúngr stígr aldri
jafnmildr á við Skjaldar;
þess var grams und gömlum
gnóg rausn Ýmis hausi.

Ok enn, sem hann kvað:

Björt verðr sól at svartri,
sökkr fold í mar dökkvan,
brestr erfiði Austra,
allr glymr sjár á fjöllum[63].

Ok enn, sem kvað Böðvar halti:

Alls engi verðr Ínga
undir sólar grundu
böðvar-hvatr nè betri
bræðr landreki æðri.

Ok sem kvað Þjóðólfr enn hvinverski:

---

63) Orkn. saga, k. 22, 5.

Ók at ísarnleiki
Jarðar sunr, ok dundi
(Móðr svall Meila blóða)
mána vegr und hanum[64].

Svo, sem kvað Ormr Barreyjar-skáld:

Hvegi er Draupnis drógar
(dís! ramman spyr ek vísa)
[sá ræðr] valdr [firir veldi
vagnbrautar] mèr fagnar.

Svo, sem kvað Bragi skáld:

Hinn er varp á víða
vinda Öndurdísar
yfir manna sjöt margra
munnlaug föður augum.

Ok sem Markús kvað:

Fjarri hefir, at fæðist dýrri
flotna vörðr á elkers botni
(háfa leyfir hverr maðr æfi
hríngvarpaðar) gjálfri kríngðum.

Svo, sem kvað Steinn Herdísarson:

Hás kveð ek helgan ræsi
heimtjalls at brag þeima
(mærð tèst fram) en fyrða
fyrr, því at hann er dýrri.

Ok sem kvað Arnórr jarlaskáld:

Hjálp þú, dýrr konúngr, dýrum,
dags-grundar, Hermundi.

Ok enn, sem kvað Arnórr:

Saðr stillir, hjálp þú snjöllum,
sóltjalda, Rögnvaldi.

Ok sem kvað Hallvarðr:

Knútr verr jörð, sem ítran
alls drottinn sal fjalla.

Sem Arnórr kvað:

Mikáll vegr þat, er misgert þikkir,
mannvits fróðr, ok allt it góða;
tiggi skiptir síðan seggjum
sólar hjálms á dæmistóli.

**Hvernig** skal *jörð* kenna? Kalla Ýmis hold ok móður Þórs, dóttur Onars, brúði Óðins, elju Friggjar ok Rindar ok Gunnhlaðar, sværu Sifjar, gólf ok botn veðra-hallar, sjá dýranna: dóttir Náttar, systir Auðs ok Dags. Svo sem kvað Eyvindr skáldaspillir:

Nú er álfröðull elfar
jötna dólgs of fólginn
(ráð eru rammrar þjóðar
rík) í móður líki[65].

Sem kvað Hallfreyðr vandræðaskáld:

Ráð lukust, at sá síðan
snjallráðr konúngs spjalli
átti einga dóttur
Onars viði gróna.

Ok enn sagði hann:

Breiðleita gat brúði
Báleygs at sèr teygja
stefnir stöðvar hrafna
stála-ríkis málum.

Svo, sem fyrr er ritat:

Fjarri hefir, at fæðist dýrri . . .

Svo, sem kvað Þjóðólfr:

Utan bindr við enda
elgvers glöðuðr hersa
hreins við húfi rónum
hafs botni far gotna.

---

64) Haustlaung, 1, bls. 59. 65) Hkr, Har. gráf. 1, 5.

Sem Hallfreyðr kvað:

Því hygg fleygjanda frægjan
(ferr jörð und menþverri
ítran) eina láta
Auðs systur mjök trauðan.

Svo kvað Þjóðólfr:

Dólgljóss, hefir dasi
darrlatr staðit fjarri,
endr þá er elju Rindar
úmynda tók skyndir[66].

**Hvernig** skal *sæ* kenna? Svo, at kalla hann Ýmis blóð, heimsækir guðanna, ver Ránar, faðir Ægis dætra, þeirra er svo heita: Himinglæfa, Dúfa, Blóðughadda, Hefríng, Uðr, Hrönn, Bylgja, Bára, Kólga; land Ránar ok Ægis dætra ok skipa ok sæskips heita, kjalar, stála, súða, sygju, fiska, ísa, sækonúnga leið ok braut, eigi síðr hríngr eyjanna, hús sanda ok þángs ok skerja, dorgar land ok sæfogla, byrjar. Svo, sem kvað Ormr Barreyjar-skáld.

Utan gnýr á eyri
Ýmis blóð, fara góðra.

Svo kvað Refr:

Vogþrýsta berr vestan
(vætti ek lands firir brandi)
(hvalmuni skefr) húna
hógdýr of lög bógu.

Svo, sem kvað Sveinn:

Þá er elreifar ófu
Ægis dætr ok teygðu
falls við frost of alnar
fjallgarðs rokur harðar.

Ok sem kvað Refr:

Færir björn, þar er bára
brestr, undinna festa
opt í Ægis kjopta
úrsvöl Gýmis völva.

Hèr er sagt, at alt er eitt Ægir ok Hlèr ok Gýmir. Ok enn kvað hann:

En sjágnípu Sleipnir
slítr úrdrifinn hvítrar
Ránar rauðum steini
runnit brjóst or munni.

Sem kvað Einarr Skúlason:

Harðr hefir ört frá jörðu
jelvindr (svana strindar
blakk lætr í sog sökkva
sægrund) skipi hrundit.

Ok enn, sem hann kvað:

Margr ríss (en drífr dorgar
dynströnd í svig löndum)
(spend verða stög stundum)
stirðr keipr (fíra greipum).

Ok enn kvað hann:

Grans bera goldna spónu
(göfug ferð er sú jöfri)
(skýtr hólmfjötur heita
hrafni) snekkju stafnar.

Enn, sem hann kvað:

Haustköld skotat heldum
hólmrönd varar öndri.

Ok enn svo:

Sundr spríngr svalra landa
sverrigjörð firir börðum.

---

66) Fagrsk. bls. 109 (Fms. 6, 140, 1 .

Sem Snæbjörn kvað:

Hvatt kveða hræra grotta
hergrimmastan skerja
út firir jarðar skauti
eylúðrs níu brúðir;
Þær er (lúngs firir laungu)
-lið meldr- (skipa hliðar
baugskerðir rístr barði
ból) Amlóða mólu.

Hèr er kallat havit Amlóna kvern. Enn, sem kvað Einarr Skúlason:

Viknar ramr í rakna
reksaumr fluga-straumi
(dúks hrindr böl, þar bleikir)
bifgrundar (stag, rifjum).

**Hvernig** skal kenna *sól?* Svo, at kalla hana dóttur Mundilfæra, systur Mána: kona Glens, eldr himins ok lopts. Svo, sem kvað Skúli Þorsteinsson:

Glens beðja veðr gyðju
guð blíð í ve (síðan
ljós kemr gott) með geislum
(gránserks ofan Mána).

Svo kvað Einarr Skúlason:

Hvargi er beita-borgar-
-bálgrimmostum skála
hár of hnoss-vin vorum
heims vafrlogi sveimar.

**Hvernig** skal kenna *Vind?* Svo, at kalla hann son Fornjóts, bróður ægis ok elds, brjót viðar: skaði ok bani eða hundr eða vargr viðar eða segls eða seglreiða. Svo sagði Sveinn í Norðrsetudrápu:

Tóku fyrst til fjúka
Fornjóts synir ljótir.

**Hvernig** skal kenna *eld?* Svo, at kalla hann bróður vinds ok ægis, bana ok grand viðar ok húsa: Hálfs bani, sól húsanna.

**Hvernig** skal kenna *vetr?* Svo, at kalla hann son Vindsvals, ok bana orma, hrímdal*). Svo kvað Ormr Steindórsson:

Ræð ek þenna mög manni
Vindsvals unað blindum.

Svo kvað Ásgrímr:

Sigrgæðir var síðan
seimörr í Þrándheimi
(þjóð veit þínar iðir)
þann orms-trega (sannar).

**Hvernig** skal kenna *sumar?* Svo, at kalla son Svasaðar, ok líkn orma, ok gróðr. Svo, sem kvað Egill Skallagrímsson:

Upp skulum orum sverðum,
úlfs tannlituðr, glitra
(eigum dáð at drýgja)
í dal miskun fiska[67].

**Hvernig** skal kenna *mann?* Hann skal kenna við verk sín, þat er hann veitir eða þiggr eða gerir; hann má ok kenna til eignar sinnar, þeirrar er hann á, ok svo ef hann gaf, svo

*) hríðmál, Ob, Ub. 67) Egils s. Skallagr. k. 47.

ok við ættir þær, er hann kom af, svo þær, er frá honum komu. Hvernig skal hann kenna við þessa luti? Svo, at kalla hann vinnanda eða fremjanda; eða til fara sinna eða athafna, víga eða sæfara eða veiða, eða vopna eða skipa. Ok firir því at hann er reynandi vopnanna ok viðr víganna, allt eitt ok vinnandi: viðr heitir ok trè, reynir heitir trè: af þessum heitum hafa skáldin kallat menn ask eða hlyn, lund eða öðrum viðarheitum kallkendum, ok kent til víga eða skipa eða fjár. Mann er ok rètt at kenna til allra Ása-heita; kent er ok við jötna-heiti, ok er það flest háð eða lastmæli. Vel þikkir kent til álfa.

Konu skal kenna til alls kvennbúnaðar, gulls ok gimsteina, öls eða víns eða annars drykkjar, þess er hon selr eða gefr, svo ok til ölgagna, ok til allra þeirra luta, er henni samir at vinna eða veita. Rètt er at kenna hana svo, at kalla hana selju eða log þess, er hon miðlar; en selja eða log, þat eru trè. Firir því er kona köllut til kenníngar öllum kvennkendum viðarheitum. En firir því er kona kend til gimsteina eða glersteina, at þat var í forneskju kvennabúnaðr, er kallat var steinasörfi, er þær höfðu á hálsi sèr; nú er svo fært til kenníngar, at konan er nú kend við stein eða við öll steins-heiti. Kona er ok kend við allar Ásynjur eða Valkyrjur eða Nornir eða Dísir. Konu er ok rètt at kenna við alla athöfn sína eða við eign sína eða ætt.

**Hvernig** skal kenna *gull?* Svo, at kalla þat eld Ægis ok barr Glasis: haddr Sifjar, höfuðband Fullu, grátr Freyju, munntal ok rödd ok orð jötna; dropa Draupnis, ok regn eða skúr Draupnis eða augna Freyju, otrgjöld, slög-gjald Ásanna, fræ Fýrisvalla, haugþak Hölga: eldr allra vatna ok handar, grjót ok sker eða blik handar.

**Fyrir hví** er gull kallat *eldr Ægis?* Þessi saga er til þess, er fyrr er getit, at Ægir sótti heimboð til Ásgarðs, en er hann var búinn til heimferðar, þá bauð hann til sín Óðni ok öllum Ásum á þriggja mánaða fresti. Til þeirrar ferðar varð fyrst Óðinn ok Njörðr, Freyr, Týr, Bragi, Viðarr, Loki; svo ok Ásynjur: Frigg, Freyja, Gefjun, Skaði, Iðunn, Sif. Þórr var eigi þar, hann var farinn í austrveg at drepa tröll. En er goðin höfðu sezt í sæti, þá lèt Ægir bera inn á hallar gólf lýsigull, þat er birti ok lýsti alla höllina, sem eldr, sem í Valhöllu voru sverðin firir eld. Þá senti Loki þar við öll

goð, ok drap þræl Ægis, þann er Fimafengr hèt: annar þræll hans er nefndr Reseldr. Rán er nefnd kona Ægis, en níu dætr þeirra, svo sem fyrr er ritat. At þeirri veizlu vannst allt sjálft, bæði vist ok öl, ok öll reiða, er til veizlunnar þurfti. Þá urðu Æsir þess varir, at Rán átti net, þat er hon veiddi í menn alla, þá er á sæ komu. Nú er þessi saga til þess, hvaðan af þat er, at gull er kallat eldr eða ljós eða birti Ægis, Ránar eða Ægis dætra; ok af þeim kenníngum er nú svo sett, at gull er kallat eldr sævar ok allra hans heita, svo sem Ægir eða Rán eigu heiti við sæinn, ok þaðan af er nú gull kallat eldr vatna eða ár ok allra árheita. En þessi heiti hafa svo farit sem önnur, ok kenníngar, at hin ýngri skáld hafa ort eptir dæmum hinna gömlu skálda, svo sem stóð í þeirra kvæðum, en sett síðan út í hálfur, þær er þeim þótti líkar við þat, er fyrr var ort, svo sem vatnit er sænum, en áin vatninu, en lækr ánni; því er þat kallat nýgervíngar allt, er út er sett heiti lengra, en fyrr finnst, ok þikkir þat vel allt, er með líkindum ferr ok eðli. Svo kvað Bragi skáld:

Eld of þák af jöfri
ölna bekks við drykkju:
þat gaf Fjölnis fjalla
með fylli mèr stillir.

**Hví er** gull kallat *barr* eða *lauf Glasis?* Í Ásgarði firir durum Valhallar stendr lundr, sá er Glasir er kallaðr, en lauf hans alt er gull rautt. Svo sem hèr er kveðit:

At Glasir stendr
með gullnu laufi
firir Sigtýs sölum.

Sá er viðr fegrstr með goðum ok mönnum.

**Hví er** gull kallat *haddr Sifjar?* Loki Laufeyjarson hafði þat gert til lævísi, at klippa hár allt af Sif. En er Þórr varð þess varr, tók hann Loka, ok mundi lemja hvert bein í honum, áðr hann svarði þess, at hann skal fá af Svartálfum, at þeir skulu gera af gulli Sifju hadd, þann er svo skal vaxa, sem annat hár. Eptir þat fór Loki til þeirra dverga, er heita Ívaldasynir, ok gerðu þeir haddinn ok Skíðblaðni ok geirinn, er Óðinn átti, er Gúngnir heitir. Þá veðjaði Loki höfði sínu við þann dverg, er Brokkr heitir, hvort bróðir hans, Sindri, mundi gera jafngóða gripi 3, sem þessir voru. En er þeir komu til smiðju, þá lagði Sindri svínskinn í aflinn, ok bað blása Brokk, ok lètta eigi fyrr, en hann tæki þat or aflinum, er hann lagði í. En þegar er hann gekk or smiðjunni, en hinn blès, þá settist fluga ein á hönd honum, ok kroppaði,

en hann blès, sem áðr, þar til er smiðrinn tók or aflinum, ok var þat göltr, ok var burstin or gulli. Því næst lagði hann í aflinn gull, ok bað hann blása ok hætta eigi fyrr blæstrinum, en hann kvæmi aptr: gekk á braut; en þá kom flugan, ok settist á háls honum, ok kroppaði nú hálfu fastara; en hann blès, þar til er smiðrinn tók or aflinum gullhríng þann, er Draupnir heitir. Þá lagði hann járn í aflinn, ok bað hann blása, ok sagði, at ónýtt mundi verða, ef blástrinn fèlli; þá settist flugan milli augna honum, ok kroppaði hvarmana, en er blóðit fèll í augun, svo at hann sá ekki, þá greip hann til hendinni sem skjótast, meðan belgrinn lagðist niðr, ok sveipði af sèr flugunni, ok þá kom þar smiðrinn ok sagði, at nú lagði nær, at allt mundi ónýtast, er í aflinum var. Þá tók hann or aflinum hamar; fèkk hann þá alla gripina í hendr bróður sínum, Brokk, ok bað hann fara með til Ásgarðs ok leysa veðjunna. En er þeir Loki báru fram gripina, þá settust Æsirnir á dómstóla, ok skyldi þat atkvæði standast, sem segði Óðinn, Þórr, Freyr. Þá gaf Loki Óðni geirinn Gúngni, en Þór haddinn, er Sif skyldi hafa, en Frey Skíðblaðni, ok sagði skyn á öllum gripum, at geirrinn nam aldri staðar í lagi, en haddrinn var holdgróinn, þegar er hann kom á höfut Sif, en Skíðblaðnir hafði byr, þegar er segl kom á lopt, hvert er fara skyldi, en mátti vefja saman, sem dúk, ok hafa í púng sèr, ef þat vildi. Þá bar fram Brokkr sína gripi; hann gaf Óðni hrínginn, ok sagði, at ena níundu hverja nótt mundi drjúpa af honum átta hríngar jafnhöfgir sem hann; en Frey gaf hann göltinn, ok sagði, at hann mátti renna lopt ok lög, nótt ok dag meira en hverr hestr, ok aldri varð svo myrkt af nótt eða í myrkheimum, at eigi veri ærit ljóst, þar er hann fór, svo lýsti af burstinni. Þá gaf hann Þór hamarinn, ok sagði, at hann mundi mega ljósta svo stórt, sem hann vildi, hvat sem firir veri, ok eigi mundi hamarrinn bila, ok ef hann vyrpi honum til, þá mundi hann aldri missa, ok aldri fljúgja svo lángt, at eigi mundi hann sækja heim hönd; ok ef hann vildi, þá var hann svo lítill, at hafa mátti í serk sèr: en þat var lýti á, at forskeptit var heldr skamt. Þat var dómr þeirra, at hamarinn var beztr af öllum gripum, ok mest vörn í firir Hrímþursum, ok dæmðu þeir, at dvergrinn ætti veðfèit. Þá bauð Loki at leysa höfut sitt. Dvergrinn svarar: sagði, at þess var engi von. Taktu mik þá, kvað Loki, en er hann

vildi taka hann, þá var hann vitz fjarri. Loki átti skúa, er hann rann á lopt ok lög. Þá bað dvergrinn Þór, at hann skyldi taka hann, en hann gerði svo. Þá vildi dvergrinn höggva af Loka höfut, en Loki sagði, at hann átti höfut, en eigi hálsinn. Þá tók dvergrinn þveng ok kníf, ok vill stínga rauf á vörrum Loka, ok vill rifa saman munninn; en knífrinn beit ekki. Þá mælti hann, at betri veri þar alr bróður hans, ok jafnskjótt sem hann nefndi hann, þá var þar alrinn, ok beit hann varrarnar; rifjaði hann saman varrarnar, ok reif or æsunum. Sá þvengr, er muðrinn Loka var samanrifjaðr, heitir Vartari.

**Hèr heyrir,** at gull er kent til *höfutbands Fullu,* er orti Eyvindr skáldaspillir:

Fullu skein á fjöllum
fallsól brávallar
Ullar kjöls of allan
aldr Hákunar skaldum[68].

**Gull er** kallat *grátr Freyju,* sem fyrr er sagt. Svo kvað Skúli Þorsteinsson:

Margr of hlaut of morgin
morðelds, þar er ver feldum,
Freyju tár at fleiri
farbjóðr, at þar varum.

Svo, sem kvað Einarr Skúlason:

Þar er Mardallar milli
(meginhurðar) liggr skurða
(Gauts berum galla, þrútinn)
grátr (dalreyðar látra).

Ok hèr hefir Einarr enn kent svo Freyju, at kalla hana móður Hnossar eða konu Óðs. Svo segir hèr:

Eigi þverr firir augna
Óðs beðvinu Róða-
-ræfs- (eignist svo) regni
-ramsvell (konúngr elli!).

Ok enn svo:

Hróðrbarni kná ek Hornar
(hlutum dýran grip) stýra;
-brandr þrymr gjálfr- á grandi
gullviviðu hliðar.
Sáðs (berr sinnar móður)
svans unni mèr gunnar
fóstrgæðandi Fróða
(Freys nipt brádriptir).

Hèr getr ok þess, at Freyju má svo kenna, at kalla hana systur Freys. Ok enn svo:

Nýt buðumk (Njarðar dóttur)
[nálægt var þat skála]
(vel of hrósa ek því vísa)
varn [sjávar] (öl-barni).

Hèr er hon köllut dóttir Njarðar. Ok enn svo:

Gaf sá, er erríng ofrar,
ógnprúðr Vana-brúðar
þíng- Vafaðar-þröngvir
þróttöflga mèr dóttur.
Ríkr leiddi mey mækis-
-mótvaldr á beð skjaldi
Gefnar, glóðum drifna
Gautreks svana brautar.

68) Hkr, Har gráf. k. 1, 5.

Hèr er hon köllut Gefn ok Vana-brúðr. Til allra heita Freyju er rètt at kenna grátinn, ok kalla svo gullit, ok á marga lund er þessum kenníngum breytt, kallat hagl eða regn eða jel eða dropar eða skúrir eða forsar augna hennar eða kinna eða hlýra eða brá eða hvarma.

**Hèr má** þat heyra, at kallat er *orð* eða *rödd jötna* gullit, svo sem fyrr er sagt. Svo kvað Bragi skáld:

Þann átta ek vin verstan   Ála undir-kúlu
vast-rödd, en mèr baztan,   óniðraðan þriðja.

Hann kallaði stein vasta undirkúlu, en jötun Ála steinsins, en gull rödd jötuns.

**Sú er** sök til þess, at gull er kallat *otrgjöld*. Svo er sagt, at þrír Æsir fóru at kanna heim allan, Óðinn ok Loki ok Hænir; þeir komu at á nokkvorri, ok gengu með ánni til fors nokkvors, ok við forsinn var otr einn, ok hafði tekit lax or forsinum, ok át blundandi. Þá tók Loki upp stein, ok kastaði at otrinum, ok laust í höfut honum. Þá hrósaði Loki veiði sinni, at hann hefði veitt í einu höggvi otr ok lax; tóku þeir þá laxinn ok otrinn, ok báru með sèr, komu þá at bæ nokkvorum, ok gengu inn; en sá búandi er nefndr Hreiðmarr, er þar bjó, hann var mikill firir sèr ok mjök fjölkunnigr; beiddust Æsir at hafa þar náttstað, ok kvoðust hafa með sèr vist ærna, ok sýndu búandanum veiði sína. En er Hreiðmarr sá otrinn, þá kallaði hann sonu sína, Fofni ok Reginn, ok segir, at Otr, bróðir þeirra, var drepinn, ok svo, hverir þat höfðu gert. Nú gánga þeir feðgar at Ásunum, ok taka þá höndum ok binda, ok segja þá um otrinn, at hann var sonr Hreiðmars. Æsir bjóða firir sik fjörlaustn, svo mikit fè, sem Hreiðmarr sjálfr vill á kveða, ok varð þat at sætt með þeim, ok bundit svardögum. Þá var otrinn fleginn, tók Hreiðmarr otrbelginn, ok mælti við þá, at þeir skulu fylla belginn af rauðu gulli, ok svo hylja hann allan, ok svo skal þat vera at sætt þeirra. Þá sendi Óðinn Loka í Svartálfaheim, ok kom hann til dvergs þess, er heitir Andþvari, hann var fiskr í vatni, ok tók Loki hann höndum, ok lagði á hann fjörlausn, allt gull, þat er hann átti í steini sínum; ok er þeir koma í steininn, þá bar dvergrinn fram allt gull, þat er hann átti, ok var þat allmikit fè. Þá svipti dvergrinn undir hönd sèr einum litlum gullbaug; þat sá Loki, ok bað hann fram láta bauginn. Dvergrinn bað hann taka eigi af sèr bauginn, ok lèzt mega

æxla sèr fè af bauginum, ef hann hèldi. Loki kvað hann eigi skyldu hafa einn penníng eptir, ok tók bauginn af honum, ok gekk út; en dvergrinn mælti, at sá baugr skyldi vera hverjum höfuðsbani, er átti. Loki segir, at honum þótti þat vel, ok sagði, at þat skyldi haldast mega firir því, sá formáli, at hann skyldi flytja þeim til eyrna, er þá tæki við Fór hann í braut til Hreiðmars, ok sýndi Óðni gullit, en er hann sá bauginn, þá sýndist honum fagr, ok tók hann af fènu, ok greiddi Hreiðmari gullit. Þá fyldi hann otrbelginn, sem mest mátti hann, ok setti upp, er fullr var; gekk þá Óðinn til, ok skyldi hylja belginn með gullinu, ok þá mælti hann við Hreiðmar, at hann skal sjá, hvort belgrinn er þá allr huldr; en Hreiðmarr leit til, ok hugði at vandliga, ok sá eitt granahár, ok bað hann hylja, en at öðrum kosti væri lokit sætt þeirra. Þá dró Óðinn fram bauginn, ok huldi granahárit, ok sagði, at þá voru þeir lausir frá otrgjöldunum. En er Óðinn hafði tekit geir sinn, ok Loki skúa sína, ok þurptu þá ekki at óttast, þá mælti Loki, at þat skyldi haldast, er Andvari hafði mælt, at sá baugr ok þat gull skyldi verða þess bani, er átti, ok hèlzt þat síðan. Nú er þat sagt, af hverju gull er otrgjöld kallat eða nauðgjald Ásanna, eða rógmálmr.

**Hvat er** fleira at segja frá gullinu? Hreiðmarr tók þá gullit at sonargjöldum, en Fofnir ok Reginn beiddust af nokkvors í bróðurgjöld. Heiðmarr unni þeim enskis pennings af gullinu. Þat varð úráð þeirra bræðra, at þeir drápu föður sinn til gullsins. Þá beiddist Reginn, at Fofnir skyldi skipta gullinu í helmínga með þeim. Fofnir svarar svo, at lítil von var, at hann mundi miðla gullit við bróður sinn, er hann drap föður sinn til gullsins, ok bað Regin fara braut, en at öðrum kosti mundi hann fara, sem Hreiðmarr. Fofnir hafði þá tekit hjálm, er Hreiðmarr hafði átt, ok setti á höfut sèr, er kallaðr var ægishjálmr, er öll kvikvendi hræðast, er sjá, ok sverð þat, er Hrotti heitir. Reginn hafði þat sverð, er Refill er kallaðr; flýði hann þá braut, en Fofnir fór upp á Gnítaheiði, ok gerði sèr þar ból, ok brást í ormslíki, ok lagðist á gullit.

Reginn fór þá til Hjálpreks konúngs á Þjóði, ok gerðist þar smiðr hans. Þá tók hann þar til fóstrs Sigurð, son Sigmundar, sonar Völsúngs, ok son Hjördísar, dóttur Eylima. Sigurðr var ágætastr allra herkonúnga af ætt ok afli ok hug. Reginn sagði honum til, hvar Fofnir lá á gullinu, ok eggjaði

hann at sækja gullit. Þá gerði Reginn sverð þat, er Gramr heitir, at svo hvast var, at Sigurðr brá niðr í rennanda vatn, ok tók í sundr ullarlagð, er rak firir strauminum at sverðsegginni. Því næst klauf Sigurðr steðja Regins ofan í stokkinn með sverðinu. Eptir þat fóru þeir Sigurðr ok Reginn á Gnítaheiði. Þá gróf Sigurðr gröf á veg Fofnis, ok settist þar í. En er Fofnir skreið til vatns, ok hann kom ifir gröfna, þá lagði Sigurðr sverðinu í gögnum hann, ok var þat hans bani. Kom þá Reginn at, ok sagði, at hann hefði drepit bróður hans, ok bauð honum þat at sætt, at hann skyldi taka hjarta Fofnis, ok steikja við eld; en Reginn lagðist niðr ok drakk blóð Fofnis, ok lagðist at sofa. En er Sigurðr steikði hjartat, ok hann hugði, at fullsteikt mundi, ok tók á fíngrinum, hve hart var: en er frauðit rann or hjartanu á fíngrinn, þá brann hann, ok drap fíngrinum í munn sèr; en er hjartablóðit kom á túnguna, þá kunni hann fuglsrödd, ok skildi, hvat igðurnar sögðu, er sátu í viðnum; þá mælti ein:

Þar sitr Sigurðr,
sveita stokkinn,
Fofnis hjarta
við funa steikir;
spakr þætti mèr
spillir bauga,
ef fjörsega
fránan æti.

Þar liggr Reginn (kvað önnur),
ræðr um við sik,
vill tæla mög,
þann er trúir honum:
berr af reiði
raung orð saman,
vill bölva-smiðr
bróður hefna[69].

Þá gekk Sigurðr til Regins ok drap hann, en síðan til hests síns, er Grani heitir, ok reið, til þess er hann kom til bóls Fofnis, tók þá upp gullit, ok batt í klyfjar, ok lagði upp á bak Grana, ok steig upp sjálfr, ok reið þá leið sína. Nú er þat sagt, hver saga er til þess, er gullit er kallat ból eða bygð Fofnis eða málmr Gnítaheiðar eða byrðr Grana.

**Þá reið** Sigurðr, til þess er hann fann á fjallinu hús; þar svaf inni ein kona, ok hafði sú hjálm ok brynju. Hann brá sverðinu, ok reist brynjuna af henni; þá vaknaði hon, ok nefndist Hildr: hon er köllut Brynhildr, ok var valkyrja. Sigurðr reið þaðan, ok kom til þess konúngs, er Gjúki hèt; kona hans er nefnd Grímhildr, börn þeirra voru þau Gunnarr, Högni, Guðrún, Guðný; Goþormr var stjúpsonr Gjúka. Þar dvalðist Sigurðr lánga hríð; þá fèkk hann Guðrúnar Gjúka-

69) Fofnismál, 32. 33.

dóttur, en Gunnarr ok Högni sórust í bræðralag við Sigurð. Því næst fóru þeir Sigurðr ok Gjúkasynir, at biðja Gunnari konu, til Atla Buðlasonar, Brynhildar, systur hans: hon sat á Hindafjalli, ok var um sal hennar vafrlogi, en hon hafði þess heit strengt, at eiga þann einn mann, er þorði at ríða vafrlogann. Þá riðu þeir Sigurðr ok Gjúkúngar (þeir eru ok kallaðir Niflúngar) upp á fjallit, ok skyldi þá Gunnarr ríða vafrlogann; hann átti hest þann, er Goti heitir, en sá hestr þorði eigi at hlaupa í eldinn. Þá skiptu þeir litum, Sigurðr ok Gunnarr, ok svo vopnum, því at Grani vildi undir öngum manni gánga, nema Sigurði. Þá hljóp Sigurðr á Grana, ok reið vafrlogann. Þat kveld gekk hann at brúðlaupi með Brynhildi. En er þau kvomu í sæing, þá dró hann sverðit Gram or slíðrum, ok lagði í milli þeirra. En at morni, þá er hann stóð upp ok klæddi sik, þá gaf hann Brynhildi at línfè gullbauginn, þann er Loki hafði tekit af Andvara, en tók af henni annan baug til minja. Sigurðr hljóp þá á hest sinn, ok reið til fèlaga sinna; skipta þeir Gunnarr þá aptr litum, ok fóru aptr til Gjúka með Brynhildi. Sigurðr átti 2 börn með Guðrúnu: Sigmund ok Svanhildi.

Þat var eitt sinn, at Brynhildr ok Guðrún gengu til vatns, at bleikja hadda sína. Þá er þær komu til árinnar, þá óð Brynhildr út á ona frá landi, ok mælti, at hon vildi eigi bera í höfut sèr þat vatn, er rynni or hári Guðrúnu, því at hon átti búanda hugaðan betr. Þá gekk Guðrún á ána eptir henni, ok sagði, at hon mátti firir því þvo ofarr sinn hadd í onni, at hon átti þann mann, er eigi Gunnarr ok engi annarr í veröldu var jafnfrækn: því at hann vo Fofni ok Regin, ok tók arf eptir báða þá. Þá svarar Brynhildr: meira var þat vert, er Gunnarr reið vaforlogann, en Sigurðr þorði eigi. Þá hló Guðrún, ok mælti: ætlar þú, at Gunnarr riði vaforlogann? Sá ætla ek at gengi í rekkju hjá þèr, er mèr gaf gullbaug þenna; en sá gullbaugr, er þú hefir á hendi, ok þú þátt at línfè, hann er kallaðr Andvaranautr, ok ætlak, at eigi sótti Gunnarr hann á Gnítaheiði. Þá þagnaði Brynhildr ok gekk heim. Eptir þat eggjaði hon Gunnar ok Högna at drepa Sigurð; en firir því at þeir voru eiðsvarar Sigurðar, þá eggjuðu þeir til Goþorm, bróður sinn, at drepa Sigurð; hann lagði Sigurð sverði í gögnum sofanda; en er hann fèkk sárit, þá kastaði hann sverðinu Gram eptir honum, svo at sundr sneið í miðju manninn. Þar

fèll Sigurðr, ok sonr hans þrèvetr, er Sigmundr hèt, er þeir drápu. Eptir þat lagði Brynhildr sik sverði, ok var hon brend með Sigurði. En Gunnarr ok Högni tóku þá Fofnisarf ok Andvaranaut, ok rèðu þá löndum.

Atli konúngr Buðlason, bróðir Brynhildar, fèkk þá Guðrúnar, er Sigurðr hafði átta, ok áttu þau börn. Atli konúngr bauð til sín Gunnari ok Högna, en þeir fóru at heimboðinu. En áðr þeir fóru heiman, þá fálu þeir gullit, Fofnisarf, í Rín, ok hefir þat gull aldri síðan fundizt. En Atli konúngr hafði þar lið firir, ok barðist við Gunnar ok Högna, ok urðu þeir handteknir; lèt Atli konúngr skera hjarta or Högna kykvum, var þat hans bani: Gunnari lèt hann kasta í ormgarð, en honum var fengin leyniliga harpa, ok sló hann með tánum, því at hendr hans voru bundnar, svo at allir ormarnir sofnuðu, nema sú naðra, er rendi at honum, ok hjó svo firir flagbrjóskit, at hon steypði höfðinu inn í holit, ok hángði hon á lifrinni, þar til er hann dó. Gunnarr ok Högni eru kallaðir Niflúngar ok Gjúkúngar; firir því er gull kallat Niflúnga-skattr eða arfr. Litlu síðarr drap Guðrún tvo sonu sína, ok lèt gera með gulli ok silfri borðker af hausum þeirra, ok þá var gert erfi Niflúnga. At þeirri veizlu lèt Guðrún skenkja Atla konúngi með þeim borðkerum mjöð, ok var blandit við blóði sveinanna; en hjörtu þeirra lèt hon steikja, ok fá konúngi at eta; en er þat var gert, þá sagði hon honum sjálfum með mörgum ófögrum orðum. Eigi skorti þar áfenginn mjöð, svo at flest fólk sofnaði, þar sem sat. Á þeirri nótt gekk hon til konúngs, er hann svaf, ok með henni sonr Högna, ok vógu at honum; þat var hans bani. Þá skutu þau eldi á höllina, ok brann þat fólk, er þar var inni. Eptir þat fór hon til sjóvar, ok hljóp á sæinn, ok vildi týna sèr, en hana rak ifir fjörðinn, kom þá á þat land, er átti Jónakr konúngr. En er hann sá hana, tók hann hana til sín, ok fèkk hennar: áttu þau 3 sonu, er svo hètu: Sörli, Hamðir, Erpr; þeir voru allir svartir, sem hrafn, á hárs-lit, sem Gunnarr ok Högni ok aðrir Niflúngar.

Þar fæddist upp Svanhildr, dóttir Sigurðar sveins; hon var allra kvenna fríðust. Þat spurði Jormunrekkr hinn ríki; hann sendi son sinn, Randve, at biðja hennar sèr til handa. En er hann kom til Jónakrs, þá var Svanhildr seld honum í hendr, skyldi hann færa hana Jormunrekk. Þá sagði Bikki,

at þat var betr fallit, at Randver ætti Svanhildi, er hann var úngr ok bæði þau, en Jormunrekkr var gamall. Þetta ráð líkaði þeim vel, enum úngum mönnum. Því næst sagði Bikki þetta konúngi. Þá lèt Jormunrekkr konúngr taka son sinn ok leiða til gálga. Þá tók Randver hauk sinn ok plokkaði af fjaðrarnar, ok bað senda feðr sínum; þá var hann hengdr. En er Jormunrekkr konúngr sá haukinn, þá kom honum í hug, at svo sem haukrinn var úfleygr ok fjaðrlauss, at svo var ríki hans úfært, er hann var gamall ok sonlauss. Þá lèt Jormunrekkr konúngr, er hann reið or skógi frá veiðum með hirð sína, en Svanhildr drotníng sat at haddbliki: þá riðu þeir á hana, ok tróðu hana undir hestafótum til bana. En er þetta spurði Guðrún, þá eggjaði hon sonu sína til hefndar eptir Svanhildi. En er þeir bjoggust til ferðar, þá fèkk hon þeim brynjur, ok hjálma svo sterka, at eigi mundi járn á festa. Hon lagði ráð fyrir þá, at þá er þeir kvæmi til Jormunrekks konúngs, at þeir skyldu gánga of nótt at honum sofanda; skyldi Sörli ok Hamðir höggva af honum hendr ok fætr, en Erpr höfuðit. En er þeir komu á leið, þá spurðu þeir Erp, hvað liðsemð þeim mundi at honum, ef þeir hitti Jormunrekk konúng. Hann svarar, at hann mundi veita þeim þvílíkt, sem hönd fæti. Þeir segja, at þat var alls ekki, at fótr styddist við hönd. Þeir voru svo reiðir móður sinni, er hon hafði leitt þá út með heiptyrðum, at þeir vildu gera þat, er henni þætti verst, ok drápu Erp, því at hon unni honum mest. Litlu síðarr, er Sörli gekk, skriðnaði hann öðrum fæti, studdi sik með hendinni; þá mælti hann: veitti nú höndin fætinum; betr veri nú, at Erpr lifði. En er þeir komu til Jormunrekks konúngs of nótt, þar sem hann svaf, ok hjoggu af honum hendr ok fætr, svo vaknaði hann, ok kallaði á menn sína, bað þá vaka: þá mælti Hamðir: af mundi nú höfuðit, ef Erpr lifði. Þá stóðu upp hirðmennirnir, ok sóttu þá, ok fengu eigi sótt þá með vopnum. Þá kallaði Jormunrekkr, at þá skal berja grjóti; var svo gert. Þar fèllu þeir Sörli ok Hamðir; þá var ok dauð öll ætt ok afkvæmi Gjúka.

Eptir Sigurð svein lifði dóttir, er Áslaug hèt, er fædd var at Heimis í Hlymdölum, ok eru þaðan ættir komnar stórar. Svo er sagt, at Sigmundr Völsúngsson var svo máttugr, at hann drakk eitr, ok sakaði ekki; en Sinfjötli, sonr hans, ok

Sigurðr voru svo harðir á húðna, at þá sakaði ekki eitr, at utan kvæmi á þá bera. Því hefir Bragi skáld svo kveðit:

Þá er forns Litar flotna
á fángboða öngli
hrökkvi-áll of hrokkinn
hèkk Völsúnga drekku.

Eptir þessum sögum hafa flest skáld ort, ok tekit ýmsa þáttu. Bragi hinn gamli orti um fall Sörla ok Hamðis í drápu þeirri, er hann orti um Ragnar Loðbrók.

Knátti eðr við illan
Jormunrekkr at vakna
með dreyrfár dróttir
draum í sverða flaumi;
rósta varð í ranni
Randves höfuðniðja,
þá er hrafnbláir hefndu
harma Erps of barmar.

Flaut of sett við sveita
sóknar álfs (á gólfi)
hræfa dögg (of höggnar
hendr sem fætr of kendu);
fèll í blóði brunninn
brunn-ölskakki (runna
þat er á Leifa landa
laufi fátt) at höfði.

Þar svo at gerðu gyrðan
gólf-hölkvi, sá fylkir
segls naglfara-siglur
saums annvanar standa.
Urðu snemst ok Sörli
samráða þeir Hamðir
hörðum herðimýlum
Hergauts-vinu barðir.

Mjök lèt stála stökkvir
styðja Gjúka niðja,
flaums þá er fjörvi námu
fólg hildar mun; vildu
ok, bláserkjan, birkis
böllfagr götu allir
enni-högg ok eggjar
Jónakrs sonum launa.

Þat sèg ek fall á fögrum
flotna randar botni
(Ræs gáfumk reiðar mána
Ragnarr) ok fjöld sagna.

**Hví er** gull kallat *mjöl Fróða?* Til þess er saga sjá, at Skjöldr hèt sonr Óðins, er Skjöldúngar eru frá komnir; hann hafði atsetu ok rèð löndum, þar sem nú er köllut Danmörk, en þá var kallat Gotland. Skjöldr átti þann son, er Friðleifr hèt, er löndum rèð eptir hann. Sonr Frilleifs hèt Fróði; hann tók konúngdóm eptir föður sinn, í þann tíð er Ágústus keisari lagði frið of heim allan; þá var Kristr borinn. En firir því at Fróði var allra konúnga ríkastr á norðrlöndum, þá var honum kendr friðrinn um alla danska túngu, ok kalla Norðmenn þat Fróðafrið. Engi maðr grandaði öðrum, þótt hann hitti firir sèr föðurbana eða bróðurbana lausan eða bundinn. Þá var ok engi þjófr eða ránsmaðr, svo at gullhríngr einn lá á Jalángrs-heiði lengi. Fróði Konúngr sótti heimboð í Svíþjóð til þess konúngs, er Fjölnir er nefndr; þá keypti hann ambáttir 2, er hètu Fenja ok Menja; þær voru miklar ok sterkar. Í þann tíma fannst í Danmörk kvernsteinar 2, svo miklir, at engi var svo sterkr, at dregit gæti; en sú náttúra fylgði kvernunum, at þat mólst á kverninni, sem sá mælti firir,

er mól. Sú kvern hèt Grotti. Hengikjöptr er sá nefndr, er Fróða konúngi gaf kvernina. Fróði konúngr lèt leiða ambáttirnar til kvernarinnar, ok bað þær mala gull ok frið ok sælu Fróða: þá gaf hann þeim eigi lengri hvíld eða svefn, en gaukrinn þagði, eða hljóð mátti kveða. Þá er sagt, at þær kvæði ljóð þau, er kallat er *Grottasaungr;* ok áðr lètti kvæðinu, mólu þær her at Fróða, svo at á þeirri nótt kom þar sá sækonúngr, er Mýsíngr hèt, ok drap Fróða, tók þar herfáng mikit; þá lagðist Fróðafriðr. Mýsíngr hafði með sèr Grotta, ok svo Fenju ok Menju, ok bað þær mala salt; ok at miðri nótt spurðu þær, ef eigi leiddist Mýsíngi salt. Hann bað þær mala lengr. Þær mólu litla hríð, áðr niðr sukku skipin, ok var þar eptir svelgr í hafinu, er særinn fellr í kvernaraugat. Þá varð sær saltr.

1. Nú er um komnar
til konúngs húsa
framvísar tvær
Fenja ok Menja.
Þær ro at Fróða
Friðleifs sonar
máttkar meyjar
at mani hafðar.

2. Þær at lúðri
leiddar voru,
ok grjóts grjá
gángs of beiddu.
Hèt hann hvorigri
hvíld nè yndi,
áðr hann heyrði
hljóm ambátta.

3. Þær þyt þulu
þögn-horfinnar
leggjum lúðra,
lèttum steinum.
Bað hann enn meyjar,
at þær mala skyldu.

4. Súngu, ok slúngu
snúðga steini,
svo at Fróða man
flest sofnaði.
Þá kvað þat Menja,
var til melds komin:

5. „Auð mölum Fróða!
mölum alsælan
fjöld fjár
á fegins-lúðri!
Siti hann á auði!
sofi hann á dúni!
vaki hann at vilja!
Þá er vel malit“.

6. „Hèr skyli engi
öðrum granda,
til böls búa,
nè til bana orka,
nè höggva því
hvössu sverði,
þó at bana bróður
bundinn finni“.

7. „En hann kvað ekki
orð it fyrra:
sofit eigi þit,
en of sal gaukar
eða lengr en svo
ljóð eitt kveðak“.

8. „Var-attu, Fróði,
fullspakr of þik,
málvinr manna,
er þú man keyptir:
kauss þú at afli
ok at álitum,
en at ætterni
ekki spurðir“.

9. Harðr var Hrúngnir
ok hans faðir;

þó var Þjassi
þeim öflgari,
Iði ok Örnir,
okrir iðjar,
bræðr bergrisa,
þeim erum bornar".

10. „Kömi-a sá Grotti
or grjá fjalli,
nè sá hinn harði
hallr or jörðu,
nè möli svo
mær bergrisa
ef vissi utt
vætr til hennar".

11. „Vær vetr níu
vorum leikur
öflgar alnar
firir jörð neðan:
stóðu meyjar
at meginverkum,
færðum sjálfar
setberg or stað".

12. „Veltum grjóti
of garð risa,
svo at fold firir
fór skjálfandi:
svo slöngðum vit
snúðga steini,
höfga halli,
at halir tóku".

13. „En vit síðan
á Svíðjóðu
framvísar tvær
í fólk stigum:
beiddum björnu,
en brutum skjöldu,
gengum í gegnum
gráserkjat lit;
steyptum stilli,
studdum annan:
veittum góðum
Goðormi lið,
var-a kyrrseta,
áðr Knúi fèlli".

14. „Fram hèldum því
þau misseri,
at við að köppum
kendar voru:
þar skorðu vit
skörpum geirum
blóð or benjum,
ok brand ruðum".

15. „Nú erum komnar
til konúngs húsa
miskunnlausar,
ok at mani hafðar:
aurr etr iljar,
en ofan kuldi,
drögum dólgs-sjötul;
daprt er at Fróða!"

16. „Hendr skulu hvílast,
hallr standa mun;
malit hefi ek firir mik,
mitt of lètti;
nú mun-a höndum
hvíld vel gefa,
áðr fullmalit
Fróða þykki".

17. „Hendr skulu hölda
harðar trjónor,
vopn valdreyrug,
vaki þú, Fróði!
Vaki þú, Fróði!
ef þú hlýða vill
söngum okkrum
ok sögum fornum".

18. „Eld sè ek brenna
firir austan borg,
vígspjöll vaka,
þat mun viti kallaðr:
mun herr koma
hinig af bragði,
ok brenna bæ
firir buðlúngi".

19. „Mun-at þú halda
Hleiðrar stóli,
rauðum hríngum,
nè regingrjóti.
Tökum á möndli,
mær, skarpara!
Erum-a, valmar,
í valdreyra".

20. „Mól míns föður
mær ramliga,

því at hon feigð fíra
fjölmargra sá:
stukku stórar
steðr frá lúðri
járni varðar.
Mölum enn framarr!"
21. „Mölum enn framarr!
Mon Yrsu sonr,
niðr Hálfdanar,
hefna Fróða;
sá mun hennar
heitinn verða
burr ok bróðir.
Vitum báðar þat".

22. „Mólu meyjar,
megins kostuðu,
voro úngar
í jötunmóði:
skulfu skaptrè,
skauzt lúðr ofan,
hraut hinn höfgi
hallr sundr í tvö.
23. „En bergrisa
brúðr orð um kvað:
malit höfum, Fróði,
sem munum heita;
hafa fullstaðit
fljóð at meldri.

Einarr Skúlason kvað svo:

Frá ek, at Fróða meyjar
fullgóliga mólu
(lætr stillir grið gulli)
grafvitnis beð (slitna).
(Mjúks) bera minnar öxar
melðr þann, við hlyn feldrar,
(konúngs dýrkar fè) Fenju
fögr hlýr (bragar stýri).

Svo kvað Egill:

Glaðar flotna fjöld
við Fróða mjöl[70].

**Konúngr** einn í Danmörk er nefndr *Hrólfr Kraki;* hann er ágætastr fornkonúnga, fyrst af mildi ok frækleik, ok lítillæti. Þat er eitt mark um lítillæti hans, er mjök er fært í frásagnir, at einn lítill sveinn ok fátækr er nefndr Vöggr; hann kom í höll Hrólfs konúngs, þá var konúngrinn úngr at aldri ok grannligr á vöxt. Þá gekk Vöggr firir hann, ok sá upp á hann. Þá mælti konúngrinn: hvat viltu mæla, sveinn, er þú sèr á mik? Vöggr svarar: þá er ek var heima, heyrðak sagt, at Hrólfr konúngr at Hleiðru var mestr maðr á norðrlöndum, en nú sitr hèr í hásæti kraki einn lítill, ok kalla þeir hann konúng sinn. Þá svarar konúngrinn: „þú, sveinn, hefir gefit mèr nafn, at ek skal heita Hrólfr kraki; en þat er títt, at gjöf skal fylgja nafnfesti. Nú sè ek þik enga gjöf hafa til at gefa mèr at nafnfesti, þá er mèr sè þægilik; nú skal sá gefa öðrum, er til hefir"; tók gullhríng af hendi sèr,ok gaf honum. Þá mælti Vöggr: gef þú allra konúnga heilastr, ok þess strengi ek heit, at verða þess manns bani, er þinn banamaðr verðr. Þá mælti konúngr, ok hló við: litlu verðr Vöggr feginn.

Annat mark var þat sagt frá Hrólfi kraka um frækleik

70) Höfuðlausn, 17.

hans, at sá konúngr rèð firir Uppsölum, er Aðils hèt, hann átti Yrsu, móður Hrólfs kraka. Hann hafði úsætt við þann konúng, er rèð firir Noregi, er Ali hèt. Þeir stefndu orostu milli sín á ísi vatns þess, er Veni heitir. Aðils konúngr sendi boð Hrólfi kraka, mági sínum, at hann kvæmi til liðveizlu við hann, ok hèt mála öllum her hans, meðan þeir væri í ferðinni, en konúngr sjálfr skyldi eignast 3 kostgripi, þá er hann kauss or Svíðjóð. Hrólfr konúngr mátti eigi fara firir úfriði, þeim er hann átti við Saxa, en þó sendi hann Aðilsi berserki sína 12: þar var einn Böðvar bjarki ok Hjalti hugprúði, Hvítserkr hvati, Vöttr, Víðseti, þeir bræðr, Svipdagr ok Beiguðr. Í þeirri orostu fèll Ali konúngr ok mikill luti liðs hans. Þá tók Aðils konúngr af honum dauðum hjálminn Hildisvín, ok hest hans, Hrafn. Þá beiddust þeir berserkir Hrólfs kraka at taka mála sinn, 3 pund gulls hverr þeirra, ok um fram beiddust þeir at flytja Hrólfi kraka kostgripi, þá er þeir kusu til handa honum: þat var hjálmrinn Hildigöltr ok brynjan Finnsleif, er hvergi festi vopn á, ok gullhríngr sá, er kallaðr var Svíagríss, er átt höfðu lángfeðgar Aðils. En konúngr varnaði allra gripanna, ok eigi heldr galt hann málann; fóru berserkirnir braut, ok undu illa sínum lut, sögðu svo búit Hrólfi kraka; ok jafnskjótt byrjaði hann ferð sína til Uppsala, ok er hann kom skipum sínum í ána Fýri, þá reið hann til Uppsala, ok með honum 12 berserkir hans, allir griðalausir. Yrsa, móðir hans, fagnaði honum, ok fylgði honum til herbergis, ok eigi til konúngshallar; voru þá gervir eldar stórir firir þeim, ok gefit öl at drekka. Þá komu menn Aðils konúngs inn, ok báru skíðin á eldinn, ok gerðu svo mikinn, at klæði brunnu af þeim Hrólfi, ok mæltu: er þat satt, at Hrólfr kraki ok berserkir hans flýja hvorki eld nè járn? Þá hljóp Hrólfr kraki upp, ok allir þeir. Þá mælti hann:

Aukum enn elda at Aðils húsum;

tók skjöld sinn ok kastaði á eldinn, ok hljóp yfir eldinn, meðan skjöldrinn brann, ok mælti enn:

Flýr-a sá elda, er ifir hleypr.

Svo fór hverr at öðrum hans manna, tóku þá, er eldinn höfðu aukit, ok köstuðu þeim á eldinn. Þá kom Yrsa, ok fèkk Hrólfi kraka dýrshorn, fullt af gulli, ok þar með hrínginn Svíagrís, ok bað þá braut ríða til liðsins. Þeir hljópu á hesta sína, ok ríða ofan á Fýrisvöllu; þá sá þeir, at Aðils konúngr

reið eptir þeim með her sinn alvopnaðan, ok vill drepa þá. Þá tók Hrólfr kraki hægri hendi gullit ofan í hornit, ok söri alt um götuna. En er Svíar sjá þat, hlaupa þeir or söðlunum, ok tók hverr, slíkt er fèkk, en Aðils konúngr bað þá ríða, ok reið sjálfr ákafliga. Slúngnir hèt hestr hans, allra hesta skjótastr. Þá sá Hrólfr kraki, at Aðils konúngr reið nær honum, tók þá hrínginn Svíagrís, ok kastaði til hans, ok bað hann þiggja at gjöf. Aðils konúngr reið at hrínginum, ok tók til með spjótsoddinum, ok rendi upp á falinn. Þá veyk Hrólfr kraki aptr, ok sá, er hann laut niðr; þá mælti hann: svínbeygt hefi ek nú þann, er ríkastr er með Svíum. Svo skildust þeir. Af þessi sök er gull kallat sáð Kraka eða Fýrisvalla. Svo kvað Eyvindr skáldaspillir:

Bárum, Ullr, of alla,
ímunlauks, á hauka
fjöllum Fýrisvalla
fræ Hákunar æfi[71].

Svo, sem Þjóðólfr kvað:

Örð ser Yrsu burðar
inndrótt jöfur sinni
bjartplógaðan bauga
brattakr völu-spakra.
Eyss landreki ljósu
lastvarr Kraka barri
á hlemildar boldi
hauks kálfor mèr sjálfum.

**Svo er sagt**, at konúngr sá, er Hölgi er kallaðr, er Hálogaland er við nefnt, var faðir Þorgerðar Hölgabrúðar; þau voru bæði blótut, ok var haugr Hölga kastaðr, önnur fló af gulli eða silfri, þat var blótfèit, en önnur fló af moldu ok grjóti. Svo kvað Skúli Þorsteinsson:

Þá er ræfr-vita reifnis
rauð ek firir Svöld til auðar,
herfylgins bað ek Hölga
haugþök sama baugum.

Í Bjarkamálum enum fornum eru töð mörg gullsheiti. Svo segir þar:

Gramr hinn gjöflasti
gæddi hirð sína
Fenju forverki,
Fofnis miðgarði,
Glasis glóbarri,
Grana fagrbyrði,
Draupnis dýrsveita,
dúni Grafvitnis.
Ýtti örr hilmir
(aldir við tóku)
Sifjar svarðfestum,
svelli dalnauðar,
tregum Otrs-gjöldum,
tárum Mardallar,
eldi óronar,
iðja glysmálum.
Gladdi gunnveiti
(gengum fagrbúnir)
Þjassa þíngskilum
þjóðir hermargar,
Rínar rauðmálmi,
rógi Niflúnga,
vísi hinn vígdjarfi.
Varði hann Baldr þögli!

71) Hkr, Har. gráf., k. 1, 4.

**Gull er** kallat í kenníngum eldr handar eða liðs eða leggjar, því at þat er rautt; en silfr snær eða svell eða hèla, því at þat er hvítt. Með sama hætti skal ok kenna gull eða silfr til sjóðs eða díguls eða löðar; en hvortveggja, silfr ok gull, má vera grjót handar eða hálsgjörð nokkvors þess manns, er títt var at hafa. Men ok hríngar eru bæði silfr ok gull, ef eigi er annan veg greint. Sem kvað Þorleikr fagri:

Kastar gramr á glæstar
gegn valstöðvar þegnum
(úngr vísir gefr eisu
armleggs) dígulfarmi.

Ok sem kvað Einarr skálaglam:

Liðbröndum kná Lundar
landfrækn jöfurr granda,
hykka ek ræsis rekka
Rínar grjót of þrjóta.

Svo kvað Einarr Skúlason:

Blóðeisu liggr bæði
bjargs tveim-megin geima
sjóðs (á ek sökkva stríði)
snær ok eldr (at mæra).

Ok enn, sem hann kvað:

Dægr þrymr hvert, en hjarta
hlýrskildir ræðr mildu
heita blakks, of hvítum
hafleygr dígulskafli.
Aldri má fyrir eldi
áls hrynbrautar skála
(öll viðr fólka fellir
framræði) snæ bræða.

Hèr er gull kallat *eldr áls hrynbrautar*, en silfr *snær* skálanna. Svo kvað Þórðr Möra-skáld:

Sèr á seima rýri,
sigðis láttrs at átti
(hrauns glaðsendir handa!)
Hermóðr föður góðan.

**Maðr er** kallaðr brjótr gullsins; svo sem kvað Óttarr svarti:

Góðmennis þarf ek gunnar-
gulls-brjótanda at njóta
(hèr er alnennin inni
inndrótt) með gram-svinnum.

eða gullsendir, sem kvað Einarr Skálaglam:

Gullsenðir lætr grundar
(glaðar þengill herdrengi)
(hans mæti kná ek hljóta)
hljót Yggs mjaðar njóta.

Gullvörpuðr, sem kvað Þorleikr:

Hirð viðr grams með gerðum
gullvörpuðr sèr holla.

Gullstríðir, sem kvað Þorvaldr blöndu-skáld:

Gullstríðir verpr glóðum
(gefr auð konúngr rauðan)
[óþjóðar bregðr eyðir]
armleggs [Grana farmi].

Gullskati, sem hèr er:

Gat ek gullskata
(gör er leygs of bör
götu ginnvita
graps) tögdrapu.

**Kona** er kend til gulls, köllut selja gulls, sem kvað Hallarsteinn:

Svalteigar mun selju
salts Viðblinda galtar
rafkastandi rastar
reyrþvengs muna lengi.

Hèr er kallat hvalir Viðblinda geltir: hann var jötunn, ok dró hvali í hafi út, sem fiska; teigr hvala er sær, röf sæfar er gull, kona er selja gulls þess, er hon gefr, ok samheiti við selju er trè, sem fyrr er ritat, at kona er kend við allskonar trjáheiti kvennkend. Hon er ok log köllut þess, er hon gefr; log heitir ok trè, þat er fellr í skógi. Svo kvað Gunnlaugr ormstúnga:

Alin var rygr at rógi
(runnr olli því gunnar)
(lág var ek auðs at eiga
óðgjarn) fira börnum[72].

Kona kallast mörk. Svo kvad Hallarsteinn:

Ek hefi óðar-lokri
(öl-) stafna þèr skafna,
vetz (mörk -skála!) verki
vandr, stef-knarrar branda.

Tróða enn, sem kvað Steinn:

Þú munt (furs), sem fleiri
(flóðs hirðisif) tróðor
(grönn!) við gæfu þinni
grjóts Hjaðnínga brjótast.

Skorða; svo kvað Ormr Steinþórsson:

Skorða var í föt færð
fjarðbeins afar hrein,
nýrri slöng naddfreyr
nistíng of mjaðar Hrist.

Stoð, sem Steinarr kvað:

Mens hafa mildrar Synjar
mjúkstalls logit allir
(sjá höfumk veltistoð stiltan
straumtúngls) at mèr draumar.

Björk enn, sem Ormr kvað:

því at hols hrynbáls
hramma, þats ek berk fram,
billíngs á burar full
bjarkar hefi ek lagit mark.

Eik, svo sem hèr er:

Aura stendr firir orum
eik fagrbúin leiki.

Lind, svo sem hèr er:

Ógnrakkr skal-at okkra,
álmr dynskúrar málma!
(svo bauð lind í landi
líns) hugrekki dvína.

Maðr er kendr til viða, sem fyrr er ritað, kallaðr reynir vopna eða víga, ferða ok athafnar, skipa ok alls þess, er hann ræðr ok reynir. Svo kvað Úlfr Uggason:

En stirðþinull starði
storðar leggs firir borði
fróns á fólka reyni
fránleitr, ok blès eitri.

Viðr ok meiðr, sem kvað Kórmákr:

Meiðr er mörgum eyðri
morðreins í dyn fleina;
hjörr fær hildibörrum
hjarls Sigurði jarli.

Lundr, svo kvað Hallfreyðr vandræðaskáld:

---

72) Ísl, S. 2, 260.

Askþollum stendr Ullar
austr at miklu trausti
reykilundr hinn ríki
randfárs, brumaðr hári.

Hèr er ok þollr nefndr búss; svo kvað Arnórr:

Rökkr öndurt bað randir
reggbúss saman leggja
(rógskýja hèlt) Rygja
(regni haustnótt gegnum)[73].

Askr, sem Refr kvað:

Gekk í gulli stokkna
gjöfrífr (Hárs drífu
askr við ærinn þroska)
esfreyr sæing meyjar.

Hlynr:

Heill kom þú, handar svella
hlynr! kvaddi svo brynja.

Börr, sem Refr kvað:

(Alls böðgæði) bjóða
(börr ræðr til þess hjörva-)
ógn (-stöðvar) hefi ek ægi
einráðit Þorsteini.

Stafr, sem Óttarr kvað:

Hèltu, þar er hrafn nè svalt-a
(hvatráðr ertu) láði
(ognar-stafr) fyr jöfrum
(ygr!) tveimr við kyn beima[74].

Þorn, sem Arnórr kvað:

Hlóð, en hála tèðu
hirðmenn arngrenni,
auðar þorn firir örnu
úngr valköstu þúnga[75].

**Hvernig** skal kenna orostu? Svo, at kalla veðr vopna eða hlífa eða Óðins eða valkyrju eða herkonúnga, eða gný eða glym. Svo kvað Hornklofi:

Háði gramr, þar er gnúðu,
geira hregg við seggi,
(rauð fnýstu ben blóði)
bengögl (at dyn Sköglar)[76].

Svo kvað Eyvindr:

Ok sá halr
at Hárs veðri
hösvan serk
hrísgrisnis bar[77].

Svo kvað Bersi:

Þótta ek, þá er ori
(ársagt er þat) varum,
hæfr at Hlakkar drífu
hyrrunnum vel gunnar[78].

Svo kvað Einarr:

Glymvindi lætr Göndla
(gnestr hjörr,) taka mestum
Hildar segl (þar er hagli)
hraustr þengill (drífr strengjar).

Sem kvað Einarr skálaglamm:

Nè sigbjarka serkir
sómmiðjúngum rómu
Hárs við Högna skúrir
hleðut fast of seðir.

Svo sem hèr:

Odda gnýs við æsi
oddnets þinul setja.

Ok enn þetta:

Hnigu fjandr at glym Göndlar
grams und arnar hramma.

---

73) Hkr, Magn. góða, 34, 1. 74) Hkr, Ól. helga, 160, 1. 75) Hkr, Magn. g., 35, 1. 76) Hkr, Har. hárf. k. 11. 77) Háleygjatal? 78) Kórm. k. 12, 5.

**Vopn ok** herklæði skal kenna til orostu ok til Óðins ok valmeyja ok herkonúnga, kalla hjálma hjálm, hött eða fald, en brynju serk eða skyrtu, en skjöld tjald, en skjaldborgin er köllut höll ok ræfr, veggr ok gólf. Skildir eru kallaðir ok kendir við herskip, sól eða túngl eða lauf eða blik eða garðr skipsins. Skjöldr er ok kallat skip Ullar, eða kent til fóta Hrúngnis, er hann stóð á skildi. Á fornum skjöldum var títt at skrifa rönd, þá er baugr var kallaðr, ok er við þann baug skildir kendir. Höggvopn, eyxar eða sverð, er kallat eldar blóðs eða benja; sverð heita Óðins eldar, en eyxar kalla menn tröllkvenna heitum, ok kenna við blóð eða benjar eða skóg eða við. Lagvopn eru vel kend til orma eða fiska. Skotvopn eru mjök kend til hagls eða drífu eðr rótu. Öllum þessum kenníngum er marga lund breytt, því at þat er flest ort í lofkvæðum, er þessar kenníngar þarf við.

Lattist herr með höttu (þótti-t þeim at hætta
Hángatýs at gánga þekkiligt) firir brekku[79].

Svo kvað Einarr skálaglam:

Hjálmfaldinn bauð hildi, (hinn er fór í gný gunnar)
hjaldrörr ok Sigvaldi, gunndjarfr Búi (sunnan).

Róða serkr, sem Tindr kvað:

Þá er hríngfám hánga (hruðust riðmarar) Róða
brynserk Viðurr brynju (rastar) varð at kasta[80].

Hamðis skyrta, sem Hallfreyðr kvað:

Ólítit brestr úti hart á Hamðis skyrtum
unndýrs sumum runnum hryngrap Egils vapna.

Sörla-föt enn, sem kvað hann:

Þaðan verða föt fyrða rjóðast björt í blóði
(fregn ek gerla þat) Sörla benfur meil-skurum.

Sem Grettir kvað:

Hèldu Hlakkar tjalda Hildar veggs ok hjuggust
hefjendr saman nefjum, hreggnirðir til skeggjum[81].

Róða ræfr, sem Einarr kvað:

Eigi þverr firir augna ræfrs (eignist so) regni
Óðs beðvinu Róða ramsvell (konúngr elli)[82].

Hildar veggr, sem kvað Grettir, ok áðr er ritat. Skipsól, sem Einarr kvað:

Leyg rýðr ætt á ægi Ólafs skipa-sólar.

Hlýr-túngl, sem Refr kvað:

---

79) sjá bls. 50, 3. 80) Hkr, Ól. Trygg. k. 43, 3. 81) Grettis saga, k. 77, 2. 82) sjá bls. 71, 4.

Dagr var fríðr, sá er fögru
fleygjendr alin-leygjar
í hángferil hrínga
hlýrtúngli mèr þrúngu.

Garðr skips, sem hèr er:

Svo skaut gegn í gögnum
garð steinfarinn barða
(sá var gnýstærir geira)
Gunnar (æfr), sem næfrar.

Askr Ullar, sem hèr er:

Gánga el of únga
Ullar skips með fullu,
þar er samnagla siglur
slíðrdúkaðar ríða.

Ilja-blað Hrúngnis, sem Bragi kvað:

Vilit, Hrafnketill, heyra,
hve hreingróit steini
Þrúðar skal ek ok þengil
þjófs iljablað leyfa?

Bragi kvað þetta um bauginn á skildinum:

Nema svo at góð ens gjalla
gjöld baugnafaðs vildi
meyjar hjóls inn mæri
mögr Sigurðar Högna.

Hann kallaði skjöldinn Hildar hjól, en bauginn nöf hjólsins.

Baugjörð, sem Hallvarðr kvað:

Rauðljósa sèr ræsir
(rít brestr sundr hin hvíta)
baugjörð brodda ferðar
(bjúgrend) í tvö fljúga.

Svo er enn kveðit:

Baugr er á beru sömstr,
en á boga örvar.

Sverð er Óðins eldr, sem Kórmákr kvað:

Svall, þá er gekk með gjallan
Gauts eld, hinn er styr beldi,
glað fæðandi Gríðar,
gunnr. Komst Uðr or brunni.

Hjálms-eldr, sem kvað Úlfr Uggason:

Fullöflug lèt fjalla
fram hafsleipni þramma
Hildr, en Hropts of gildar
hjálmelda mar feldu.

Brynju-eldr, sem kvað Glúmr Geirason:

Heinþyntan lèt hvína
hryneld at þat brynju
fyldar vörðr, sá er fyrðum,
fjorn-harðan, sik varði[83].

Randar íss ok grand hlífar, sem Einarr kvað:

Ráðvöndum þá ek rauðra
randa ís at vísa
(grand berum hjálms í hendi),
hvarmþey drifinn Freyju.

Öx heitir tröllkona hlífa, sem Einarr kvað:

Sjá megu rètt, hve, Revils
ríðendr, við brá gríðar
fjörnis fagrt of skornir,
foldviggs, drekar liggja.

Spjót er ormr kallat, sem Refr kvað:

Kná myrkdreki marka
minn, þar er ýtar finnast,
æfr á aldar lofum
eikiborðs at leika.

Örvar eru kallaðar hagl boga eða strengjar eða hlífa eða orostu, sem Einarr kvað skálaglam:

Brakrögnir skók bogna
(barg óþyrmir varga)
hagl or Hlakkar seglum
(hjörs rakkliga fjörvi)[84].

---

83) Fagrsk. bls. 35, 2. 84) Hkr, Har. gráf. k. 6, 4.

Ok Hallfröðr:

Ok geirrótu götvar
gagls við strengjar hagli
húngr-eyðundum bánga
blöðu-t járni seðar.

Ok Eyvindr skáldaspillir:

Lítt kvoðu þik láta,
landvörðr, er brast, Hörða,
brynju hagl í benjum
(bugust álmar), geð fálma[85].

**Orrosta** er köllut Hjaðnínga veðr eða el, ok vopn Hjaðnínga eldar eða vendir. En sjá saga er til þess: Konúngr sá, er Högni er nefndr, átti dóttur, er Hildr hèt. Hana tók at herfángi konúngr sá, er Hèðinn hèt, Hjarrandason. Þá var Högni konúngr farinn í konúngastefnu; en er hann spurði, at herjat var í ríki hans, ok dóttir hans var í braut tekin, þá fór hann með sínu liði at leita Hèðins, ok spurði til hans, at Hèðinn hafði siglt norðr með landi. Þá er Högni konúngr kom í Noreg, spurði hann, at Hèðinn hafði siglt vestr um haf. Þá siglir Högni eptir honum allt til Orkneyja; ok er hann kom, þar sem heitir Háey, var þar firir Hèðinn með lið sitt. Þá fór Hildr á fund föður síns, ok bauð honum men í sætt af hendi Hèðins, en í öðru orði sagði hon, at Hèðinn væri búinn at berjast, ok ætti Högni af honum öngrar vægðar von. Högni svarar stirt dóttur sinni; en er hon hitti Hèðin, sagði hon honum, at Högni vildi önga sætt, ok bað hann búast til orostu, ok svo gera þeir hvorirtveggju, gánga upp á eyna ok fylkja liðinu. Þá kallaði Hèðinn á Högna, mág sinn, ok baud honum sætt ok mikit gull at bótum. Þá svarar Högni: of síð bauðtu þetta, ef þú vill sættast, því at nú hefi ek dregit Dáinsleif, er dvergarnir gerðu, er mannsbani skal verða, hvert sinn er bert er, ok aldri bilar í höggvi, ok ekki sár grær, ef þar skeinist af. Þá svarar Hèðinn: sverði hælir þú þar, en eigi sigri; þat kalla ek gott sverð, er drottinholt er. Þá hófu þeir orostu þá, er Hjaðnínga-víg er kallat, ok börðust þann dag allan, ok at kveldi fóru konúngar til skipa. En Hildr gekk of nóttina til valsins, ok vakði upp með fjölkyngi alla þá, er dauðir voru; ok annan dag gengu konúngarnir á vígvöllinn ok börðust, ok svo allir þeir, er fèllu hinn fyrra daginn. Fór nú svo sú orosta hvern dag eptir annan, at allir þeir, er fèllu, ok öll vopn, þau er lágu á vígvelli, ok svo hlífar, urðu at grjóti. En er

---

85) Hkr, Har. gráf. k. 1, 3.

dagaði, stóðu upp allir dauðir menn ok börðust, ok öll vopn voru þá nýt. Svo er sagt í kvæðum, at Hjaðníngar skulu svo bíða ragnarökrs. Eptir þessi sögu orti Bragi skáld í Ragnarsdrápu Loðbrókar:

Ok um þeris æða
óskrán, at þat sínum
til fárhuga færi
feðr veðr boða, hugði:
þá er hristisif hrínga
háls- en böls of fylda
bar til byrjar drösla
-baug örlygis draugi.
Bauð-a sú til bleyði
bætiþrúðr at móti
málma mætum hilmi
men drerugra benja:
svo let ey, þótt etti,
sem orosta lètti
jöfrum Úlfs at sinna
með algífris lifru.
Letr-að lýða stillir
landa vanr á sandi
(þá svall heipt í Högna)
höð glamma man stöðva:
er þrym regin þremja
þróttig Hèðins sóttu
heldr, en Hildar svika
hrínga þeir of fíngu.
Þá má sókn á Svolnis
salpenníngi kenna
(Ræs gáfumk reiðar mána
Ragnarr) ok fjöld sagna.
Ok firir hönd á hólmi
hveðru brynju viðris
fengeyðandi fljóða
fordæða nam ráða.
Allr gekk herr und hurðir
Hjarranda fram kyrrar
reiðr at reifnis skeiði
raðálfr of mar bráðum.

Orrosta er veðr Óðins, sem fyrr er ritat. Svo kvað Vígaglúmr:

Rudda ek, sem jarlar,
(orð lèk á því) forðum
(með veðrstöfum Viðris
vandar) mèr til landa[86].

Viðris veðr er hèr kallat orusta, en vöndr vígs sverðit, en menn stafir sverðsins. Hèr er bæði orosta ok vopn haft til kenníngar mannsins: þat er rekit kallat, er svo er ort. Skjöldr er land vopnanna, en vopn er hagl eða regn þess lands, ef nýgjörvíngum er ort.

**Hvernig** skal kenna *skip?* Svo, at kalla hest eða dýr eða skíð sækonúnga eða sævar eða skipreiða eða veðrs. Báru-fákr, sem Hornklofi kvað:

Hrjóðr lèt hæstrar tíðar
harðráðr skipa börðum
báru fáks ens bleika
barnúngr á lög þrúngit[87].

Geitis marr. Svo kvað Erríngar-Steinn:

Enn þótt úfrið sunnan
öll þjóð segi skaldi,
(hlöðum Geitis mar grjóti)
glaðir hennum vær þenna.

Sveiða hreinar:

Súðlöngum komt sveiða
(sunns liðu dýr frá grundu),
sigrakkr, Sölsa bekkjar,
Sveins mögr, á tröð hreinum.

---

86) Vígagl. saga, k. 26, 1. 87) Fagrsk. bls. 9, 2.

Svo kvað Hallvarðr: hèr er ok köllut sunds-dýr, ok særinn Sölsa-bekkr. Svo kvað Þórðr Sjáreksson:

Sveggja lèt firir Siggju
sólborðs goti norðan,
gustr skaut Gylfa rastar
glaumi suðr firir Aumar;
en slóðgoti síðan
sæðíngs firir skut bæði
(hestr óð lauks firir Lista)
lagði Körmt ok Agðir.

Hèr er skip kallat sólborðs-hestr, ok sær Gylfa-land, sæðíngs-slóð særinn ok hestr skipit, ok enn lauks-hestr: laukr heitir siglutrè. Ok enn, sem Markús kvað:

Fjarðlinna óð fannir
fast veðrliði rastar,
hljóp of hvítagnípur
hvals rann-júgtanni:
björn gekk fram á fornar
flóðs hafskíða slóðir,
skúr-örðigr braut skorðu
skers glymfjötur bersi.

Hèr er skip kallat björn rasta: björn heitir vetrliði ok júgtanni ok bersi, ok björn skorðu er hèr kallat. Skip er ok kallat hreinn, svo kvað Hallvarðr, sem áðr er ritat; ok hjörtr, sem kvað Haraldr konúngr Sigurðarson:

Sneið firir Sikiley víða
súð (vorum þá prúðir),
brýnt skreið (vel til vonar)
vengis hjörtr und drengjum[88].

Ok elgr, sem Einarr kvað:

(Baugs) getr með þèr þeygi
þýðr drengr vera lengi
(elg búum flóðs) nema fylgi
(friðstökkvir!) því nakkva.

Sem Máni kvað:

Hvat mundu hafs á otri
(hengiligr) með drengjum
(karl), því at kraptr þinn förlast,
(kinngrár!) mega vinna?

Vargr, sem kvað Refr:

En hoddvönuðr hlýddi
(hlunnvitnis em ek runni
hollr til hermðar-spjalla
heinvanðil) Þorsteini.

Ok oxi. Skip er ok kallat skíð eða vagn eða reið. Svo kvað Eyjólfr Daðaskáld:

Meita var at móti
mjök síð um dag skíði
úngr með jöfnu gengi
útvers frömum hersi[89].

Svo kvað Styrkárr Oddason:

Ok ept ítrum stökkvi
ók Högna lið vögnum
hlunns á heiða fannir
hyrjar flóðs af móði.

Ok sem Þorbjörn kvað:

Hafreiðar var hlöðir
hlunns í skírnar brunni
Hvítakrists, sá er hæsta
hoddsviptir fèkk giptu.

**Hvernig** skal *Krist* kenna? Svo, at kalla hann skapara himins ok jarðar, engla ok sólar, stýranda heims ok himinríkis ok engla, konúng himna ok sólar ok engla ok Jórsala

---

88) Hkr, Har. Sigurð. k. 15. 89) Hkr, Ól. Trygg. 20, 1.

ok Jórdanar ok Grikklands: ráðandi postola ok heilagra manna. Fornskáld hafa kent hann við Urðarbrunn ok Róm, sem kvað Eilífr Guðrúnarson:

(Setbergs-) kveða sitja
suðr at Urðarbrunni
(svo hefir ramr konúngr remdan
Róms -banda sik löndum).

Svo kvað Skapti Þóroddson:

Máttr er múnka drottins
mestr: aflar guð flestu;
Kristr skóp ríkr, ok reisti
Rúms höll, veröld alla.

Himna-konúngr, sem Markús kvað:

Gramr skóp grund ok himna
glyggranns, sem her dyggjan;
einn stillir má öllu
aldar Kristr of valda.

Svo kvað Eilífr kúlnasveinn:

Hróts lýtr helgum crúci
heims ferð ok lið heima,
sönn er en öll dýrð önnur
ein Maríu sveini.

Maríu-sonr enn, sem Eilífr kvað:

Hirð lýtr himna dýrðar
hrein Maríu sveini;
mátt viðr mildíng dróttar
(maðr er hann ok guð) sannan.

Engla konúngr enn, sem Eilífr kvað:

Máttr er, en menn of hyggi,
mætr guðs vinar betri;
þó er engla gramr öllu
örr helgari ok dýrri.

Jórdanar-konúngr. Svo kvað Sighvatr:

Endr rèð engla senda
Jórdanar gramr fjóra
fors- (þó hann á hersi
heilagt skopt) or -lopti.

Grikkja-konúngr, sem Arnórr kvað:

Bænir hefi ek firir beini
bragna falls við snjallan
Grikkja vörð ok Garða:
gjöf launac svo jöfri.

Svo kvað Eilífr kúlnasveinn:

Himins dýrð lofar hölða
(hann er alls konúngr) stilli.

Hèr kallaði hann fyrst Krist konúng manna, ok annat sinn alls konúng. Enn kvað Einarr Skúlason:

Lèt, sá er landfólks gætir,
líkbjartr himinríki
umgeypnandi opna
alls heims firir gram snjöllum[90].

**Þar koma** saman kenníngar, ok verðr sá at skilja af stoð, er ræðr skáldskapinn, um hvern kveðit er konúnginn; því at rètt er at kalla Miklagarðskeisara Grikkjakonúng, ok svo þann konúng, er ræðr Jórsalalandi, at kalla Jórsalakonúng; svo ok at kalla Rómskonúng Rómaborgar keisara, eða Englakonúng, þann er Englandi ræðr. En sú kenníng, er áðr var rituð, at kalla Krist konúng manna, þá kenníng má eiga hverr konúngr. Konúnga alla er rètt at kenna svo, at kalla

---

90) Geisli (Fms. 5. b.), 16.

þá landráðendr eða landsvörðu, eða lands-sæki eða hirðstjóra eða vörð landfólks. Svo kvað Eyvindr skáldaspillir:

Farmatýs, jarðráðendr
fjörvi næmdu á Oglóe[91].

Ok sem Glúmr kvað Geirason:

Hilmir rauð und hjálmi þar var í gný geira
heina laut á Gautum; grundar vörðr of fundinn.

Sem Þjóðólfr kvað:

Hárr skyli hirðar stjóri arf ok óðaltorfu
hugreifr sonum leifa (ósk mín er þat) sína.

Sem Einarr kvað:

Snáks berr fald of (fræknum) frama telr greppr firir gumnum)
foldvörðr (konúngs Hörða geðsnjallr skarar fjalli.

Rètt er ok um þann konúng, er undir honum eru skattkonúngar, at kalla hann konúng konúnga. Keisari er æztr konúnga, en þar næst er konúngr sá, er ræðr firir þjóðlandi, jafn í kenníngum öllum hverr við annan í skáldskap. Þar næst eru þeir menn, er jarlar heita eða skattkonúngar, ok eru þeir jafnir í kenníngum við konúng, nema eigi má þá kalla þjóðkonúnga, er skattkonúngar eru. Ok svo kvað Arnórr jarlaskáld of Þorfinn jarl:

Nemi drótt, hve sjá sótti eigi þraut við ægi
snarlyndr konúngr, jarla; ofvægjan gram bægja.

Þar næst eru í kenníngum í skáldskap þeir menn, er *Hersar* heita. Kenna má þá, sem konúng eða jarl: svo, at kalla þá gullbrjóta ok auðmildínga ok merkismenn ok fólksstjóra, eða kalla hann oddvita liðs eða orostu; firir því at þjóðkonúngr hverr, sá er ræðr mörgum löndum, þá setr hann til landstjórnar með sèr skattkonúnga ok jarla, at dæma landslög ok verja land firir úfriði í þeim löndum, er konúngi liggja fjarri, ok skulu þeir dómar ok refsíngar vera þar jafnrèttir, sem sjálfs konúngs. Ok í einu landi eru mörg hèrut, ok er þat háttr konúnga, at setja þar rèttara ifir svo mörg hèruð, sem hann gefr vald yfir, ok heita þeir hersar eða lendir menn í danskri túngu, en greifar í Saxlandi, en barúnar í Englandi; þeir skulu ok vera rèttir dómarar ok rèttir landvarnarmenn yfir því ríki, er þeim er fengit til stjórnar. Ef eigi er konúngr nær, þá skal fyrir þeim merki bera í orrostum, ok eru þeir þá jafnrèttir herstjórar, sem konúngar eða jarlar.

---

91) sjá bls. 50, 5.

Þar næst eru þeir menn, er *höldar* heita, þat er búendr, þeir er gildir eru af ættum ok rèttum fullum; þá má svo kenna, at kalla þá veitanda fjár ok gætanda ok sætti manna; þessar kenníngar megu ok eiga höfðíngjar. Konúngar ok jarlar hafa til fylgðar með sèr þá menn, er hirðmenn heita ok húskarlar, en lendir menn hafa ok sèr handgengna menn, þá er í Danmörk ok Svíþjóð eru hirðmenn kallaðir, en í Noregi húskarlar, ok sverja þeir þó eiða, svo sem hirðmenn konúngum. Húskarlar konúnga voru mjök hirðmenn kallaðir í forneskju. Svo kvað Þorvaldr blönduskáld:

Konúngr heill, ok svo snjallir, óð hafa menn í munni
sókn-örr, (við lof gjörvan minn) húskarlar þínir.

Þetta orti Haraldr konúngr Sigurðarson:

Fullafli beið fyllar hilmis stóls (á hæla
(finn ek, optr at drífr minna) húskarla lið jarli)[92].

Hirðmenn ok húskarla höfðíngja má svo kenna, at kalla þá inndrótt eða verðúng eða hirðmenn. Svo kvað Sighvatr:

Þat frá ek víg á vatni nadda el at, nýla,
verðúng jöfurs gerðu, nest tel ek eigi in smæstu.

Ok enn þetta:

Þági var, sem, þessum mjöð firir málma kveðju
þengils á jó strengjar, mær heiðþegum bæri[93].

Heiðfè heitir máli ok gjöf, er höfðíngjar gefa. Svo kvað Óttarr svarti:

Góðmennis þarf ek gunnar- hèr er alnennin inni
-glóðbrjótanda at njóta; inndrótt með gram svinnum[94].

Jarlar ok hersar ok hirðmenn er svo kendir, at kallaðir eru konúngs rúnar eða málar eða sessar. Svo kvað Hallfröðr:

Grams rúni lætr glymja Högna hamri slegnar,
gunnríkr, hinn er hvöt líkar, heiptbráðr, of sik vaðir.

Sem Snæbjörn kvað:

Stjór viðjar lætr styðja hlemmisverð við harðri
stáls buðlúnga máli húflángan sèr dúfu.

Svo kvað Arnórr:

(Bera sín) en mik (mínir) þess of þengils sessa
morðkends taka enda þúng mein (synir úngir).

Konúngs spjalli, sem Hallfröðr kvað:

Ráð lukust, at sá síðan átti einga dóttur
snjallmæltr konúngs spjalli Onars viði gróna[95].

---

92) Hkr, Har. Sigurð., k. 44, 1. 93) Hkr, Ól. helga, k. 48, 1. 94) sjá bls. 84, 6. 95) sjá bls. 65, 11.

Svo skal menn kenna við ætt, sem Kórmákr kvað:

Heyri sonr á (Sýrar)
sannreynis (fentanna)
ör (greppa lætc uppi
jastrín) Haralds (mína)!

Hann kallaði jarlinn sannreyni konúngsins, en Hákun jarl son Sigurðar jarls. En Þjóðólfr kvað svo um Harald:

Vex Ólafs feðr
Járnsaxa veðr,
harðræðit hvert,
svo at hróðrs er vert.

Ok enn svo:

Jarisleifr of sá,
hvert jöfri brá;
hófsk hlýri frams
ens helga grams.

Ok enn kvað hann:

Andaðr er sá,
er of alla brá,
haukstalla konr,
Haralds bróðursonr.

Enn kvað svo Arnórr í Rögnvaldsdrápu:

Rèð heita konr hljóti
herþarfr við mik gjörva;
styrk lèt oss of orkat
jarls megð af því fregðar.

Ok enn, sem hann kvað of Þorfinn jarl:

Bitu sverð (en þar þurðir,)
þunngjör firir Mön sunnan
(Rögnvalds kind, und randir)
ramlig fólks (ens gamla!)[96].

Ok enn kvað hann:

ættbæti firr ítran
allríks (en ek bið líkna
trúra tiggja dýrum)
Torfeinars, guð, meinum!

Ok enn kvað Einarr skálaglam:

Nè ættstuðill ættar,
ógnherðir, mun verða
(skyldr em ek hróðri at halda)
Hilditanns inn mildri.

---

**Hvernig** er ókend setníng skáldskapar? Svo, at nefna hvern hlut, sem heitir.

Hver eru úkend heiti *skáldskaparins?* Hann heitir bragr ok hróðr, óðr, mærðr, lof. Þetta kvað Bragi hinn gamli, þá er hann ók um skóg nokkvorn síð um kveld, þá stefjaði tröllkona á hann, ok spurði, hverr þar fór:

Tröll kalla mik
túngl-sjót-rúngni,
auðsug jötuns,
el-sólar-böl,
vilsinn völu,
vörð nafjarðar,
hvelsvelg himins;
hvat er tröll, nema þat?

Hann svarar svo:

Skáld kalla mik
skapsmið Viðurs,
Gauts gjafrötut,
grepp óhneppan,

---

96) Orkn. saga, k. 13, 1.

Uggs ölbera, hagsmið bragar;
óðs skapmóða, hvat er skáld, nema þat?

Ok sem Kórmákr kvað:

Hróðr geri ek of mög mæran; haptsönis galt ek honum
meirr Sigröðar fleira; heið. Sitr Þórr í reiðu.

Ok sem kvað Þórðr Kolbeinsson:

Mjök lèt margar snekkjur, (óðr vex skálds) ok skeiðar
(mærðar örr) sem knörru, skjöldhlynr á brim dynja[97].

Mærð, sem Úlfr Uggason kvað:

þar kömr á (en öri [ofra ek svo] til sæfar
endr bar ek mærð af hendi) [sverðregns lofi þegna].

Hèr er ok lof kallat skáldskapr.

**Hvernig** eru nöfn *goðanna?* Þau heita ok bönd, sem kvað Eyjólfr Daðaskáld:

Dregr land at mun banda -veðrmildr, ok semr hildi[98].
Eiríkr und sik geira-

Ok höpt, sem kvað Þjóðólfr inn hvinverski:

Tormiðlaðr var tívi (hvat kvoðu) hapta snytrir
tálhreinn meðal beina, hjálmfaldinn (því valda)[99].

Rögn, sem Einarr kvað skálaglam:

Rammaukin kveð ek ríki rögn Hákunar magna[100].

Jólnar, sem Eyvindr kvað:

Jólna sumbl, stillis lof,
en vær gátum sem steinabrú.

Díar, sem Kórmákr kvað:

Eykr með ennidúki breyti, hún sá er beiðan
jarðhlutr día fjarðar bindr. Seið Yggr til Rindar[101].

**Þessi** nöfn *himins* eru rituð, en eigi höfum vær fundit í kvæðum öll þessi heiti; en þessi skáldskapar-heiti, sem önnur, þikki mèr óskylt at hafa í skáldskap, nema áðr finni hann í verka höfutskálda þvílík heiti. Himinn: hlýrnir, heiðþornir, hreggmímir, andlángr, ljósfari, drífandi, skatyrnir, víðfeðmir, vetmímir, leiptr, hrjóðr, víðbláinn.

Sól: sunna, röðull, eyglóa, alskír, sýni, fagrahvel, líknskin, Dvalins-leika, álfröðull, ifr-röðull, mylen.

Túngl: máni, ný, nið, ártali, mulenn, fengari, glámr, skyndir, skjálgr, skamr.

**Jörð**, sem Þjóðólfr kvað:

---

97) Hkr, Ól. Trygg. k. 40, 2. 98) sjá Hkr. Ól. Trygg. k. 96, 3: 97, 2. 99) Haustlaung, 3 (bls. 63). 100) Hkr, Ól. Trygg. k. 28, 3. 101) sjá bls. 50, 12.

Jarl lætr (odda skúrar) opt (herðir!) gjör verða
hríngs, áðr hann of þrúngvi, hörð el, und sik jörðu.

Fold, sem Óttarr kvað:

Fold verr fólkbaldr, fár má konúngr sva;
örnu reifir Oleifr, er framr Svía gramr.

Grund, sem Haraldr kvað:

Grund liggr und bör, bundin, breið, hólmfjötrs, leiðar,
(heinlands hoddum grandar Höðr) eitrsvölum nöðri.

Hauðr, sem Einarr kvað:

Verja hauðr með hjörvi hart döglínga bjartir
(hjálmr springr opt firir ólmri egghríð) framir seggir.

Land, sem Þórðr Kolbeinsson kvað:

En ept víg frá Veigu (vant er orð at styr) norðan
land, eða lengra stundu, lagðist suðr til Agða[102].

Láð, sem Óttarr kvað:

Hèlztu, þar er hrafn ne svalt-a, (hvatráðr ertu) láði
(ógnar stafr) firir jöfrum (ygr!) tveim við kyn beima[103].

Hlóðyn, sem kvað Völusteinn:

Man ek þat, er (jörð) við orða, endr myrkdanar sendu
(grænnar) gröfnum munni gein (Hlóðynjar beina!).

Frón, sem Úlfr kvað Uggason:

En stirðþinull starði storðar leggs firir borði
fróns á fólka reyni fránleitr, ok blès eitri[104].

Fjörgyn:

Örgildis var ek eldi (áls fjörgynjar) mála
dyggr (sè heiðr) ok hreggi (hrynbeðs ár steðja!).

**Vargr** heitir dýr; þat er rètt at kenna við blóð eða hræ, svo, at kalla verð hans eða drykk; eigi er rètt at kenna svo við fleiri dýr. Vargr heitir ok úlfr, sem Þjóðólfr kvað:

Gera var gistíng byrjuð gnóg, en úlfr or skógi
(sonr) á sár at spenja (Sigurðar kom norðan).

Hèr er hann ok geri kallaðr. Freki, sem Egill kvað:

Þá er oddbreki (sleit und freki)
gnúði hrafni á höfut-stafni[105].

Vitnir, sem Einarr kvað:

Elfr varð unda gjálfri eitrköld roðin heitu;
vitnis fèll með vatni varmt öldr í men Karmtar[106].

Ylgr, sem Arnórr kvað:

Svalg áttbogi ylgjar ógóðr, en var blóði
græðir grænn at röðum grand-auknum, ná, blandinn.

Vargr, sem Illugi kvað:

102) Hkr, Ól. Trygg. k. 131, 2. 103) Hkr, Ól. helga, k. 160, 1. 104) sjá bls. 85, 10. 105) Höfuðlausn, 10. 106) Fms. 7, 266, 1.

Vargs var munr, þat er (margan mensker𝑑ir stakk sverði
myrk örriða markar) minn drottinn rak flótta.

**Björn:** fetviðnir, húnn, vetrliði, bersi, fress, júgtanni, ifjúngr, glumr, jölfuðr, vilskarpr, bera, jórekr, riti, frekr, blómr, ysjúngr.

**Hjörtr:** moðrauðnir, dalarr, dalr, dvalinn, duneyrr, duraþrór.

**Þetta** eru enn *vargs-heiti,* sem Hallr kvað:

Heiðíngja sleit húngri,
hár gyldir naut sára,
granar rauð gramr á fenri,
gekk úlfr í fen drekka.

Ok enn, sem Þórðr kvað:

Óð (en ærnu náði
ims sveit freka hveiti)
(gera öldra naut gyldir)
Gjálpar stóð í blóði.

Þessi eru heiti *hesta* talið. Þessi eru hestaheiti í Þorgríms-þulu:

Hrafn ok Sleipnir
hestar ágætir,
Valr ok Lèttfeti,
var þar Tjaldari,
Gulltoppr ok Goti,
getit heyrðak Sóta,
Mór ok Lúngr með Mari.
Vigg ok Stúfr
var með Skefaði,
þegn knátti Blakkr bera:
Silfrtoppr ok Sinir,
svo heyrðak Fáks of getit,
Gullfaxi ok Jór með goðum.
Blóðughófi hèt hestr,
er bera kváðu
öflgan Atriða;
Gils ok Falhófnir,
Glær ok Skeiðbrímir,
þar var ok Gullir of getinn.

Þessir ro enn talðir í Alsvinns-málum:

Dagr reið Drösli,
en Dvalinn Móðni,
Há Hjálmþer,
en Haki Fáki:
reið bani Belja
Blóðughófa,
en Skævaði
skati Haddíngja.
Vesteinn Vali,
en Vífill Stúfi,
Meinþjófr Mói
enn morginvakri,
Ali Hrafni
til íss riðu,
en annar austr
und Aðilsi
grár hvarfaði
geiri undaðr.
Björn reið Blakki,
en Bjarr Kerti,
Atli Glaumi,
en Aðils Slúngni,
Högni Hölkvi,
en Haraldr Fölkvi,
Gunnar Gota,
en Grana Sigurðr.

Árvakr ok Alsviðr draga sólina, sem fyrr er ritat. Hrímfaxi eða Fjörsvatnir draga nóttina. Skinfaxi eða Glaðr (fylgja deginum).

Þessi oxna-heiti eru í Þorgríms-þulu:

Gamalla uxna nöfn
hefi ek gerla fregit,

þeirra Rauðs ok Hæfis:
rekinn ok kyrr,
Himins-hrjótr ok Apli,
Arfr ok Arfuni.

**Þessi eru** *orma-heiti*: dreki, Fofnir, Jormungandr, naðr, Níðhöggr, linnr, naðra, Góinn, Móinn, Grafvitnir, Grábakr, Ofnir, Svofnir, Grímr.

*Naut:* kýr, kálfr, yxuni, kvíga, vetrúngr, griðúngr, boli.

*Sauðr:* hrútr, bekri, ær, lamb, veðr.

*Svín:* sýr, gulta, runi, göltr, gríss.

**Hver eru** heiti *lopts* ok *veðranna?* Lopt heitir ginnúnga-gap ok meðalheimr, foglheimr, veðrheimr. Veðr heitir hregg, byrr, glygg, hret, gjósta, vindr. Svo segir í Alsvinnsmálum:

Vindr heitir með mönnum,
en vönsundr með goðum,
kalla gneggjuð ginregin:
æpi kalla jötnar,
en álfar gnýfara,
heitir í helju hlömmuðr.

Veðr heitir ok gustr.

**Tveir eru** fuglar þeir, er eigi þarf at kenna annan veg, en kalla blóð eða hræ drykk þeirra eða verð, þat er hrafn ok örn. Alla aðra fugla karlkenda má kenna við blóð eða hræ, ok er þat þá örn eða hrafn, sem Þjóðólfr kvað:

Blóðorra lætr barri
bragníngr ara fagna;
Gauts berr sigð á sveita
svans örð konúngr Hörða;
geirs oddum lætr greddir
grunn hvert stika sunnar
hirð, þá er hann skal varða,
hrægamms ara sævar.

Þessi eru nöfn hrafns: krákr, Huginn, Muninn, borginmóði, árflognir, ártali, holdboði. Svo kvað Einarr skálaglam:

Fjallvöndum gaf fylli
(fullr varð) [en spjör gullu]
herstefnandi hröfnum
(hrafn á ylgjar tafni).

Svo kvað Einarr Skúlason:

Dólgskára kná dýrum
dýr magnaðr stýra
(Hugins fermu bregðr harmi
harmr) bliksólar garmi.

Ok enn, sem hann kvað:

En við hjaldr, þar er höldar,
hugþrútið svellr, lúta,
(Muninn drekkr blóð or benjum
blásvartr) konúngs hjarta.

Sem kvað Vígaglúmr:

Þá er dynfúsar dísir
dreyra mens á eyri
(bráð fèkk borginmóði)
blóðskjaldaðir stóðum[107].

Sem Skúli kvað Þorsteinsson:

Munði-t efst, þar er undir
árflogni gaf ek sárar,
Hlökk í hundraðs flokki
hvítinga mik líta.

107) Vígagl. saga, k. 27, 3.

**Örn** heitir svo: ari, gemlir, hreggskornir, egðir, ginnarr, undskornir, gallofnir. Sem Einarr kvað:

Sámleitum rauð sveita
(sleit örn gera beitu)
(fèkst arnar matr járnum)
Járnsöxu grön faxa.

Sem Óttarr kvað:

Örn drekkr undarn
(ylgr færr at hræm sylg:
opt rýðr úlfr keypt),
ari getr verð þar.

Sem Þjóðólfr kvað:

Seggjundum fló sagna
snótar ylgr at móti
í gemlis ham gömlum
glamma o-fyr skömmu[108].

Ok sem hèr er:

Hreggskornis vil ek handa
háleitan mjöð vanda.

Ok enn, sem Skúli kvað:

Vaki ek þar er vell-eiðs ekka,
víðis, áðr ok síðan,
greppr hlýðir þá góðu
gallofnis vel spjalli.

**Hver ro** *sævar* heiti? Hann heitir marr, ægir, Gumir, Hlær, haf, leið, ver, salt, lög, græðir, sem Arnórr kvað, ok fyrr var ritat:

Nemi drótt, hve sæ sótti
snarlyndr konúngr, jarla;
eigi þraut við ægi
óvæginn gram bægja[109].

Hèr er nefndr *sær* ok svo *ægir*. Marr, sem Hornklofi kvað:

Þá er út á mar mætir
mannskæðr lagar tanna
ræsi-naðr ok rausnar
rak vebrautar nökkva[110].

Lögr er ok hèr nefndr. Svo kvað Einarr:

Lögr þvær flaust, en fagrir
(flóðs vaskar brim glóðum,
þar er sær á hlið hvora
hlymr) veðrvitar glymja.

Hèr er flóð kallat. Svo kvað Refr, sem fyrr var ritat:

Færir björn, þar er bára
brestr, undinna festa
opt í ægis kjapta
úrsvöl Gýmis völva[111].

Haf, sem Hallvarðr kvað:

Vestr lèzt þú í haf (hristir)
harðviggs (svikulgjarðar)
umbands allra landa
(íss!) framstafni vísat.

Leið, sem hèr er:

Erum á leið frá láði
liðnir Finnum-skriðnu,
austr sè ek fjöll af flausta
ferli geisla merluð.

Sem Egill kvað, Ver:

Vestr fór ek of ver,
en ek Viðris ber
munstrandar mar:
svo er mitt of far[112].

Marr, sem Einarr kvað:

---

108) Haustlaung, 2. (bls. 63). 109) sjá bls. 93, 5. 110) Hkr, Har. hárf., k. 9, 2. 111) sjá bls. 66, 6. 112) Höfuðl. 1.

Kaldr þvær marr und mildum
mart dægr viðu svarta
(grefr elsnúin) jöfri
(álmsorg manar þjálma).

Salt, sem Arnórr kvað:

Salt skar húfi hèltum
hraustr þjóðkonúngr austan,
báru brimlogs rýri
brún veðr at Sigtúnum[113].

Græðir, sem Bölverkr kvað:

Leiðángr bjóttu af láði
(lögr gekk of skip) fögru
(gjálfr-stóðum reistu græði
glæstum) ár it næsta[114].

Hèr er ok gjálfr kallat særinn. Viðir, sem kvað Refr:

Borðristinn nemr brjósti
borðheim drasill skorðu,
nauð þolir viðr, en víði
verpr inn of þröm stinnan.

Húmr, sem Brennu-njáll kvað:

Senn jósu vær, svanni,
sextán (en brim vexti)
(dreif á hafskips húfa
húm) í fjórum rúmum*).

Þessi eru enn sæfar-heiti, svo at rètt er at kenna til skips eða gulls. Rán er sagt at var kona Ægis, svo sem hèr er:

Hrauð í himin upp glóðum
hafs, gekk sær af afli.
Börð hygg ek at ský skorði;
skaut Ránar vegr mána.

Dætr þeirra Ægis ok Ránar eru níu, ok eru nöfn þeirra fyrr ritut: Himinglæfa, Dúfa, Blóðughadda, Hefríng, Uðr, Hrönn, Bylgja, Dröfn, Kólga. Einarr Skúlason taldi í þessi vísu [sex nöfn þeirra:

Æsir hvast at hraustum
Himinglæfa þyt sævar
(glymr Unnar vex) grenni
göndlar skúfs ok Dúfa.
Brædd strýkr Blóðughadda;
brimsólgin fellr Kólga;
hlýr skilr Hefríng; stærir
haflöðr of við rauðan**).

Hrönn, sem Valgarðr kvað:

Löðr var lagt í beði,
lèk sollit haf golli,
en herskipum hrannir
höfuð ógurlig þógu[115].

Bylgja, sem Óttarr svarti kvað:

Skárut sköfnu stýri,
skaut, sylg-hár bylgjur,
lèk við hún á hreini
hlunns, þat er drósir spunnu.

Dröfn, sem Ormr kvað:

Hrosta drýgir hvern kost
hauk lúðrs gæi-þrúðr,
en drafnar loga Lofn
löstu rækir vinföst.

Bára, sem Þorleikr fagri kvað:

Sjár þýtr, en berr bára
bjart löðr of við rauðan,
grans þar er gulli búnum
gínn hlunnvísundr munni.

---

113) Hkr, Magn. góða, k. 1, 2. 114) Hkr, Har. Sigurð., k. 31. *) Fms. 6, 170, 2. **) Þannig aðrar bækr, frá merkinu; en Kb hefir svo: „er fyrr var ritat:
Æsir hvast at hraustum Himinglöfa þut sævar.
6 nöfn þeirra: Himinglæfa, Uðr, Dúfa, Blóðughadda, Kólga, Hefríng".
115) Fms. 6, 180, 2.

Lá, sem Einarr kvað:
Nè framlyndir fundu
fyrr (hykk-at lá kyrðu),
þar er sjár á við voru
(vini ora) fèll stórum.

Fyllr, sem Refr kvað:
Hrynja fjöll á fyllar
(fram æsist nú Glamma
skeið, Vetrliði!) skíða
skautbjörn Gusis nauta.

Boði, sem hèr er:
Boði fèll á mik brálla:
bauð heim með sèr geimi;
þá ek eigi löð lægis.

Breki, sem Óttarr kvað:
Braut (en breki þaut)
borð (óx viðar morð)
(meðr fengu mikil veðr)
mjó for ofan sjó *)

Vogr, sem Bragi kvað:
Vildi-ð vröngum ofra,
vogs hyrsendir, ægi,
hinn er mjótygil máva
morar skar firir Þóri.

Sund, sem Einarr kvað:
Skar ek súðum sund
firir sunnan Hrund,
mín prýddist mund
við mildíngs fund.

Fjörðr, sem Einarr kvað:
Næst sè ek orm á jastar-
ítrserki vel merkðan;
nemi þjóðr, hve ek fer flæðar,
fjarðbáls, of hlyn máli!

Sægr, sem Markús kvað:
Sægs mun ek síðr en eigi
(sá er illr, er brag spillir,)
sólar sverri málan
(slíðr-áls reginn) níða.

**Hver ro** elds-heiti? Svo sem hèr er:
Eldr brenn-at sá sjaldan
(svíðr dyggr jöfurr bygðir)
(blása rönn fir ræsi
reyk), er Magnús kveykvir.

Logi, sem Valgarðr kvað:
Snarla skaut or sóti
(svek of hús ok reykir
stóðu stopðir síðan)
steinóðr logi glóðum.

Bál, sem hèr er:
Haki var brendr á báli,
þar er brimslóðir óðu.

Glæðr, sem Grani kvað:
Glæðr hygg ek Glamma slóðar
(gramr eldi svo) feldu.

Eisa, sem Atli kvað:
Öx rýðsk (eisur vaxa)
allmörg (loga hallir;
hús brenna: gim geisar;
góðmennit fellr) blóði.

Hér er ok gim kallat eldrinn. Eimr, sem hèr er:
Brunnu allvalds inni
(eldr hygg ek at sal feldi)
(eimr skaut á her hrími)
hálfgjör við Nið sjálfa[116].

Hyrr, sem Arnórr kvað:

---

*) Síðara vísufjórðúngi sleppir Kb. 116) Hkr, Ól. helga, k. 42.

Ömði-t ráð við Rauma
reiðr Eydana meiðir;
heit dvínuðu Heina,
hyrr gerði þá kyrra.

Viti, funi, sem Einarr kvað:

Funi kyndist fljótt,
en flýði skjótt
Hísíngar herr,
sá er hafði verr.

Brími, sem Valgarðr kvað:

Bjartr sveimaði brími;
brutu víkíngar fikjum
vísa styrks af virki
(varp [sorg á menn) borgar.

Leygr, sem Haldórr kvað:

Er knáttuð þar þeirra
[þú vart aldrigi (skjaldar
leygr þaut of sjöt) sigri
sviptr] gjörsimum skipta.

**Þessi** eru nöfn *stundanna:* öld forðum, aldr fyrir löngu, ár, misseri, vetr, sumar, vor, haust, mánuðr, vika, dagr, nótt, morgin, aptan, kveld, árla, snemma, síðla, í sinn, fyrra dag, í næst, í gær, á morgun, stund, mál. Þessi eru enn heiti nóttar í Alsvinnsmálum:

Nótt heitir með mönnum,
en njóla í helju,
kölluð er gríma*) með goðum;
ósorg kalla jötnar,
álfar svefngaman,
dvergar draumnjórun[117].

Frá jafndægri er haust, til þess er sól sezt í eykðar-stað; þá er vetr til jafndægris; þá er vor til fardaga; þá er sumar til jafndægris. Haustmánuðr heitir inn næsti firir vetr: fyrstr í vetri heitir gormánuðr, þá er frermánuðr, þá er hrútmánuðr, þá er þorri, þá gói, þá einmánuðr, þá gaukmánuðr ok sáðtíð, þá eggtíð ok stekktíð, þá er sólmánuðr ok selmánuðr, þá eru heyannir, þá er kornskurðar-mánuðr.

**Hver eru** manna nöfn úkend? Maðr er hverr firir sèr; it fyrsta ok it æzta heiti manns er kallat keisari, því næst konúngr, þar næst jarl. Þessir 3 menn eigu saman þessi heiti öll. Allvaldr, svo sem hèr er kveðit:

Allvalda kann ek alla
austr ok suðr of flausta
(Sveins er sonr at reyna)
setr (hverjum gram betri).

Hèr er ok gramr kallaðr; því heitir hann allvaldr, at hann er einvaldi alls ríkis síns. Fylkir, sem Gissurr kvað:

Fylkir gleðr í fólki
flakk ok svan Hlakkar;
Ólafr of viðr elum
Yggs gögl fegin Sköglar.

Firir því er fylkir kallaðr konúngr, at hann skipar í fylkíngar herliði sínu. Vísi, sem kvað Óttarr svarti:

---

*) Fyrir öllu því, sem er frá merkinu [ á undan sorg í vísu Valgarðs, er eyða í Kb, sem svarar 8 línum; sá kafli er tekinn úr Ob. 117) Alvíssmál, 31.

Vísi rekr víg frek; (aldar hefir allvaldr)
víst austr mun laust ósk-víf (gott líf).

Harri eða herra, sem kvað Arnórr:

Harri fèkk í hverri (greppr vill grams dýrð yppa)
Hjaltlands þrumu branda gagn, sá er næstr er bragna.

Hertogi heitir jarl, ok er konúngr svo kallaðr ok, firir því er hann leiðir her til orostu. Svo kvað Þjóðólfr:

Ok hertoga hneykir (leyfð ber ek hans) or höfði
herfengnum lèt stínga haugs skyndaði augu.

Sinnjor eða senjor, sem Sighvatr kvað:

Lát auman nú njóta, mál halt) svo sem sælan,
Noregs (ok gef stórum, sinnjor, laga þinna.

Mildíngr, sem Markús kvað:

Mildíngr fór of óþjóð eldi, hæstan kyndut, hlenna þrýstir,
auðit varð þá flotnum dauða, hyrjar ljóma suðr at Jómi.

Mæríngr, sem Hallvarðr kvað:

Er-at und (jarðar höslu moldreks múnka valdi
örðbrjótr Dönum forðar) mæríngr, en þú, nærri.

Landreki, sem Þjóðólfr kvað:

Eyss landreki ljósu lastvarr Kraka barri[118].

sem fyrr var ritat; því heitir hann svo, at hann rekr her um land annarra konúnga, eða rekr her or sínu landi.

[Konúngr er nefndr *Hálfdanr gamli*, er allra konúnga var ágætastr; hann gjörði blót mikit at miðjum vetri, ok blótaði til þess, at hann skyldi lifa í konúngdómi 300 vetra. En hann fèkk þau andsvör, at hann mundi lifa ekki meirr en einn mikinn mannsaldr, en þeir mundi þó 300 vetra, er engi mundi vera í ætt hans kona eða ótiginn maðr. Hann var hermaðr mikill, ok fór víða um austrvegu; þar drap hann í einvígi þann konúng, er Sigtryggr hèt. Þá fèkk hann þeirrar konu, er kölluð er Alvig en spaka, dóttir Emundar konúngs or*) Hólmgarði hins ríka; þau áttu sonu 18, ok voru 9 senn bornir, þeir hètu svo: einn var Þengill, er kallaðr var manna-þengill, annar Ræsir, 3. Gramr, 4. Gylfi, 5. Hilmir, 6. Jöfurr, 7. Tiggi, 8. Skyli eða Skúli, 9. Harri eða Herra. Þessir 9 bræðr urðu svo ágætir í hernaði, at í öllum fræðum síðan eru nöfn þeirra haldin firir tignarnöfn, svo sem konúngs nafn eða nafn jarls. Þeir áttu engi börn, ok fèllu allir í orostum. Svo sagði Óttarr svarti:

---

118) sjá bls. 83, 2. *) frá [ vantar í Kb, en er tekið úr Ob.

þengill var þegar úngr
þreks-gjörr víg-örr;
haldast bið ek hans aldr,
hann tel ek yfirmann.

Svo kvað Markús:

Ræsir lèt af roðnum hausi
Rínar sól á marfjöll skína.

Svo kvað Egill:

Gramr hefir gerðihömrum
grundar upp of hrundit[119].

Svo kvað Eyvindr:

Lèk við ljóðmögu
gylfi enn glaðværi,
(skyldi land verja)
stóð und gullhjálmi[120].

Svo kvað Glúmr:

Hilmir rauð und hjálmi
heina laut á Gautum[121].

Svo kvað Óttarr svarti:

Jöfurr heyri upphaf
(háttu nemi hann rètt
(ofrast mun konúngs lof)
hróðr mins) bragar síns.

Sem Stúfr kvað:

Tíreggjaðr hjó tiggi
(reifr gekk herr und hlífar)
tveim höndum lið heima
hissig suðr firir Nissi.

Svo kvað Hallfreyðr:

Skiliðr em ek við skylja,
vætti ek virða drottins;
skálmöld hefir því valdit;
vil er mest ok dul flestum[122]

Svo kvað Markús:

Harra kveð ek at hróðrgjörð dýrri
hauklundaðan Dana grundar.

Enn áttu þau Hálfdan aðra níu sonu, er svo heita: Hildir, er Hildíngar eru frá komnir; 2. Nefir, er Niflúngar eru frá komnir; 3. Auði, er Öðlíngar eru frá komnir; 4. Ýngvi, er Ýnglíngar eru frá komnir; 5. Dagr, er Döglíngar eru frá komnir; 6. Bragi, er Bragníngar eru frá komnir, þat er ætt Hálfdanar ens milda; 7. Buðli, af Buðlúnga ætt kom Atli ok Brynhildr; 8. er Lofði, hann var herkonúngr mikill, honum fulgði þat lið, er Lofðar voru kallaðir, hans ættmenn voru kallaðir Lofðúngar: þaðan er kominn Eylimi, móðurfaðir Sigurðar Fofnisbana; 9. Sigarr, þaðan eru komnir Siklíngar, þat er ætt Siggeirs, er var mágr Völsúnga, ok ætt Sigars, er hengði Hagbarð. Af Hildínga ætt var kominn Haraldr inn granrauði, móðurfaðir Hálfdanar svarta. Af Niflúnga ætt var Gjúki, af Öðlínga ætt var Kjarr, af Ylfinga ætt var Eiríkr inn málspaki.

Þessar eru ok konúnga ættir ágætar: frá Ýngvari, er Ýnglíngar eru frá komnir; frá Skildi í Danmörk, er Skjöldúngar eru frá komnir; frá Völsúngi á Frakklandi, þeir heita

---

119) Egils saga Skallagr. k. 55. 120) Hákonarmál, 4. 121) sjá bls. 93, 2. 122) Fms. 3, 9, 1.

Völsúngar. Skelfir hèt einn herkonúngr, ok er hans ætt köllut Skilvínga ætt, sú kynslóð er í austrvegum. Þessar ættir, er nú eru nefndar, hafa menn sett svo í skáldskap, at halda öll þessi firir tignarnöfn. Svo sem Einarr kvað:

Frá ek við hólm at heyja (lind varð gron) inn grána
hildíngar fram gíngu geirþíng (í tvö sprínga).

Sem Grani kvað:

Döglíngr fèkk at drekka danskt blóð ara jóði[123].

Sem Gamli kvað gnævaðar-skáld:

Öðlíngr drap sèr úngum innan borðs ok orða
úngr naglfara á túngu aflgóðr meðalkafla.

Sem Jórunn kvað:

Bragníngr rèð í blóði (hús lutu opt firir eisum)
(beið herr konúngs reiði) óþjóðar slög rjóða.

Svo kvað Einarr:

Beit buðlúngs hjörr, raufsk Hildar ský
blóð fèll á dörr[124]; við Hvítabý[125].

Svo kvað Arnórr:

Siklínga venr snekkjur hann litar herskip innan
sjálútar konr úti; (hrafns góð er þat) blóði.

Sem Þjóðólfr kvað:

Svo lauk siklíngs æfi (lofðúngr beið enn leyfði
snjalls, at vær rom allir lífs grand) í stað vandum[126].

Lofða konúngi fylgði þat lið, er Lofðar heita. Sem Arnórr kvað:

Skjöldúngr mun þèr annarr aldri æðri, gramr, und sólu fæðast.

Völsúngr, sem kvað Þorkell hamarskáld:

Mèr rèð senda Völsúnga niðr
of svalan ægi vopn gullbúin.

Ýnglíngr, sem kvað Óttarr svarti:

Engi varð á jörðu austr, sá er eyjum vestan
ógnbráðr, áðr þèr náði, Ýnglíngr und sik þrýngvi[127].

Ýngvi, þat er ok konúngs-heiti, sem Markús kvað:

Eiríks lof verðr öld at heyra: Ýngvi hèlt við orðstír lángan
engi maðr veit fremra þengil; jöfra sess í veröld þessi.

Skilfíngr, sem Valgarðr kvað:

Skilfíngr, hèlztu, þar er skulfu (auð varð) suðr (um síðir
skeiðr, firir lönd hin breiðu Sikiley) liði miklu.

Sinnjor, sem Sighvatr kvað:

Lát auman nú njóta Noregs ok g... (sjá bls. 104, 4).

---

123) Fms, 6. 254, 3. 124) Fms, 7, 235, 3. 125) Fms, 7, 236, 2. 126) Fms, 6, 420, 1. 127) Hkr, Ól. helga, k. 108.

**Skáld** heita greppar, ok rètt er í skáldskap, at kenna svo hvern mann, ef vill. Rekkar voru kallaðir þeir menn, er fylgðu Hálfi konúngi, ok af þeirra nafni eru rekkar kallaðir hermenn, ok er rètt at kenna svo alla menn. Lofðar heita ok menn í skáldskap, sem fyrr er ritat. Skatnar voru þeir menn kallaðir, er fylgðu þeim konúngi, er Skati mildi var kallaðr; af hans nafni er skati kallaðr hverr, er mildr er. Bragnar hètu þeir, er fylgðu Braga konúngi enum gamla. Virðar heita þeir menn, er meta mál manna. Fyrðar ok fírar ok verar heita landvarnarmenn. Víkíngar ok flotnar, þat er skipa-herr. Beimar, svo hètu þeir, er fylgðu Beimuna konúngi. Gumnar eða gumar heita flokkstjórar, svo sem gumi er kallaðr í brúðför. Gotnar eru kallaðir af heiti konúngs þess, er Goti er nefndr, er Gotland er við kent, hann var kallaðr af nafni Óðins, ok dregit af Gauts nafni; því at Gautland eða Gotland var kallat af nafni Óðins, en Svíþjóð af nafni Sviðurs, þat er ok heiti Óðins. Í þann tíma var kallat allt meginland, þat er hann átti, Reiðgotaland, en eyjar allar Eygotaland: þat er nú kallat Danaveldi ok Svíaveldi. Drengir heita úngir menn búlausir, meðan þeir afla sèr fjár eða orðstír; þeir fardrengir, er milli landa fara; þeir konúngs-drengir, er höfðíngjum þjóna; þeir ok drengir, er þjóna ríkum mönnum eða bændum; drengir heita vaskir menn ok batnandi. Seggir eru kallaðir ok kníar ok liðar, þat eru fylgðarmenn; þegnar ok höldar, svo eru búendr kallaðir; ljónar heita þeir menn, er gánga um sættir manna. Þeir menn eru, er svo eru kallaðir: kappar, kenpur, garpar, snillíngar, hreystimenn, harðmenni, avarmenni, hetjur. Þessi heiti standa hèr í mót, at kalla mann blauðan, veykan, þjarfan, þirfíng, blotamann, skauð, skreiu, skjaðr, vok, vom: leyra, sleyma, teyða, dugga, dasi, dirokkr, dusilmenni, ölmusa, auvirð, vílmögr. Örr maðr heitir mildíngr, mæríngr, skati, þjóðskati, gullskati, mannbaldr, sælíngr, sælkeri, auðkýfíngr, ríkmenni, höfðíngi; hèr í mót er svo kallat: hnöggvíngr, glöggvíngr, mælíngr, vesalíngr, fèníðíngr, gjöflati. Heitir spekíngr ráðvaldr. Heitir ok óvitr maðr fífl, afglapi, gassi, ginníngr, gaurr, glópr, snápr, fóli; ærr, óðr, galinn. Snyrtimaðr: ofláti, drengr, glæsimaðr, stertimaðr, prýðimaðr. Heitir hraumi, skrapr, skrokkr, skeiðklofi, flángi, slinni, fjösnir, slápr, dröttr. Lýðr heitir landfólk eða ljóðr. Heitir ok þræll, kepsir, þjónn, önnúngr, þirr.

**Maðr** heitir einnhverr; tá, ef 2 ro; þorp, ef 3 ro; 4 ro föruneyti; flokkr eru 5 menn; sveit, ef 6 eru; sjö fylla sögn; átta bera ámælis-skor; nautar eru 9; dunn, ef 10 eru; ærir ro ellifu; toglöð er, ef 12 fara; þyss eru 13; ferð er 14; fundr er, þá er fimtán hittast; seta eru 16; sókn eru 17; ærnir þikkja úvinir, þeim er 18 mætir; neyti hefir sá, er 19 menn (fylgja); drótt er 20 menn; þjóð eru 30; fólk eru 40; fylki eru 50; samnróf eru 60; sörvar eru 7 tigir; öld eru 8 tigir; herr er hundrat.

**Enn eru** þau heiti, er menn láta gánga firir nöfn manna þat köllum vær viðkenníngar eða sannkenníngar eða fornöfn.

Þat eru viðkenníngar, at nefna annan lut rèttu nafni, ok kalla þann, er hann vill nefna, eiganda, eða svo, at kalla hann þess, er hann nefndi, föðr eða afa; ái er hinn þriði. Heitir ok sonr ok arfi, arfuni, barn, jóð ok mögr, erfíngi. Heitir ok bróðir, blóði, barmi, hlýri, lifri. Heitir ok niðr, nepi, áttúngr, konr, kundr, frændi, kynstafr, niðjúngr, ættstuðill, ættbarmr, kynkvísl, ættbogi, afkvæmi, afspríngr, höfuðbaðmr, ofsköpt. Heita ok mágar, sifjúngar, hletamenn. Heitir ok vinr ok ráðunautr, ráðgjafi, máli, rúni, spjalli, aldaþópti, einkili, sessi, sessunautr; þópti er hálfrýms-fèlagi. Heitir ok óvinr, dólgr, andskoti, fjandi, sekvi, skaðamaðr, banamaðr, þröngvir, sökkvir, ósvifruðr. Þessi heiti köllum vèr viðkenníngar, ok svo, þótt maðr sè kendr við bæ sinn eða skip sitt, þat er nafn á, eða eign sína, þá er einkarnafn er gefit.

Þetta köllum vèr sannkenníngar, at kalla mann spekimann, ætlonarmann, orðspekíng, ráðsnillíng, auðmildíng, úslækinn, gæimann, glæsimann; þetta eru fornöfn.

**Þessi** eru *kvenna* heiti ókend í skáldskap: víf ok brúðr ok fljóð heita þær konur, er manni eru gefnar. Sprund ok svanni heita þær konur, er mjök fara með dramb ok skart. Snótir heita þær, er orðnæfrar eru. Drósir heita þær, er kyrrlátar eru. Svarri ok svarkr, þær eru mikillátar. Ristill er köllut sú kona, er sköruglynd er. Rýgr heitir sú kona, er ríkust er. Feima er sú köllut, er úfröm er, svo sem úngar meyjar, eða þær konur, er údjarfar eru. Sæta heitir sú kona, er búandi hennar er af landi farinn. Hæll er sú kona köllut, er búandi hennar er veginn. Ekkja heitir sú, er búandi hennar varð sóttdauðr. Mær heitir fyrst hver, en kerlíngar, er gamlar eru. Eru enn þau kvenna heiti, er til lastmælis eru,

ok má þau finna í kvæðum, þótt þat sè eigi ritat. Þær konur heita eljur, er einn mann eigu. Snor heitir sonarkona. Sværa heitir vers móðir. [Móðir heitir, ok†) amma, þriðja edda; eiða heitir móðir. Heitir ok dóttir ok barn jóð. Heitir ok systir dís, jóðdís. Kona er ok köllut beðja, mála, rún búanda síns, ok er þat viðrkenníng.

**Höfut** heitir á manni; þat skal svo kenna, at kalla erviði háls eða byrði, land hjálms ok hattar ok heila, hárs ok brúna, svarðar, eyrna, augna, munns, Heimdalar sverð, ok er rètt at nefna hvert sverðsheiti, er vill, ok kenna við eitthvert nafn Heimdalar. Höfut heitir ókent: hauss, hjarni, kjannr, kollr. *Augu* heita sjón ok lit eða viðrlit, örmjót; þau má svo kenna, at kalla sól eða túngl, skjöldu ok gler eða gimsteina eða stein brá eða brúna, hvarma eða ennis. *Eyru* heita hlustir ok heyrn; þau skal svo kenna, at kalla land eða jarðarheitum nokkvorum, eða munn eða rás eða sjón eða augu heyrnarinnar, ef nýgjörvíngar eru. *Munn* skal svo kenna, at kalla land eða hús túngu eða tanna, orða eða góma, varra eða þvílíkt, ok ef nýgjörfíngar eru; þá kalla menn munninn skip, en varrarnar borðit, túnga ræðit eða stýrit. Tennar eru stundum kallat grjót eða sker orða, munns eða túngu. Túnga er opt köllut sverð máls eða munns. *Skegg* heitir barð, grön, eða kanpar, er stendr á vörrum. *Hár* heitir lá; haddr, þat er konur hafa: skopt heitir hár; hár er svo kent, at kalla skóg eða viðarheiti nokkvoro, kenna til hauss eða hjarna eða höfuðs; eða skegg, kenna við höku eða kinnr eða kverkr.

**Hjarta** heitir negg; þat skal svo kenna, kalla korn eða stein eða epli eða hnot eða mýl eða líkt, ok kenna við brjóst eða hug; kalla má ok hús eða jörð eða berg hugarins. *Brjóst* skal svo kenna, at kalla hús eða garð eða skip hjarta, anda eða lifrar, eljunar land, hugar ok minnis. *Hugr* heitir sefi ok sjafni, ást, elskugi, vili, munr. Huginn skal svo kenna, at kalla vind tröllkvenna, ok er rètt at nefna til hverja er vill, ok svo, at nefna jötnana, eða kenna þá til konu eða móður eða dóttur þess; þessi nöfn eru sèr. Hugr heitir ok geð, þokki, eljun, þrekr, nenníng, minni, vit, skap, lund, trygð. Heitir ok hugr, reiði, fjandskapr, fár, grimð, böl,

---

†) Frá [ sleppir Kb; tekið úr Ob.

harmr, tregi, óskap, grellskap, lausúng, útrygð, geðleysi, þunngeði, gesni, hraðgeði, óðveri.

**Hönd** má kalla mund, arm, lám, hramm. Á hendi heitir almbogi, armleggr, úlfliðr, liðr, fíngr, greip, hreifi, nagl, gómr, jaðarr, kvikva. Hönd má kalla jörð vopna eða hlífa, við axlar ok ermar, lófa ok hreifa: gullhrínga jörð ok vals ok hauks ok allra hans heita, ok í nýgjörvíngum fót axlar, bognauð. *Fætr* má kalla trè ilja, rista, leista, eða þvílíkt, renniflein brautar eða göngu, fets; má kalla fótinn trè eða stoð þessa. Við skíð ok skúa ok brækr eru fætr kendir. Á fæti heitir lær, knè, kálfi, bein, leggr, rist, jarki, tá; við þetta allt má fótinn kenna, ok kalla hann trè, ok kallat er sigla ok rá fótrinn, ok kenna við þessa luti.

**Mál** heitir ok orð ok orðtak, snillitala, saga, senna, þræta, saungr, galdr, kveðandi, skjal, biva, hjald, hjal, skval, glaumr, þjarka, gyss, þrapt, skalp, hól, skraf, dælska, ljóðæska, hègómi, afgelja. Heitir ok *rödd* hljómr, rómr, ómun, þytr, göll, gnýrr, glymr, þrymr, rymr, brak, svipr, svipun, gángr. Svo skal orostu kenna við sverð eða önnur vopn eða hlífar.

**Vit** heitir speki, ráð, skilníng, minni, ætlun, hyggjandi, tölvísi, lángsæi, bragvísi, orðspeki, skörúngskapr. Heitir undirhyggja, vælræði, fláræði, brigðræði.

**Læti** er tvent: læti heitir rödd, læti heitir æði, ok æði er ok úlund. *Reiði* er ok tvíkent: reiði heitir þat, er maðr er í illum hug, reiði heitir ok fargervi skips eða hross. *Far* er ok tvíkent: fár er reiði, far er skip. Þvílík orðtök hafa menn mjök til þess at yrkja fólgit; ok er þat kallat mjök ofljóst. *Lið* kalla menn þat á manni, er leggir mætast: lið heitir skip: lið heitir mannfólk: lið er ok þat kallat, er maðr heitir öðrum liði sínu: lið heitir öl. *Hlið* heitir á garði, ok hlið kalla menn oxa, en hlíð er brekka. Þessar greinir má setja svo í skáldskap, at gera ofljóst, at vant er at skilja, ef aðra skal hafa greinina, en áðr þykki til horfa en fyrri vísuorð. Slíkt sama eru ok önnur mörg nöfn, þau er saman eigu heitit margir lutir.

---

*Atli, Fróði,*
Ali, Glammi,
Beiti, Ati
ok Beimuni,
Auðmundr, Guðmundr,
Atall ok Gestill,
Geitir, Gauti,
Gylfi, Sveiði.
Góir, Eynefr,
Gaupi ok Endill,
Skekkill, Ekkill,
Skefill ok Sölvi,
Holfr ok Helmir,
Hárekr ok Gor,
Hagbarðr, Haki,
Hrauðnir, Meiti.
Hjörólfr ok Hröðúngr,
Högni, Mýsíngr,
Hundíngr, Hvítíngr,
Heiti, Mefill,
Hjálmar, Móir,
Hömir, Mövi,
Róði, Rakki,
Rer ok Leifi.
Randver, Röknir,
Reifnir, Leifnir,
Nefill, Refill,
Nori, Lýngvi.
Byrvill, Kilmundr,
Beimi, Jórekr,
Josmundr, Þvinnill,
Ýngvi, Teiti.
Virvill, Vinnill,
Vandill, Sölsi,
Gautrekr ok Húnn,
Gjúki, Buðli,
Homarr, Hnefi,
Hyrvi, Syrvi;
sèkkat ek fleiri
sækonúnga.
*Ek mun jötna*
inna heiti:
Ýmir, Gángr ok Mímir,
Iði ok Þjassi,
Hrúngnir, Hrímnir,
Hrauðnir, Grímnir,
Hveðrúngr, Hafli,
Hripstoðr, Gýmir.
Harðverkr, Hrökkvir
ok Hástigi,
Hræsvelgr, Herkir
ok Hrímgrímnir,
Hýmir ok hrímþurs,
Hvalr, Þrígeitir,
Þrymr, Þrúðgelmir,
Þistilbarði.
Geirröðr, Fyrnir,
Galarr, Þrívaldi,
Fjölverkr, Geitir,
Fleggr, Blapþvari,
Fornjótr, Sprettíngr,
Fjalarr, Stígandi,
Sómr ok Svasuðr,
Svarángr, Skrati.
Surtr ok Stórverkr,
Sækarls-múli,
Skorir, Skrýmir,
Skerkir, Salfángr,
Óskruðr ok Svartr,
Anduðr, Stúmi,
Alsvartr, Örnir,
Ámr ok Skalli.
Köttr, Ásgrúi
ok Alfarinn,
Vindsvalr, Viðarr
ok Vafþrúðnir,
Eldr ok Örgelmir,
Ægir, Rángbeinn,
Vindr, Viðblindi,
Víngnir, Leifi.
Beinviðr, Björgólfr
ok Brandíngi,
Dumr, Bergelmir,
Dofri ok Miðjúngr,
Nati, Sekmímir;
nú er upp talit
ámáttligra
jötna heiti.
*Skal ek tröllkvenna*
telja heiti:
Gríðr ok Gnissa,
Grýla, Brýja,

Glumra, Geitla,
Gríma, Bakrauf,
Guma, Gestilja,
Grottintanna.
Gjolp, Hyrrokkin,
Hengikepta,
Gneip ok Gnepja,
Geysa, Hala,
Horn ok Hryga,
Harðgreip, Forrat,
Hrygða, Hveðra
ok Hölga-brúðr.
Hrímgerðr, Hæra,
Herkja, Fála,
Imd, Járnsaxa,
Íma, Fjölvör,
Njörn, Íviðja,
Amgerðr, Símul,
Sívör, Skríkja,
Sveipinfalda.
Öflugbarða
ok Járnglumra,
Imgerðr, Áma
ok Járnviðja,
Margerðr, Atla,
Eisurfála,
Leikn, Munnharpa
ok Munnriða.
Leirvör, Ljóta
ok Loðinfíngra,
Kraka, Varðrún
ok Kjallandi,
Vígglöð, Þurbörð,
viljum nefna
Rygi síðarst
ok Rifingöflo.

*Þórr heitir Atli*
ok Ása-bragr;
sá er ennilángr
ok Eindriði,
Björn, Hlórriði
ok Harðveorr,
Víngþórr, Sönnúngr,
Veoðr ok Rymr,
Ása-hetja;
enn er hann kendr
Rymnir ok Rymir
í ritum fornum.

*Burir eru Óðins:*
Baldr ok Meili,
Viðarr ok Nepr,
Voli, Öli,
Þórr ok Hildólfr,
Hermóðr, Sigi,
Skjöldr, Ýngvifreyr
ok Ítreks-jóð,
Heimdallr, Sæmíngr,
[Höðr ok Bragi].

*Enn eru eptir*
jötna heiti:
Eimgeitir, Ver,
Ími, Hríngvölnir,
Viddi, Víðgrípr,
Vandill, Gyllir,
Grímnir, Glaumarr,
Glámr, Sám-endill.
Vörnir, Harðgreipr
ok Vagnhöfði,
Kyrmir, Suttúngr
ok Kallgrani,
jötunn, Ógladnir
ok Örgrímnir,
Grimlíngr, Gusir
[ok Gánglati,
Ofote, Hlóe
ok Helreginn[1],
Hrossþjófr, Durnir,
Hundallr, Baugi,
Hröðúngr, Fenrir,
Hróarr ok Miði.

*Enn skal telja*
Ása-heiti:
þar er Yggr ok Þórr
ok Ýngvifreyr,
Viðarr ok Baldr,
Vali ok Heimdallr;
þá er Týr ok Njörðr,
tel ek næst Braga;

---

1) Röðin frá næsta [ er höfð eptir Skbr., merktu leb, sem gengr Kb næst.

Höðr, Forseti,
hèr er efstr Loki.
*Nú skal Ásynjur*
allar nefna:
Frigg ok Freyja,
Fulla ok Snotra,
Gerðr ok Gefjon,
Gná, Lofn, Skaði,
Jörð ok Iðunn,
Ilmr, Bil, Njórunn.
Hlín ok Nanna,
Hnoss, Rindr ok Sjöfn
Sól ok Sága,
Sigyn ok Vör,
þá er Var ok Syn,
verðr at nefna,
en Þrúðr ok Rán
þeim næst talit.
Grèt ok at Óði
gulli Freyja;
heiti eru hennar:
[Hörn ok Þúngra,
Sýr, Skjálf ok Gefn,
ok it sama Mardöll;
dætr ero hennar[1]
Hnoss ok Gersimi.
Enn eru aðrar
Óðins meyjar:
Hildr ok Göndul
Hlökk, Mist, Skögul;
þá er Hrund ok Mist,
Hrist, Skuld talit;
Nornir heita,
þær er nauð skapa.
*Nipt ok dísi*
nú mun ek telja:
snót, brúðr, svanni,
svarri, sprakki,
fljóð, sprund, kona,
feima, ekkja,
rýgr, víf ok drós
ristill, sæta,
man, svarkr ok hæll,
mær ok kerlíng.

*Mál er at segja*
manna - heiti:
greppar ok gumnar,
gumar ok drengir,
gotnar, rekkar,
garpar, seggir,
sveit, snillíngar
ok sælkerar.
Bragnar, þegnar,
heimar, höldar,
fírar ok flotnar,
fyrðar [ok drótt,
föruneyti[2],
flokkr, harðmenni,
kníar ok kappar,
kenpur, nautar.
Öld ok ærir
ok afarmenni,
liðar ok lofðar,
lýðr ok sagnir,
ljóðr, oflátar,
ljónar ok ferðir,
mildíngr, mæríngr,
mannbaldr, spekíngr.
Þá er glæsimaðr
ok gullskati,
þá eru snyrtimenn
[ok sælíngar[3]
auðkýfíngar
ok oflátar,
herr ok helmíngr
ok höfðíngjar,
fólk ok fylki,
fundr, almenníng.
Nú er þraung ok þyss,
þorp, auðskatar
drótt ok syrvar,
dunn, prýðimenn,
sögn ok samnaðr,
seta, stertimenn,
fjorr ok brjónar.
*Enn eru eptir*
aldar-heiti:
hirð ok gestir

1) frá [ tekið úr Ob; vantar í Kb. 2) Röðinni frá [ hagað eptir Ob. 3) bætt við eptir Skbr, merktu 748.

ok húskarlar,
inndrótt ok hjón
(ef ek allt segi),
rúni ok þópti
ok ráðgjafi.
Innhýsíngar,
alda-þóptar,
sessi ok máli
serlar ok fylgðir:
þá er fèlagar
ok frændr saman,
vinr, einkili,
verðúng, halir.
Ái ok áttúngr,
avi, sonr,
faðir, bróðir, barmi,
blóði ok lifri,
jóð, burr, nefi
ok arfuni,
þá eru hlýrar
ok höfutbaðmar.
Niðr, hlætamaðr,
niðjúngr ok barn,
konr ok kynkvísl,
kundr, ættbogi,
mögr, málunautr,
mágr ok spjalli,
ættbaðmr, ættslóð,
ofsköpt ok sveinn.
Sessunautar
ok sifjúngar,
afspríngr er þá
ok ættstuðill:
þá er ráðunautr
[ok ráðgjafi[1],
þjónar, þrælar,
þirr, önnúngar,
verkmenn, kefsar
[ok vílmegir[1].

*Þau eru orostu heiti:*

hjaldr ok rimma,
göll, geirahöð,
ok geirþriful,
róg ok róma,
ranngríð ok storð,
svipul ok snerra,
sig, fólk, jara.
Sóta, morð ok víg,
sókn ok ið,
dólg, ógn, tara,
dríma ok ímun:
þá er orosta
ok örlygi,
hríð ok etja,
herþögn, þrima.

*Ek mun segja*

sverða-heiti:
hjör ok hrotti,
höguðr, dragvandill,
gróa, gramr, gellir,
gjallr ok neðanskarðr
sigðr ok snyrtir,
sómi, skjómi.
Skolkr, skerkir, stúfr
skrýmir, laufi,
öltirr, lángbarðr
ok ormþvari,
leggbiti ok kyrr
ok Leifnis-grand,
herberi, hneitir
ok hafrakan.
Lotti, hrönduðr,
lögðir, mækir,
mönduðr mundriði
ok mistilteinn,
málmr, þrór ok marr
ok miðfáinn,
fetbreiðr, grindlagi
ok fjörsoðnir.
Vægir, veigarr,
vallángr ok brandr,
verúlfr, valnir,
vinnbjartr ok kvöl,
askr, ángrvaðill
eggjom-skarpi,
svipuðr ok svipaljótr,
salgarðr, hnefi.
Hvati, höfuðhvessíngr,

1) bætt við eptir Skbr. 748

hausa-mölnir
hrævagautr, herbrái
ok holdmímir
bensogr, brigðir
brímir, huglognir
skygðir, skreivir
skarðr, grindlogi.
Mímúngr ok fellir
ok málvitnir
taurar, hrævarðr
trani, vindþvari
liðnir, kvernbiti
ljómi, herðir,
vitnir, yfrir,
vægja - lestir.
Skelkvíngr, fylvíngr,
flæmíngr, skerðíngr,
skotníngr, skilvíngr,
sköfnúngr, rifjúngr,
brotníngr, hvítíngr,
bæsíngr, tyrvíngr,
hökíngr ok hríngr,
hittast mun nettíngr.
Logi ok munngjallr,
lánghvass ok eldr,
örn ok eygir
ok naglfari,
brigðir, mörnir,
blör ok skerðir,
hyrr ok helsíngr,
hríðir, atti.
Fellir, fölvir,
fafnir, raufnir,
imnir, eimnir,
afspríngr, þinorr,
sigðir, snyrtir,
svelgr, skarr ok narr,
góinn, gestmóinn,
garr, þrimarr, níðhöggr.
* * *
Oddr, blóðvarta
ok benknúar,
blóðrefill, blóðvarp
ok blóðiða,
blóðvaka, ljúgfengr
ok blóðhnefi,
iðhvarf ok brandr,
eggteinar, fólk.
Emjar, þremjar,
ok Ölroðar-nautr,
merki, vættrim,
ok missifengr,
onn ok skafníngr,
undirdregníngr,
vargr ok Kaldhamarsnautr,
valböst ok herðr.
Sverð ok gelmíngr
ok samnagli,
hugró, sigrhnoð,
hjalt ok tángi,
mundriðr, högfáðr
og meðalkafli.

*Öx ok jarðsparða,*
hyrna, skjafa ok skeggja,
skráma ok genja,
reginspönn, gnepja,
gýgr ok fála,
snaga ok búlda,
barða ok vígglöð
þveita ok þenja,
þá er arghyrna,
hon er öfst talit
öxar - heita.

*Darr, spjót ok nöt,*
döf, lenz ok vigr
snata, fleinn ok svaf
sviða, hræmæki,
geirr, spjörr, nata,
gefja, kesja,
gaflak, frakka,
gúngnir, peita.

*Ör er ok akka,*
oddr, hvítmýlíngr,
fenja ok drífa
flug, dynfara
bösl, böl, bílda
broddr ok hremsa,
gögnflaug ok þrös,
gögn ok skaptsnör.
Flugglöð, flugsvinn,
fífa ok skeyti,
geta skal Fenna
ok Gusis-smíðis,

Jóls--smíði er
en öfst þura.

*Álmr, dalr,*
ýr ok tvíviðr
sveigr, glær ok þrymr
sómr, skálg-elmir.
Enn kveð ek heita
öll vopn saman:
jörn, ör ok slög
ísarn ok spjörr.

*Skjöldr, þrúnginsalr,*
skaun, salbendíngr
bugnir, hlæbarðr
ok buklari
vetlimi, targa
veðrglaðr ok hlíf
viðbleiknir, rít
vígglaðr ok lind.

Gjallr, döggskafi
ok gimskýlir
baðljós, grýta
ok böðskýlir
svalinn ok randi
saurnir, borði
skuttíngr, barði
skírr, tvíbyrðíngr
ýrlygr ok svarmr
eilífnir, heiðr
baugr, fagrbláinn
bera, miðfornir.

*Hropts hattar skal ek*
heiti segja:
hjálmr, gullfáinn
hrönn, valhrímnir
hallhrímnir, skolir
ok hlífandi
fjörnir, þokki
ok fíkmóinn
hildígöltr, kellir
herkumbl ok velgr
gríma, ægir
glövir, stefnir.

*Brynja, kund, hjalmgöll,*
hröð ok nati
köld, Finns - leif
hoföra, þýðsýn
ok blóðleika.

*Sær, sílægja,*
salt, ægir, haf,
lögr, sumr, lægir,
laugr, stop ok vogr
gjallr, gnap, geimi
gnarr, svífr, ok marr
sugr, sogsami
svelgr, röst ok fjörðr.

Sund, ögr, velforir
sími ok víðir
hríð, ver, breki
húm, flóð ok brim
græðir, glýjoðr
gýmir ok vegir
gniðr ok úrór
gjálfr, fen, snapi.

Gnat, vörr, vika
vöst, hóp ok mið
vatn, djúp ok kaf
vík, tjörn ok sík
stormr, díki, hylr
straumr, lækr ok bekkr
áll, bruðr, kelda
iða, fors ok kíll.

Hefríng, alda
hvítíngr ok lá
hrönn, rán, kelda
ok himinglæva,
dröfn, uðr ok solnir,
dúfa, bylgja,
boði ok bára,
blóðughadda.

*Gjöll, glit, gera,*
glóð ok valskjálf,
von, við, vimur,
víng ok ysa,
síð, suðr, freka,
sekin, einstika,
elfr, ro, ekla,
ekin, rennandi.

Þyn, rín ok nið,
þöll, rimr, ysja,
dun, ógn, dýna,

dyn, höll, fara,
órun ok bro
auðskjálg, lodda
mun, merkriða,
mein ok saxelfr.
Tífr, durn, vína,
tems, vond ok strind,
möra, móða, þrym,
morn ok gautelfr,
alin, uðr, alkoga
ok evfrates
ógn, eiðrennir
ok apardjón.
Rögn, hrönn ok rön
raumelfr, hnipul
hnöpul, hjálmun-lá
humra, vína
vil, vin, vella
valin, semd, salin
nepr, dröfn, strauma
nis, mynt, gnapa.
Gillíng ok níl
ganges, tvedda
luma, vervaða
leira ok gunnþro
víðsvöl, vegsvinn
yn, þjóðnuma
fjörm, strond ok spe
ok fimbulþul
Nyt, hrönn ok nauð
nöt, sliðr ok hríð
körmt, leifstr ok örmt
kerlaugar tvær
gömul, sylgr ok yn
ok geirvimul
ylgr, vöð ok fold,
jórdan er á lesti.

*Lax ok lánga,*
lýsa, brosma
birtíngr, hængr
bust ok hrygna
humarr, hrognkelsi
hveðnir, flóki
ölun, örriði
ok andvari.
Síld, seiðr, skata
síl, reiðr ok ogr
skreiðúngr ok síkr
skálgi, flyðra
fyldingr, styrja
ok fyðruskill
hámerr, steinbítr
ok háskerðíngr.
Fjörsúngr, þrömmúngr
ok fengrani
hamarr, sandhverfa
ok horngæla
marknútr, glömmúngr
ok marþvara
silúngr, skeljúngr
sverðfiskr ok lýr.
Þyrsklíngr, upsi
þorskr, vartari
grunnúngr, gedda
gjolnir, keila
áll ok karfi
krabbi, geirsíl
hár ok goðlaks
hornsíl, ígull.

*Háfr, hvalr, geirhvalr,*
ok hafgufa
hnísa, hafstrambr
ok hnýðíngar
reyðr, reyðarkálfr
ok rauðkembíngr
bunúngr, rostúngr
blejohvalr.
Norðhvalr, kýrhvalr
náhvalr ok leiptr
skeljúngr, fiskreki
ok skútuhvalr
slèttibaka, skjaldhvalr
ok sandlægja
hrosshvalr, andhvalr
hrafnreiðr ok vögn.

*Nú mun ek skýra*
of skipa - heiti:
örk, árakló
askr, sessrúmnir
skeið, skúta, skip
ok skíðblaðnir
nór, naglfari
nökkvi, snekkja.

Byrðíngr, bússa
barðkaldr ok hreinn
bakki, hömlúngr
hèlug-barði
röst, bátr ok regg
röð, hrínghorni
lúng, kjöll, lángskip,
leifnir, karfi.
Hríngr, gnoð, freki
hröð, móðrói
hemlir, barði
ok hylbauti
ugla, leðja
ok askvitull
köna, ketla
kati, reið ok skálpr.
Knörr, kuggr, knúi
keipull, eikja
dreki, elliði
drómundr ok prámr
fura, vigg, galeið
ferja, skalda
fley, flaust ok þekkr
fartíðr ok lið.

* * *

Segl, skör, sigla
sviðvís, stýri
syjur, saumför
súð ok skautreip
stag, stafn, stjórnvölr
stuðill ok (sikulgjörð)
snotra ok sólborð
sess, skutr ok strengr.
Söx, stöðíngar
svipting ok skaut
spíkr, siglu-trè
saumr, lekstopar
laukr, siglu-toppr
lína, eyru
flaug, flaugarskegg
ok farnagli.
Húnbora
ok hjálmunvölr
húfr, hlýr, hremni
ok hálstemni
hefill, háls, hánki
ok höfutbendr
háir, hæll, hamarr
hjálpreip ok lík.
Ró, rakki, rif
rengr ok hömlur
vindáss, vengi
vöndr, lángnefjur
völt, beitiáss
varta, brandar
bitar, bóglína
búlka - stokkar.
Barð, knè, bygði
belti ok kinnúngr
kjölr, borð, keili
ok kjölsýgja
kraptar, kerlíng
klær ok þóptur
kalreip, þrimir
klovar ok þiljur.
Drengir, dragreip
dæla, árar
aktaumar, rör
arinn ok nálar
aurborð, kjalarhæll
ok akkeri
hnakkmiði, ausker
ok húnspænir.

*Jörð, fjörn, rufa,*
eskja ok hlóðyn
gýma, sif, fjörgyn
grund, hauðr ok rönd
fold, vángr ok fíf
frón, hjarl ok barðmr
land, bjöð, þruma
(láð) ok merski.
Holt, háls ok fjöll
hlíð ok leiti
höll, heiðr ok hvilpt
hvall ok brekka
hró, dalr ok völlr
hvammr ok túnga
mold, flag, rimi
mór, laut ok sandr.

*Enn skal segja*
öxna - heiti:
árvakr, drjóni
ok jormunrekr
simi, freyr, reginn

smiðr, eyþvari,
rauðr ok rekníngr,
ok rökkvihliðr
viggi, böruðr,
víngnis - stjóri.
Himinrjótr, simir,
ok harðfari,
hæfir, digni,
hjölluðr, simull,
hliðr, stúfr ok litr,
hrið, forsimi,
arnr, örmuni
ok eiki - smiðr.
Gneisti, apli,
ok gollinhorni,
auðr, kvígr, öldúngr,
ok arfuni,
griðúngr, ölgr, gellir,
glymr ok hreði,
tíðúngr, boli,
tarfr, örgefinn.
*Kýr heitir skirja,*
kvígja ok frenja
ok auðhumbla,
hon er æzt kúa.
*Hrútr, ofrhyrníngr,*
hornum - skvali,
gumarr, hornglóinn
ok gjaldhróinn
hveðurr, hornglói
hallinskíði
berr, hornhróinn
ok heimdali,
bekri, miðjúngr
blær, mörðr ok veðr.
*Hafr heitir grímnir*
ok geirölnir,
tanngnjóstr, kjappi
ok tanngrisnir,
skimuðr ok brúsi
bokkr, grímr taliðr.
Heitir ok heiðrún
haðna ok kiðlíngr,
er kolmúla
ok kið saman.
*Björn, bersi, blómr,*
bera, elgviðnir
blájaxl, ísölfr
ok breiðvegi
bestíngr, bassi
balti, hlebarðr
úfr, frekr, vilnir
jórrekr, mösni.
Fetviðnir, húnn,
fress, vetrliði,
júgtanni, jálfuðr,
ifjúngr, vilskarpr.
*Hjörtr, dyraþrór,*
hliðr, eikþyrnir,
duneyrr, dáinn,
dvalarr, metroðnir.
*Göltr, valglitnir,*
gríss ok hrinnir,
svíntarr, runi,
særímnir, börgr,
rarr, valbassi,
roðr, dritroði,
þrór, viðrir, skunpr,
þrondr, vaníngi.
*Vargr, úlfr, geri,*
vitnir ok hninnir ok grádýri,
hati, hróðvitnir
ok heiðíngi
freki ok viðnir
fenrir, hlèbarðr
goti, gildr, glammi
gyldir, imarr
imr, egðir
ok sköllkini.
Enn heitir svo:
ylgr, vargynja
borkn ok íma, svimul.
*Níu eru himnar*
á hæð talit:
veit ek hinn nezta
sá er vindbláinn
þá er heiðyrnir
ok hreggmímir
annarr heitir
andlángr himinn
(þat máttu skilja)
þriði viðbláinn;

víðfeðmi kveð ek
vera hinn fjórða;
hrjóðr ok hlýrni
hyggjum sètta:
gímir, vetmímir
get ek nú vera
átta himna
upp um talda;
skaturnir stendr
skýjum efri
hann er utan
alla heima
*Sól ok sunna*
sýn, fagrahvel
leiptr hrjóðr leika,
líkn-skin, röðull
leiptr, ifröðull
ok ljósfari
drífandi, álfröðull
ok Dvalins-leika.

---

# Háttatal,

## *er Snorri Sturluson orti*

### um Hákon konúng ok Skúla hertoga.

---

Hvat eru *hættir* skáldskapar? þrent. Hverir? Setníng, leyfi, firirboðníng. Hvat er setníng háttanna? Tvent. Hver? Rètt ok breytt.

Hvernig er *rètt setníng háttanna?* Tvenn. Hver? Tala ok grein. Hvat er tala setníngar háttanna? Þrenn. Hver? Sú er ein tala, hversu margir hættir hafa funnizt í kveðskap höfut-skálda; önnur tala er þat, hversu mörg vísuorð standa í einu eyrindi í hverjum hætti; en þriðja tala er sú, hversu margar samstöfur eru settar í hvert vísuorð í hverjum hætti. Hver er grein setníngar háttanna? Tvenn. Hver? Málsgrein ok hljóðsgrein. Stafasetníng greinir mál allt; en hljóð greinir þat, at hafa samstöfur lángar eða skammar, harðar eða linar, ok þat er setníng hljóðsgreina, er vær köllum *hendíngar,* svo sem hèr er kveðit:

1. Lætr sá, er Hákun heitir,
[hann rekkir lið] bannat
(jörð kann frelsa) fyrðum
friðrofs (konúngr) ofsa.
Sjálfr ræðr allt ok Elfar,
úngr stillir sá, milli
(gramr á gipt at fremri)
Gandvíkr jöfurr landi.

Hèr er stafasetníng sú, er hætti ræðr ok kveðandi gerir: þat eru 12 stafir í eyrindi, ok eru 3 settir í hvern fjórðúng. Í hverjum fjórðúngi eru tvö vísuorð. Hverju vísuorði fylgja 6 samstöfur. Í öðru vísuorði er settr sá stafr fyrst í vísuorðinu, er vær köllum *höfutstaf:* sá stafr ræðr kveðandi; en í fyrsta vísuorði mun sá stafr finnast tysvar standa firir samstöfun:

þá stafi köllum vèr *stuðla.* Ef höfutstafr er samhljóðandi, þá skulu stuðlar vera enn enn sami stafr; svo sem hèr er:

Lætr sá er Hákun heitir
(hann rekkir lið) bannat.

En rángt er, ef þessir stafir standa firir samstöfun optarr eða sjaldnarr, en svo, í fjórðúngi vísu. En ef hljóðstafr er höfuðstafrinn, þá skulu stuðlar vera ok hljóðstafir, ok er fegra, at sinn hljóðstafr sè hverr þeirra. Þá má ok hlýða, at hljóðstafr standi fyrir optarr í fjórðúngi í fornöfnum, eða í málfyllíng, þeirri er svo kveðr at: *ek,* eða svo: *en, er, at, í, o, of, af, um;* ok er þat leyfi, en eigi rètt setníng.

Önnur stafasetníng er sú, er fylgir setníng hljóðs þess, er hátt gerir ok kveðandi. Skal sú grein í dróttkvæðum hætti svo vera, at fjórðúngr vísu skal þar saman fara at allri stafasetníng ok hljóða: skal í fyrra vísuorði þannig greina þá setníng:

Jörð kann frelsa fyrðum;

hèr er svo: *jörð, fyrð,* þat er ein samstafa í hvorum stað, ok sinn hljóðstafr fylgir hvorri, ok svo upphafsstafr; en einir stafir eru eptir hljóðstaf í báðum orðum: þessa setníng hljóðfalls köllum vèr *skothendíng.* En í öðru vísuorði er svo:

Friðrofs konúngr ofsa;

svo er hèr: *rofs, ofs,* þar er einn hljóðstafr, ok svo allir þeir, er eptir fara, í báðum orðum, en upphafsstafir greina orðin: þetta heita *aðalhendíngar.*

Svo skal hendíngar setja í dróttkvæðum hætti, at hin síðarri hendíng í hverju vísuorði, er heitir *viðrhendíng,* hon skal standa í þeirri samstöfu, er ein er síðar. En sú hendíng, er *frumhendíng* heitir, stendr stundum í upphafi orðs, köllum vèr þá *oddhendíng,* stundum í miðju orði, köllum vèr þá *hluthendíng.* Þetta er *dróttkvæðr háttr;* með þeima hætti er flest ort, þat er vandat er; þessi er upphaf allra hátta, sem málrúnar eru firir öðrum rúnum.

Hvernig er *breytt setníng háttanna?* Tvo vega. Hvernig? Með máli ok hljóðum. Hvernig skal með máli skipta? Tvo vega. Hvernig? Halda eða skipta háttunum. Hvernig skal breyta háttunum ok halda sama hætti? Svo, at kenna eða styðja eða reka eða sannkenna eða yrkja at nýgjörvíngum.

Hvat eru *kendir hættir?* Svo sem þetta:

2. Fellr of fura stilli
fleinbraks, limu axla,
Hamðis-faung, þar er hríngum
hylr ættstuðill Skylja;

holt felr hildigelti
heila bös, ok deilir
gulls í gelmis stalli
gunnseið, skörúngr, reiðir.

Hèr eru öll heiti kend í þessi vísu, en hendíngar ok orðalengð ok stafaskipti fara, sem fyrr var ritat.

Kenníngar eru með þrennum háttum greindar: fyrst heita kenníngar, annat tvíkent, þriðja rekit; þat er kenníng, at kalla *fleinbrag* orostu, en þat er tvíkent at kalla *fleinbraks fur* sverðit, en þá er rekit, ef lengra er.

3. Úlfs baga verr Ægis
ítr báls hati málu,
sett eru börð firir bratta
brún Mímsvinar rúnu;
Orms voða kann eiðu
allvaldr göfugr halda:
Menstríðir, njót móður
mellu dólgs til elli!

Hvat eru *sannkenníngar?* Svo sem þetta:

4. Stinn sár þróast stórum,
sterk egg frömum seggjum·
hvast skerr hlífar traustar;
hár gramr lifir framla.
hrein sverð litar harða
hverr drengr; göfugr þengill
(ítr rönd furast undrum)
unir bjartr snöru hjarta.

Þat er sannkenníng, at styðja svo orðin með sönnu efni, svo, at kalla *stinn* sárin; því at höfug eru sár stór; en rètt er mælt, at þróast; önnur sannkenníng er sú, at sárin þróast *stórum;* nú er eitt vísuorð, ok tvær sannkenníngar. Í öðru vísuorði er köllut *sterk* egg, en *framir* seggir. Í enu þriðja er svo, at *hvast* skerr, hlífin er *traust.* Ok í fjórða orði, at kalla konúnginn *mikinn,* en líf hans *framlekt;* þar næst, at kalla *hreint* sverð, ok *harðliga* roðit, en *einn-hverr* liðsmanna, ok veri rètt mál, þótt maðr veri nefndr: *göfugr* er konúngrinn kallaðr; röndin var *kostig*, ok furaðist *undarliga skjótt;* konúngrinn undi *glaðr fræknu* hjarta. Nú eru hèr sýndar 16 sannkenníngar í átta vísuorðum, en þó fegra þær mjök í kveðandi, at eigi sè svo vandliga eptir þeim farit.

Sannkenníngar hafa þrenna grein: heitir ein sannkenníng, önnur stuðníng, þriðja tvíriðit. Þetta er *tvíriðit* kallat:

5. Óðharða spyr ek eyða
egg fullhvötum seggjum;
dáðrökkum veldr dauða
dreng ofrhugaðr þengill;
hamdökkum fær Hlakkar
hauk munnroða aukinn
(veghrösinn spyr ek vísa)
valdr ógnþorinn skjaldar.

Hèr fylgir stuðníng hverri sannkenníng, svo sem köllut er eggin *óðhörð,* en *fullhvatir* mennirnir. Þat er sannkenníng, *hörð* egg, en *hvatir* menn; þat er stuðníng, er annat sönnunarorð fylgir sannkenníng.

Hvat eru *nýgjörvíngar?* Svo sem þetta:

6. Sviðr lætr sóknar naðra
slíðrbraut jöfurr skríða:

| | |
|---|---|
| ótt ferr rógs or rèttum | sveita bekks at leita: |
| ramsnákr fetilhamsi; | ormr þyrr vals at varmri |
| linnr kná sverða sennu | víggjöll sefa stigu. |

Þat eru nýgjörvíngar, at kalla sverðit *orm*, ok kenna rètt, en slíðrirnar *götur* hans, en fetlana ok umgjörð *hams* hans; þar heldr til ormsins náttúra, at hann skríðr or hamsi, svo at hann skríðr mjök til vatns. Hèr er svo sett nýgjörvíng, at hann ferr leita *blóðs bekkjar* at þar, er hann skríðr *hugar stigu*, þat eru brjóst manna. Þá þikkja nýgjörvíngar vel kveðnar, ef þat mál, er upp er tekit, haldi of alla vísulengð. En ef sverð er ormr kallaðr, en síðan fiskr eða vöndr eða annan veg breytt, þat kalla menn nykrat, ok þikkir þat spilla. Nú er dróttkvæðum hætti breytt með 5 greinum, ok er þó hinn sami háttr rèttr ok úbrugðinn, ok er optliga þessar greinir sumar eða allar í einni vísu, ok er þat rètt, því at kenníngar auka orðfjölda, sannkenníngar fegra ok fylla mál, nýgjörvíngar sýna kunnustu ok orðfimi.

Þat er leyfi háttanna, at hafa samstöfur seinar eða skjótar svo at dragist fram eða aptr or rèttri tölu setníngar, ok megu finnast svo seinar, at fimm samstöfur sè í öðru ok enu fjórða vísuorði. Svo sem hèr er:

| | |
|---|---|
| 7. Hjálms fylli spekr hilmir | ygr hilmir lætr eiga |
| hvatr Vindhlæs skatna: | öld dreyrfá skjöldu: |
| hann kná hjörvi þunnum | styrs rýðr stillir hersum |
| hræss þjóð ár ræsa; | sterkr járngrá serki. |

Í þessi vísu eru allar frumhendíngar oddhendíngar, ok er þó þessi háttr dróttkvæðr at hætti.

Nú skal sýna svo skjótar samstöfur ok svo settar nær hverja annarri, at af því eykr lengð orðsins:

8. Klofinn spyr ek hjálm firir hilmis
hjarar egg (duga seggir);
því eru heldr, þar er skekr skjöldu,
skafin sverð litut ferðar.
Bila mun-a gramr, þó at gumna
gular rítr nái líta:
draga þorir hann yfir hreinna
hvatan brand þrymu randa.

Hèr er í fyrsta ok þriðja vísuorði níu samstöfur, en í öðru ok í fjórða 7; hèr er þat sýnt, hversu flestar samstöfur megu vera í vísuorði með dróttkvæðum hætti, ok af þessu má vita, at 8 eða 7 megu vel hlýða í fyrsta ok þriðja vísuorði. Í þessi vísu eru allar frumhendíngar hluthendur, ok dregr þat til, at

lengja má orðin, at sem flestar samstöfur standi firir hendíngar. Þat er annat leyfi háttanna, at hafa í dróttkvæðum hætti eitt orð eða tvö í vísu með álögum, eða detthent, eða dunhent, eða skjálfhent, eða með nokkvorum þeim hætti, er eigi spilli kveðandi. Þriðja leyfi er þat, at hafa aðalhendíngar í fyrsta eða þriðja vísuorði. Fjórða leyfi er þat, at skemma svo samstöfur, at gera eina or tveim, ok taka or annari hljóðstaf. Þat köllum vær bragarmál; svo sem hèr, er kvað Þórarinn Máhlýðíngr:

Varðak mik, þars, myrðir morðfárs, vega þorðu[128].

Enn er sú grein útsett myklu lengra. Þat er hit fimta leyfi, at skipta tíðum í vísuhelmíngi. Sètta leyfi er þat, at hafa í dróttkvæðum hætti samhendíngar eða liðhendíngar. Þat er hit sjönda, at hafa eitt málsorð í báðum vísuhelmíngum, ok þykkir þat spilla í einstaka vísum. Átta er þat, at nýta, þótt samkvætt verði við þat, er áðr er ort, vísuorð eða skemra. Níunda er þat, at reka til hinnar fimtu kenníngar; en or ættum er, ef lengra er rekit; en þótt þat finnist í fornskálda verka, þá látum vær þat nú únýtt. Tíunda er þat, at vísu fylgir drag eða stuðill. Ok svo, þó at þat sè í síðarra helmíngi, ef maðr er nefndr eða kent nafn hans í fyrra helmíngi, þótt þat sè eigi nafn annan veg, en *hann*, eða *hinn*, eða *sá*, eða *sjá*. Ellipta er þat, at *"er, en, eð"* eða *"at"* má hafa optarr en eitt sinn í vísuhelmíngi, svo sem Refr kvað:

Sæll er hinn, er hranna (tíð erumk vitnis voða
hádýra vel stýrir víngerð) unir sínu.

Tólpta er atriðsklauf. Hvat er tíðaskipti? Þrent. Hvernig? Þat er var, þat er er, þat er verðr.

Hver setníng er þat, at breyta háttum með máli einu? Þat má svo gera, at gefa nafn háttum, ok greina svo tölu háttanna ena fyrstu, en halda annarri ok enni þriðju tölu setníngar: þat er, sem fyrr var ritat, at hafa 8 vísuorð í örindi, ok hin þriðja tala, at hafa 6 samstöfur í vísuorði ok sömu setníng hendínganna. Háttum er skipt með ýmissum orðtökum, ok er þessi einn háttr, er kallaðr er *sextánmæltr*.

9\. Vex iðn, vellir roðna,
verpr lind, þrymu snerpir,
fæsk gagn, fylkir eignast,
falr hitnar, seðsk vitnir:
skekr rönd, skildir bendast,
skelfr askr, griðum raskar,
brandr gellr, brynjur sundrast,
braka spjör, litast örvar.

---

128) Eyrbyggja, k. 18, 1.

Hèr eru tvö mál fullkomin í hverju vísuorði, en orðalengð ok samstöfur ok hendíngar ok stafaskipti, sem dróttkvætt.

Nú er breytt annan veg dróttkvæðum hætti, ok enn með máli einu. Þenna hátt kalla menn *áttmælt*.

10. Jörð verr siklíngr sverðum:
sundr rjúfa spjör undir;
lind skerr í styr steinda:
stökkr hauss af bol lausum.
Falla fólk á velli,
fremr mildr jöfurr hildi:
egg bítr á lim lýti:
liggr skör, sniðin hjörvi.

Hèr er mál fullt í hverju vísuorði.

Þessi er hinn þriði:

11. Ýskelfir kann úlfum
auðmildr búa gildi:
lætr gyldis kyn gáti
gunnsnarr una harri;
fær gotna vinr vitni
valbjór afar stóran:
vargr tèr or ben bergja
blóðdrykk ok grön rjóða.

Hèr lýkr máli í tveim vísuorðum.

Sjá háttr, er nú skal rita, er hinn fjórði þeirra, er breyttir eru, en hinn fimti at háttatali. Þetta er *stælt* kallat:

12. Hákun veldr, ok höldum
(harðráðum guð jarðar
tiggja lèr með tíri)
teitr, þjóðkonúngs heiti:
vald á víðrar foldar
(vindræfurs jöfurr gæfu
öðlíngi skóp úngum)
örlyndr skati gjörla.

Hèr er svo:

Hákun veldr, ok höldum,
teitr, þjóðkonúngs heiti,

en annat ok it þriðja vísuorð er sèr um mál, ok er þat *stál* kallat.

Þessi er hinn fimti, *hjástælt:*

13. Manndýrðir fá mærðar,
mæt öld, fíra gæti,
lýtr auðgjafa ítrum
öll. Stóð sær of fjöllum.
Rjóðvendils gat randa
rækinjörðr at sækja
(hæf ferð var sú harða)
heim. Skaut jörð or geima.

Þetta köllum vèr hjástælt; hèr er it fyrsta vísuorð ok annat ok þriðja sèr um mál, ok hefir þó þat mál eina samstöfun með fullu orði af hinu fjórða vísuorði; en þær fimm samstöfur, er eptir fara, lúka heilu máli, ok skal orðtak vera forn minni.

Þessi er hinn sjöndi, *Lánglokur:*

14 Hákun ræðr með heiðan
[hefir drengja vinr fengit
(lönd verr buðlúngr brandi
breiðfeld) mikit veldi]
[Rógleiks náir ríki
remmitýr at stýra
(öld fagnar því) eigno]
orðróm konúngdómi.

Hèr hefir upp mál í enu fyrsta vísuorði, ok lýkr (í) enu síðarsta, ok eru þau sèr um mál.

Þessi er enn átti háttrinn, *Tiltekit:*

15. Þeim er, grundar grímu
gjaldseiðs ok var faldinn
drótt man enn þanns, átti
áðr hans faðir ráða.

Gunnhættir kná grýttu
(gramr býr of þrek) stýra
[stórt ræðr hann, en hjarta
hvetr] buðlúnga setri.

Hèr er hinn fyrri vísuhelmíngr leiddr af þeirri vísu, er áðr var kveðin, ok fylgir þat málsorð, er *afleiðíng* er köllut, er síðarst var í hinni fyrri vísu, þessum vísuhelmíngi, ok er sá vísuhelmíngr eigi elligar rèttr at máli.

Þessi er hinn níundi háttr:

16. Setr of vísa vitran
vígdrótt [en þar hníga]
(ýr dregst) við skotskúrum
skjaldborg [í gras aldir].

Vopnrjóðr stikar víða
(vellbrjótr, á lög) spjótum
(þrýngr at sverða saungvi)
sóknharðr þrömu jarðar.

Þat málsorð, er fyrst er í þessi vísu, er síðarst í hinni fyrri, ok er hin síðari svo dregin af hinni fyrri; því heita þat *drögur*.

Þessi er hinn tíundi háttr, er vær köllum *refhvörf*. Í þeima hætti skal velja saman þau orðtök, er úlíkust sè at greina, ok hafi þó einnar tíðar fall bæði orð, ef vel skal. En til þessa háttar er vant, at finna öll orð gagnstaðlig, ok er hèr firir því sum orð dregin til hæginda; en sýnt er í þessi vísu þat, er orðin munu finnast, ef vandliga er leitat, ok mun hèr þat sýnast, at flest frumsmíð stendr til bóta. Svo er hèr kveðit:

17. Síks glóðar verr sækir
slètt skarð hafi jarðar;
hlífgranda rekr hendir
heit köld loga öldu;

fljótt válkat skilr fylkir
friðlæ (röðul-sævar
ránsið ræsir stöðvar)
reiðr (glaðr frömum meiðum).

Hèr er í fyrsta vísuorði svo kveðit: *síks* ok *glóðar, verr, sækir; sík* er vatn, *glóð* er eldr, en eldr ok vatn hatar hvort öðru: *verr, sækir,* þat er úlíkt, at sækja ok verja. Annat vísuorð er svo: *„slètt skarð, hafi jarðar“: slètt,* þat er jafnt, *skarð,* þat er úslètt; ok svo *„hafi jarðar“:* sær er *haf,* land er *jörð,* en þá er í eitt fall mælt, at *sá ferr af hafi til jarðar.* Þriðja vísuorð er svo: *„hlíf, granda“,* þat er ljóst refhvörf-mælt; ok svo *„rekr hendir“,* sá flytr braut, er *rekr,* en sá stöðvar, er *hendir.* *„Heit, köld“,* þat eru ljós orð, ok svo *„loga, öldu“: logi* er eldr, *alda* er sjár. Fimta orð er svo: *„fljótt válkat“; fljótt* er, þat er skjótt er, *válkat,* þat er seint: ok svo, *„skilr, fylkir“;* sá er *skilr,* dreifir, en sá er *fylkir,* samnar. Sètta orð er svo: *„frið, læ“; friðr* er sætt, *læ,* þat er væl; ok enn *„röðull, sæfar“: röðull* er sól, ok gengr hon

firir eld í öllum kenníngum, *sær* er enn sem fyrr í móti eldi. Sjönda orð er svo: *„rán, sið“; rán* er ósiðr: ok svo, *„ræsir, stöðvar“;* sá flytr, er *ræsir,* en sá heldr aptr, er *stöðvar.* Átta orð er svo: *„reiðr, glaðr“,* þat er ljóst mælt: ok svo, *„frömum, meiðum“,* þat er újafnt, at vinna manni *frama* eða *meizlur.* Hèr eru sýnd í þessi vísu sextán orðtök sundrgreinilig, ok eru flest ofljós til rètts máls at færa, ok skal þá svo upp taka: *Siks glóð,* þat er gull, *sækir gulls,* þat er maðr: hann *verr skarð jarðar, hafi slètt,* þat eru firðir, svo heitir fylki í Noregi; *hlífgrandi,* þat er vopn; *hendir loga öldu,* þat er maðr, er *rekr köld heit* sverðinu, þat er, at hefna úsiðu: *fljótt válkat* má þat kalla, er skjótráðit er, þat *skilr* hann af ófriðinum, konúngr heitir *fylkir: ránsið ræsir stöðvar sævar-röðuls frömum meiðum.* Þetta heita *en mestu refhvörf.*

Þessi eru önnur refhvörf, ok eru hèr hálfu færi vísuorð, þau er refhvörfum eru ort, ok eru þau tvenn í öðru vísuorði, ok eru firir því köllut en mestu:

18. Blóð fremr (hlökk at háðist,
heldr slitnar dul) vitni:
(skjöldr) en skatnar foldir
(skelfr harðr) taka varða.

Fal lætr of her hvítan
hollr gramr rekinn framðan
(en tiggja sonr) seggjum
svalr brandr (dugir) grandar.

Hèr eru þau refhvörf í öðru hverju orði: *heldr* ok *slitnar,* ok *dul* ok *vitni: dul* er laun, *vitni* er sannan. En í fjórða vísuorði eru þessi: *„skelfr, harðr“, „taka, varða“.* Í sètta vísuorði er svo: *”hollr, gramr”, ”rekinn, framðan”.* Í átta vísuorði er svo: *„svalr, brandr“: brandr* er eldsheiti; *„dugir, grandar“,* þetta er ofljóst ort. Hèr eru ok önnur máltök, þau er til máls skal taka; svo, at kalla: *blóð fremr vitni,* þat er vargr; en *dul* eða laun *slitnar* eða rofnar, at *hlökk háðist,* þat er orosta. Ok í öðrum fjórðúngi er svo, at *harðr skjöldr skelfr,* en *skatnar taka varða ríki.* Í þriðja fjórðúngi er svo, at *hollr gramr of her lætr framðan fal hvítan rekinn;* sá er *framiðr,* er framarr er settr. Í fjórða fjórðúngi er svo, at *svalr brandr grandar seggjum, en tiggja sonr dugir.*

Þessi er *hinn þriði refhvarfa-háttr:*

19. Segl skekr of hlyn [Huglar]
(hvast drífa skip) rasta
[en föll] of gram [gulli
grunn (djúp) hata unna].

Nè Rán við hafhreinum
(háröst skapar flaustum)
[hrönn firir húfi þunnum
heil klofnar] frið (deilu).

Þessi eru at kalli en mestu refhvörf. Hèr er eitt vísuorð í hvorum helmíngi, þat er refhvörfum er ort, ok tvenn or hvor-

um, svo sem hèr: „*grunn, djúp*", „*hata, unna*"; en í enum efra helmíngi er svo: „*heil klofnar, frið deilu*". Þessi eru at kalli en mestu refhvörf, ok minnst af þessum.

Nú hefjast *en minni refhvörf*. Hèr eru ein refhvörf í vísuorði:

20. Hèlir hlýr at stáli,
hafit fellr, en svífr þelli,
(ferð dvöl firrist) harða
fram mót lagar glammi.

Vindr rèttr voðir bendir:
vefr rekr á haf snekkjur:
veðr þurr: vísa iðjor
(varar fýsir skip) lýsa.

Hèr er eitt refhvarf í hverju vísuorði, ok flest ofljós.

Þessi eru *önnur en minni:*

21. Lúng frá ek lýða þengils
(lá reis of skut) geisa,
en svörð of her herða;
hljóp stóð und gram Róða.

þjóð fær þúngra skeiða
þraung rúm skipat laungum
(stál lætr styrjar deilir)
stinn (klökk í mar sökkva).

Hèr eru refhvörf í öðru hverju vísuorði.

Þessi eru *en þriðju:*

22. Himinglæfa strýkr háfar
(hrönn skilja sog) þiljur;
launstíga vill lægir
ljótr fagr-drasil brjóta.

Lýsheims náir ljóma
[líðr ár] of gram blíðum
(uðr rekkir kjöl klökkvan
köld) eisa; far geisar.

Hèr eru refhvörf í hvorum helmíngi; þessi eru en minnstu refhvörf.

Enn er sá háttr, er vær köllum *refhvarfa-bróður:*

23. Firrist hönd með harra
hlumr (líðr vetr at sumri),
en flaust við lög Lista
laung taka hvíld at gaungu.

Öl mæðir lið lýða
(lètt skipast höll) en rètta
[en skál at gjöf góla
gulls svífr (tóm) en fulla].

Hèr er í öðru orði ok fjórða þau orð, er gagnstaðlig eru, sem refhvörf, enda standa eigi saman, ok er ein samstafa millum þeirra, ok lúkast bæði eigi í eina tíð. Þessir hættir, er nú eru ritaðir, eru dróttkvæðir at hendíngum ok orðalengð: hèr eru 6 samstöfur í hverju vísuorði, ok aðalhendíngar í öðru ok enu fjórða, en skothendur í fyrsta ok þriðja.

Hvernig skal skipta dróttkvæðum hætti með hendíngum eða orðalengð? Svo sem hèr er, *dunhenda:*

24. Hreintjörnum gleðr horna
(horn náir lítt at þorna:
mjöðr hegnir böl bragna)
bragníngr skipa sagnir.

Fólkhömlu gefr framla
framlyndr viðum gamlar,
hinn er heldr firir skot skjöldum,
skjöldúngr hunángs-öldur.

Hèr er þat málsorð fyrst í öðru ok enu fjórða vísuorði, er síðarst er í enu fyrsta ok þriðja.

Þetta er *tilsagt:*

25. Röst gefr öðlíngr jastar
(öl virði ek svo) firðum;
þögn fellir brim bragna
(bjór forn er þat) horna:
máls kann mildíngr heilsu
(mjöðr heitir svo) veita;
strúgs kemr í val veiga
(vín kallak þat) galli.

Nú er *orðskviðaháttr:*

26. Fúss brýtr fylkir eisu
fens (bregðr hönd á venju);
ránhegnir gefr Rínar
röf (spyrr ætt at jöfrum):
mjök trúir ræsir rekka
raun (sèr gjöf til launa);
ráð á lofðúngr lýða
lengr (vex hverr af gengi).

27. Ískalda skar ek öldu
eik (var súð en bleika
reynd) til ræsis fundar
ríks. Emk kuðr at slíku.
Brjótr þá hersirs heiti
hátt (dugir sæmd at vátta)
auðs af jarla prýði
ítrs. Var-a siglt til lítils.

Þetta er *álagsháttr.* Hèr hefr upp annat ok hit fjórða vísuorð með fullu orði ok einni samstöfu, ok leiðir þat orð af hinu fyrra vísuorði, en þær 5 samstöfur, er þá eru eptir, eru sèr um mál. Þessi er hinn fyrsti háttr, er ritaðr sè, þeirra er breytt er af dróttkvæðum hætti með fullu háttaskipti, ok hèðan frá skal nú rita þær greinir, er skipt er dróttkvæðum hætti ok breytt með hljóðum ok hendínga-skipti eða orðalengð, stundum við lagt, en stundum af tekið.

Þetta er *tvískelft:*

28. Vandbaugs veitti sendir
vígrakkr (en gjöf þakkak
skjaldbrags skylja mildum)
skipreiðu mèr (heiða).
Fann næst fylkir unna
föl dýr at gjöf stýri
stálhreins. Styrjar deilis
stórlæti sá ek mæta.

Hèr er í fyrsta ok þriðja vísuorði þat, er háttum skiptir: hèr standast hljóðfyllendr svo nær, at ein samstafa er í milli þeirra; þeir gera skjálfhendur stuðlar, ok er hinn fyrri upphaf vísuorðs, en hendíngar standast sem first. En ef frumhendíng er í þeirri samstöfu, er næst er hinni fyrstu, þá bregzt eigi skjálfhenda.

Þessi er *detthendr háttr:*

29. Tvær man ek hilmi hýrum
heims vistir ótvistar:
hlaut ek ásamt at sitja
seimgildi fèmildum;
fúss gaf fylkir hnossir
fleinstýri margdýrar:
hollr var hersa stilli
hoddspennir fjölmennum.

Hèr skiptast hættir í öðru ok fjórða vísuorði, ok ræðr en fjórða samstafa háttunum.

Þetta er *draugsháttr:*

30. Þoll bið ek hilmis hylli
halda grænna skjalda;
askr beið af því þroska
þilju Hrúngnis ilja.

Vígfoldar, njót, valdi
vandar, margra landa
(nýtr vartu oss) til ítrar
elli! (dólga fellir!).

Hèr er enn í fjórða ok í öðru vísuorði, þat er háttum skiptir, ok ræðr hèr hin þriðja samstafa.

---

Nú hefr upp annat kvæði:

31. Stáls dynblakka stökkvi
stinngeðs samir minnast
(áls bifsæki aukum
yggs feng) á lof þengils.
Odds bláferla jarli
örbrjót nè skal þrjóta
(Hárs saltönnu hrannir
hrærum) óð at stæra.

Þetta heitir Bragarbót. Hèr skiptir háttum í fyrsta ok þriðja vísuorði: hèr standast, sem first má, stuðlar, en hendíngar svo, at ein samstafa er á milli; þat greinir háttuna.

Þenna hátt kalla menn *riðhendur:*

32. El þreifst skarpt of Skúla
skýs snarvinda lindar:
egg varð hvöss í höggum
hræs dynbronnum runnin;
sveimþreytir bjó sveita
snjallr ilstafna hrafni:
Páll varð und fet falla
fram þrábarni arnar.

Hèr skiptir háttum í öðru ok fjórða vísuorði, standa þar hendíngar báðar samt nær enda, ok lúkast í einn staf báðar, ok er betr, at samhljóðandi sè eptir aðra.

Þessi háttr er kallat *veggjat:*

33. Lífs varð rán at raunum
(reið sverð skapat mjök) ferðum:
stöng óð þrátt á þíngi
þjóðsterk: liðu fram merki;
brauð of hilmis bróður
hvöss egg friðar von seggjum:
spjót náðu blá bíta:
búandmenn hlutu þar renna.

Hèr er háttaskipti í öðru ok fjórða vísuorði, ok er þar ein samstöfun sett í, svo at tvær eru síðarr, ok aukit því lengð orðsins.

Nú er *flagða-háttr:*

34. Flaust bjó fólka treystir
fagrskjölduðustum öldum:
leið skar bragníngs bróðir
bjartveggjuðustu reggi;
best rak hilmir rastar
harðgreipaðastan reipum:
sjár hlaut við þröm þjóta
þúnghúfuðustu lúngi.

Hèr skiptir háttum í öðru ok enu fjórða vísuorði: er hèr aukit bæði samstöfu ok fullnat orðtak sem framast, ok eptir þá samstöfun eru þrjár samstöfur, ok er rètt dróttkvætt, ef hon er or tekin.

Þessi háttr er *en forna skjálfhenda:*

35. Reist at Vogsbrú vestan
(varrsíma bar fjarri)
heitfastr háfar rastir
hjálmtýr svölu stýri:

stökr óx, er bar blakka
brims firir jörð [it grimma]
herfjöld (húfar svöldu)
[hrann ráð búandmanna].

Hèr er skjálfhent með aðalhendíng í þriðja vísuorði í hvorumtveggja helmíngi, en at öðru sem dróttkvætt. Þenna hátt fann fyrst Veili; þá lá hann í útskeri nokkvoru, kominn af skipsbroti, ok höfðu þeir íllt til klæða ok veðr kalt: þá orti hann kvæði, er kallat er „kviðan skjálfhenda“ eða „drápan steflausa“, ok kveðit eptir Sigurðar sögu.

Þetta er *þríhent* kallat:

36. Hristi hvatt, þá er reistist,
herfaung, mjök laung vestaung,
samði fólk en, (frömðust)
fullsterk, hríngserk (grams verk):
hönd lèk (herjum reyndist)
hjörr kaldr (allvaldr mannbaldr);
[egg] frá ek breiða bjöggju
bragníng fylkíng [stóð þíng].

Þrennar aðalhendíngar eru hèr í öðru ok enu fjórða vísuorði, ok lúkast allar einnig, ok fylgir samstöfun firir hverja.

Nú er *hinn dýri háttr:*

37. Vann (kann virðum banna
vald) gjald (höfuð aldar)
ferð verð fólka herði
fest mest (sá er bil lestir);
(hátt;) þrátt hölda áttar
hrauð auð jöfurr rauðum
[þat] (gat þengill skatna
þjóð) [stóð af gram] (bjóða).

Hèr eru í fyrsta ok þriðja vísuorði tvær aðalhendíngar samt í upphafi, en hin þriðja at hætti við enda.

38. Farar snarar fylkir byrjar:
freka breka lemr a snekkjum;
vaka taka vísa rekkar:
viðar skriðar at þat biðja;
svipa skipa sujor hepnar
sömum þrömum í byr römmum,
(Haka skaka hrannir blökkum
hliðar miðar) und kjöl niðri.

Þessi háttr er kallat *tiltekit:*

39. Ok hjald-reifar hófu
hoddstiklanda miklir
(morðflýtir kná mæta
málmskúrar dyn) hjálmar:
hjaldrs þá er hilmir foldar
hugdýrum gaf stýri
(ógnsvellir fær allan)
jarldóm göfugr (sóma).

Hèr skiptir háttum it fimta vísuorð, ok leiðir í því orði máltak af fyrra vísuhelmíngi, ok dregst þat vísuorð með hljóðfyllíng mjök eptir skjálfhendu enni nýju.

Þessi háttr er kallat *greppa-minni:*

40. Hverr fremr hjaldr barra?
Hverr er mælíngum ferri?
Hverr gerir höpp at stærri?
Hverr kann auð at þverra?
Veldr hertogi hjaldri,
hann er first bliknar-manni,
hann á höpp at sýnni,
hann vèlir blik spannar.

Þessum hætti er breytt til dróttkvæðs háttar með orðum.

Nú er sá háttr, er vær köllum *liðhendur:*

41. Velr ítrhugaðr ýtum
otrgjöld jöfurr snotrum:

opt hefir þíngs firir þraungvi
þúngfarmr Grana sprúngit;
hjörs vill rjóðr, at ríði
reiðmálmr Gnítaheiðar;
vígs er hreytt at hættis
hvatt Niflúnga skatti.

Þat eru liðhendur, er hinn sami stafr stendr firir hendíngar, ok þá er rètt ort liðhendr háttr, at í öðru ok í hinu fjórða vísuorði sè oddhendíng ok skothendíng við þær hendíngar, er í fyrra vísuorði eru, ok verðr þá einn upphafsstafr allra þeirra þriggja hendínganna.

Nú er sá háttr, er vèr köllum *rètthent:*

42. Alrauðum drífr auði
(ógnrakkr fírum blakkar
veit ek hvar) vals á reitu
(verpr hríngdropa snerpir).
Snjallr lætr á fit falla
fagrregn jöfurr þegnum
(ógnflýtir verr ýtum
arm) Mardallar hvarma.

Hèr eru aðalhendíngar í fyrsta ok þriðja vísuorði, en gætt at taka or skothendur.

Enn er sá háttr, er vær köllum *ina minni alhendu,* þat eru skothendur í enu fyrra vísuorði í báðum helmíngum, svo sem hèr segir:

43. Samþukkja fremr sökkvi
snar baldr hjarar aldir:
gunnhættir kann Grotta
glaðdript hraða skipta;
fèstríðir kná Fróða
friðbygg liði tryggva:
fjölvínjaðr hylr Fenju
falr meldr alin-veldi.

En minni alhenda er þá rètt ort, at haldit sè vísulengð saman; en ef henni er skotit í fulla alhendu, svo at skothendur sè þar sumar eða allar í vísuorði, þá er þat eigi rètt.

Nú er *alhent:*

44. Frama skotnar gram [gotnum
(gjöf sannast) röf spannar]
menstiklír, [venst] mikla,
manndýrðir vann skýrðar.
Herfjöld bera höldar
(hagbál lagar stála
friðast sjaldan við valdi)
vallands svala branda.

Hèr eru tvennar aðalhendíngar í hverju vísuorði. Þessi þykkir vera fegrstr ok vandastr, ef vel er ortr, þeirra hátta, er kvæði eru ort eptir, ok er þá full alhendíng, ef eigi finnst í *"at, ek, en",* eða þau smá orð, er þeim fylgja, nema þau standi í hendíngum; en eigi hafa allir menn þat varazt, ok er þat firir því eigi rángt, sem kvað Klængr biskup:

Bað ek sveit á glað Geitis
(gjör er ið at för tíðum):
drögum hest á lög lesta,
lið flýtr, en skrið nýtum.

Þetta er *stamhendr* háttr:

45. Lætr undin brot brotna
bragníngr firir sèr hrínga:
sá tekr firir men menja
mætt orð of sik fættir;

armr kná við blik blikna
brimlands viðum randa:
þar er hönd at lið liðnar
lýslóðar berr glóðir.

Hèr er í fyrsta ok þriðja vísuorði tvíkveðit at einni samstöfu, ok haft þat til hendínga, ok firir því köllum vær þetta stamhent, at tvíklypt er til hendíngarinnar; ok standa svo hendíngar í orðinu, sem riðhendur.

Nú er sá háttr, er *samhent* er kallat:

46. Virðandí gefr virðum
verbál líðar skerja:
gleðr vellbroti vellum
verðúng avrar þúngum;
ýtandi fremr ýta
auð sæ-funa rauðum:
þar er mætum gram mæti
marblakks skipendr þakka.

Hèr eru þær hendíngar, er vær köllum samhendur, því at þessar eru allar með einum stöfum, ok eru í öðru ok 3. vísuorði svo settar, sem skothendur í dróttkvæðum hætti.

Nú er *iðurmælt:*

47. Seimþverrir gefr seima
seim-örr liði beima:
hríngmildan spyr ek hríngum
hríngskemmi brott stínga;
baugstökkvir fremr baugum
bauggrimmr hjarar drauga:
viðr gullbroti gulli
gullhættr skaða fullan.

Hèr er þrim sinnum haft samhendíngar, tysvar í fyrsta ok 3. vísuorði, en í öðru ok hinu fjórða er haldit afhendíng, sem í dunhendum hætti.

Þessi háttr heitir *klifat:*

48. Auðkendar verr auði
auðtýr boganauðir:
þar er auðviðum auðit
auðs í gulli rauðu;
heiðmönnum býr heiðis
heiðmildr jöfurr reiðir:
verr heiðfrömuðr heiðar
heiðgjöf vala leiðar.

Hèr halda samhendíngar of allan vísuhelmíng, ok taka með aðalhendíng ena síðarri í öðru ok enu 3. vísuorði.

Nú eru þeir hættir, er *stúfar* heita:

49. Hjaldr-remmir tekr Hildi
(hríngr brestr at gjöf) festa:
hnígr und Högna meyjar
hers valdandi tjald;
Hèðins mála býr hvílu
hjálmlestanda flestum:
morðauknum þiggr mæki
mund Hjaðnínga sprund.

Hèr er it fjórða vísuorð stýft, ok tekin af samstafa, er í dróttkvæðum hætti skal setja með hendíng.

Þessi er *meiri stúfr:*

50. Yggs drósar rýfr eisa
öld móðseva tjöld:
glóð stökkr í haf Hlakkar
hugtúns firum brún.
geðveggjar svífr glugga
glæss dynbrími hræss:
hvattr er hyrr at slètta
hjaldrs gnapturna aldrs.

Hèr er stýft 2. og it 4. vísuorð.

Nú er *hinn mesti stúfr.* Hèr eru öll vísuorð stýfð.

51. Herstefnir lætr hrafn
húngrs fullseðjast úngr:
ilspornat getr örn
aldrlausastan haus;
vilja borg en vargr
vígsára klífr grár:
opt solgit fær ylgr
(jöfurr góðr vill svo) blóð.

Þessir hættir, er nú eru ritaðir, eru greindir í þrjá staði; því at menn hafa ort fyrr svo, at í einni vísu var annar helmíngur stýfðr, en annarr helmíngr tvístýfðr, ok eru þat háttaföll; sá er hinn þriði, er alstýfðr er, því at hèr eru öll vísuorð stýfð.

Nú skal rita þann hátt, er *skothendr* heitir:

52. Sær Skjöldúngs niðr skúrum
[sköpt (Darraðar) lyptast]
(hrindr gunnfána) grundar
(glygg) of fræknum tiggja;
geysa ve fyrir vísa:
veðr stöng at hlym gúngnis:
styrk eru mót und merkjum
málms of ítran hilmi.

Hèr eru skothendur í öllum vísuorðum, en annat sem dróttkvæðr háttr.

Nú er sá háttr, er vær köllum *liðhendur:*

53. Stjóri venst at stæra
stór verk dunu geira:
halda kann með hildi
hjaldrtýr und sik foldu;
harri slítr í hverri
Hjarranda föt snerru:
falla þar til fyllar
fjallvargs jöru þollar.

Í þessum hætti eru liðhendur með tvennu móti, en aðrar á þá lund, at við ena fyrri hendíng í fyrsta ok þriðja vísuorði (er oddhendíng ok aðalhendíng í öðru ok fjórða).

Nú skal rita þá háttu, er fornskáld hafa kveðit, ok eru nú settir saman, þótt þeir hafi ort sumt með háttaföllum; ok eru þessir hættir dróttkvæðir kallaðir í fornum kvæðum, en sumir finnast í lausum vísum. Svo sem orti Ragnarr konúngr Loðbrók með þessum hætti:

54. Skýtr at Sköglar veðri
(en skjaldagi haldast)
Hildar hlemmidrífu
of hvítum þröm rítar;
en í söfis sveita
at sverðtogi ferðar
rýðr alda vin odda
(þat er jarls megin) snarla.

Hèr er í fyrsta ok þriðja vísuorði háttlausa, en í öðru ok 4. aðalhendíngar; en höfutstafrinn stendr svo, sá er kveðandi ræðr í öðru ok enu fjórða vísuorði, at þar er firir sett samstafa ein eða tvær, en at öðru sem dróttkvætt.

Nú skal rita *Torfeinars-hátt:*

55. Hverr sei jöfra ægi
jarl fjölvitrum betra,
eða gjarnara at gæða
glym hraðfeldan skjalda?

Stendr of stála skúrar
styrr ólítill Gauti,
þá er fólks jaðarr foldir
ferr signjörðum varða.

Hèr er í fyrsta ok þriðja vísuorði háttlausa, en í öðru ok fjórða skothent ok riðhent.

Nú er *Egils - háttr:*

56. Hverr ali blóði byrsta
bens rauðsylgjum ylgi,
nema svo at gramr of gildi
gráð dag margan vargi?
Gefr oddviti undir
egg nýbitnar vitni;
herr sèr fenris fitjar
framkló loðnar roðna.

Hèr er í fyrsta ok þriðja vísuorði háttlausa, en í öðru ok enu fjórða aðalhendíngar ok riðhent.

Nú er *Fleins-háttr:*

57. Hilmir hjálma skúrir
herðir sverði roðnu:
hrjóta hvítir askar,
hrynja brynjuspángir;
hnykkja Hlakkar eldar
harða svarðar landi:
remma rimmu glóðir
randa grand of jarli.

Hèr er svo farit hendíngum, sem í dróttkvæðum hætti, en hendíngar eru settar saman í öndurðu vísuorði.

Nú er *Braga-háttr:*

58. Er til hjálma hyrjar
herjom styrjar væni,
þar svo at jarl til ógnar
egnir þogno sverði;
sjá kná garð firir grundu
grindar þundar jaðra,
er skatna vinr skjaldar
skyldist galdr at fremja.

Hèr er í fyrsta ok þriðja vísuorði it síðarsta málsorð haft til hendíngar, en missir þess orðs ens fyrra, er gera skyldi skothendíng; en við þetta hendíngarorð eru í öðru ok enu fjórða vísuorði hendíngar, ok er þar önnur hendíng skothenda ok liðhenda, en önnur aðalhendíng við hina fyrstu; en þessar hendíngar, er standa í öðru ok fjórða vísuorði, eru sem í Fleinshætti. Víða er þat í fornskálda verka, er í einni vísu eru ýmsir hættir eða háttaföll, ok má eigi yrkja eptir því, þó at þat þykki eigi spilla í fornkvæðum.

Nú eru þeir hættir greindir í þrjá staði, er *Kimlaböng* heita. Þessi er einn:

59. Hjálmlestir skerr Hristar-
breggöld Sigars veggi:
gramr lætr í byr brjóta
brands hnigþili randa stranða;
stálhrafna lætr stefnir
styrvind of sik þyrja:
þiggr at Göndlar glyggvi
gagn oddviti bragna sagna.

Hèr er í fjórða vísuorði í hvorum helmíngi aukit aðalhendíng með tveim samstöfum eptir vísuorð, en at öðru sem dróttkvætt.

Nú er *it meira kimblaband:*

60. Álmdrosar skylr ísa
ár flest meginbára sára:

kænn lætr hres á hrönnum
hjálmsvell jöfurr gella fella:
styrjökla kná stiklir
(stinn) mens legi venja benja
(lætr stillir frör fylla
fólk sund hjarar-lunda unda).

Hèr eru tvenn kimlabönd á hvorum helmíngi.

Þessi eru *en mestu kimlabönd:*

61. Hræljóma fellr hrími [tími
hár vex of gram sára ára]
(frost nemr) of hlyn Hristar (Mistar
herkaldan þröm skjaldar aldar);
gullsendir brýtr grundar hrundar
gunnveggs stöfum leggi hreggi:
sóknvallar (spyr ek) svelli (elli)
svo skotnar þat (gotna þrotna).

Hèr fylgir hverju vísuorði kimblaband.

Nú skal rita *hrynjandi háttu.* Þessi er hinn fyrsti:

62. Tiggi [snýr á ógnar áru
(undgagl veit þat) sóknar hagli]
(ýngvi drífr at hreggi hlífa)
hjör vælir fjör [brynju eli].
Vísi (heldr of fjörnis foldir)
[fólk-] skiptir svo boga driptum
[-skúrum lýstr of hilmi hraustan:
hans fregnum styr] (Mistar regni).

Hèr er it fyrsta ok 3. vísuorð aukit framan tveim samstöfum til háttar-setníngar; en ef þær eru af teknar, þá er eptir sem dróttkvætt. En or öðru ok 4. vísuorði má taka málsorð, þat er tvær samstöfur fylgja, en 5. ok en 6. í vísuorði: þá er þat orð ok dróttkvætt. Í hrynhendum háttum eru optast 8 samstöfur í vísuorði, en hendíngar ok stafaskipti fara sem í dróttkvæðum hætti. Þetta köllum vær *dróttkvæða hrynjandi.*

Nú skal sýna fleiri skipun háttanna; er þessi hrynjandi köllut *trölls-háttr:*

63. Stála kendi steykkvilundum
styrjar valdi rauðu falda
(rekkar stýrðu rètt til jarðar
roðnu barði) austan fjarðar;
oddum rendi eljunstrandir
ýta-ferðar hringa-skerðir:
hilmir stærði hvössu sverði
heila-grundar megin-undir[129].

Hèr eru átta samstöfur í hverju vísuorði; hèr eru hluthendur í öllum orðum, ok fylgja 3 samstöfur hverri hendíngu, ok svo fara skothendur ok aðalhendíngar ok stafaskipti, sem í hrynhendu.

Þessi er einn hrynhendr háttr:

64. Vafði lítt, er virðum mætti,
vígrækjandi fram at sækja:
skerðir gekk í skúrum Hlakkar
Sköglar serks firir roðnum merkjum;
ruddist land, en ræsir Þrænda
Ribbúngum skóp bana þúngan;
Gunnar skaut und gera fótar
grimmsetta il hjarna kletti[130].

Þetta er hrynhenda óbreytt.

129) Fms. 9, 311, 1. 130) Fms. 9, 311, 2.

Þetta er *draughent:*

65. Vopnhríð velta náði
vægðarlaus feigum hausi:
hilmir lèt höggum mæta
herða klett bana verðan;
fleina lands fylkir rendi
fjörnis hlíð meginskíði
(öflugt sverð eyddi fyrðum,
jöfri kent) holdi fenta.

Þessum hætti eru tíðast 7 samstöfur í hverju vísuorði, en hendíngar ok stafaskipti sem í dróttkvæðum, ok ef hèr er or tekin ein samstöfun fyrsta eða þriðja vísuorði, sú er stendr næst hinni fyrstu, þá falla hljóðin öll sem í dróttkvæðum hætti. Svo má ok af taka í öðru ok hinu 4. vísuorði ena sömu samstöfun, ok er þá þat dróttkvætt, ok verðr sumt eigi mjúkt.

Þenna hátt köllum vèr *munnvörp:*

66. Eyddi úthlaupsmönnum
ítr hertogi spjótum:
súngu stál of stillis
(stóð ylgr í val) dólgum;
hal margan lèt höfði
hoddgrimmr jöfurr skemra:
svo kann rán at refsa
reiðr oddviti þjóðum[131].

Hèr er háttlausa í enu fyrsta ok 3. vísuorði, en í öðru ok enu fjórða skothendur.

Nú er sá háttr, er kallat er *háttlausa:*

67. Ortak öld at minnum,
þá er alframast vissak,
of siklínga snjalla
með sex togum hátta:
sízt hafa veg nè vellum,
er virðan mik lètu,
á aldinn mar orpit
(oss er þat frami) jöfrar.

Í þessum hætti eru öngvar hendíngar, en stafaskipti sem í dróttkvæðum hætti. Nú eru samansettir í tveim kvæðum sex tigir hátta, ok um fram þær 8 greinir, er fyrst er skipat dróttkvæðum hætti með málsgreinum, þeim er fylgja hættinum, ok eru þessir hættir allir vel fallnir til at yrkja kvæði eptir, ef vill.

---

Nú skal upp hefja it 3. kvæði, þat er ort er eptir enum smærum háttum, ok eru þeir hættir þó margir áðr í lofkvæðum. Hèr hefr upp *togdrápu-lag:*

68. Fremstr varð Skúli,
skal-a lof dvala,
sem ek mildum gram
mærð fjölsnærða:
meirr skal ek stæri
styrs hróðr fyrir
(kærr var ek harra)
hers gnótt bera.

Hèr er í öðru ok í fjórða vísuorði fjórar samstöfur ok tvær aðalhendíngar, ok svo settr höfutstafr sem í dróttkvæðu; en í fyrsta ok þriðja vísuorði eru ok fjórar rèttar samstöfur ok en fimta afkleyfis-samstafa, þat er *ek* eða *af* eða *en* eða *er* eða

131) Fms. 9, 312.

þvílíkt. Þar eru ok skothendíngar, ok ein hljóðfyllíng við höfuðstafinn.

Þetta er annat toglag:

69. Kunn bjó ek kvæði
konúngs bróður þjóð
(þann veit ek þengil)
þrenn (fjölmennan):
fram skal en fjórða
fólkglaðs vaða
ljós-ells lagar
lof om friðrova.

Svo ferr hèr annat ok fjórða vísuorð, sem í fyrra hætti, en it fyrsta ok þriðja vísuorð er hèr hendíngalaust, en 2 hljóðfyllendr við höfuðstaf, sem í dróttkvæðu.

Þessi er hinn þriði háttr, er vèr köllum *hagmælt:*

70. Mitt er of mæti
mart lag bragar
áðr ókveðit
oddbraks spakan;
hlýtr grams geta
greppr óhneppra
skýrr skrautfara
skjöldúnga úngr(a).

Í þessum hætti eru skothendíngar í fyrsta ok 3. vísuorði, ok stafaskipti sem í dróttkvæðum hætti, en at öðru sem togmælt. Í öllu toglagi er eigi rángt, þótt 5 samstöfur sè í vísuorði, er skammar eru sumar ok skjótar. Þat er togdrápu háttr, at stef skal vera til fyrsta vísuorðs, ok lúka því máli í enu síðarsta vísuorði kvæðissins, ok er rètt at setja kvæðit með svo mörgum stefjamelum, sem hann vill, ok er þat tíðast, at hafa öll jafnlöng, en hvers stefjamels skal stef upphaf ok niðrlag.

Nú er *grænlenzki háttr:*

71. Slóð kann snöðir
seima geima
hnigfák Haka
hleypa greypa:
hinn er af hlunni
hesta festa
lætr, leyfðr skati,
lánga gánga.

Hèr er it fyrsta ok 3. vísuorð svo sem hagmælt, en annat ok 4. með aðalhendíngum, ok eru tver samstöfur aðalhendar, ok enda báðar í einn staf.

Nú er *hinn skammi háttr:*

72. (Gull kná) greppar
(glóa) róa,
vass eru seggir
samir framir:
eik má und jöfri
una bruna;
þá nýtr vísi
viðar skriðar.

Hèr er it fyrsta ok 3. vísuorð hendíngalaust, en annat ok it 4. sem grænlenzki háttr, ok skemri orðtökin.

Nú er *nýi háttr:*

73. Ræsir glæsir
rökkva stökkva
hvítum ritum
hreina reina:
skreytir hreytir
skafna stafna
hrínga strínga
hjörtum svörtum.

Í þessum hætti eru í hverju vísuorði fjórar samstöfur, en tvær aðalhendíngar, ok lúkast í einn staf báðar, ok engi afkleyfisorð.

Þetta er *náhent:*

74. Hafröst hristir
hlunnvigg tiggja:
borðgrund bendir
brimdýrs stýri;
blá veit brjóta
byrskíð víði
böðharðr börðum
buðlúngr þúngan.

Í þessum hætti eru fjórar samstöfur í vísuorði, en hendíngar ok stafaskipti, sem í dróttkvæðum hætti, nema þat, at allar hendíngar eru náhendar.

Þetta er *stúfhent:*

75. Hrinda lætr hniggrund
hafbekks snekkjur
(þá er falla) fleinþollr
frör (mál) stálum;
hlumi (lýtr herr fram)
hirðmenn spenna,
en ræði raungóð
(rógálfs) skjálfa.

Í þessum hætti eru 4 samstöfur í vísuorði, ok er eigi rángt í enu fyrsta ok þriðja, þótt 5 sè: þar eru skothendur, í öðru ok enu fjórða eru aðalhendíngar, ok báðar saman, ok en fyrri stýfð, en stafaskipti sem í dróttkvæðu.

Þetta er *hnugghent:*

76. Hrannir strykkva hlaðinn bekk,
haflöðr skeflir,
kasta náir kjalarstíg
kalt hlýr söltum;
svörtum hleypir svana fjöll
snjallmæltr stillir
hlunna fram of Haka veg
hríðfeld skíðum.

Hèr er í fyrsta ok 3. vísuorði 7 samstöfur ok hendíngalaust, en rètt at stöfum; en annat ok it fjórða hefir fjórar samstöfur, en rètt at stöfum ok skothendíngum, ok oddhent, ok stýfð en fyrri hendíng.

Nú er *hálfhnept:*

77. Snyðja lætr í sólroð
snekkjur á Manar hlekk
(árla sèr úngr jarl)
allvaldr (breka fall);
lypta kná lýðr opt
lauki of kjalar rökn:
greiða náir glygg vað:
greipum mæta dragreip.

Í þessum hætti eru sex samstöfur í vísuorði, en eigi er rángt, þótt verði 5 eða 7; í fyrsta ok 3. vísuorði eru skothendur, en aðalhendíngar í öðru ok hinu 4. í hvorumtveggja stað, en fyrri hendíng sem í dróttkvæðu, en en síðarri stýfð eða hnept, þat er allt eitt.

Sjá háttr er *alhneptr:*

78. Hrönn skerr (hvatt ferr)
húfr kaldr (allvaldr):
lá brýtr (lög skýtr
limgarmr) rángbarmr;
brátt skekr (byrr rekr
blávegg) ráskegg:
jarl lætr almætr
ósvipt húnskript.

Í þessum hætti eru fjórar samstöfur í vísuorði, ok tvær aðalhendíngar, ok lúkast báðar í einn staf, ok allar hendíngar hneptar.

Þetta er *Haðar-lag:*

79. Læsir leyfðr vísi
landa útstrandir
blíðr um bláskíðu
barða ranngarði:
ern kná jarl þyrna
oddum valbrodda
jörð með jelsnörðum
jaðri hrænaðra.

Í þessum hætti eru fimm samstöfur í vísuorði, en hendíngar ok stafaskipti sem í dróttkvæðum hætti.

---

Nú eru þeir hættir, er *runhendur* eru kallaðar, þeir eru með einu móti: hverr háttr runhendr skal vera með aðalhendíngum tveim, ok í sínu vísuorði hvor hendíng. Þessi er rètt *runhenda:*

80. Lof er flutt (fjörum)
firir gunn-nörum
(nè spurð spörum
spjöll) grams snörum:
hefi ek hans förum
til hróðrs örum
ypt óvörum
firir auðs börum.

Þessi háttr er haldinn með einni hendíng í hverju vísuorði, ok svo er sú runhendíng, er skilr hendíngar ok skiptir orðum: því er þetta runhent kallat.

Þetta er *hin minni runhenda:*

81. Fluttak fræði
of frama græði
(túnga tæði)
með tölu ræði;
stef skal stæra
stilli Mæra
(hróðr dugir hræra),
ok honum færa.

Hèr gengr hendíng of hálfa vísu, en önnur í síðarri helmíngi.

Þessi háttr er stýfðr eða hneptr af enum fyrra; þessi er *en minnsta runhenda:*

82. Slíkt er svá
siklíngr á
(öld þess ann)
orðróm þann:
jarla er
austan ver
skatna skýrstr
Skúli dýrstr.

Í þessum hætti eru þrjár samstöfur í vísuorði, en tvö vísuorð sèr um hendíng: stafaskipti sem í dróttkvæðu. Enn finnst þat svo, at eigi er rángt, ef stendr einu sinni firir málsorð hljóðstafr, sá er kveðandi ræðr.

Þessir eru enn runhendir:

83. Naðrs gnapa ógn alla
eyðir baugvalla
hlunns of hástalla
hestar svanfjalla;
orms er glatt galla
með gumna spjalla;
jarl fremr sveit snjalla:
slíkt má skörúng kalla.

Þessi háttr er ort með fullri runhendíng, ok eru þar tíðast 5 samstöfur í vísuorði, eða sex, ef skjótar eru.

Þessi er annarr:

84. Orð fèkk gott gramr,
hann er gunntamr;
mjök er fullframr
fylkir rausnsamr,
hinn er mál metr;
mildíng sízt getr,
þann er svo setr
seggi hvern vetr.

Þessi er hneptr af hinum fyrra.

85. Mærð vilk auka
Mistar lauka
góma sverði
grundar skerði:
dýrð skal segja
(drótt má þegja)
styrjar glóða
stökkvimóða.

Í þeima hætti eru 4 samstöfur í hverju vísuorði, en höfuðstafr sem í dróttkvæðum hætti, ok fylgir þeim einn hljóðfyllandi.

Þessi er hinn þriði háttr runhendr:

86. Veit ek hríngs hraða
í höll laða
(gott er hús Hlaða)
hirð ölsaða;
drekkr gramr glaða
(en at gjöf vaða
vitar valstaða)
vannbaugskaða.

Þetta er rètt runhendíng, ok er þessi háttr tekinn af toglagi: hèr eru 4 samstöfur í vísuorði, eða 5, ef skjótar eru.

Þessi er *hin minni hrunhenda:*

87. Drífr handar hlekkr,
þar er hilmir drekkr:
mjök er brögnum bekkr
blíðskálar þekkr;
Leikr hilmis her
hrein, gullin ker
(segi ek allt, sem er)
við orða sker.

Þessi er hneptr af hinum fyrra.

Þessi er *en minnsta:*

88. En þá er hirð til hallar
her-oddviti kallar,
opt tekr jarl at fagna
vit ótali bragna:
búin er gjöf til greizlu
at gullbrota veizlu;
þraungt sitr þjóðar sinni,
þar er mestr frami inni.

Þessi hrunhenda er tekin af dróttkvæðum hætti, ok eru hèr jafnmargar samstöfur, ok svo stafaskipti, sem í dróttkvæðu.

Nú hefr upp enn fjórða bálk runhendínga:

89. Hirð gerir hilmis kátt;
höll skipast þröngt at gátt;
auð gefr þengill þrátt:
þat spyrr fram í átt.
Slíkt tel ek hilmis hátt;
hans er rausn of mátt:
jarl brýtr sundr í smátt
slúngit gull við þátt.

Þessi háttr er hneptr af enum fyrra, ok rètt runhendr.

Nú er *minni runhenda:*

90. Mörg þjóð ferr til siklíngs sala,
sæmd er þar til allra dvala;
tiggi veitir seima svala,
satt er bezt of hann at tala.

Bresta spyrjum bauga flata
(bragna vinr kann gulli hata;
æðri veit ek at gjöflund gat-a
grundar vörðr) firir hrínga skata.

Þessi runhenda er tekin af hrynhendum hætti.

91. Þiggja kná með gulli glöð
gotna ferð at ræsi mjöð:
drekka lætr hann sveit at sín
silfri skenkt it fagra vín;
greipum mætir gullin skál;
gumnum sendir Rínar bál
(eigi hittir æðra mann)
jarla beztr (en skjöldúng þann).

Þessi er hneptr af hinni fyrri runhendu.

Hèr hefr upp hinn fimta runhendan bálk:

92. Getit var grams fara;
gert hefi ek mærð snara
(þengil mun þess vara),
þat nam ek lítt spara.
Finnr-at fræknara
fæði gunnstara,
mann nè mildara
merkir blóðsvara.

Þessi er ok full runhenda, ok tekin af hálfhneptum hætti eða náhendum.

Þessi er *hin minni runhenda:*

93. Þengill lætr höpp hrest
(honum fylgir dáð mest)
[vísi gefr] vel flest
[verbál ólest].
Húfar brutu haf ljótt:
heim lèt ek jöfur sótt
(Ýngva lofar öll drótt),
jarls sá ek frama gnótt.

Þessi er stýfðr eða hneptr af fyrra hætti.

94. . . . . . . . . . . . Gramr:
gulli söri Kraki framr;
efla frágum Haka hjaldr;
. . . . . . . . . . . aldr;
Ormi veitti Sigurðr sár
(slíkt var allt fyr liðit ár);
Ragnar þótti skatna skýrstr.
Skúli jarl er myklu dýrstr.

Málaháttr:

95. Munda ek mildíngi,
þá er Mæra hilmi
fluttak fjögur kvæði,
fimtán stórgjafar.
Hvar viti áðr orta
með æðra hætti
mærð of menglötuð
maðr und himins skautum?

Fornyrðalag:

96. Ort er of ræsi,
þann er rýðr granar
vargs ok ylgjar,
ok vopn litar.
þat mun æ lifa,
nema öld farist,
bragnínga lof,
eða bili heimar.

---

Bálkarlag:

97. Lypta ek ljósu
lofi þjóðkonúngs;
upp er firir ýta
jarls mærð borin.
Hverr muni heyra
hróðr gjöfláta
seggr svo kveðinn
seims ok hnossa?

Sú er grein milli þessa hátta, at í fornyrðislagi er í fyrsta ok 3. vísuorði einn stuðill; en í öðru ok 4. vísuorði, þá stendr höfuðstafr í miðju orði. En í *stikkalagi* eru 2 stuðlar, en

höfuðstafr í miðju orði. En í bálkarlagi standast stuðlar ok höfuðstafr sem í dróttkvæðu.

*Starkaðar-lag:*

98. Veit ek verðari
þá er vell gefa,
bröndum beita
ok búa snekkjur,
hæra hróðrar,
en heimdraga,
únga jöfra
en auðspörut.

99. þeir ro jöfrar
alvitrastir,
hríngum hæztir,
hugrakkastir,
vellum verstir,
vígdjarfastir,
hirð hollastir,
happi næstir.

*(Ljóðaháttr):*

100. Glöggva grein
hefi ek gert til bragar:
svo er tírætt hundrat talit.
Hróðrs örverðr
skal-a maðr heitinn vera,
ef so fær alla háttu ort.

*(Galdra-lag):*

101. Sóttak fremd,
sótta ek fund konúngs,
sóttak ítran jarl:
þá er ek reist,
þá er ek renna gat
kaldan straum kili,
kaldan sjá kili.

102. Njóti aldrs
ok auðsala
konúngr ok jarl!
Þat er kvæðis lok.
Falli fyrr
fold í ægi
steini studd,
en stillis lof!



## (Formáli fyrir Gylfaginning, bls. 1.)

Almáttigr guð skapaði í upphafi himin ok jörð, ok alla þá luti, er þeim fylgja, ok síðarst menn tvo, er ættir eru frá komnar, Adam ok Evu, ok fjölgaðist þeirra kynslóð ok dreifðist um heim allan. En er fram liðu stundir, újafnaðist mannfólkit, voru sumir góðir ok rètt-trúaðir, en míklu fleiri snèrust þá eptir girndum heimsins, ok úræktu guðs boðorð; ok fyrir því drekti guð heiminum í sjóvargángi, ok öllum kykvendum heimsins, nema þeim er í örkinni voru með Nóa. Eptir Nóaflóð lifðu 8 menn, þeir er heiminn bygðu, ok komu frá þeim ættir: ok varð enn sem fyrr, at þá er fjölmentist ok bygðist veröldin, þá var þat allr fjöldi mannfólksins, er elskaði ágirni fjár ok metnaðar, en afræktist guðs hlýðni; ok svo mikit gjörðist at því, at þeir vildu eigi nefna guð. En hverr mundi þá frásegja sonum þeirra frá guðs stórmerkjum? Svo kom, at þeir týndu guðs nafni; ok víðast um veröldina fannst eigi sá maðr, er deili kunni á skapara sínum. En eigi at síðr veitti guð þeim jarðlegar giptir, fè ok sælu, er þeir skyldu við vera í heiminum: miðlaði hann ok spektina, svo at þeir skildu alla jarðlega luti, ok allar greinir, þær er sjá mátti, loptsins ok jarðarinnar. Þat hugsuðu þeir ok undruðust, hví þat mundi gegna, er jörðin ok dýrin ok fuglarnir höfðu saman eðli í sumum lutum, ok þó úlík at hætti. Þat var eitt eðli, at jörðin var grafin í hám fjalltindum, ok spratt þar vatn upp, ok þurfti þar eigi lengra at grafa til vatns, en í djúpum dölum: svo er ok dýr ok fuglar, at jamlángt er til blóðs í höfði ok fótum. Önnur náttúra er sú jarðar, at á hverju ári vex á jörðunni

gras ok blóm, ok á sama ári fellr þat allt ok fölnar; svo ok dýr ok fuglar, at þeim vex hár ok fjaðrar, ok fellr af á hverju ári. Þat er hin þriðja náttúra jarðar, þá er hon er opnuð ok grafin, þá grær gras á þeirri moldu, er efst er á jörðunni. Björg ok steina þýddu þeir móti tönnum ok beinum kvikinda. Af þessu skildu þeir svo, at jörðin væri kvik, ok hefði líf með nokkurum hætti, ok vissu þeir, at hon var furðuliga gömul at aldartali ok máttug í eðli. Hon fæddi öll kykvendi, ok hon eignaðist allt, þat er dó; fyrir þá sök gáfu þeir henni nafn, ok töldu ætt sína til hennar. Þat sama spurðu þeir af gömlum frændum sínum, at síðan er talin voru mörg hundrut vetra, var gángr himintúngla újafn, áttu sum lengra gáng, en sum. Af þvílíkum lutum grunaði þá, at nokkurr mundi vera stjórnari himintúnglanna, sá er stilla mundi gáng þeirra at vilja sínum sjálfs, ok mundi sá vera ríkr ok máttugr; ok þess væntu þeir, ef hann rèð fyrir höfuðskepnunum, at hann mundi ok fyrri verit hafa en himintúnglin, ok þat sá þeir, ef hann ræðr gáng himintúngla, at hann mun ráða skini sólar ok dögg himins ok ávexti jarðarinnar, er þar fylgir; ok slíkt sama vindum loptsins, ok þar með stormi sjávarins. Þat vissu þeir eigi, hvar ríki hans var; en því trúðu þeir, at hann rèð öllum lutum á jörðu ok í lopti, himins ok himintúnglanna, sjóvar ok veðranna. En til þess at heldr mætti frá segja eðr í minni festa, þá gáfu þeir nöfn með sjálfum sèr, ok hefir þessi átrúnaðr á marga lund breyzt, svo sem þjóðirnar skiptust ok túngurnar greindust.

Í elli sinni skiptir Nói heiminum með sonum sínum: ætlaði hann Kam vestrhálfu, en Jafet norðrhálfu, en Sem suðrhálfu, með þeirri parteran, sem síðarr greinir í þriðjúngaskipti heimsins. Í þann tíma sem synir þessara manna voru í veröldinni, þá öllgaðist þegar ágirni til fjár ok mannmetnaðar, af því at þá kendust þær margar listir, sem áðr höfðu ekki fundnar verit, ok hóf sik hverr eptir sinni íþrótt; ok svo

lángt færðu þeir fram sinn metnað, at þeir Affríkaní, komnir af Kam, herjuðu í þann luta veraldar, sem bygði afspríngr Sems, frændr þeirra. Ok sem þeir höfðu þá yfirunnit, þótti þeim sèr eigi nægjast heimrinn, ok smíðuðu einn stöpul með tígl ok grjót, þann er þeir ætluðu at vinna skyldi til himins, á þeim velli, er kallast Senníár. Ok þá er þetta smíði var svo mikit vorðit, at þat tók upp or veðrum, ok eigi höfðu þeir at minni fýsi til at halda fram smíðinni: ok sem guð sèr, hversu þeirra ofsi geisar hátt, þá sèr hann, at hann verðr með einhverju niðr at slá. Ok sá sami guð, sem alls er voldugr, ok allt þeirra verk mátti á einu augabragði niðr slá, en þá sjálfa láta verða at dupti: þá vildi hann þó heldr með því eyða þeirra fyrirætlan, at þeir mætti viðkennast sinn lítilleik, með því at eingi þeirra skildi, hvat annarr talaði; ok því vissi eingi þeirra, hvat hverr bauð öðrum, ok braut þat annarr niðr, sem annarr vildi uppreisa, þar til er þeir stríddust á sjálfir, ok með því eyddist öll þeirra fyrirætlan í upptekinni stöpulsmíð. Ok sá, er fremstr var, hèt Zóróastres, hann hló, fyrr en grèt, er hann kom í veröldina; en forsmiðir voru 2 ok 70, ok svo margar túngur hafa síðan dreifzt um veröldina, eptir því sem risarnir skiptust síðan til landa, ok þjóðirnar fjölguðust. Í þessum sama stað var gjör ein hin ágætasta borg, ok dregit af nafni stöpulsins, ok köllut Babílon. Ok sem túngnaskiptit var orðit, þá fjölguðust svo nöfnin mannanna ok annarra luta, at sjá sami Zóróastres hafði mörg nöfn; ok þó at hann undirstæði, at hans ofsi væri lægðr af sagðri smíð, þá færði hann sik þó fram til veraldligs metnaðar, ok lèt taka sik til konúngs yfir mörgum þjóðum Assiríórum. Af honum hófst skurðgoða villa; ok sem hann var blótaðr, var hann kallaðr Baal, þann köllum vèr Bel; hann hafði ok mörg önnur nöfn. En sem nöfnin fjölguðust, þá týndist með því sannleikrinn, ok af fyrstu villu þá blótaði hverr maðr eptirkomandi sinn formeistara, dýr eða fugla, loptin ok himintúnglin

ok ýmislega dauðlega luti, þar til er þessi villa gekk um allan heim; ok svo vandlega týndu þeir sannleiknum, at eingi vissi skapara sinn, utan þeir einir menn, sem töluðu ebreska túngu, þá sem gekk fyrir stöpulsmíðina; ok þó týndu þeir eigi líkamligum giptum, er þeim voru veittar; ok því skildu þeir alla luti með jarðligri skilníngu, at þeim var eigi gefin andlig spektin. Svo skildu þeir, at allir lutir væri smíðaðir af nokkuru efni.

Veröldin var greind í þrjár hálfur: frá suðri, vestr ok inn at Miðjarðarsjá, sá lutr var kallaðr Affríka, en hinn syðri lutr þeirrar deildar er heitr ok brunninn af sólu. Annarr lutr frá vestri ok til norðrs ok inn til hafsins, er sá kallaðr Evrópa eða Enea: hinn neyrðri lutr er þar kaldr, svo at eigi vex gras ok eigi má byggja. Frá norðri ok um austrhálfur allt til suðrs, þat er kallat Asía. Í þeim luta veraldar er öll fegrð ok prýði ok eign jarðar-ávaxtar, gull ok gimsteinar; þar er ok miðveröldin, ok svo sem þar er jörðin fegri ok betri kostum, en í öðrum stöðum, svo var ok mannfólkið þar mest tignat af öllum giptum, spektinni ok aflinu, fegrðinni ok allri kunnustu.

Nær miðri veröldinni var gjört þat hús ok herbergi, er ágætast hefir gjört verit, er köllut var Trója, þar sem vèr köllum Tyrkland. Þessi staðr var miklu meiri gjörr en aðrir, ok með meira hagleik á marga lund með kostnaði ok föngum, er þar voru. Þar voru 12 konúngdómar ok einn yfirkonúngr, ok lágu mörg þjóðlönd til hvers konúngdóms; þar voru í borginni 12 höfuðtúngur. Þessir höfðíngjar hafa verit um fram alla menn, þá er verit hafa í veröldu, um alla manndómlega luti; leikr þat sízt á tvímæli, hverr fræðimaðr sem frá þeim hefir sagt, ok af því, at allir formenn norðrhálfunnar telja þángat sínar ættir, ok setja þá í guðatölu alla, sem formenn voru staðarins, einkanliga svo sem sjálfan Príamum setja þeir fyrir Vóðen; má þat eigi undarligt kalla, því at

Príamus var kominn af Satúrnó, þeim sem norðrhálfan trúði lángan tíma sjálfan guð verit hafa.

Þessi Satúrnus vóx upp í ey þeirri í Grikklandshafi, er Krít heitir; hann var meiri ok sterkari ok fríðari, en aðrir menn. Svo bar vitrleikr hans af öllum mönnum, sem aðrar náttúrugjafir; hann fann ok margar listir þær, sem áðr höfðu eigi fundnar verit; hann var ok svo mikill á þá íþrótt, er fi-ons-anda list heitir, at hann vissi fyrir úorðna luti. Hann fann ok rauða þann í jörðu, er hann blès af gull; ok af þess háttar lutum varð hann skjótt ríkr. Hann sagði ok fyrir ár-ferð ok marga aðra leynda luti, ok af slíku ok mörgu öðru tóku þeir hann til höfðíngja yfir eyna. Ok sem hann hafði litla hríð henni stýrt, þá var þar skjótt nóg allra handa ár-gæzka; þar gekk ok eingi penníngr, nema gullpenníngr, svo var þat gnógt; ok þó at hallæri væri í öðrum löndum, þá kom þar aldri úáran, mátti af því þángat sækja alla þá luti, sem þeir þurftu at hafa. Ok af þessu ok mörgu öðru ósýnilegu kraptaláni, er hann hafði, trúðu þeir hann guð vera; ok af þessu hófst önnur villa millum Krítarmanna ok Macedoníór-um, svo sem hin fyrri meðal Assiríórum ok Kaldeïs af Zóró-astre. Ok er Satúrnus finnr, hversu mikinn styrk fólkit þykk-ist af honum hafa, þá kallast hann guð vera, ok segist stjórn-ari himins ok allra luta.

Einn tíma fór hann skipi til Grikklands, því at þar var konúngsdóttir, sú er hann hafði hug á. Hann fèkk með því náð henni, at einn dag sem hon var úti meðr þjónustukonum sínum, þá brá hann á sik líki graðúngs eins, ok lá fyrir henni í skóginum, ok svo fagr, at gulls-litr var á hverju hári; ok sem konúngsdóttir sèr hann, þá klappaði hon um granarnar; hann sprettr upp, ok brá af sèr graðúngslíki, ok tók hana í fáng sèr, ok bar hana til skips, ok flytr heim í Krít. At þessu finnr Júnó, kona hans; hann brá henni í kvígulíki, ok sendi hana austr í Elfarkvíslir, ok lèt hennar geyma þræl

þann, er Argúlus hèt; þar var hon 12 mánaði, áðr hann skipaði aptr. Marga luti gjörði hann þessum líka eða undarligri. Hann átti þrjá syni: hèt einn Júpíter, annarr Neptúnus, þriði Plútus. Þeir voru allir atgjörfismenn hinir mestu, ok var Júpíter lángt fyrir þeim: hann var stríðsmaðr ok vann mörg konúngsríki, hann var ok listugr, sem faðir hans, ok brá á sik ýmissa dýra líki, ok með því kom hann mörgu fram, því sem manndóminum er úmöguligt at gjöra; ok af slíku ok öðru hræddust hann allar þjóðir: því er Júpíter settr fyrir Þór, svo sem allar úvættir hræddust hann.

Satúrnus lèt upp gjöra í Krít 2 borgir ok 70; ok sem hann þikkist fullkominn í ríki sínu, þá skiptir hann því með sonum sínum, sem hann setti sik fyrir guð, ok skipaði hann Júpíter himinríki, en Neptúnó jarðríki, en Plútó helvíti, ok þótti honum sá lutr ókjörligastr, ok því gaf hann honum hund sinn, þann er hann kallaði Serberum, til þess at geyma helvítis. Þenna Serberum segja Grikkir Erkúlum hafa dregit or helvíti ok á jarðríki. Ok þó at Satúrnus hefði skipt Júpíter himinríki, þá girntist hann eigi at síðr at eignast jarðríki, ok herjar nú upp á ríki föður síns, ok svo segist, at hann lèti taka hann ok gelda, ok fyrir slík stórvirki segir hann sik guð vera, ok þat segja Macedóníí, at hann lèti taka sköpin ok kasta út á sjóinn, ok því trúðu þeir lánga æfi, at þar af hefði vorðit kona: þá kölluðu þeir Venerem, ok settu hana í guðatölu, ok því er Venus alla æfi síðan kölluð ástargyðja, at þeir trúðu, at hon mætti þýða allra hjörtu til ástar, karla ok kvenna. Sem Satúrnus var geldr af Júpíter, syni sínum, þá flýði hann austan or Krít, ok híngat í Ítalía; þar bygðu þá þess háttar þjóðir, sem ekki erviðaðu, ok lifðu við akarn ok við grös, ok lágu í hellum eðr jarðholum. Ok sem Satúrnus kom þar, þá skipti hann nöfnum ok kallaði sik Njörð, sakir þess at hann hugði Júpíter, son hans, mundi þá síðr frètta hann upp. Hann kendi þar fyrstr manna at plægja ok planta

víngarða. Þar var góð jörð ok hrá, ok gjörðist þar skjótt ár mikit; tóku þeir hann til höfðíngja, ok svo eignaðist hann öll þess háttar ríki, ok lèt gjöra þar margar borgir.

Júpíter, son hans, átti marga syni, þá sem ættir eru frá komnar: hans son var Dardanus, hans son Heríkon, hans son Trós, hans son Ílus, hans son Lamedon, faðir Príami höfuðkonúngs. Príamus átti marga syni; einn af þeim var Ektor, er ágætastr hefir verit allra manna í veröldu at afli ok vexti ok atgjörfi ok öllum manndómlegum listum riddaraligrar slektar; ok þat finnst skrifat, þá er Grikkir ok allr styrkr norðrhálfu ok austrhálfu börðust við Trójumenn, þá hefði þeir aldrei sigraðir vorðit, nema Grikkir hefði heitið á guðin, ok gengu svo fréttir, at ekki mannligt eðli mátti þá sigra, nema þeir yrði sviknir af sjálfs síns mönnum, sem síðan gjörðist. Ok af þeirra frægð gáfu eptirkomandi menn sèr þeirra virðíngarnöfn, ok einkanlega svo sem Rómverjar, er ágætastir menn hafa verit at mörgum lutum eptir þeirra daga; ok svo segist, at þá er Róma var algjör, at Rómverjar venduðu sínum siðum ok lögmáli, sem næst máttu þeir komast, eptir því sem Trójumenn höiðu haft, forfeðr þeirra. Ok svo mikill kraptr fylgði þessum mönnum, at mörgum öldrum síðarr, þá er Pompejus, einn höfðíngi Rómverja, herjaði í austrhálfunni, flýði utan Óðinn or Asía, ok hingat í Norðrhálfuna, ok þá gaf hann sèr ok sínum mönnum þeirra nöfn, ok kallaði Príamum hafa heitið Óðin, en drottníng hans Frigg, ok af því tók ríkið síðan nafn, ok kallaðist Frigía, þar sem borgin stóð. Ok hvort er Óðinn sagði þat til metnaðar við sik, eða þat hafi svo verit með skipti túngnanna, þá hafa þó margir fræðimenn haft þat fyrir sanninda sögn, ok þat var lengi æfi eptir, at hverr, sem mikill höfðíngi var, tók sèr þar dæmi eptir.

Einn konúngr í Tróju hèt Munon eða Mennon, hann átti dóttur höfuðkonúngs Príamí, sú hèt Tróan; þau áttu son, sá hèt Trór; þann köllum vèr Þór. Hann var at uppfæzlu í

Tracía með þeim hertoga, er nefndr er Lóricus. En er hann var 10 vetra, þá tók hann við vopnum föður síns. Svo var hann fagr álitum, er hann kom með öðrum mönnum, sem þá er fílsbein er grafit í eik; hár hans er fegra, en gull. Þá er hann var 12 vetra, hafði hann fullt afl; þá lypti hann af jörðu (10) bjarnstökum öllum senn, ok þá drap hann Lóricus hertoga, fóstra sinn, ok konu hans, Lora eða Glora, ok eignaði sèr ríkit Tracía; þat köllum vèr Þrúðheim. Þá fór hann víða um lönd, ok kannaði heimsálfur, ok sigraði einn saman alla berserki ok alla risa, ok einn hinn mesta dreka ok mörg dýr. Í norðrhálfu heims fann hann spákonu þá, er Síbil hèt, er vèr köllum Sif, ok fèkk hennar. Eingi kann segja ætt Sifjar; hon var allra kvenna fegrst, hár hennar var sem gull. Þeirra son var Loride, er líkr var feðr sínum; hans son var Henrede, hans son Víngeþór, hans son Víngener, hans son Móda, hans son Magi, hans son Cespheth, hans son Bedvig, hans son Atra, er vèr köllum Annan, hans son Ítrmann, hans son Heremod, hans son Skjaldunn,*) er vèr köllum Skjöld, hans son Bjaf, er vèr köllum Bjar, hans son Jat, hans son Guðólfr, hans son Fjarlaf, er vèr köllum Friðleif, hann átti þann son, er nefndr er Vóðinn, þann köllum vèr Óðin; hann var ágætr maðr at speki ok allri atgervi. Kona hans hèt Frigida, er vèr köllum Frigg.

Óðinn hafði spádóm, ok svo kona hans, ok af þeim vísindum fann hann þat, at nafn hans mundi uppi vera haft í norðrhálfu heimsins ok tignat um fram alla konúnga. Firir þá sök fýstist hann at byrja ferð sína af Tyrklandi, ok hafði með sèr mikinn fjölda liðs, únga menn ok gamla, karla ok konur, ok höfðu með sèr marga gersimliga luti. En hvar sem þeir fóru yfir lönd, þá var ágæti mikit frá þeim sagt, svo at þeir þóttu líkari goðum en mönnum. Ok þeir gefa eigi stað

---

*) Hèr byrjar Konúngsbókin.

ferðinni, fyrr en þeir komu norðr í þat land, er nú er kallat Saxland; þar dvaldist Óðinn lángar hríðir, ok eignast víða þat land. Þar setr Óðinn til landsgæzlu 3 sonu sína, er einn nefndr Veggdegg, hann var ríkr konúngr ok rèð firir Austrsaxalandi. Hans sonr var Vitrgils, hans synir voru þeir Ritta, faðir Heingests, ok Sigarr, faðir Svebdegg, er vær köllum Svipdag. Annarr son Óðins hèt Beldegg, er vèr köllum Baldr, hann átti þat land, er nú heitir Vestfal; hans son var Brandr, hans son Frjódigar, er vèr köllum Fróða. Hans son var Freóvit, hans son Ývigg, hans son Gevis, er vèr köllum Gave. Enn þriði son Óðins er nefndr Siggi, hans son Verir. Þeir lángfeðgar rèðu þar firir, er nú er kallat Frakkland, ok er þaðan sú ætt komin, er köllut er Völsúngar. Frá öllum þessum eru stórar ættir komnar ok margar.

Þá byrjaði Óðinn ferð sína norðr, ok kom í þat land, er þeir kölluðu Reiðgotaland, ok eignaðist í því landi allt þat er hann vildi. Hann setti þar til landa son sinn, er Skjöldr hèt, hans son hèt Friðleif; þaðan er sú ætt komin, er Skjöldúngar heita, þat eru Danakonúngar, ok þat heitir nú Jótland, er þá var kallat Reiðgotaland.

Eptir þat fór hann norðr, þar sem nú heitir Svíþjóð; þar var sá konúngr, er Gylfi er nefndr. En er hann spyrr til ferða þeirra Asiamanna, er Æsir voru kallaðir, fór hann móti þeim, ok bauð, at Óðinn skyldi slíkt vald hafa í hans ríki, sem hann vildi sjálfr. Ok sá tími fylgði ferð þeirra, at hvar sem þeir dvöldust í löndum, þá var þar ár ok friðr góðr; ok trúðu allir, at þeir veri þess ráðandi. Þat sá ríkismenn, at þeir voru úlíkir öðrum mönnum, þeim er þeir höfðu sèt, at fegrð ok at viti. Þar þótti Óðni fagrir landskostir, ok kaus sèr þar borgstað, er nú heita Sigtúnir; skipar hann þar höfðíngjum, ok í þá líking sem verit hafði í Tróju, setti 12 höfuðmenn í staðinum at dæma landslög, ok svo skipaði hann rèttum öllum, sem fyrr höfðu verit í Tróju, ok Tyrkir voru vanir.

Eptir þat fór hann norðr, þar til er sjár tók við honum, sá er þeir hugðu at lægi um öll lönd, ok setti þar son sinn til þess ríkis, er nú heitir Noregr: sá er Sæmíngr kallaðr, ok telja þar Noregskonúngar sínar ættir til hans, ok svo jarlar ok aðrir ríkismenn, svo sem segir í Háleygjatali. En Óðinn hafði með sèr þann son sinn, er Ýngvi er nefndr, er konúngr var í Svíþjóðu, ok eru frá honum komnar þær ættir, er Ynglíngar eru kallaðir. Þeir Æsir tóku sèr kvonfaung þar innan lands, en sumir sonum sínum, ok urðu þessar ættir fjölmennar, at umb Saxland ok allt þaðan um norðrhálfur dreifðist svo, at þeirra túnga, Asíamanna, var eigintúnga um öll þessi lönd. Ok þat þikkjast menn skynja mega af því, at skrifuð eru lángfeðganöfn þeirra, at þau nöfn hafa fylgt þessi túngu, ok þeir Æsir hafa haft túnguna norðr híngat í heim, í Noreg ok í Svíþjóð, í Danmörk ok í Saxland. Ok í Englandi eru forn landsheiti eða staðaheiti, þau er skilja má at af annarri túngu eru gefin, en þessi.

---

## (Eptirmáli 1., á eptir Gylfaginníng, bls. 44)

En Æsir setjast þá á tal, ok ráða ráðum sínum, ok minnast á þessar frásagnir allar, er honum voru sagðar, ok gefa nöfn þessi hin sömu, er áðr eru nefnd, mönnum ok stöðum, þeim er þar voru, til þess at þá er lángar stundir liði, at menn skyldu ekki ifast í, at allir veri einir þeir Æsir, er nú var frá sagt, ok þessir, er þá voru þau sömu nöfn gefin. Þar var þá Þórr kallaðr, ok er sá Ásaþórr (hinn gamli, sá er Ökuþórr), ok honum eru kend þau stórvirki, er Ektor gerði í Trója. En þat hyggja menn, at Tyrkir hafi sagt frá Úlíxes, ok hafi þeir hann kallat Loka, því at Tyrkir voru hans hinir mestu úvinir.

---

## (Eptirmáli 2., í Skáldskaparmálum, bls. 49)

**En þetta** er nú at segja úngum skáldum, þeim er girnast at nema mál skáldskapar ok heyja sèr orðfjölda með fornum heitum, eða girnast þeir at kunna skilja, þat er hulit er kveðit: þá skili hann þessa bók til fróðleiks ok skemtunar. En ekki er at gleyma eða ósanna svo þessar sögur, at taka or skáldskapinum fornar kenníngar, þær er höfutskáld hafa sèr líka látit; en eigi skulu kristnir menn trúa á heiðin goð ok eigi á sannyndi þessar sagnar, annan veg en svo sem hèr finnst í upphafi bókar, er sagt er frá atburðum þeim, er mannfólkit viltist frá rèttri trú, ok þá næst frá Tyrkjum, hvernig Asíamenn, þeir er Æsir eru kallaðir, fölsuðu frásagnir þær frá þeim tíðindum, er gerðust í Tróju, til þess at landfólkit skyldi trúa þá guð vera.

Príamus, konúngr í Tróju, var höfðíngi mikill yfir öllum her Tyrkja, ok hans synir voru tignastir af öllum her hans. Sá salr hinn ágæti, er Æsir kallaðu Brímissal eða bjórsal, þat var höll Príamus konúngs. En þat er þeir gera lánga frásögn of ragnarökr, þat er Trójumanna orosta. Þat er frá sagt, at Ökuþórr egndi oxahöfði ok dró at borði Miðgarðsorm, en ormrinn hèlt svo lífinu, at hann sökðist í hafit: eptir þeim dæmum er þetta sagt, er Ektor drap Volúkrontem, ágætan kappa, at ásjáanda enum mikla Akille, ok teygði hann svo at sèr með höfði hins drepna, þess er þeir jöfnuðu til oxans, þess er Ökuþórr hafði höfuðit af. En er Akillevs var dreginn í þetta úfæri með sínu kappi, þá var honum sú ein lífshjálpin, at flýja undan banvænligu höggi Hektoris, ok þó sárr. Svo er ok sagt, at Ektor sótti svo ákafliga orostuna, ok svo miklir voru ofrhugir hans, er hann sá Akillevs, at engi lutr var svo sterkr, at standast mætti firir honum. Ok er hann misti Akillevs, ok hann var flýiðr, þá sefaði hann svo reiði sína, at hann drap þann kappa, er Roddrus hèt: svo

sögðu Æsir, at þá er Ökuþórr misti ormsins, þá drap hann Ými jötun. En við ragnarökr kom Miðgarðsormr voveiflega at Þór, ok blès á hann eitri, ok hjó hann til bana: en eigi nentu Æsir at segja svo, at Ökuþórr hefði svo látizt, at einn stigi yfir hann dauðan, þótt svo hefði verit. En meirr hröpuðu þeir frásögninni, en satt var, er þeir sögðu, at Miðgarðsormr fengi þar bana; en þat færðu þeir til, þótt Akkillevs bæri banaorð af Ektore, þá lá hann dauðr á sama velli af þeim sökum: þat gerðu þeir Elenus ok Alexander, þann Elenus kalla Æsir Ala. Þat segja þeir, at hann hefndi bróður síns, ok hann lifði, þá er öll goðin voru dauð, ok slöknaðr var eldrinn, sá er brendr var Ásgarðr ok allar eignir goðanna. En Pirrus, honum jöfnuðu þeir til Fenrisúlfs: hann drap Óðin, en Pirrus mátti vargr heita at þeirra trú; því at eigi þyrmdi hann griðastöðunum, er hann drap konúnginn í hofinu firir stalla Þórs. Þat kalla þeir Surtaloga, er Trója brann. En Móði ok Magni, synir Ökuþórs, kvomu at krefja landa Ala eða Viðar; hann er Eneas, hann kom braut af Tróju, ok vann síðan stór verk. Svo er ok sagt, at synir Ektoris komu til Frigíalands, ok settust sjálfir í þat ríki, en ráku í braut Elenum.



## Leiðrèttíngar.

Bls. 3. l. 9. of., beim les heim. Bls. 13. l. 3. neð., alra les allra. Bls. 16. l. 8. neð., en les enn. Bls. 23. l. 19. of., matti les mátti. Bls. 24. l. 12. of., oumk les óumk. Bls. 32. l. 7. of., litill les lítill. Bls. 50. l. 20. of., styrðu les stýrðu. Bls. 51. l. 15. neð., vin les vín. Bls. 53. l. 10. of., Grimnis les Grímnis. Bls. 60. l. 17. of., hverrr les hverr. Bls. 61. l. 20. of., braðgmildr les bragðmildr. Bls. 62. l. 16. of., Almtögar les Álmtögar. Bls. 66. í neðanm. gr., 1 les 1). Bls. 85. l. 10. of., rygr les rýgr. Bls 91. l. 14. neð., heinvanðil les heinvandil. Bls. 92. l. 12. neð., Kris les Krist. Bls. 97. l. 12. of., kv að les kvað. Bls. 99. l. 2. neð., munði-t les mundi-t. Bls. 112. l. 14. neð., Kraka les Kráka; l. 10., Rygi les Rýgi. Bls. 133. l. 10. neð., morðauknum les morðaukinn (misskrifað í handritinu).



# RITGJÖRÐIR,

tilheyrandi

# SNORRA-EDDU.

---



## (Norræn staffræði).

### (Formáli).

Nú um hríð hefir sagt verit, hversu kenna skal þá luti, sem frammi standa í bók þessari; megu þær kenníngar á margan veg breytast, eptir því sem nú finna ný skáld, ok taka til ok setja reglur eptir ýmislegum bókum. Skal þó eigi at heldr láta þat únýtt vera, sem fornskáldin hafa fundit, er efni ok grundvöllr er alls skáldskapar; en eigi skolu menn þessum frásögnum trúa framarr, en skynsamligt er, eptir því sem segir í fyrsta lut bókarinnar, með hverju (móti) villurnar fjölguðust: ok af því hefir hvert skáld sett sèr reglu, þat sem eigi trúði rèttlega, af því þeir hugðu Óðin guð verit hafa, ok alla þá með guðmagni, sem honum þjónuðu, sem heyra hefir mátt í mörgum frásögnum þessar bókar. En nú skal lýsa, hversu ný skáld ok fræðimenn, ok einkannlega klerkarnir, vilja lofast láta, hversu kveða skal, ok únýta eigi at heldr þat, sem menn hafa, utan þat sem klerkligar bækr banna; því at þat er náttúruligt, at menn sè nú smásmuglari, sem fræðibækrnar dreifast nú víðara. Láta fróðir klerkar hverjar bækr, sem þeir finna, at snara til þeirrar þjóðar túngu, sem í því landi talast, sem þá eru þeir, eigi at eins hversu tala skal, heldr ok jamvel hversu hverr stafr hljóðar, með löngu hljóði eða skömmu, hörðu eða linu, ok hvat hvergi þeirra hefir af sèr fall eða tíma, eðr þeim, sem fyrir honum stendr ok eptir, sem yðr mun sýnt verða í þeim greinum, sem síðarr

eru skrifaðar eptir þeirra manna upptekinni stafasetníngarreglu, sem vèr hyggjum vel hafa kunnat orðógraffiam; ok þó at sína fígúru hafi hverr þeirra til sinnar sagnar, þá sýnist mönnum allir þeir fagrliga skipat hafa: hefir hverr sett stafina eptir þeirri túngu, sem þeir hafa talað; ok þó at þeirra verk sè samanborin, þá bregðr ekki þeirra annars reglu. Skal yðr sýna hinn fyrsta letursháttˊ, svo ritinn eptir sextán stafa stafrófi í danskri túngu, eptir því sem Þóroddr rúnameistari ok Ari prestr hinn fróði hafa sett í móti Latínumanna stafrófi, er meistari Priscíanus hefir sett. Hafa þeir því fleiri hljóðsgreinir með hverjum raddarstaf, sem þessi er túngan fátalaðri, svo at þat má undirstanda með hljóði umbeygiligu, hvössu ok sljófu, svo at einnar tíðar fall væri í hvorutveggja stafrófi, til þess at skáldin mætti þá mjúkara kveða eptir nýfundinni letrlist, en hafa eigi hvert orðskrípi, þat sem fornskáldin nýttu, en hálfu síðr auka í enn verrum orðum, en áðr hafa fundin verit: því at vandara var þeim at tala, sem ekki höfðu fyrir sèr, en þeim, sem nú hafa ýmisligar fræðibækr. En vel má nýta at hafa eptir þeim heiti ok kenníngar, eigi lengra reknar en Snorri lofar. Leiti eptir sem vandligast, þeir sem nú vilja fara at nýjum háttum skáldskapar, hversu fegrst er talat, en eigi hversu skjótt er ort; því at at því verðr spurt, hverr kvað, þá er frá líðr, en eigi, hversu lengi var at verit. Ok þeir, sem nú vilja með nýju kveða, hafi smásmugul ok hvöss ok skygn hugsunar augun, at sjá hvat yðr er nú sýnt í þessum frásögnum.

## (Fyrsta staffræði.)

**Í flestum** landum setja menn á bækr annattveggja þann fróðleik, er þar innan lands hefir görzt, eðr þann annan, er minnisamlegastr þikkir, þó at annarstaðar hafi heldr gjörzt, eða lög sín setja menn á bækr, hver þjóð á sína túngu. En af því at túngurnar eru ólíkar hver annarri, þær þegar er or einni ok hinni sömu túngu hafa gengið eða greinzt: þá þarf úlíka stafi í at hafa, en eigi ena sömu alla í öllum, sem eigi rita Grikkir latínustöfum grizkuna, ok eigi Latínumenn girzkum stöfum latínu, nè enn heldr ebreskir menn ebreskuna hvorki girzkum stöfum nè latínu, heldr ritar sínum stöfum hver þjóð sína túngu. Hverega túngu er maðr skal rita annarrar túngu stöfum, þá verðr sumra stafa vant, af því at eigi finnst þat hljóð

í túngunni, sem stafirnir hafa, þeir er af gánga. En þó rita enskir menn enskuna latínustöfum öllum, þeim er rèttræðir verða í enskunni; en þar er þeir vinnast eigi til, þá hafa þeir við aðra stafi, svo marga ok þesskonar sem þarf, en hina taka þeir or, er eigi eru rèttræðir í máli þeirra. Nú eptir þeirra dæmum, alls vèr erum einnar túngu, þó at gjörzt hafi mjök önnur tveggja eða nakkvað báðar, til þess að hægra verði at rita ok lesa, sem nú tíðist ok á þessu landi, bæði lög ok áttvísi eða þýðingar helgar, eða svo þau hin spaklegu fræði, er Ari Þorgilsson hefir á bækr sett af skynsamlegu viti: þá hefir ek ok ritað oss Íslendíngum stafróf, bæði latínustöfum öllum, þeim er mèr þótti gegna til vors máls vel, svo at rèttræðir mætti verða, ok þeim öðrum, er mèr þótti í þurfa at vera, en or voru teknir þeir, er eigi gegna atkvæðum vorrar túngu: or eru teknir samhljóðendr nokkurir or latínustafrófi, en nokkurir í gjörfir; raddarstafir eru öngvir or teknir, en í gjörfir mjög margir, því at vor túnga hefir flesta alla hljóðs eða raddar.

**Nú af því** at samhljóðendr megu ekki mál eða atkvæði gjöra einir við sik, eigi svo, at megi nafn hafa án raddarstafs, en að raddarstafnum einum ok sèrhverjum má kveða, sem hann heitir ok at honum kveðr í hverju máli, ok þeir bera svo tign af samhljóðendum, sem almætti af hálfmætti: þá hefi ek af því fyrri setta þá í stafrófi ok í umræðu hèr nú. Við þá hljóðstafi fimm, er áðr voru í latínustafrófi, *a*, *e*, *i*, *o*, *u*, þar hefi ek við gjörfa þessa stafi fjóra, er hèr eru ritnir nú: ǫ, ę, ɵ, *y*. ǫ hefir lykkju af *ái*, en hrínginn af *ói*, því at hann er þeirra hljóði tveggja samanblandinn, kveðinn minnr opnum munni, en *á*, en meirr en *ó*. Ę er ritinn með lykkju *ás*, en með öllum vexti *es*, sem hann er af þeim tveim samfeldr, minnr opnum munni, en *á*, en meirr en *e*. Ɵ, hann er af hljóði *es* ok *ós* feldr saman, minnr opnum munni kveðinn, en *e*, ok meirr en *ó*, enda ritinn af því með kvisti *es* ok með *ósins* hríng. *Y* er af röddu *ís* ok *ús* görr at einni röddu, kveðinn minnr opnum munni, en *í*, ok meirr en *ú;* ok skal af því ena fyrri kvísl af höfuðstafs-*úi*, sem áðr er þeim í stafrófi skipat. Nú má verða at því, at nokkurr svari svo: „ek má fullvel lesa danska túngu, „þó at latínustöfum rèttum sè ritað; má ek þó at líkindum „ráða, hve kveða skal, þó at eigi sè allir stafir rèttræðir í því, „er ek les; ræki ek eigi, hvort þú rítr ɵ þitt eða *o*, ǫ eða *a*, „ę eða *e*, *y* ok *u*“. En ek svara svo: eigi er þat rúnanna

kostr, þó at þú lesir vel, eða ráðir vel at líkindum, þar sem rúnar vísa óskýrt, heldr er þat þinn kostr; enda er þá eigi örvænt, at þeygi lesa ek vel, eða minn maki, ef sá finnst, eða ráða ek vel at líkindum, til hvers ens rètta færa skal, ef fleire vega má færa til rètts, en einn veg, þat sem á einn veg er þó ritað ok eigi skýrt ákveðit, ok skal geta til, sem þú lèzt þat vel kunna. En þó at allir mætti nakkvað rètt or gjöra, þá er þó vís von, at þeygi vili allir til eins færa, ef máli skiptir, allra helzt í lögum. Enda tel ek þik eigi hafa vel svarað, er þú lætr eigi þurfa í voru máli þessa níu raddarstafi, *a*, *ǫ*, *e*, *ę*, *i*, *o*, *ø*, *u*, *y*, allra helzt ef ek klýf or þessum níu sex greinir ens fjórða tigar, þær er sitt mál gjöri hver, ef glögt eru skildar. Nú mun ek þessa stafi átta, alls eingi grein er enn í gjör, á meðal enna sömu tveggja samhljóða setja sitt sinn hvern, en sýna ok dæmi gefa, hve sitt mál gjöri hverr þeirra við enna sömu stafa fulltíng, í enn sama stað settr hverr sem annarr, ok á þann veg svo gefa dæmi of allan þenna bæklíng á meðal enna líkustu greina, þeirra er á stöfunum verða gjörvar: s a r, s ǫ r, s e r, s ę r, s o r, s ø r, s u r, s y r: s a r veitti maðr mèr eitt, s ǫ r mörg veitta ek honum: . . . . . s ę r: goðinn s o r einn s ø r i n: s u r eru augu s y r, slík duga betr, en sprÍngi y r.

**En nú** elr hverr þessa stafa níu annan staf undir sèr, ef hann verðr í nef kveðinn; enda verðr sú grein svo skýr, at hon má ok máli skipta, sem ek sýni hèr nú eptir, ok seti púnkt fyrir ofan þá, er í nef eru kveðnir: h a r, h ȧ r, r ǫ, r ǫ̇, þ e l, þ ė l, f ę r, f ę̇ r, ı s a, i s a, o r a r, ȯ r a r, ø r a, ø̇ r a, þ u a t, þ u̇ a t, s y n a, s ẏ n a. H a r vex á kvikindum, en h ȧ r er fiskur; r ǫ er eitt trè or seglviðum, en r ǫ̇ er hyrníng húss; þ e l er á hnefa bundnum, en þ ė l er smíðartól; annat er þat, er sauðrinn heitir f ę r, en annað þat, er hann f ę̇ r lambs; ı - s á skýja - deild, þá er vèr komum í i s a; o r a r eru úræktir ȯ r a r; spakt skyldi hið ellzta barn, því at hið ellra má ø r a hið ø̇ r a; þar var þ u a t, er fjáðr klæðit þ u̇ a t; þriggja s y n a austr mun ek þèr s ẏ n a. Nú verðr þetta allt saman raddarstafanna: a, ȧ, ǫ, ǫ̇, e, ė, ę, ę̇, ı, i, o, ȯ, ø, ø̇, u, u̇, y, ẏ.

**En þó at** ek rita eigi fleiri raddarstafi, en raddirnar fundust í voru máli, átján gjörvar or fimm latínu-röddum, þá er þó gott at vita þat, at er grein enn á raddarstöfum, bæði þeim er áðr voru í stafrófi, ok þeim öðrum, er nú eru í gjörf-

ir: grein sú, er máli skiptir, hvort stafr er lángr eða skammr, sem Grikkir rita í öðru líkneski lángan staf, en í öðru skamman; svo rita þeir *e* skamman, ε, en svo lángan, sem sjá stafr er, η, þann veg o skamman, en þann veg lángan, ω. Þá grein vil ek enn sýna, því at hon skiptir máli ok, jafnt sem hinar fyrri, ok merkja ena löngu með stryki frá hinum skömmum: far, fár, råmr, rámr; ǫl, ǫ́l, vǫn, vǫ́n; seþu, sèþu, framèr, fra mèr; vęr, vę́r, vęniz, vę́niz; vıl, víl, minna, mínna; goð, góð, möna, móna; Goðrøði, goð ró̈ði, mønді, mǿndi; dura, dúra, rünar, rúnar; flytr, flýtr, brynna, brýnna. Far heitir skip, en fár nokkurskonar nauð; råmr er sterkr, en rámr enn hási; ǫl heitir drykkr, en ǫ́l er band; túngan er málinu vǫn, en at tönnunum er bitsins vǫ́n; seþu, hve vel þeir sèðu, er fyrir saumförinni rèðu; mjök eru þeir menn framèr, er eigi skammast að taka mína konu fra mèr; svo er mörg við vęr sinn vę́r, at varla of sèr hon af honum ner; vęniz eigi góðr maðr því, þó at vondr maðr vę́niz góðum konum; dul vættir ok vıl, at lina muni erfiði ok víl; huglan mann vil ek minna hugðra erinda mínna; sú kona göfgar goð, er sjálf er góð; mön-a mín móna (kveðr barnið) við mik gjöra verst hjóna; vel líkaði Goðrøði goð ró̈ði, þat eru góðar árar, sem skáld kvað:

Rètt kann røði slíta ... ræsis herr or verri[1].

Leka møndi húsit, ef eigi mǿndi smiðrinn; ef gestrinn kveðr dura, þá skyldi eigi bóndinn dúra; rünar heita geltir, en rúnar málstafir; seþu, hve flotinn flýtr, er sækarlinn flytr; stýrimaðr þarf byrinn brýnna, en sá er nautunum skal brynna.

**Nú ef** nokkur þessa greina sex ens fjórða tigar má svo niðr falla, at aldri þurfi í voru máli, þá skjótumst ek yfir, sem vís von er, eða svo, ef fleiri finnast í mannsins röddu. En þat er gott at vita, sem fyrr var getið, er svo kveðr at hverjum raddarstaf í hverju máli, sem hann heitir í stafrófi, nema þá er hann hafnar sínu eðli, ok hann má heldr þá samhljóðandi heita, en raddarstafr. Þat verðr, þá er hann er stafaðr við annan raddarstaf, sem hèr eru nokkur dæmi nú: austr, eárn, eir, iúr, eyrir, uín. Nú er eigi örvænt, að svo svari nokkurr

---

[1]) Hkr. Har. Sigurðars., k. 62, 3: Fms. 6, 309, 2.

mèr: „þar er orð, at þú ritar þar *e*, er flestir menn rita *i*, þá „er hann verðr fyrir samhljóðanda settr, sem nú er skamt frá „því, er þú ritaðir eárn, þar sem ek munda iárn rita, eða „svo í mörgum stöðum öðrum". Þá svara ek svo: þú hefir þar rètt fundit, ok þó eigi alls getið, þess er þèr má ek kynlega þikkja ritað hafa, er þó hafa ek fyrir önnkost svo ritað í flestum stöðum. Ef ek gjörða annat mál, sem þar væri full þörf ok ærin efni til, er kænska væri, of þat, til hverra stafa hver orð hafa eðli, eða á hverja lund hverja stafi skyldi saman stafa, þá væri sú bók önnur öll, ok miklu meiri, ok má ek af því eigi þat mál nú mæla innan í þessu. En þó mun ek nokkurum orðum svara um þetta it eina orð, er þú skoraðir helzt í: fyrir því at þat hljóð, er samhljóðandinn hefir, eða sá raddarstafr, er í hans stað er settr, ok stafaðr við annan raddarstaf, er eigi auðskilið, því at lítið verðr ok við blandit nær eða gróið við raddarstaf þann, er við er stafat. Þá er þess leitanda, hvort svo finnum vèr kveðit hið sama orð, að sá raddarstafr sè frá öðrum raddarstaf skilinn, ok gjöri sína samstöfun hvorr, er optast er við stafaðr svo, at eina samstöfun gjöra báðir. Skáld eru höfundar allrar rýnni eða málsgreina, sem smiðir málsgreina[1] eða lögmenn laga. En þessa lund kvað einn þeirra, eða þessu líkt:

Höfðu hart of krafðir gáng, en gamlir sprúngu,
(hildr óx við þat) skildir gunnþíngs, eárn-hríngar[2].

Nú þó at kveðandin skyldi hann til, at slíta eina samstöfu í sundr, ok gjöra tvær or, til þess að kveðandi haldist í hætti, þá rak hann þó eingi nauðr til þess, at skipta stöfunum, ok hafa *e* fyrir *i*, ef heldr ætti *i* at vera en *e*, þó at mèr litizt eigi at því. En ef nokkurr verðr svo einmáll eða hjámáll, at hann mælir á mót svo mörgum mönnum skynsömum, sem bæði lètust sjálfir kveða þetta orð, áðr ek ritaða þat, ok svo heyra aðra menn kveða, sem nú er ritað, ok þú lætr *i* skolu kveða, en eigi *e*, þó at þat orð sè í tvær samstöfur deilt: Þá vil ek hafa ástráð Katónis, þat er hann rèð syni sínum í versum:

*Contra verbosos noli contendere verbis;*
*sermo datur cunctis, animi sapientia paucis* [3].

Það er svo að skilja: hirð eigi þú at þræta við málrófsmenn: málróf er gefit mörgum, en spekin fám. Nú lýk ek hèr um-

1) Rask vildi lesa málmgripa, G. Magnússon málsnildar. 2) Hkr. Ól. helga, k. 12, 1. 3) Sjá Hugsvinnsmál (útg. 1831), bls. 11.

ræðu raddarstafanna, en ek leita við, ef guð lofar, at ræða nakkvat um samhljóðendr.

**Í nafni** samhljóðanda hvers sem eins er nokkurr raddarstafr; því at hvorki nefnir þau nöfn, nè önnur eingi, ef þeir njóta eigi raddarstafa, sem fyrr var sagt. Nú þó at þat hljóð eða atkvæði, er samhljóðendr hafa, megi varla eitt saman aðkveða, enda sè þó nauðr at skilja, hvat þeir stoða í málinu, enda stoði eingi þeirra þat allt í málinu, sem nafn hans er til, sem raddarstafirnir gjöra: þá mun ek svo haga nafni hvers þeirra, er áðr hafði eigi svo nafn til, at þá skal af nafninu skilja, hvat hann stoðar í málinu, þó at áðr skili eigi. Skal þat atkvæði hvers þeirra í hverju máli vera, sem þá lifir nafnsins eptir, er or er tekinn raddarstafr or nafninu. *B, d, g, h, p, t,* þeir stafir hafa af því mundángmikið eins-stafs-atkvæði, at aldri má tvo samhljóðendr ens sama lutar setja í einni samstöfun fyrir raddarstafinn. *F, l, m, n, r, s,* þeir stafir megu hafa tveggja samhljóðanda atkvæði hverr einn, ef svo mjök vill at kveða, svo sem hverr þeirra, er eptir raddarstafinn verðr settr, sem þar berr vitni, er vèr nefnum þá með svo miklu atkvæði, sem mundim vèr, ef svo skyldi rita nöfn þeirra: *eff, ell, emm, enn, err, ess.* Má ok minka atkvæði þeirra, þó at þeir standi eptir raddarstafi í samstöfun, ok sè svo nefndir, sem þessa kostar væri ritin nöfn þeirra: *ef, el, em, en, er, es,* sem ek læt þá svo heita alla, ok aldri hafa meirr en eins stafs atkvæði hvern, hvort sem þeir standa fyrir raddarstafi í samstöfun, eða eptir: nema þars ek rít samhljóðanda, hverngi er ek rít, með vexti höfuðstafsins, enda standi hann eptir raddarstafinn í samstöfun: þá læt ek þann einn jarteina eafnmikit, sem þar væri tveir einskonar ok ens sama konar ritnir, til þess at rit verði minna ok skjótara ok bókfell drjúgara. Nú þars þeir stafir eru, er raddarstaf hefir eptra í nafninu, sem eru *b, c, d, g, p, t,* ok af því of eykr eigi atkvæði nafns hvers þeirra: þá skipti ek þar höfuðstafsins nafni, ok set ek þá raddarstaf fyrr, til þess at aukast megi atkvæði þeirra svo í nafninu, sem annarstaðar skolu þeir í málinu jarteina. Skal nú hverr samhljóðandi jammikit sitt atkvæði leggja til lags við raddarstaf þann, er í nafni hans er, sem hann skal hafa við hverngi annarra, er hann verðr stafaðr í hverju máli. En fyrir því nú at sumir samhljóðendr hafa sín líkneski ok nafn ok jartein, en sumir hafa höfuðstafs lík-

neski ok nafn ok jartein, en sumir hafa höfuðstafs líkneski, ok skipat stöfum sumra í nafni, ok aukit atkvæði bæði nafns ok jarteinar, en sumir halda líkneski sínu, ok er þó mínkat atkvæði nafns þeirra, ok jartein sú, er þeir skolu hafa í málinu, skal þeirri lík, er í nafninu verðr: Þá skal nú sýna leita bæði líkneski þeirra ok svo nöfn fyrir ofan ritin, at yfir þat megi nú allt saman líta, er áðr var sundrlauslega umrætt:

be, ebb, ke, ekk, de, edd, ef, eff, ge, egg, eng, há, há, el, ell, em, emm,
*b, B, c, K, d, D, f, F, g, G, q, h, H, l, L, m, M,*
en, enn, pe, epp, er, err, es, ess, te, ett, ex̄, (þe).
*n, N, p, P, r, R, s, S, t, T, x, X, þ.*

**Sá stafr,** er hèr er ritinn C, er latínumenn flestir kalla *ce* ok hafa fyrir tvo stafi, fyrir *t* ok *s*, þá er þeir stafa hann við *e* eða *i*, þótt þeir stafi hann við *a* eða *o* eða *u* sem *k*, sem svo stafa Skotar þann staf við alla raddarstafi í latínu ok kalla *che:* hann læt ek ok *che* (ɔ: ke) heita í oru stafrófi, ok stafa ek svo við alla raddarstafi, sem *k* eða *q*, en þá tek ek yr stafrófi báða, ok læt ek þenna einn fyrir hvorn hinna, ok svo fyrir sjálfan sik, alls þeir höfðu áðr allir eitt hljóð í flestum stöðum eða jartein. En fyrir því at *c* hefir enn sama vöxt, hvort sem hann er höfuðstafr ritinn eða eigi, allra helzt er ek rít eigi þá höfuðstafi stærri, en aðra, í riti, er eigi standa í vers-upphafi, og skolu tvo stafi earteina: ok þá rít ek fyrir hans höfuðstaf þenna staf *K*, fyrir því at þá hefir hann sinn vöxt, þót nakkvat leggist við: er ok eigi allfjartekit til þess vaxtar honum, alls sá stafr stendr í griksku, ok heitir *kappa*, ok jarteinir 20 í tölu þar; en hèr skal hann í máli voru standa fyrir *cc*, sem aðrir enir smæri höfuðstafir jarteina tvö hundruð tíræð, sem *ce* tvö í latínu. Áðr hann væri fyrir tvo stafi settr ok hann hèt *che*, þá hafði hann eptra *e* en *c* í nafni sínu; en nú skipti hann, ok hafi *e* fyrst í nafninu, ok heiti *ekk*, enda siti um sogört. Þat *n*, er stendr fyrir *g* hið næsta í einni samstöfu, þat er minnr í nef kveðit, en meirr í kverkr, en önnur *n*, af því at það tekr viðbland nakkvat af *g:* nú gjöri ek þeim af því vinveittar samfarar sínar, ok gjöri ek einn staf af báðum, þanns ek kalla *eng*, ok rítk á þessa lund, q̱. Hann læt ek jarteina einn sem hina tvo, svo at allt sè eitt, hvort þú rítr hríngr eða hríq̱r, nema þat er rit minna, er stafir eru færi. Hvorki hefi ek brugðit vexti nè nafni á *h*, því at hann má hvorki vaxa nè þverra, nè á eingi veg skapast í sínu atkvæði. *X, v, Z, z,* þeirra stafa má þarnast, ef vill, í voru

máli, því at eingi er einka jartein þeirra, alls þeir eru fyrir þá eina stafi hafðir, er áðr eru í stafrófi: sumir fyrir tvo, sem *X* ok *Z z* eða ꜧ, er fyrir fleiri verðr stundum; en sumir fyrir einn, sem *v*, eða stundum ꜧ. *X*, hann er samsettr í latínu af *c* ok *s*; hann vil ek ok hafa svo samsettan í voru máli, ok ekki sinn láta hann höfuðstaf vera, því at hann verðr aldri fyrir *c* tvö, nè *s* tvö, ok eigi í upphafi vers, nè orðs, nè samstöfunar. *V*, hann er grikkskr stafr, ok heitir þar *vi*, en latínumenn hafa hann fyrir *i*, ok í grikkskum orðum að eins þó, ef skynsamlega er ritað, ok þarf hann af því eigi hèr í vora túngu, nema maðr vili setja hann fyrir *u*, þá er hann verðr stafaðr við annan raddarstaf ok hafðr fyrir samhljóðanda: er þó láta ek af nú at rita hann, því at ek sèkk-a *u* þess meiri þörf fulltíngs, en öðrum raddarstöfum, þá er þeir verða fyrir samhljóðendr. *Z*, hann er samsettr af *daleth*, ebreskum staf, svo ritnum, ד er settr er fyrir *d*, ok af þeim öðrum, er heitir *sade*, ok er svo ritinn, צ, ok er fyrir *es* í latínu settr, alls hann sjálfr er ebreskr stafr, er þó sè hann í latínustafrófi ok hafðr, því at ebresk orð vaða opt í latínunni. Honum vísa ek heldr or voru máli ok stafrófi, því at þó verða fyrir nauzynja sakir fleiri stafir í þar, en ellegar vilda ek hafa: vil ek heldr rita, þeim enum fám sinnum er þarf, *d* ok *s*, alls hann er of allt í oru máli af *d* samsettr ok *s*, en ekki sinn af *s* ok *d*. *z* er heldr samstöfun, en stafur, ok eru stafaðir saman *e* ok *t* í latínu, en *e* ok *þ* í oru máli, ef hafa skyldi; en ek hefi hann sem sízt í oru máli ok stafrófi, því at aldregi verðr sú samstöfun svo í oru máli einsaman, at eigi standi í þeirri hinni sömu samstöfun nakkvarr samhljóðandi fyrir *eit*. Titull hefir enn ekki eðli til stafs, en hann er þó til skyndíngar rits ok minkunar settr fyrir ýmsa stafi aðra, stundum fyrir einn, en stundum fyrir fleiri. Set ek hann optast fyrir *m*, eða stundum fyrir *n*, eða fyrir *er* samstöfun, þann er svo er vaxinn ꜧ; kanka-a ek til þess meiri ráð, en lítil: bindi hverr með titli, sem tilfyndiligt ok auðskillekt þikkir. Titull hefir þó nokkura jartein til nafns þess, er hann á, þó at hann megi eigi svo merkja af nafni, sem aðra stafi: *títan* heitir sól, en þaðan af er minkat þat nafn, er *titulus* á latínu; titull, kveðum vèr, þat er sem lítil sól sè: Því at svo sem sól lýsir, þars áðr var myrkt, þá lýsir svo titull bók, er fyrir er ritinn, eða orð, ef yfir er settr.

Staf þann, er flestir menn kalla *þorn*, þann kalla ek heldr af því *þe*, at þá er þat atkvæði hans í hverju máli, sem eptir lifir nafnsins, er yr er tekinn raddarstafrinn or nafni hans, sem alla hefi ek samhljóðendr samda í þat mark nú, sem ek reit snemma í þeirra umræðu. Skal *þ* standa fyrri í stafrófi en titull, þó at ek hafa síðar umræðu um hann, því at hann er síðarst í fundinn; en af því ræddi ek fyrr um titul, at hann var áðr í stafrófi, ok ek lèt hann þeim fylgja í umræðu, er, honum líkir, þarnast sína jartein. Höfuðstaf *þesins* rít ek hvergi, nema í vers-upphafi, því at hans atkvæði má ekki æxla, þót hann standi eptir raddarstaf í samstöfun.

**Nú þó at** ek hafa mjök skyndilega mælt um höfuðstafanna rit, þeirra er fyrir tvo skal einn vera, þá kalla ek eigi rángt nè illa ritað, þó að hinir tveir sè þar heldr ritnir, er hvorgi er höfuðstafr, er þó vilja ek heldr einn staf rita, þar sem bæði stoðar jafnmikit, einn ok tvo, til þess, sem ek sagða, at rit verði minna ok skjótara, ok bókfell drjúgara. En þat veit ek eigi, hvat þá skal athafa, ef svo illa verðr, at enn höggst nokkurr í, ok mælir svo: „þar sem þú rítr höfuðstaf einn, kveðr hann, ef hann ræðr þat, eða samhljóðendr tvo einskonar samfelda í einni ok enni sömu samstöfu, segir þú, þá vil ek hvorki ríta samhljóðendr tvo, nè höfuðstaf einn, til þess at auka atkvæðit, nè enn heldr þann, sem eigi sè höfuðstafr, til þess at minnka, heldr rít ek einn ens sama konar enn sama jafnan, ok eigi höfuðstaf, nema í upphafi orðs ok vers, ok kveði svo mjök eða lítt at hverjum, sem ek ræð síðan; eða eigi ræki ek, að ek kveða jafnmjök at öllum“. Hvað skal þá aðhafa? kvað ek, hvað þá? nema sýna honum svo skýr dæmi þeirra greina, er hann skilr engvar áðr vera, að þá þikkist hann of seinn verða til at mæla sjálfr á mót sèr, ok verða fyrri at bragði, en þeir, er ella mundi fífla hann, ok kalla sem væri spakara, ef þegði. Nú eru hèr þau dæmi, er bráðafángs fundust; þau eru síðan nokkuru ljóslegarr til máls færð ok skilníngar: *Úbe, UBe, secr, seKr; hǫdu, hǫDu; afarar, aFarar; þagat, þaGat; ǫl, ǫL; frame, fraMe; vina, viNa; krapa, kraPa; hver, hveR; fús, fúS; skjót, skjóT. U, be,* þat eru tvö nöfn tveggja bókstafa, en *Ubbe,* þat er eins manns eitt nafn. *Sekr* er skógarmaðr, en *sekkr* er ílát. *Hǫdo* þá er Hölga-tröll dó, en heyrði til *höddu,* þá er Þórr bar hverinn. Betra er hverjum fyrr *þagað,* en annarr hafi

*þaggat.* Eigi eru *ǫl ǫll* at einu. Meiri þikkir stýrimannsins *frami,* en þess er þiljurnar byggir *frammi.* Sá er mestr guðs *vina,* er mest vill til *vinna.* Vaða opt til kirkju *krapa,* þó at þar fái leið *krappa.* *Hver* kona ok *hverr* karlmaðr skyldu þess *fús,* sem guð er *fúss:* þá munu þau til góðra verka *skjót,* ok hafa guðs hylli *skjótt.*

**Nú um þann** mann, er rita vill eða nema at voru máli ritið, annaðtveggja helgar þýðingar eða lög eðr áttvísi, eða svo hveregi er maðr vill skynsamliga nytsemi á bók nema, eðr kenna, enda sè hann svo lítillátr í fróðleiks-ástinni, at hann vili nema litla skynsemi, heldr en öngva, þá er á meðal verðr ennar meiri: þá lesi hann þetta kapítulum vandlega, ok bæti, sem í mörgum stöðum mun þurfa, ok meti viðleitni mína, en varkynni úkænsku; hafi stafróf þetta, er hèr er áðr ritað, unz hann fær þat, er honum líkar betr.

a, ȧ; ǫ, ǫ̇; e, ė; ę, ę̇; ı, i; o, ȯ; ɵ, ɵ̇; u, u̇; y, ẏ.

bB, cK, dD, fF, gG, q, h, lL, mM, nN, pP, rR, sS, tT, x, þ.

ꝛ ꝰ ħ — 7 (ɔ: or, us, ir, mn, ri).

---

## (Önnur staffræði).

**Nú fyrir því** at maðrinn sè skynsamlegum anda skrýddr ok prýddr, þá skilr hann ok greinir alla luti gjörr ok glöggra, en önnur kykvendi: þá neyti ok njóti þess láns með guði. Hjarta manns kennir alls, ok við hjartat liggr bæði barki ok vèlendi, ok andblásnar æðar renna þar upp ok rætast, bæði þær æðar, er bera vind eða blástr, blóð eða ljóð: ok á annan veg horfa þær svo, at þær mætast við túngurætr, með því hver, er þarf: renn ok rödd upp fyrir hverju orði. Þarf ok með hverju orði þrjár þessar greinir: minni ok vit ok skilníng; minni, at muna orða atkvæði; vit, at hugsa, hvat hann vill mæla; skilníng til þess, hvat í býr orðunum.

**Nú hafa** þessir lutir hljóð, sumir rödd ok sumir mál, sem sagt var. Sú er ein grein hljóðs, er þýtr veðr eða vötn, eðr sjór, eðr grjót eðr björg, eða jörð hrynr, þetta hljóð heitir gnýr eða þrymr, dynr eða dunr. Svo þat hljóð, er málmr mætist, eða manna þyss; þat heitir ok gnýr, glymr eða hlymr. Svo þat, er viðir brotna eða gnesta; þat heitir brak eða brestir: þetta eru vitlaus hljóð. En hèr um fram er þat hljóð, er stafi

eina skortir til máls: þat heitir saungr, þat eru hörpur eða önnur söngfæri. Önnur hljóðsgrein er sú, er fuglar eðr dýr eðr sækvikindi hafa, þat heitir rödd; heita þær raddir á marga lund: fuglar sýngja eða gjalla eðr klaka, ok þó með ýmsum háttum. Dýra-rödd er greind með mörgum nöfnum, ok kunna menn skyn, hvat þikkjast benda í sínum látum sumum; sækvikindi blása eða gjalla. Allar þessar raddir eru mjög skynlausar, svo at flestr luti manna viti. Þriðja hljóðsgrein er miklu merkiligust, er menn hafa: þat er hljóð ok rödd ok mál. Málið gjörist af blæstrinum ok túngubragðinu ok skipan varranna. Ef maðr getr mikla málsnild, þá þarf þar til þrent: vit ok orðfæri ok fyrirætlun ok allhægt túngubragð. Ef tenn eru skörðóttar, ok missir tanngarðar, þat lýtir málit; svo ok, ef túngan er of mikil, þá er málit blest; nú er hon of lítil, þá er sá holgómr. Þat kann ok spilla máli manns, ef varrar eru eigi heilar.

**Muðrinn** er leikvöllr orðanna, en túngan stýrið. Á þeim leikvelli eru reistir þeir stafir, er allt mál gjöra, ok fimm hríngar eru um þá stafi, slegnir eðr settir í málshætti. Í fyrsta hríng eru fjórir stafir, er heita höfuðstafir; þá má til einskis annars nýta, en vera upphaf og fyrir öðrum stöfum: *þ, v, h, q*. Í öðrum hríng eru stafir tólf, þeir heita málstafir; hverr þeirra má vera bæði fyrir ok eptir í orðinu, ok gjörir þó eingi þeirra mál af sjálfum sèr: *b, d, f, g, k, l, m, n, p, r, s, t;* nöfn þeirra eru eptir hljóð þeirra. Í þriðja hríng eru tólf stafir, er hljóðstafir heita. Þessi er grein þeirra; fyrst heita stafir, ok skal svo rita, *a, e, i, o, u, y*. Önnur er þeirra grein sú, at þeir heita límíngar, og skal þá svo rita, *ɵ, æ, ꜵ:* þessir þrír stafir eru hvar tveir hljóðstafir samanlímdir, því at þessi stafr hverr hefir hvorn lut af hljóði hinna, er hann er af gjörr. En þriðja grein er sú, er þeir stafir hafa, er heita lausaklofar, ok skal svo rita, *ey* ok *ei:* þessir tveir stafir eru ritaðir úbreyttir í hvorum stað, ok gjörr einn af, því at hann tekr hljóð þeirra beggja; en fyrir ritsháttar sakir er þá úhægt saman at binda. Tólfti stafr er skiptíngr: þat er rèttr hljóðstafr, ef málstafr er fyrir honum ok eptir í samstöfun; en ef hljóðstafr er næstr eptir hann, þá skiptist hann í málstaf, ok gjörast þá af honum mörg full orð, svo sem: *iá* eðr *iörð* eða *iór;* önnur skiptíng er þat, at hann er lausaklofi, svo sem áðr var ritað, þá er svo, ef málstafr stendr fyrir honum ok hljóðstafr eptir:

svo sem *biór* eðr *biörg*. *Á,* í, ó, ý, þessir gjöra einir saman mörg orð full, en skamt mál gjöra þeir sjálfir. Ef *á* gjörir heilt orð, þá mezt það svo, sem þú nefnir *yfir*; *í,* það er fyrir innan; *ó* eðr *ú,* þat skiptir um orðum, svo sem er *satt* eða *úsatt;* menn kalla *ý* einn við; *æ,* þat er veinun kallað; er ok *ey* eða *ei,* þat er aldregi þrýtr. Hljóðstafir hafa tvenna grein, þá er optliga skiptast orðin með, at þeir sè *styttir* eða *dregnir,* ok er því betr dregit yfir þann staf, er seint skal atkveða, svo sem hèr er: „*á því ári, er Ari var fæddr*“, *ok* „*èr ertuð hann*“, „*þat er í mínu minni*“. Opt skipta orðaleiðíngar öllu máli, hvort hinn sami hljóðstafr er leiddr skjótt eða seint. Lofat er þat í ritshætti at rita af límíngum, heldr *á*-lykkju, en full *á,* ok er þá svo: ę, ǫ. Í fjórða hríng eru tólf stafir, svo ritaðir: B, D, F, G, K, L, M, N, P, R, S, T; þessir stafir eru settir hverr fyrir tvo jafna sèr í ritshætti, því at sum orð endast í svo fast atkvæði, at eingi málstafr fær einn borið, svo sem *höll* eða *fjall, kross* eða *kross, framm* eða *kramm;* nú þarf annaðhvort að rita tvo málstafi eða þenna einn. Í fimta hríng eru ritaðir þeir þrír stafir, er heita undirstafir: *ð, Z, x,* má þeim við engan staf koma, nema þeir sè eptir hljóðstaf í hverri samstöfun. Fjórði stafr er *c,* þat er rètt hans hljóð, at hann sè í enda samstófu, sem aðrir undirstafir. Titlar eru hèr so ritaðir, sem í öðrum ritshætti; hefir titull ekki einkar eðli til stafs, heldr er hann til skýríngar rits. Sól heitir *Titan,* heitir þaðan af *titulus* í latínu, er vèr köllum titul, þat er sem *lítil sól,* því at svo sem sól lýsir heim allan, svo lýsir titull orð rètt ritinn. Þessir eru fjórir höfuðstafir: *þ, v, h, q;* en þessir eru sex hljóðstafir óbreyttir: a, e, i, o, u, y, eru þeir (þrír?) ok límdir saman í ritshætti; þá eru þessir tólf saman málstafir úbreyttir: *b, d, f, g, k, l, m, n, p, r, s, t;* þessir eru undirstafir: *ð, c, x, Z. X,* ȝ, *z,* þeirra má missa í voru máli, ef vill: *x* er samtengdr af *c* ok *s* í latínu; *Z,* hann er samtengdr af *d* ok *s,* ok er ebreskr: ȝ er heldr samstöfun, en stafr, eru stafaðir saman *e* ok *t* í latínu.

**En fyrir því** nú at sumir samhljóðendr hafa sitt líkneski ok nafn ok jartein, en sumir hafa höfuðstafs líkneski, ok skipat stöfum sumra í nafni, ok aukit atkvæði bæði nafns ok jarteinar, en sumir halda líkneski sínu, ok er þó minnkat atkvæði nafns þeirra, ok jartein sú, er þeir skolu bera í málinu, skal þeirri lík, er í nafninu verðr: þá skal nú sýna leita

bæði líkneski þeirra, ok svo nöfn, fyrir ofan rituð, at yfir þat megi nú allt saman líta, er áðr var sundrlausliga umrætt:

a, ȧ, o, ǫ, e, ȩ, ı, i, u, ú, y, ẏ.

be, ebb, ke, ekk, de, edd, ef, eff, ge, egg, eng. há, el, ell, em, emm,
*b, B. c, K. d, D, f, F, g, G, q, h, H, l, L, m, M,*

en, enn, pe, epp, er, err, es, ess, te, ett, ex, zet, eð, þe,
*n, N, p, P, r, R, s, S, t, T, X, z, ð, þ.*

— ר ϒ ω ϑ (ɔ: mn, ir, ar, ra, us).

Nú verðr þetta allt saman stafróf kallat.

**Þessir stafir** gjöra allt mál, ok hendir málit ýmsa, svo til at jafna sem hörpustrengir gjöra hljóð, eða eru leystir luklar í simfonii, eða þá er organ gengr upp ok niðr, aptr ok framm um allan gamma, þann er með sèr hefir nítján lukla ok átta raddir; ok nú koma til móts þessir 5 hríngar stafanna, er áðr var umrætt: kallast nú hvorir við aðra stafróf ok gammi, ok taka nú hljóðstafir þar sín hljóð, ok raddarstafir rödd, málstafir málit, ok samnast til orðanna, svo margra, at ekki er þess mælt í heiminum, at eigi sè þessir stafir til hafðir. Nú eru eingi þau læti eða hljóð eða raddir, at eigi muni þat allt finnast í gammanum. Nú tekr svo fremi mikit um gjörast, er orðin hefjast upp ok hljómrinn vex ok raddirnar glymja á; nefnist ok svo fremi söngr, er þetta hefir allt til. Ok nú þyss sjá flokkr framm á leikvöllinn, ok öllum megin at stýrinu, því er túngan heitir, ok heita nú á hana til málsins ok orðanna ok söngsins, at hon kveði þat allt upp, ok hon gjörir svo, ok hneigir sik til stýrimannsins, ok mælir svo: *Ósanna,* segir hon, þat þýðist á vora túngu svo: *græð þú oss;* en þat er á ebresku mælt, ok stakk hana náttúran til þess, fyrir því at hon var fyrst, ok gekk þá um allan heim, þángat til er guð skipti þeim.

**Nú segir** þar til, at henni þótti hann vera stýrimaðrinn, er hann skapaði hana, ok af Krists nafni er kristnin kölluð. Vèr, er kristnir erum, köllum hann höfuð vort, en vèr hans limir ok liðir; ok hans sonr er sá, er hann sendi híngat í heim, ok sá er vorr faðir, en vèr hans börn; var ok faðirinn vænligr til at stjórna sínum börnum, svo sem bezt gegndi; var því orðit or messunni tiltekit, at hann vissi, hver lofsöngr honum þótti mestr framfluttr þessa heims við sik sjálfan. Er þar ok vor hjálp öll í fólgin, er um hans písl er

rætt ok sár, er hann þoldi á krossinum helga, er or rann bæði blóð ok vatn; ok í því erum vèr skírðir, er rètt trúum á almáttkan guð; ok þat hans hold ok blóð, er í messunni er framflutt, er vort farnest, þá er vèr förum af þessum heimi. Nú skal þat von vor at vætta þess, at svo fremi farist oss vel, er svo verðr, sem hann hefir fyrirsèð, at bæði sè, at hann er í för með oss, ok vèr með honum, þá er vèr förum heim til föðurleifðar vorrar: ok þá er hann hefir skipt sínu liði sèr til hægri handar eptir dómsdag, þá skulum vèr hefja upp *Alleluja,* fyrir því at þat er eigi jarðneskr söngr, sýngja þetta þá allir saman, tíu fylki guðs-engla ok manna, þá er almáttigr guð ferr meðr sína ferð heim í himinríkis dýrð, ok skulum þá una í sífellu, svo at aldri skal eptir verða, með guði almátkum, þar sem hann er æ ok æ með feðr ok syni ok helgum anda, sá er lifir ok ríkir einn guð of allar aldir veralda. Amen.

---

## (Þriðja staffræði, ok upphaf á orðafræði, af Ólafi hvítaskáld Þórðarsyni).

### [1] *At greina hljóð.*

**Allt er hljóð,** þat er kvikindis eyru má skilja. Hljóð hefir margar kynkvíslir, ok verðr hljóð þat, sem náttúruliga megu eyru greina, af samkvomu tveggja líkama; enn önnur hljóðsgrein er sú, er heilug ritníng segir ljóða andliga luti. Líkamligt hljóð verðr annat af líflausum lutum, en annat af lífligum lutum. Hljóð þat, er heyrist af líflausum lutum, verðr annat af tveim ræriligum skepnum, en annat af úhræriligum, annat af samkvomu ræriligra luta ok úræriligra. Af ræriligum lutum verðr hljóð, sem af höfuðskepnum, vindum ok vötnum; af úhræriligum lutum verðr hljóð, sem af steinum eða málmi eða strengjum, ok verðr þó þess kyns hljóð jafnan af hræríng nokkurs líkama, lífligs eða úlífligs. Af samkvomu ræriligra luta ok úræriligra verðr hljóð, sem þá er vindr eða vötn eða eldr slær sínu afli við jörð eða aðra úræriliga luti. Hljóð þat, er verðr af líflausum lutum, er sumt úgreiniligt eptir náttúrligri samljóðan þeirri, er *philosophi* kölluðu *musicam,* ok verðr þat hljóð hið efsta ok hið æzta af ræríng rínga þeirra 7, er

1) (samanborið við 748 og þessu fylgt til bls. 177. l, 3, neð.).

sól ok túngl ok 5 merkistjörnur gánga í, þær er *planete* eru kallaðar, ok heitir þat *celestis armonia* eðr himnesk ljóðagrein. Þessar stjörnur sagði Plató hafa líf ok skyn ok vera údauðligar. Greiniligt hljóð verðr af líflausum lutum, þat sem vèr köllum listuligt hljóð, sem í málmi og strengjum ok pípum ok alls kyns söngfærum. Í lífligum lutum ok vitlausum verðr ljóð, sem viðum eða grösum, ok þó af tengíng nokkurs reriligs líkama. Af lifandi lutum, þeim er sen hafa, verðr annat ljóð, þat er rödd heitir, en annat þat sem eigi er rödd, sem fótastapp eða handaklapp, eða annat þvílíkt. Rödd er hljóð, framfært af kvikindis munni, formerat af 9 náttúruligum tólum: lúngum ok barka, túngu ok tveim vörrum, ok fjórum tönnum. En Priscianus kallar rödd vera hið grandligsta loptsins högg, ok eiginliga eyrum skiljanlikt. Rödd greinist á marga vega: önnur rödd er ritanlig, en önnur úritanlig. Úritanlig rödd er sú, er eigi má stöfum greina; ritanlig rödd er önnur merkilig, en önnur úmerkilig. Úmerkilig rödd er sú, er til engrar merkíngar er þreyngð, sem: *búba, blictrix;* merkilig rödd er önnur af náttúru, önnur af setníng eða sjálfvilja. Merkilig rödd af náttúru er barnagrátr eða sjúkra manna stynr ok annat slíkt. Merkilig rödd af setníng er sú, er framfærist með sjálfvilja manns, sem þetta nám: *maðr merkir kvikindi skynsamlikt ok dauðlikt.*

### *Frá stafa skipti ok tíma.*

**Stafr** er hinn minnsti lutr raddar samansettrar, sem rita má; ok er stafr kallaðr hinn minnsti lutr eða úskiptiligr í því, sem heyrir allri samsetníng stafligrar raddar; því at vèr skiptum bækr í kapítula, en kapítula í klausur eða vers, en klausur í málsgreinir, málsgreinir í sagnir, sagnir í samstöfur, samstöfur í stafi. En þó eru eigi stafir náttúruliga úskiptiligir, því at stafr er rödd, en rödd er lopt eða af lopti formerat. En hvort sem rödd er lopt eða lopts formeran, þá er hon samansett með sínum pörtum, sem loptið, með því at þat er líkamligt, ok allir líkamir eru samansettir; en jafn lutr verðr af jöfnu efni at gerast, sem hold af holdi. En svo sem í náttúruligum líkamum eru nokkurir þeir lutir, er einfaldir kallast, sem fjórar höfuðskepnur, eldr ok vatn, lopt ok jörð, ok kallast þessir lutir eigi af því einfaldir, at þeir sè úskiptiligir, heldr af því, at hverr þeirra hlutr er jafn sínu öllu, sem lítill

gneisti hefir jafna náttúru hinu mesta báli: svo eru ok stafir úskiptiligir í misjöfnu efni, eða í þá luti, sem úlíkir eru; því at *á* eða aðrir raddarstafir hafa stundum skamt hljóð, en stundum lángt, ok ef þeir hafa lángt hljóð, þá hafa þeir tvo tíma. *Philosophi* kölluðu stafi *elementa,* þat eru höfuðskepnur; því at svo sem allir líkamir eru skapaðir af 4 höfuðskepnum, svo gjöra ok stafir samansettir alla staflega rödd, svo sem nokkurskonar líkam: því at rödd tekr eyru, ok hefir þrenna mælíng, sem allt, þat er líkamligt er, þat er hæð upp ok ofan, breidd til vinstri handar ok heygri, ok lengd fyrir ok eptir; því at rödd má öllum megin heyrast. Samstöfur hafa hæð í ljóðsgrein, en breidd í anda, lengd í tíma; því at hverr samstafa er annathvort *hvöss* eða *þúng* eða *umbeygilig:* hvöss hljóðsgrein er sú, er skjótliga er frammfærð með upphöldnu ljóði, sem þessi samstafa: *hvat;* þúng hljóðsgrein sú, er af lítillátu ljóði hefst ok dregst niðr í enn lægra ljóð, sem hin fyrsta samstafa í þessu nafni: *háreysti*; umbeygilig hljóðsgrein er sú, er hefst af lítillátu hljóði, ok þenst upp sem hvöss ljóðsgrein, en fellr at lyktum sem þúng ljóðsgrein, svo sem þetta nafn: *raust.* Hverr samstafa hefir ok frammflutníng annathvort *lina* eða *snarpa,* ok er sá *andi* hèr kallaðr *ræríng framflutníngar samstöfu.* Með snörpum anda verðr samstafa frammfærð, sem hin fyrri samstafa þessa nafns, *þurrum;* með linum anda flytjast samstöfur, sem þessar: *lángan tíma.* Hverr samstafa er annathvort *löng* eða *skömm,* ok er skömm samstafa skjótt framflutt, ok hefir eina stund, sem fyrri samstafa í þessu nafni, *Ari;* löng samstafa er sú, er seinliga er framflutt, ok hefir tvær stundir, sem hin fyrri samstafa í þessu nafni: *hati,* ok er tími kallaðr dvöl, mælandi framfluttrar raddar.

**Stafr** hefir þrenn *tilfelli: nafn* ok *figuru* ok *veldi* eða *mátt. Stafanöfn* eru 16 í norrænni túngu, í þá líkíng sem Girkir höfðu forðum daga, en þó eru merkíngar þeirra myklu fleiri; því at Priscíanus segir hvern þeirra hafa 10 hljóð eðr fleiri; svo sem *á,* ef þat er skamt, hefir 4 ljóðgsreinir: hvassa hljóðsgrein fyrir utan áblásníng *h,* sem hèr: *Ari;* hvassa með áblásníng *h,* sem hèr: *hafi;* en þúnga hljóðsgrein, *hafandi;* lángt *á* hefir 6 hljóð: ef þat hefir áblásníng *h,* þá berr þat annathvort hvassa hljóðsgrein eða þúnga eða umbeygiliga, sem hèr .... Slíkt hið sama, ef þat hefir eigi áblásníng, ljóðar

þat sem þessi nöfn: *áre, áranna, ára.* Slíkt hit sama má ok greina aðra raddarstafi: *í* ok *ú* hafa því fleiri greinir, at þeir eru stundum samhljóðendr, sem í þessum nöfnum, *íarl, uitr,* ok heitir *ú* þá *vend* í norrænu máli. Í noræ nu stafrófi eru 5 hljóðstafir, svo: *úr* ᚢ, *óss* ᚭ, *íss* ᛁ, *ár* ᛆ, *ýr* ᛦ, ok er *íss* stundum settr fyrir *e,* þá er hann er stúnginn, svo sem *aleph* eða *joth* setjast fyrir 2 raddarstöfum í ebresku máli: ᚢ er af því fyrst sett, að þat ljóðar í vörrum; ᛆ þar næst, hann hljóðar í munni; ᛁ stendr þar næst, ok ljóðar í ofanverðum barka, sem *e,* ef hann er pontaðr; þar næst er *á* skipat, því at hann hljóðar í brjósti; ᛦ er tekit af ebreskum stöfum. En latínumenn skipuðu stöfunum gagnstaðlega þessu, sem hèr er greint: settu þeir *á* fyrst, því at þat er næst hinu neðsta raddartóli, er vèr köllum lúngu, ok þat má fyrst skilja í bernsligri raust. En ᚢ er af því fyrst skipat, at þat er fremst ok næst sjálfu efni raddarinnar, er vèr hyggjum at loptið megi kalla, ok hafa af því hvorirtveggju meistarar vel ok náttúrlega skipat stöfunum í sínu máli. Raddarstafir þessir hefjast allir af sínu ljóði, en leggjast í samljóðendr ᚱ ok ᛋ. Samhljóðendr eru 11 í rúnamáli: 5, þeir er nálægir eru raddarstöfum, ......, eru kallaðir *hálf-raddarstafir* af öðrum mönnum, því at þeir hafa meiri líkíng raddarstafa og merkiligri hljóð, en aðrir samhljóðendr: þat er ᚱ, ᚿ, ᛘ, ᛚ, ᚴ; er af sumum mönnum með þessum stöfum taliðr (*es?*) í latínu-stafrófi, því at hann hefr sitt hljóð af raddarstaf, sem aðrir þess kyns samhljóðendr. En Priscíanus segir eigi mega ráða stafsins merkíng, hvort hans nafn hefst af raddarstaf eða eiginligu ljóði, sem marka má í þessu stafrófi, ok mörgum öðrum, er náliga hefjast allir stafir af sínu ljóði, bæði raddarstafir ok samljóðendr, ok halda þó fullkomliga sínum merkíngum. Í þessu stafrófi eru ok 5 stafir, þeir er vèr köllum *dumbá* stafi: þat eru ᚼ, ᚦ, ᚴ, ᛐ, ᛒ, ok eru þessir stafir ei því dumbar kallaðir, at þeir hafi ekki hljóð, heldr því, at þeir hafa lítið hljóð hjá raddarstöfum, í þá líkíng sem sá maðr kallast lítils verðr eða enskis af góðri ætt, er lítt er mannaðr, hjá sínum göfgum frændum.

### *Um tilfelli stafs.*

**Annat** tilfelli stafs er *fígúra,* þat er mynd eða vöxtr stafanna, svo gerr, sem nú er ritað. Þriðja tilfelli stafa er *máttr,* ok er þat sjálf frammflutníng stafa ok merkíng þeirra;

fyrir þann sama mátt stafanna eru bæði fundin nömn ok fígúrur. Sumir meistarar kalla *skipan* hit fjórða tilfelli stafs, en þat kallaði Priscianus einn part, þann er mætti stafsins heyrir. Þessa stafi ok þeirra merkíngar compileraði minn herra Valdimar Danakonúngr með skjótu orðtæki á þessa lund: *sprængd manns hǫk flýði tuvi boll,* ᛋᛕᚱᛅᚿᚴᛏ. ᛘᛅᚿᚿᛋ. ᚼᚭᛦ. ᚠᛚᛦᚦᛁ. ᛏᚢᚢᛁ. ᛒᚭᛚᛚ. Hèr er *sól* fyrst skipat, ok bæði sett fyrir *s* latínustaf ok *z* girðskan staf, ok köllum vèr þat *knèsól,* ef hon er svo ger, ᛋ, en *z* hefir náttúrliga í sèr tveggja stafa ljóð, *ð* ok *s,* eða *t* ok *s,* svo sem *x* hefir tveggja stafa ljóð, *c, s,* eða *g, s,* ok er því hvorgi þeirra stafa ritaðr í rúnamáli eða í fornu latínu-stafrófi; nú eru þeir stafir því í stafróf settir, at skjótara þikkir at rita einn staf, en tvo. Þar næst stendr ᛕ, ok er *bjarkan* á þá leið ritit, ef þat stendr fyrir *p* latínustaf, ok hefir sá rúnastafr 2 dumba stafi í sèr, þá er úlíkir eru í ljóði. En því eru opnir belgir gervir á ᛕ, þá er þat hljóðar fyrir *p,* at þat skal meirr sundrloknum vörrum nefna, en *b.* Þar næst stendr ᚱ fyrir *r* latínustaf, ok er hann af þeim stöfum, er hálf-raddarstafir eru kallaðir. Þar næst stendr ᛅ, þat ljóðar fyrir tveim raddarstöfum, ᚼ ok ᛁ, ok kalla Girkir þann staf diptongum, þat er *tvíhljóðr* á norena túngu, ok eru fjórir diptongi í latínu-stafrófi, en í rúnum 5. Diptongus er samanlímíng tveggja raddarstafa í einni samstöfu, þeirra er báðir halda afli sínu. Þessir eru límíngarstafir í rúnum: ᛅ fyrir *ae;* ᛅᚢ fyrir ꜷ; ᚼᛁ fyrir *ei,* ok er sá diptongus ekki í latínu; ᛰ fyrir *ey;* ᚭ fyrir *eo; œ* er hinn fjórði diptongus í latínu, ok er hann eigi í rúnum. Sumir raddarstafir eru fyrirskipaðir í samanlímíngu, sem *a* ok *e,* en sumir eru eptirskipaðir, sem *e* ok *i, o* ok *u;* ok eru þeir raddarstafir náttúruliga fyrirskipaðir í samanlímíngum, er nálægra hafa ljóð hinu innsta raddartóli mannsins, en hinir eptirskipaðir, er nærri standa í ljóðsgrein efni raddarinnar, sem *a* fyrir *e* ok *u,* því at þat ljóð er grannara, er nærr stendr brjóstinu ok fyrr tekst, en hitt digrara, er framarr skapast ok meira hefir rúm; er ok hægra þat hljóð fyrri at setja í samanlíming, er fyrr skapast, en hitt[1] eptir, er síðarr formerast. Á latínu er diptongus fyrir 3 sakir fundinn: fyrir hljóðfegrð ok sundrgrein ok samansetníng; en í norænu fyrir tvennar

1) (hættir 748, fylgt Ob).

sakir: fyrir grein ok hljóðfegrð. Fyrir greinar sakir er diptongus fundinn í norrænu, sem í þessum nöfnum, męr ok sęr, at greina þau frá fornöfnum, ser ok mer, ok öðrum þílíkum; en fyrir hljóðsfegrð er diptongus fundinn, sem hèr: lœkr, œgr, því at fegra þikkir hljóða, heldr en lækr, ægr. Þar næst stendr ᚼ, ok er hon af þeim, er hálfraddarstafir heita. Þar næst stendr ᚴ, ok er þat fyrir tvo samhljóðendr, *k* ok *g*. Þar næst er ᛏ stúnginn, ok stendr fyrir *d* latínustaf. Að slíkum hætti eru allir rúnastafir settir í þessum orðskviðum, ok munum vèr þat eigi framarr greina, því at eigi er nauðsynligt. Því eru þessir 4 rúnastafir settir fyrir tvo samhljóðendr, at þeir samhljóðendr hafa líkara hljóð en aðrir, svo sem *g* ok *k*, *s* ok *z*, *b* ok *p*, *d* ok *t*.

[1] **Samstafa** er samfyllilig stafasetníng með einum anda ok einni hljóðsgrein, ósundrgreinilega frammfærð. Samstafa hefir 4 tilfelli: *staf* eðr *tölu*, *tíð*, *anda* ok *hljóðsgrein*. Hverr samstafa hefir stafatölu, einn staf eða fleiri. Eingi samstafa hefir fleiri stafi en 6 í latínumáli, en í norrænu máli mega standa í einni samstöfu 8 eða 12, sem hèr: *spennskr* ok *strennzkr*. Í latínu standa 2 samhljóðendr eð flesta fyrir raddarstaf, en 3 eptir; en í norrænu megu standa þrír samhljóðendr fyrir raddarstaf, en 5 eptir, sem skilja má í þeim nöfnum, er fyrr voru rituð. Þessar samstöfur gera mesta fegrð í skáldskap, ef einn raddarstafr er í tveim samstöfum, ok hinir sömu stafir eptir, sem hèr: *snarpr*, *garpr*, ok köllum vèr þat aðalhendíng; en ef sinn raddarstafr er í hvorri samstöfu, ok allir einir samhljóðendr eptir, sem hèr, *röskr*, *vaskr*: þat köllum vèr skothendíng. Þessar hendíngar þikkja þá bezt falla, ef tvær samstöfur eru í hvorri sögn, ok hinn sami raddarstafr í fyrri samstöfu hverrar sagnar, ok svo samhljóðendr þeir, er fylgja, en hin síðarri samstafa hverrar sagnar sè öll jöfn við sik, svo sem hèr: *aller*, *snjaller*; ok eru þessar hendíngar víða settar í latínuskáldskap, sem þetta:

*Ante chaos virginum indigeste molis*
*adhuc yle gravida fetu magne prolis.*

Þersar samhendíngar eru ok settar í norænu-skáldskap í þeim hætti, sem vèr köllum runhendu, sem Snorri kvað:

Orms er glatt galla . . . . . . við gumna spjalla.[2]

---

1) Samanborið við 757 og þessu fylgt til bls. 180. l. 19., þar sem 748 tekur til aptur. 2) Háttat. 83.

Latínu-klerkar hafa ok þá hendíng í versum, sem þeir kalla *consonanciam*, ok skal vera hinn sami raddarstafr hinnar efri samstöfu hvorrartveggju sagnar, sem hèr: *estas, terras.* Þersarrar hendíngar er lítt geymt í norrænum skáldskap, þegar fleiri eru samstöfur í einni sögn en ein.

**Annat** tilfelli samstöfu er *tíð;* því at hver samstafa hefir annathvort eina tíð eðr tvær, eða svo sem Priscíanus segir, at sumar samstöfur hafa hálfa aðra stund, eða hálfa þriðju, en sumar 3 stundir. Skamma stund hefir sú samstafa, sem raddarstafr hennar er náttúruliga skammr, ok komi eigi tveir samljóðendr eptir, sem þessi nöfn: *ari, api;* hálfa aðra stund hefir sú samstafa, sem vera má, hvort er vill, löng eða skömm, svo sem furri samstafa í þessum orðum: *hvatra, spakra.* Hálfa þriðju stund hefir sú samstafa, er einn samhljóðandi stendr eptir raddarstaf, náttúrlega lángan, sem hèr: *hjól, sól.* Þrjár stundir hefir sú samstafa, er tveir samhljóðendr standa eptir lángan raddarstaf, sem hèr: *bjórs, stórs.* En þó setja núverandi klerkar í versagerðir allar samstöfur annathvort einnar stundar eða tveggja.

**Þriðja** tilfelli samstöfu er *andi;* því at hverr samstafa hefir annathvort *línan* anda eða *snarpan.* Andi er hèr kallaðr hræríng frammflutníngar samstöfu. Snarpan anda hefir sú samstafa, sem með digrum anda er frammflutt, sem þessar sagnir: *hraustr, horskr;* eða þær aðrar, sem áblásníngar-nóti er í upphafi skipaðr. *H* er kallaðr merkíng eðr nóti áblásníngar, því at hann er eingi stafr fullkominn fyri sik, hvorki samhljóðandi nè raddarstafr. Linan anda hafa þær samstöfur, sem eingi áblásníngar-nóti er í upphafi settr, sem hèr: *jörð* ok *armr.* En þó þikkja betr sama í noræenum skáldskap, at annathvort hafi áblásníng höfutstafir ok svo stuðlar, eða eingi þeirra.

**Fjórða** tilfelli samstöfu er *hljóðsgrein.* Hljóðgrein er hèr kölluð regluleg hljóman raddarinnar í merkiligri framfæríng. Hver samstafa hefir annathvort *hvassa* hljóðsgrein eða *þúnga* eða *umbeygiliga.* Hvöss hljóðsgrein hefst af litlu hljóði, ok endist í hvassara hljóð, svo sem hèr: *var, þar,* ok er hon svo merkð (/). Þúnga hljóðsgrein hefir sú samstafa, er hefst af litlu hljóði, ok endist í lægra hljóð, sem hin fyrri samstafa í þessum nöfnum: *hára, sára,* ok er sú hljóðsgrein svo merkt (\). Umbeygilig hljóðsgrein er sú samstafa, sem hefst af litlu hljóði, ok dregst upp í hvast hljóð, en niðr at lyktum í lágt

hljóð, svo sem þessar samstöfur: *árs, fárs,* ok er sú hljóðsgrein svo nóteruð (^). Hljóðsgrein merkir hæð samstafligrar raddar, en andi digrleik hennar, svo sem skilja má, at hvern raddarstaf verðr at nefna meirr sundrloknum munni, ef áblásning fylgir. En tíðar tilfelli merkir, sem fyrr er sagt, lengd samstafligrar raddar. [En með því at þesskonar greinir heyra lítt í norænu-skáldskap at flestra manna ætlan, þá tala ek þar um ekki fleira að sinni.[1]

**Sögn** er hinn minnsti lutr samansetts máls; hún er köllluð einn lutr af því máli, sem fullkomið sen hefir, en sú sögn er af alþýðu kölluð *orð.* Aristoteles enn spaki segir *nafn* ok *orð* vera tvo hluti málsgreinar; því at nafn ok orð samantengð gjöra fullkomna málsgrein, sem hèr: *maðr rennr.* En meistari Priscianus telr átta vera parta málsgreinar: *nafn, fornafn, orð, viðrorð, hlutteknìng, samtengíng, fyrirsetníng, meðalorpníng.* Hann greinir glöggliga náttúru hvers þeirra. *Nafn* er lutr málsgreinar, sá sem veitir eiginligan eðr sameiginligan hvíligleik hverjum hlut eða líkam; nafn er æzt allra sagna, því at þat er svo sem efni eða grundvöllr[2] alls máls. Því næst er *orð,* er skrýðir ok formerar nafnið, svo sem mynd efni; því at þat skýrir tilfelli nafns, ok merkir *gerð* eða *píníng. Fornafn* er sett í stað nafnsins, sem leytismaðr fyrir meistara, ok merkir 3 persónur, en nafn merkir eina. *Viðrorð* fegrir ok endimarkar orðit, í þá líkíng sem viðrleggjanlig nöfn gjöra við undirstæðilig nöfn, svo sem hèr: *sterkr maðr bers hraustliga. Hlutteknìng* er fráskilið orði, því at hon merkir föll ok kyn, sem nafn; en í þi skilst hon frá nafni, at hon merkir gjörð eða píníng, ok hefir ýmsar stundir, sem orð. *Samtengíng* knýtir saman nöfn eða aðra parta ok sjálfar málsgreinir, sem hèr er kveðit:

Hríngr ok Dagr at þíngi[3].

*Fyrirsetníng* er eiginlig til at þjóna föllum nafnsins, sem hèr: *til borgar, af skipi. Meðalorpníng* sýnir hugþokka manns, ok er hon jafnan fráskilit öðrum pörtum, sem hèr: *vei, hai!*

---

1) frá [ v. 757. 2) Hèr byrjar 748 aptur. 3) Fóstbr. saga í síðasta kap.

## (Málskrúðs-fræði, af Ólafi hvítaskáld).

*Kenningar Dónati.*

Donatus kennir í fyrri bók sinni náttúru parta þeirra allra, er hafa þarf í rèttu latínumáli, ok má eingi maðr fullkomliga vel skilja ok mæla þá túngu, nema þessa bók kunni. Aðra bók gjörði hann um löstu þá, er verða kunnu í latínumáli ok í þeim skáldskap, ok at lyktum um þat skrúð ok fegrendi, er verða má í sögnum og málsgreinum. Því ritaði hann um löstu þá, er verða mega í málinu, at sá má mæla eða yrkja fagrlega, er hann veit bæði lof ok löst á málinu, sem mælt er: *malum non vitatur nisi cognitum*, eigi má illan varast, nema hann sè fyrri kendr. Í þessi bók má gjörla skilja, at öll er ein listin, skáldskapr sá, er rómverskir spekíngar námu í Aþenisborg á Griklandi ok sneru síðan í latínumál, ok sá ljóðaháttr eða skáldskapr, er Óðinn ok aðrir Asiemenn fluttu norðr híngat í norðrhálfu heimsins, ok kendu mönnum á sína túngu þesskonar list, svo sem þeir höfðu skipat ok numið í sjálfu Asíalandi, þar sem mest var fegrð ok ríkdómr ok fróðleikr veraldarinnar.

*De barbarismo.*

*Barbarismus* er kallaðr einn lastafullr lutr málsgreinar í alþýðlegri ræðu, en sá er í skáldskap kallaðr *Metaplasmus.* Barbarismus fèkk af því nafn, at þá er rómverskir höfðíngjar höfðu náliga unnið alla veröldina undir sína tign, tóku þeir únga menn af öllum þjóðum, ok fluttu þá í Róm, ok kendu þeim at tala rómverska túngu. Þá drógu margir únæmir menn latínuna eptir sínu eiginmáli, ok spiltu svo túngunni; kölluðu Rómverjar þann málslöst *barbarismum,* því at þeir nefndu allar þjóðir *barbaros,* nema Girki ok Latínumenn. *Barbari* voru kallaðir fyrst af löngu skeggi ok ljótum búnaði þær þjóðir, er bygðu á háfum fjöllum ok þykkum skógum: því at svo sem ásjóna þeirra ok búnaðr var ófægiligr hjá hæversku ok hirðbúnaði Rómverja, slíkt sama var ok orðtak þeirra ótogit hjá málsgreinum latínu - snillínga. En því vildu Rómverjar, at allar þjóðir næmi þeirra túngu, at þá væri kunnari þeirra tign, ok þó at ríkin skiptist, er stundir liði, mætti allt fólk vita, at þeirra forellri hafði Rómverjum þjónat. Barbarismus verðr á tvær leiðir í framflutníng máls ok letri. Hann hefir 4 kyn-

kvíslir: *viðlagníng* ok *aftekníng, skiptíng* ok *umsnúníng*. Þat má verða í einum staf ok samstöfu ok tilfellum samstöfu, stund ok hljóðsgrein ok áblásníng. Barbarismus er með öllu flýjandi í alþýðligu orðteki, en í skáldskap er hann stundum leyfðr fyrir sakir skrúðs eða nauðsynja. Um aftekníng stafs verðr barbarismus, sem Egill kvað:

Erumz auðskæf vinar míns,
ǫmunlokri því at valit liggja
magar Þóriss tven ok þren
mærðar efni, á túngu mèr [1].

Hèr er aftekinn stafr í þessum orðum *tvenn* ok *þrenn* fyrir fegurðar sakir, því at þá þikkir betr hljóða þessar samstöfur í kviðuhætti, at þær hafi umbeygiliga hljóðsgrein, heldr en hvassa, er þrjár eru samstöfur í vísuorði; ok má því kalla, at hèr verði barbarismus í hljóðsgreina-skipti. Í aftekníng samstöfu verðr barbarismus, sem kvað Hárekr í Þjóttu:

Ráðið hefig at ríða rínleygs hèðan mínum [2],

Hèr er *rín* fyrir *rínar*, því at of margar verða ella samstöfur í vísuorði. Um viðrlagníng stafs verðr barbarismus, sem kvað Auðunn illskælda:

Maðr skyldi þó, moldar, kenniseiðs þótt kunni
megja hverr of þegja, kleppdögg Hárs löggvar.

Hèr er sett *megja* fyrir *mega*, ok aukit einum staf, ok ger svo löng samstafa af skammri, því at ella helzt eigi kveðandi rètt í vísuorði. Um viðlagníng samstöfu, sem Glúmr kvað:

En ek veit, at hefir heitið (sèr of slíkt til þeirra
hans bróðir mèr góðu seggfjöld) hvaðartveggi [3].

Hèr er *hvaðartveggi* settr fyrir *hvortveggi*, til þess að kveðandi haldist í vísuorði. Um stafaskipti verðr barbarismus, sem Arnórr kvað:

Sumar hvern frekum erni.

Hèr er *hvern* sett fyrir *hvert*, til þess að hendíng haldist í dróttkvæðum hætti, ok má hèr kalla bæði stafaskipti ok samstöfu. Í stafasnúníng verðr barbarismus, sem hèr:

Reið Brynhildar bróðir bort, sá er hug nè skorti.

Hèr er *bort* sett fyrir *brott*, ok skipt svo stöfum, at *r* stendr fyr, til þess að hendíngar sè jafnháfar, ok er þetta svo í einum staf, sem í samstöfu. Um stundar viðlagníng verðr barbarismus, sem kvað Eilífr Guðrúnarson:

---

1) Arinbj. drápa, 16. 2) Hkr, Ól. helga, k. 168, 1. 3) Hkr, Ól. Tryggv. k. 17.

Voru vötn ok mýrąt [svell var] áðr um aila
(verðr hitt, at þau skerða) (ól torráðin) hóla.

Hann kallar *torráðin ól* vǫndǫl, ok gjörir lánga þessa samstöfu *ǫl*, til þess að hendíngar sè jafnháfar. Um stundar afdrátt verðr barbarismus, sem hèr:

Svanr þyrr beint til benja blóðs vindara róðri.

Hèr er *vindara* sett fyrir *vind-ára* róðri, þat er flugr; þessi samstafa *ar* er skömm gjör fyrir fegrðar sakir, því at þá hljóðar betr. Þar er ok sú skáldskapargrein, er jafnan þikkir vel koma, ok menn kalla *ofljóst*. Um ljóðsgreinaskipti verðr barbarismus, sem Einarr kvað:

Víst erumz hermd á hesti hefir fljóð ef vill góðan.

Hèr skal annat af ráða, en mælt er, ok er bæði breytt með máli ok sundrtekníngum ok hljóðsgreinum, ok skal svo skilja: *víst erumk hermd á hesti*, legg ek á jó reiðiþokka. Hèr er máli skipt, en þat skal svo púnkta ok sundrtaka: *legg ek á Jóreiði þokka góðan;* hèr er seni skipt. *Hefir fljóð ef vill*, konu má ná; hèr er máli skipt: konu Mǫna. Hèr er seni skipt ok ljóðsgreinum: *má ná*, hèr er hvortveggi ljóðsgrein umbeygilig; *Mǫna*, hèr er hvöss ljóðsgrein yfir báðum samstöfum, ok er hèr bæði skipt hljóðsgreinum ok aftekníng hljóðsgreinar, því at hvöss hljóðsgrein er gjör af umbeygiligri, ok tekin svo af þúng hljóðsgrein. Um viðrlagníng hljóðsgreinar verðr barbarismus, sem Skrautoddr kvað:

Ef væri Bil báru (opt gjöri ek orðaskipti
brunnins logs, sú er unnum einrænliga) á bænum.

Hèr er *bæn-um* sett fyrir *bæ-num*. En um viðrlagníng áblásníngar verðr barbarismus, sem Starkaðr kvað:

Þann hefi ek manna hríngbreytanda
mennskra fundit hrammastan at afli.

Hèr er *hrammastan* sett fyrir *rammastan*. Um aftekníng áblásníngar verðr barbarismus, sem hèr:

Lofðúngr gekk at Lakkar (laut herr í gras) snerru.

Hèr er *Lakkar* sett fyrir *Hlakkar*, at kveðandi haldist.

Enn verðr barbarismus á fleiri vega, ok eru þær figúrur kallaðar *Mýtacismus, Labdacismus, Jótacismus*. Þessar figúrur verða um úfagra samansetníng stafanna, ok eigna sumir þessa löstu *Soloecismo*, því at þat verðr í fleirum sögnum, en í einni. Þessar figúrur tóku nafn af eiginligu nafni *cismus*, þat er brugðníng eða spell. *Mýtacismus* er þat, ef samtengíng sagna verðr af optligri samanlostníng *m*, eins stafs, sem

hèr: *geyma mætum hríma;* ok köllum vèr þat *dregit á stál,* ef á milli hendínga verðr. *Labdacismus* er þat, ef tvo *ell* setjast fyrir einu, eða einn raddarstafr standi milli tveggja, sem hèr:

(Stendr af stála lundi styrr) Þorröðr hinn fyrri [1].

*Jotacismus* er þat, ef *í* samhljóðandi stendr eptir *í* raddarstaf, eða millum tveggja raddarstafa, sem hèr:

Háði jarl þar er áðan eingi mann und ranni [2].

Sem Ólafr Leggsson kvað:

Freyju ángan leygjar.

Enn telr Dónatus þann löst með barbarismó, ef tveir raddarstafir jamlángir standast hið næsta í tveim samstöfum, sem hèr:

Þorði Iðja orða.

Þetta eru *collisiónes.* Þann löst kallar Dónatus *collisiónes,* ef *m* stendr milli tveggja raddarstafa, sem Eyvindr kvað:

Bárum ullr um alla ímunlauks á hauka [3].

Þat kallar hann ok hinn sama löst, ef önnur samstafa í niðrlagi orðs er jöfn eða lík upphafi því, er eptir kemr, sem Einarr kvað:

Harðan þrýtr á hvítum harm Sólborgar armi.

Svo ok, ef snarpir samljóðendr rennast í móti í tveim samstöfum, sem hèr er kveðit:

Hèr liggja brot beggja, brúðr, strykvinna súða.

Ok sem þetta:

Hèr fregna nú hyggnir hjörflaug brímis draugar.

Þessa löstu telr Dónatus því með barbarismó, að þeir verða í einni samstöfu, þó at stærri sagnir spillist af því.

### *Hèr hefr upp Sólœcismum.*

**Sólœcismus** er löstr i samansettu máli, görr í móti reglum rèttra málsgreina; ok verðr sólœcimus í tveim pörtum eða fleirum, en barbarismus verðr í einni sögn, sem fyrr er ritað. Sólœcismus fèkk nafn af borg þeirri, er forðum var kölluð *Sólæ,* en nú heitir *Pentapolis.* Þeirrar borgar lýðr fór til *Aþenisborgar* í Girklandi at nema þar mál, ok þá spiltu hvorirtveggju túngunni með vondum orðadrætti, ok kölluðu Girkir þenna málslöst *Sólœcismum* af borginni *Sólæ* ok *cismos,* þat er slita eða sundrskorníng at voru máli, því at sá löstr sleit málsins

---

1) Saga af Birni Hítd. kappa, bls. 33. 2) Hkr. Ól. Tryggv., k. 28, 2. 3) Hkr, Har. gráf., k. 1, 4.

parta, þá er spilti túngunum. Þat er ok merkjanda, at ófróðir menn ætla jafnan *barbarismum* vera, þar sem *sólæcismus* er að rèttu, sem þá, ef nokkurr maðr segir frá konu eða karlmanni, ok kallar þar *hann*, er *hon* skal vera, eða heilsar þar fleirum, er einn er, eða annat slíkt; því at hverr sem kallar *hann*, þar er *hon* skal vera, þá gjörir hann löst í báðum þessum nöfnum. Slíkt hið sama hverr, sem heilsar þar mörgum, er einn er, gjörir *sólæcismum* á millum margfallegrar tölu ok einsligrar. Sólœcismus verðr annathvort í málsins pörtum eða tilfellum partanna, ok gjörist þat á fjórar leiðir: *viðrlagníng* ok *aftekníng*, *skiptíng* ok *umsnúníng*. Svo sem *Metaplasmus* er kallat í skáldskap sá löstr, er barbarismus kallast í alþýðlegu máli, ok þikkir hann stundum fegra skáldskap: slíkt hit sama er sólœcismus í skáldskap settr fyrir skrúðs sakir, ok er hann þá *Scema* kallaðr í skáldskap. Í málspörtum er sólœcismus, sem þá er annarr partr er settr fyrir öðrum, sem hèr er kveðit:

Hríngléstir gekk hraustan — hverjum kunnr at gunni.

Hèr er þetta nafn, *hraustan*, sett fyrir þessu viðrorði, *hraustliga*. Stundum verðr sólœcismus, þá er sami partr er úviðrkæmiliga settr, svo sem Þorleifr jarls-skáld kvað:

Höfðu vèr í þèr, Hákon, (þú raudt Sköglar skýja
er at hjörrógi drógumz skóð), forustu góða.

Hèr er *í* fyrirsetníng fyrir *af* sett. Atfelli parta eru 12: *hvíligleikr*, *samjafnan*, *kyn*, *tala*, *mynd*, *fall*, *persóna*, *merking*, *tið*, *samokan*, *máttr*, *skipan*. Í öllum þessum tilfellum verðr sólœcismus, en þó mon ek fá rita. Sólœcismus verðr um *hviligleik* nafna, sem Snorri kvað:

Byskup, heyr á bæran — bragþátt, göfugs máttar.

Hèr er *sameiginlikt* namn, *byskop*, sett fyrir *eiginligu* nafni Guðmundar. Um *samjafnan* verðr sólœcismus, sem hèr:

Rann hræddari hranna — hyrbrjótr frá styr ljótum.

hèr er *samjafnanligt* nafn, *hræddari*, skipat fyrir *hræddr*, *settlegu* nafni. Um *kynjaskipti* verðr sólœcismus, sem í Hafliða-málum:

Rístu nú, fála, — þó er málsgengi mikit.
far þú í bygð hinig,

Hèr er *hvorginligt* kyn sett fyrir *karlmannligu* kyni. Um *talnaskipti* verðr sólœcismus, sem Arnórr kvað:

Yppa ráðumz yðru kappi, — Jóta gramr, í kvæði fljótu [1].

1) Fms. 6, 196, 1.

Hèr er *margfallig* tala sett fyrir *einfaldri* tölu. Í *fallaskipti* verðr sólœcismus, sem hèr er kveðit:

Því hefig heitið mey mætri [mest nema hamlan bresti].

Hèr er *rægiligt* fall sett fyrir *gæfiligu* falli, ok köllum vèr þenna löst *orðkólf*. Í *tíðaskipti* verðr sólœcismus, sem Þjóðólfr kvað:

Leiða lángar dauða Báru-ð menn hinn mæra
limar illa mik stillis. Magnús í gröf fúsir.

Í *persónaskipti* verðr sólœcismus, sem kvað Haldórr skvaldri:

Orkit, ála serkjar Ætt berr Grams of grimma
elfestir, þrek mestum. gagnprúðr Sigurðr magni.

Hèr er annarr fjórðúngr vísu mæltr til annarrar persónu, ok köllum vèr þat *viðmælt;* en annarr fjórðúngr segir frá hinni þriðju persónu, ok köllum vèr þat *hliðmælt.* Að slíkum hætti verðr sólœcismus í öðrum tilfellum partanna.

**Með** barbarismó ok sólœcismó eru taldir tíu lestir, þeir er svo eru kallaðir: *Akírólogía, Kakenfaton, Pleónasmus, Perísología, Makrólogía, Tavtólogía, Ellipsis, Tapínósis, Kakósinteton, Amfibólogía. Akírólogía* er úeiginlig setníng orðs, sem hèr er kveðit:

Vætti ek harms, nema bitta höfuðgulls náim fullu.

Hèr kallast skáldit *vetta* harms, þess er hann *kvíddi,* ok er þetta orð, *ek vętti*, gagnstaðliga sett, því at þat er náttúra mannsins at *vętta* fagnaðar, en *kvíða* við harmi. Þessi löstr heyrir barbarismó, því at hann verðr í einni sögu; en því heyrir hann sólœcismó, at hann verðr í málsgrein milli þessa tveggja orða, *ventir* ok *kvíðir. Kakenfaton* er köllut ófögr framflutníng stafa eða samstafna í einu orði eða fleirum, sem áðr er ritað, þá er sú samstafa er fyrst sett í einu orði, er síðarst var áðr, eða hljóðstafr, ok svo þeir er eptir koma í báðum samstöfum, sem Sighvatr kvað:

Fór or Vík á vori [1].

Þat heyrir mjök þessum lesti, ef sá er niðrlagsstafr í einni sögn, er fyrstr er settr í því orði, er eptir kemr, sem Snorri kvað:

Skjaldbraks Skylja mildum skipreiðu mèr heiða [2].

Þenna löst köllum vèr *þreskǫld.* Þat er ok kallat *Kakenfaton,* ef maðr eignar úviðrkęmiliga öðrum lut þat, sem annarr á, sem hèr er kveðit:

---

1) Upphaf Nesjavísna, Fagrsk. bls. 75. 2) Háttat. Sn., 28.

Skíð gekk framm at flæði flóðs í hreggi óðu.

Hèr er kallat, at skíð gángi, en þat er eiginligt mönnum eða kvikindum. Sá löstr heyrir ok Kakenfaton, er vèr köllum *nykrat* eða *finngálknat*, ok verðr þat mest í nýgjörvíngum, sem hèr:

Hríngtælir gaf hálu oss kom hrund til handa
hlýrsólar mèr dýra; hræpolls, drifin golli.
Sótt þá er Herjans hattar . . .

Hèr er eyxin kölluð í öðrum helmíngi *tröllkona skjaldar* eða *valkyrja*, en í öðrum helmíngi *sút hjálmsins*, ok er þar svo skipt líkneskjum á hinum sama lut, sem *nykrinn* skiptist á margar leiðir. *Pleónasmus* er hègómlig viðrlagníng einnar sagnar yfir þat fram, sem fullu máli heyrir, sem Kolbeinn kvað:

Mundi mèr fyrir stundu of ellgrenni unnar
mikit orðalag þikkja eyrum slíkt at heyra.

Þetta nafn, *eyrum*, þarf eigi til fullrar merkíngar, því ekki vit manns heyrir, nema eyru. *Perísología* er hègómlig viðrlagníng orðanna, þeirra er ekki merkíngar afl hafa með því máli, sem upp er tekit; sem hèr er kveðit:

Þat hefi ek sagt, duldr fer ek hins,
er sjálfr vissag; er drengr þegir.

Hèr þarf eigi hið síðarra mál, því at þat má skilja, ef maðr segir, þat sem hann veit, at hann þegir yfir því, er hann veit eigi. *Makrólogía* er köllut lángt sen, þat sem tekr únytsamlega luti til þess máls, sem skáldit talar; er þessi fígúra víða sett í öndverðum kvæðum, sem Arnórr kvað í Magnúss-drápu:

Seinkun verðr, þá er, hlæbarðs hánka, hnika, ár, hin ljóta bára.

Hèr segir hann frá hrakförum sínum, en þat heyrir ekki konúngs lofi [1]. Þessi fígúra verðr ok, ef maðr talar þörfum fleira um hinn sama lut, sem Guðbrandr kvað í Svölu:

Upp dregr mökk hinn mikkla móðfjalls veröld alla.

*Tavtólogía* er þat, ef hin sama sögn er optarr tekin, en tilheyrir, eða hin sama merkíng; sem kvað Sneglu-halli:

Svo lèt und sik lönd öll lagin,
seggja drottinn liðs oddviti.

Hèr eru tvennar konúngs-kenníngar til hins sama máls, þat köllum vèr *ofkent*. *Ellipsis* er þrot nauzunlegrar sagnar, þeirrar er hafa þarf í fullu máli, sem hèr:

Fór hvatráðr áðr siklíngr
hilmi at finna, til sættar gekk.

---

1) sjá Fms. 6, 195—6.

Hèr skortir konúngs-nafn eða kenníng til fulls máls. Ok sem hèr er kveðit:

Sá er af Íslandi arði barði.

Hèr skortir sjóvarnafn til fullrar merkíngar. *Tapinósis* er mínkan mikils lutar í máli, þá er sen auðsýnir annat, en af skal ráða, sem Þjóðólfr kvað:

Snart við sæþráð kyrtat sík, lá blær á díki.

Hann setr *sæ* eða *haf* fyrir þau lítil vǫtn, sem eru á landi. *Kakósinteton* er lastafull samansetníng sagnanna, sem kvað *Guðlaugr:*

Hrökk at Haugabrekku fyrir hjörgæði hríðar
hóts meirr, en til gǫtum, Haldórr bug skjaldi.

Hèr er ófagrliga samanskipað sǫgnunum í þriðja vísu-orði. *Amfibólogía* er efanleikr sagnarinnar, ok verðr þat á margar leiðir; stundum um rægilig fǫll, sem hèr:

Hermenn gátum hinnig hugstinnan gram vinna.

Hèr er efanligt, hvort hermenn vinna konúng, eða konúngr hermenn, ok skiptir því samanhlaðníng orðanna. Stundum verðr þessi fígúra um sundrtekníng orðanna, sem hèr:

Þat er orðslægjum eigi aldrbót konúngs skaldi.

Hèr skiptir þat málinu, hvort *eigi* er skipað til þess máls, er fyrir ferr, eða heyrir þat þeim orðum, er eptir koma. Stundum verðr sjá fígúra svo, at eitt orð hefir fleiri merkíngar, sem kvað Ólafr:

Kǫnn njóti vel vennar (víst er-at dapr um drósir
vinr minn konu sinnar drengr) ok eigi lengi.

Hèr er úvist um þessa sögn, *eigi,* hvort þat er viðrorð neitilikt, eða orð eiginligt. At slíkum hætti er víða sett í skáldskap þat orð, er ýmsar hefir merkíngar, ok fólgið svo málit, sem kvað Hallarsteinn:

Hólmleggjar vinnr hilmir hríngskǫglar mik þǫglan.

Hèr kallar hann *dverg* lit, ok svo fegrð konunnar. *Alleoþeta* er þat, ef skipt er tölum eða föllum eða kynjum, sem fyrr er ritað í sólœcismó. Þessar fígúrur flestar fylgja meirr sólœcismó, en barbarismó, því at þær verða meirr í máli, en í einni sögn.

**Metaplasmus** er framskapan nokkurrar rèttrar ræðu í aðra mynd fyrir nauzynja sakir eða fegrðar; hann hefir 14 kynkvíslir.

**Prothesis** er viðrlagníng stafs eða samstǫfu í upphafi orðs, sem Egill kvað:

Vrungo varrar gúngnis varrar lúngs um stúnginn.

Hèr er viðlagt *v* í þessu nafni *„vrǫngu"*, til þess at rèttir sè stuðlar í dróttkvæðum hætti. Um viðlagníng samstǫfu verðr *prothesis*, sem hèr:

Út rèð Íngólfr leita ógnreifr með Hjörleifi.

Hèr er samstafa lögð við þetta nafn *Leifr*, ok lengt nafnit fyrir atburðar sakir hreysti hans.

*Avferesis* er gagnstaðlig *prothesi*, ok tekr hon af upphafi orðs staf eða samstöfu, sem þá at *v* sè af tekit í þessu nafni *„vrungu"*, því at þýðerskir menn ok danskir hafa *v* fyrir *r* í þessu nafni ok mörgum öðrum, ok þat hyggjum vèr fornt mál vera; en nú er þat kallat *vindandin forna*[1] í skáldskap, því at þat er nú ekki haft í norænu máli.

*Sinkopa* tekr í brot staf eða samstöfu or miðju orði, sem kvað Bragi gamli:

Þars er lofðar líta lúng vavaðar gúngnis.

Hèr er ein samstafa gjörr af tveim, ok tekinn or *e* raddarstafr, ok sett svo *þars* fyrir *þar es*; þetta köllum vèr *bragarmál* í skáldskap.

*Epentesis* verðr gagnstaðlig *Sinkope*, því at hon leggr við staf eða samstöfu í miðju orði, sem Kórmákr kvað:

Því at málvinu minnar, mildr Þorketill, vildir.

Hèr er *Þorketill* settr fyrir *Þorkell*, ok aukit svo tveim stöfum nafnit, en einni samstöfu, til þess at kveðandi haldist.

*Paragóge* leggr við einn staf í enda orðs, sem Arnórr kvað:

Kljúfa lèt ek í kaupför dúfu knarra minn við borðin stinnu.

Hèr er viðlagt einn stafr eða samstafa í þessu orði *knarra*, til þess at kveðandi haldist.

*Apókope* er gagnstaðlig þessi fígúru, tekr hon af einn staf eða samstöfu í enda orðs, sem hèr:

Því hefig heitið mey mætri[2].

Þat köllum vèr *orðkólf* í skáldskap.

*Sístola* gjörir lánga samstöfu skamma, sem fyrr er ritat:

*Blóðs vindara róðri*[3].

*Epitasis* er gagnstaðlig *Sistole;* hon gjörir skamma samstöfu lánga, sem fyrr er ritat: *ól torráðin hóla*[4]. Þessi fígúra hefir margar kynkvíslir í versum, en í skáldskap er hon sjaldan, nema ofljóst sè ort.

*Díeresis* gjörir tvær samstöfur af einni, sem Björn kvað:

---

1) sjá bls. 176, l. 4. 2) sjá bls. 186, l. 3. 3) sjá bls. 183, 2. 4) sjá bls. 183. l. 2.

Nú læt ek, at þar þrjóti, Þorröðr, vini ora[1].

Hèr eru tvær samstöfur gjörvar af einni stamstöfu, Þórðr, til þess at kveðandi haldist.

*Sineresis* er gagnstaðlig *Dieresi*, ok gjörir eina samstöfu af tveim, sem Sigvatr kvað:

Vask til Róms í háska[2].

Hèr er sett *vask* fyrir *vas ek*, til þess at hendíngar sè jafnháfar.

*Sinalimphe* tekr or annan raddarstaf, ef tveir raddarstafir standast hið næsta í tveim samstöfum, sem í *bjúgum vísum:*

Hves, ef ek hleyp at krúsi.

Hèr er or tekit annat *e* í þessi sögn, *hves*, ok gjör ein samstafa af tveim, til þess at skothendíngar sè jamháfar. Þar er ok ein samstafa ger af tveim pǫrtum, orði ok viðrorði, ok er þat *sólæcismus*.

*Ekþlipsis* tekr or *m*, ef þat stendr síðarst í orði, svo at raddarstafr kemr eptir, ok er sú figúra mjök í versum, en ekki finnum vèr hana í norrænum skáldskap.

*Antítesis* setr annan staf fyrir öðrum, sem Sighvatr kvað:

Dánar drottín mínum dægn of sent at hendi.

Hèr er sett *n* fyrir *r* í þessu nafni, *dægn*.

*Metathesis* skiptir stöfum, sem fyrr er sagt í þessum orðum:

Bort, sá er hug nè skorti[3].

**Skema lexeós** heyrir svo til *sólæcismum*, sem *metaplasmus* til *barbarismum*, í því öllu, er til lasta veit; en þó er *skema* miklu meirr í leyfi sett, því at hon þikkir jafnan fegra í skáldskap. *Skema* er kölluð á girzku, en *skrúð* á norrænu; *lexis* er *ræða*, ok er *skema lexeós* nefnd svo sem *skrúð máls* eða *ræðu*. *Skema* hefir 18 kynkvíslir:

1. *Prólemsis* er uppnumníng margfalligra luta, þeirra er síðarr eru einfalliga greindir, sem hèr er kveðit:

Flugu hrafnar tveir Huginn til hánga,
af Hnikars öxlum, en á hræ Muninn.

Hèr er þetta orð *flugu* margfalliga sett í hinum fyrrum vísuorðum, en þat ríkir tvö einslig nöfn í síðarri vísuorðum, ok skal svo upp taka málit: *Tveir hrafnar flugu af öxlum Hnikars: Huginn flaug til hánga, en Muninn til hræss.*

2. *Zeuma* er þat, er eitt orð stýrir mörgum nöfnum, sem hèr er kveðit:

---

1) Kórm. k. 9. 2) Hkr, Magn. góða, k. 9, 6. 3) sjá bls. 182, 6.

Krossfestum sè Kristi
kunnr vegr ok lof unnið,
megn ok máttr, sem tignar
mest vald, þat er fers aldri.

Þetta orð, *sè*, stýrir öllum þessum nöfnum, *vegr*, *lof*, *megn*, *máttr*, *vald*.

3. *Sílempsis* bindr újafnar klausur saman með einu orði, sem hèr:

Jarls hefir hann ágæti,
en öðlíngs kosti,
konúngs kappgirni,
kynni landreka.

Þat er ok hin sama fígúra, ef margfalligt orð stýrir einsligu nafni, því er *samansafnanligt* er kallat, sem hèr er kveðit:

Herr búast hvorir til snerru.

Herr eru margir menn, þeir er til orrostu búast; þessi fígúra finnst sjaldan í norrænum kveðskap. Þat er ok Sílempsis, ef einn lutr hins sama kyns sezt fyrir mörgum lutum, sem Glúmr kvað:

Brandr fær logs ok landa
lands Eiríki banda.

Hèr er *brandr* settr fyrir mörgum sverðum, þeim er konúngi fengu ríki ok fè.

4. *Ýpozevsis* gefr mörg orð einni persónu, sem hèr:

Haldi hríngtöpuðr,
hæfi ok varðveiti,
styrki ok staðfesti
stýrir himinríkis.

5. *Anadiplósis* er tvefaldan eins orðs, sem þá er vers eða vísa hefst með slíkri sögn, sem fyrirfaranda vers eða vísa lýkst, sem Snorri kvað:

Stórt ræðr hann ok hjarta
hvetr búðlúnga setri[1].
Setr of vísa vitran[2].

Þetta köllum vèr drögur.

6. *Anafóra* gefr hið sama nafn ok upphaf mörgum klausum ok málsgreinum, sem hèr:

Hverr fremr hildi barra?
Hverr er mælíngum ferri?
Hverr á höpp at stærri?
Hverr kann auð at þverra?[3]

Hèr er eitt upphaf at mörgum klausum.

7. *Epanalemsis* gjörir allt eitt upphaf ok niðrlag vers ok vísu, sem hèr:

Konúngr kappgjarn,
kostum betri,
allri þjóð
allframr konúngr.

8. *Epízevsis* er tvevaldan eins orðs, samansett sem hèr:

Hlýð, hlýð, konúngr,
hróðri þessum!

Þessi fígúra er jafnan sett, þá er maðr talar með ákefð nokkura luti.

---

1) Háttat. Snorra, 15. 2) samast., 16. 3) samast., 40.

9. *Paranomasía* setr saman líkar raddar, þær er újafnt merkja, sem hèr er kveðit:

Heldr vill hilmir herja, en erja.

Þetta köllum vèr aðalhendíngar í skáldskap, ok taka af þessi fígúru upphaf þeir hættir, er með hendíngum eru samansettir, ok breytist þat á marga vega, sem finnast má í háttatali því, er Snorri hefir ort.

10. *Paromeon* er þat, er mörg orð hafa einn upphafs-staf, sem hèr:

Sterkum stilli styrjar væni [1].

Þessi fígúra er mjög höfð í málsnildarlist, er *Retoríka* heitir, ok hon er upphaf til kveðandi þeirrar, er saman heldr norænum skáldskap, sem naglar skipi, er smiðr gjörir, ok ferr sundrlaust ella borð frá borði: svo heldr ok þessi fígúra saman kveðendi í skáldskap með stöfum þeim, er stuðlar heita ok höfuðstafir. Hin fyrri fígúra gjörir fegrð með hljóðsgreinum í skáldskap, svo sem fellíng skipsborða; en þó eru fastir viðir saman, þeir sem negldir eru, at eigi sè vel feldir, sem kveðendi helzt í hendíngarlausum háttum.

11. *Skesis-onomatón* gjörir margar klausur með jöfnum föllum samanhlaðnar, sem hèr:

Hlíf gnast við hlíf, egg lèk við egg,
hjörr við mæki, þar er jöfurr barðist.

12. *Omeoptóton* heldr saman alla klausu með hinu sama falli, sem hèr:

Harða, hvatfæra, snarpa, snarráða
hrausta, vígtama, sá gat hirð ræsir.

13. *Omotelevton* heldr saman margar raddir undir hinum sama enda, sem hèr:

Band gaf oss með endum Ilmr lýskála bála.

Þat köllum vèr *riðhendan hátt.* Hin sama fígúra er í þessum hætti, sem Snorri kvað:

Ræsir glæsir hvítum rítum
rökkva dökkva hreina reina [2].

14. *Poliptóton* er sundrdregin klausa um ýmisleg föll hins sama nafns, sem Hallfreðr kvað:

Eitt er sverð, þat er, sverða, sverðauðgan mik gerði [3].

15. *Írmos* gjörir lánga samanhlaðníng orðanna í einni málsgrein, sem Egill kvað:

Þat er órètt, á má-skeið
ef orpið hefir mörgu gagni

1) sbr. Hkr, Har, hárf. k. 19, 3. 2) Háttat. Sn. 73. 3) Hkr, Ól. Tryggv. k. 90.

rammriðin vellvönnðr,
Rökkva stóði, því er veitti mèr [1].

Hèr gengr eitt mál um alla vísuna.

16. *Polisindeton* heldr mörgum orðum saman með hinni sömu samtengíng, sem kveðit er í Grímnismálum:

Saðr ok Svipall ok Sanngetall [2].

Þessi nöfn öll bindr *ok* saman.

17, *Dialiton* samlagar mörg nöfn utan samtengíng:

Ekkill, Eitill, Skekkill, Randverr, Róði, Mundill,
Emmir, Gestill, Remmir, Rǫkkvi, Gylvir, Nökkvi:
Heiti, Hǫkíngr, Meiti, Hemíngr, Hagbarðr, Glammi,
Heimi, Mýsíngr, Beimi: Haki, Beimuni, Rakni.

Hèr eru mörg nöfn, en ekki *ok* í milli. Hin sama fígúra er, þat er *klauf* er kallat, ef tvær sannkenníngar heyra einum lut, svo at eigi sè *ok* í millum sett, sem Máni kvað:

Hvat mantu hafs á otri, karl, því at kraptr þinn förlast,
hengiligr, með drengjum, kinngrár, mega vinna?,[3]

Það köllum vèr *klauf*, en *svipa* heitir þat, ef fleiri sannkenníngar heyra einum lut, sem hèr:

Áðr djúphugaðr dræpi gegn á grǫðis vagna
dólga ramr með hamri gagnsæll faðir Magna. [4]

**Trópus er** framfæríng sagnar af eiginligri merkíng til óeiginligrar merkíngar með nokkurri líkíng fyrir fegrðar sakir eða nauzynja. Um þessa trópa greindu spekíngar sínar ræður frá alþýðlegu orðtaki. Trópus er skiptr í 13 kynkvíslir, þær er svo heita; *Metaphóra, Catachresis, Metalempsis, Metónimía* [5], *Antonómasía, Epitheton, Sínekdoke, Onomatopejon, Períprasis, Ýperbaton, Ýperbóla, Allegoría, Omozevsis.* Sú er grein með þeim fígúrum, er Dónatus hefir sett: *barbarismus* ok *metaplasmus* verðr í einni sögn um stafaskipti eðr samstafna, ok þeirra tilfelli; *skema* hefir ýmsar myndir orða ok skilnínga, þat er leiðendi tók í brott ok skýrra málið: en *trópar* þessir eru framfæríng náttúruligra sagna ok sena, er varðveita ýmislegt yfirbragð pentaðra málsgreina. Í trópum skal þrjá luti hugsa ok varðveita: fyrst framfæríng sagnarinnar til annarligrar merkíngar; þar næst úeiginlig samjafnan tveggja luta; en í þriðja stað skal hugsa nauzun eða fegrð, er trópinn gjörir.

---

1) Arinbjarnardr. 13. 2) Grímnism. 47. 3) sjá bls. 95, 5. 4) Ísídórus bætir hèr við Schema Antítheton og Hypallage, því hefir annar höfundur bætt hèr við seinna. 5) Hèr vantar eitt blað í 748 til bls. 196, l. 19; á meðan er fylgt Ob.

1. *Metaphóra* er framfæríng orða eða luta í aðra merkíng; hon verðr á 4 leiðir:

*a)* Af andligum lut til andligs lutar, sem hèr:

En skinnbjarta skortir (dýr er hon hætt at hvoru)
(skapit kannast mèr svanna) hálm ein njörun steina.

Hèr er dýr köllut konan; er þar framfæríng úeiginligs lutar, konunnar, í annarliga merkíng, sem dýrit er. Úeiginlig líkíng er þat millum dýrs ok konu, því at dýrit er syndlaust kvikindi, en maðrinn skynsamligt. Fyrir fegrðar sakir þótti skáldinu betr fara málit ok úberari verða löstrinn, at kalla margláta konu heldr dýr, en greina sèrhvern lut, þann er hon gerði úmannliga. Með þeim hætti eru þær kenníngar, er vèr köllum sannkenníngar í skáldskap, at kalla manninn Ása-heitum ok kenna svo til vopna eðr skipa, eða nokkurn Ása annars nafni, ok kenna þá við eign sína nokkura, sem Eyvindr kvað:

Farmatýs jarðráðendr
fjörvi næmdu á Oglóe [1].

Hèr er *Farmatýr* Óðinn kallaðr. Svo eru ok jötnar ok dvergar kallaðir menn eðr konúngar bjarga eðr steina, sem Skrautoddr kvað:

Böls mun-at bör at dylja bergþórs nösum orum.

Þessi er optast svo sett í norrænum skáldskap, at þeir lutir, er framfærast, eru kendir við nokkur tilfelli sín. En þó finnst hvortveggja, sem þar er hverr konúngr er kallaðr *Ýngvi* eðr *Þengill,* ok annat þvílíkt, fyrir tignar sakir fornkonúnga; en í latínu er metaphóra svo optast sett, at framfærðir lutir eru úkendir, en þó finnst hvortveggja, sem Ovidíus segir:

*Tiphis et Automedón dicar amoris ego* [2].

Hann kallar (sik) kerrugæti eðr stýrimann ástar.

*b)* Af andligum lut til úandligs verðr *Metaphóra,* sem at kalla hest eðr dýr sævar eðr skipreiða, ok annat þvílíkt, sem Markús kvað:

Björn óð fram á fornar flóðs hafskipa slóðir [3].

Hèr er *sævar-björn* skipit kallat.

*c)* Af úandligum lut til úandligs verðr *Metaphóra,* sem þá er skip er kallat skíð sævar eða vatna, en sverð beðja eða gata heinar:

Einstigi mèr heinar.

*d)* Af úandligum lut til andligs verðr *Metaphóra,* sem at kalla konu skorðu eða þóptu gulls eða gjörsema, ok annat þvílíkt, sem Ormr Steinþórsson kvað:

---

1) Hkr, Har. gráf., k. 6, 1. 2) Ars amatoria, I, 8. 3) Snorra Edda, bls. 91, 2.

Skorða var í föt færð fjarðbeins avar rein[1].

Með þessum fígúrum eru samansettar allar kenníngar í norrænum skáldskap, ok hon er mjök svo upphaf til skáldskaparmáls. *Metaphóra* er stundum aptrbeiðilig, en stundum eigi. Þá er *Metaphóra* aptrbeiðilig, ef hvern lut má færa til annars, þat er líkíng er á milli, sem at kalla sjóinn jörð skipa eða fiska eða sækonúnga, sem Þjóðólfr kvað:

Höfuðbaðm, á fjörnis
þar er heiðsæi fjöllum drýgði;

en kalla jörð *sæ dýra*, sem Markús kvað:

Hjartfærra veit harri hreinvasta sik baztan.

Hèr er jörð köllut *vastir*, en í fyrri vísu var hafit kallat *fjöll sækonúngs*.

2. *Catachresis* er köllut umdráttr annarligs nafns sem hèr:

* * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * * *

4. (*Metonimia, d*) . . . . fyrir járni, ok er þar í milli framfæríng ok úeiginlig líkíng.

*e)* Þessi háttr má snúast svo, at gerr lutr setist fyrir efni sínu, sem mjöl fyrir korni, ok er sú hin 5. grein *Metonimie*, sem Þjóðólfr kvað:

Lèt hræteina hveiti vill at vexti belli
hrynja gramr or brynju; valbygg Haraldr Yggjar.

Hèr er *hveiti* sett fyrir korni.

*f)* Hinn sètti háttr *Metonimie* er þat, at setja eptirkomandi lut fyrir því, sem fyrri verðr, sem her:

Braut strauk bauga neytir bleikr frá sverða leiki.

Hèr er *bleikr* kallaðr *ræddr;* því at bliknan kemr eptir ræzlu, sem roði eptir skömm, ok er framfæríng máls milli bleiks ok óttafulls, en úeiginlig líkíng, því at bliknan heyrir til líkams, en ræzla til andar.

5. *Antonómasía* setr sameiginligt nafn fyrir eiginligu nafni, ok verðr þetta á 3 leiðir: af önd, ok líkam, ok fyrir utan önd ok líkam.

a) Af önd, sem hèr:

Áðr grimmhugaðr gengi af grjótmóða dauðum.

Hèr er *grimmhugaðr* settr fyrir Þór. Þar er úeiginlig líkíng, því at margir menn aðrir en Þórr voru grimmhugaðir.

b) Af líkam verðr *Antonómasía*, sem hèr:

Hár rauð hvassa geira (hneig þjóð í gras) blóði.

---

1) Sn. Ed., bls. 85, 5.

Hèr er *hár* kallaðr konúngrinn, ok er þat úeiginlig líkíng milli þessa nafns, *hár* ok eiginligs nafns Ríngs konúngs.

c) Fyrir utan önd ok líkam verðr *Antonómasía*, sem hèr:

Nè dýrs of far fleiri (mælum slíkt við sælan:
fleinmóða segig óðar sittu heill, konúngr!) deili.

Hèr er *sæll* settr fyrir nafni konúngs, ok er svo úeiginlig líkíng; en sæla kemr af tilfellum, ok er hèr hvorki eiginlig önd nè líkam. Þessa fígúru köllum vèr *njarðarvött* í skáldskap, ok er hon þó eigi með leyfum talin.

6. *Epitheton* er fyrirsett sögn tilfellilig eiginligu nafni, ok verðr hon af önd, ok líkam, ok fyrir utan önd ok líkam.

*a)* Af önd, sem Snorri kvað:

Dáðrökkum veldr dauða dreng ofrhugaðr þengill[1].

*b)* Af líkam, enn sem Snorri kvað:

Hamdökkum fær Hlakkar hauk munnroða aukinn[2],

*c)* Fyrir utan önd ok líkam verðr *Epitheton* á þrjá vega:

a) Af *gerð*, sem hèr:

Ok stórhöggr stillir Þrænda.

b) Af *stað*, sem hèr:

*) Sótti reiðr at ráðum (þrályndi fékkst Þrændum)
(rann eingi því manna) þrænskr jarl, konúng senskan[3].

c) Af *atburð* verðr *Epitheton*, sem hèr:

Í herská hilmis ríki.

Í öllum þessum háttum er eiginlig líkíng millum viðleggjanligs nafns ok undirstöðuligs, ok þikkir sú figúra mest prýða skáldskap; þat köllum vèr *sannkenníng*.

7. *Sínekdoke* er sú merkíng eða trópus, er má fylla skilníng, þótt hon merki minnr eðr meirr. Stundum setr hon allt, þar sem hlut skal merkja af því öllu; sem Leiðólfr kvað:

Njörðr bar gull or garði grams, þess er verðúng framði.

Hèr er *gull* sett fyrir hríngi, þeim er konúngr gaf honum. Stundum setr *Sínekdoke* lut fyrir öllu, því er hon vill merkja; sem hèr:

Kjölr brunar klökkr á fölvar krapt-hár meginbárur

Hèr er *kjölr* settr fyrir öllu skipi. Í hvorumtveggja hætti þessum er úeiginlig líkíng: því at allt er jafnan sett saman af sínum lut, þat er skipta má.

8. *Onomatopejon* er nafn, gjört af hljóði, sem hèr:

Fram þraukuðu fákar þó gat þeim en háva
fjórir senn und henni; þrymgöll hlaðit öllum.

1) Háttat. Snorra, 5. 2) samast. *) Hèr tekur 748 til aptur. 3) Hkr. Ól. Tryggv., k. 57, 2.

Hèr er framfæríng af hljóði til málsins, ok úeiginlig líkíng milli klukku ok hljóðs.

9. *Perípramsis* er umkríngíngar-mál, þat er verðr fyrir skrauts sakir í lofligri ræðu, en lastmæli til þess at orðtak sè mælilegra, sem Egill kvað:

Var ek árvakr,
bar ek orð saman
með málþjóns
morginverkum:
hlóð ek lofköst,
þann er lengi stendr
íbrottgjarn
í bragar túni[1].

Hann kallar málþjón túnguna. Hèr er úeiginlig líkíng millum þjóns ok túngu, því at hon er einn lutr mannsins.

10. *Ýperbóla* er yfirgánga sannleiks yfir þat framm, sem trúanligt er. Sem hèr:

Hrauð í himin upp glóðum
hafs, gekk sær af afli:
borð hygg ek at ský skerði,
skaut Ránar vegr mána[2].

Hèr er úeiginlig líkíng ok merkíng milli möru-elds ok náttúruligs loga.

11. *Ýperbaton* er nokkur yfirstigníng orðanna, sú er hætti bregðr; hon hefir 5 kynkvíslir: *Isterología, Anastrophí, Parenthesis, Temesis, Sineresis.*

*a*) *Isterología* er skipt í skilíng orðanna ok svo skilníng þeirra. Sem hèr:

Brjánn fèll ok hèlt velli[3].

Hèr er skipt málsgreinum, ok sett sú fyr, er síðarr skal vera, ok verðr framfæríng í milli þeirra, ok újöfn líkíng milli parta ok málsgreina.

*b) Sintesis* er alla leið samansteypt ræða. Sem hèr:

Oss fremi, hinn er himna,
heimstýrir, skóp dýra.

Hèr er þat mál síðarr sett, er fyrr skal vera: því at sá heimstýrir, er himna skóp, fremr oss hversdaglega.

*c) Temesis* slítr í sundr eitt orð, ok setr annan part í milli. Sem hèr:

Ekl var ógn á Stiklar-
óblíð-stöðum síðan.

*d) Anastropha* er umsnúin orðaskipan, sem Sighvatr kvað:

Hætt er, þat er allir ætla
(áðr skal við því ráða)
hárir menn, er ek heyri,
(hót) skjöldúngi at móti[4].

Hann setr þessa fyrirsetníng, *móti,* eptir þat fall, er hon skal fyrir standa.

*e) Parentesis* er meðalsett málsgrein at skiptu seni, sem Einarr kvað:

1) Arinbj. dr. síðasta er. 2) Sn. Ed. bls. 101, 6. 3) Njálssaga, k. 158, 12. 4) Bersöglisv., Fms. 6, 43, 2.

Eins má óð ok bænir mjök er fróðr sá er getr góða
(alls-kjósanda hins ljósa guðs þrenníng) mèr kenna,[1].

Hèr er annat mál meðal sett ok til leiðar fært, ok síðarr lyktat hinu fyrra máli. Þessi figúra er jafnan sett í þeim hætti, er vèr köllum *stælt* eða *álagshátt*.

12. *Allegoría* er trópr sá, er annat merkir, en mælt er, sem Sveinn kvað:

Þar kemr (lýngs en löngum leika leyni síka
lind vandi mik strindar lævi) á til sævar.

Þat skal svo skilja, at hann lyktar svo því efni, er hann vildi í kvæðinu hafa, sem áin kemr til sævar. Þat er úeiginlig líkíng milli árinnar ok kvæðissins. *Allegoría* hefir 7 kynkvíslir: *Íróníam*, *Antifrasim*, *Karientismos*, *Enigmam*, *Paronomasíam*, *Sarkasmos*, *Astismos*.

*a)* *Írónía* gjörir gagnstaðligt mál, því er hon vill merkja. Sem í Kúga-drápu:

Megin-hreddir ro menn við Kúga, meiri ertu hverjum þeira.

Hèr er úeiginlig framfæríng ok líkíng, því at lof er fyrir háði sett. Þessi figúra er jafnan sett í skáldskap.

*b)* *Antifrasis* er, svo sem Írónía, í einu orði: því at hon dregr nafn af gagnstaðligum lut. Sem Sveinn kvað:

Hlès dættr á við blèsu.

Hèr er *sjór* kallaðr hlèr, því at hann hlýr allra minnst.

*c)* *Enigma* er myrkt sen um leynda líkíng lutanna, sem hèr er kveðit:

Fara ek sá á sat nár á ná[2].
foldar moldbúa:

Þesskonar figúru köllum vèr *gátu*, ok er hon jafnan sett í skáldskap.

*d)* *Karientismos* er þat, ef úfögr nöfn talast grandligarr. Sem Egill kvað:

Vals em ek vavar helsis blautr em ek bergis fótar
váfallr enn ek skalla borr, en hlust er þorrin[3].

*e)* *Parónomasía* er *orðskviðr*, sá er vel þikkir sama hlutum ok tíma. Sem hèr: *Er-a hlums vant, kvað refr, drógu hörpu á ísi*[4]. Þat er mælt til þeirra manna, er láta stórliga, ok mega lítið; þar er framfæríng ok úeiginlig líkíng milli manns ok hörpu.

---

1) Geisli, 1. 2) Hervarar saga, bls, 36. 3) Egilssaga Skallgr., k. 89, 1.
4) Fms. 7, 19.

*f) Sarkasmos* er hatrsfull ok úvinulig spottan. Sem hèr er kveðit:

At kom gángandi, hèlt upp höfði:
þar er jöfrar börðust, hèr er þèr skattr, súltan.

Sarkasmos gjörir annat yfirbragð máls, en merkíng væri.

*g) Astismos* má allt mál heita, þat er þermlast alþýðligu orðtaki, ok er skrýtt hirðligri málsnild. Sem Egill kvað:

Þat er úrètt, á má-skeið
er orpit hefir mörgu gagni [1].

Hann kallar slíkt sem á sjó veri kastat fènu, ef hann launar eigi vin sínum góðvilja; þar er framfæríng ok úeiginlig líkíng milli manns ok sjófar.

13. *Omozevsis* er auðsýníng eins lutar, þess er meirr er kunnigr; hon hefir 3 kynkvíslir: *Íkón, Parabóla, Paradigma.*

a) *Ikón* er samjafnan tveggja persóna eða þeirra tilfella, sem Snorri kvað:

Herfánga bauð Hríngi Of lengi veldr ýngva
hjaldr einsköpuðr galdra úsætt, en vel mætti
(Gautr hvatti þrym þreyta herstofnandi hafna
þann) ok Hilditanni. hans dóm, völundr rómu [2].

Hèr er úeiginlig líkíng milli Óðins ok nokkurs illgjarns manns.

b) *Parabóla* er samjafnan tveggja luta í újöfnu kyni. Sem kvað Nikoláss ábóti:

Tveir hygg ek at ber bæri þat kníðu -ber báðir
beitnárúngar heitnu (bergr oss trúa) á krossi
(stund er-a lífs) á landi (svo hefir) aldin- (guð goldit)
(löng) meðal sín á stöngu. Gyðíngr ok heiðíngi.

Hèr er vorum herra Jesú Kristó jafnat til vínbers þess, er sendimenn Gyðínga báru af Jórsalalandi, þá er þeir voru á eyðimörk, en krossinum til stángar þeirrar, er þeir báru berit á. Hèr er framfæríng ok úeiginlig líkíng millum tveggja luta með misjöfnu kyni, guðs sonar ok vínbers: en svo sem vínberit gefr hinn hæsta drykk til viðrlífis mönnum, svo gefr guðs son andligt líf öllum rètttrúendum mönnum í úthellíng síns blóðs, þess er hversdagliga snýst af vatni ok víni at hverri rèttsúnginni messu. Tveir menn, þeir er berit báru, merkja tvennar þjóðir, er at voru píníngu guðs sonar, Gyðíngar ok heiðnir menn, ok er þar *íkón* milli jamnra kynja

c) *Paradigma* samjafnar fyrst nokkura luti, ok síðan greinir hon þá í líkíng. Sem hèr er kveðit:

---

1) sjá bls. 192, 8. 2) Fms. 9, 455.

Vöndr er María myndut
meins en eplit hreina
endr at Jesse kindar
alls græðari kallast.

Hèr er greind sú samjafnan, er áðr er upptekin, milli þess vandar, er Aron bar, ok laufgaðist með ávexti, og Maríu drotníngar, er fæddi guðs son um fram mannligt eðli. Hnotin merkir guðs son, ok gjörir þar fagrar greinir. Þessar figúrur eru mjök settar í skáldskap ok í spakmæli, þau er vitrir menn hafa forðum samansett[1].

---

## [Seinni viðbætir við málskrúðs-fræðina].

**Protheseós Parallage** verðr, þá er önnur *prepositió* stendr, þar er önnur ætti viðrkæmiliga at vera. Sem Þorleifr kvað:

Höfðu vèr í þèr, Hákon,
er at hjörþíngi gengum
(þú rauðt Sköglar skýja
skóð), forostu góða [2].

Hèr er *í* sett úviðkæmiliga, svo sem þeir hefði *í* Hákoni forostu góða, þá sem þeir höfðu *af* honum; verðr ok þessi figúra hvervitna, þar sem um fyrirsetníng er skipt.

*Liptota* (=Litotes)verðr á 3 leiðir, stundum merkir hon framarr, en skilníng orðanna stendr til, sem Eiríkr viðsjá kvað:

Styrr lèt snart ok Snorri
sverðþíng háð verða,
þá er geirviðir gjörðu
Gíslúngum lut þúngan.
Enn var eigi minna
ættskarð, þat er hjó Barði [3].

Ok skal svo skilja, at þat ættskarð, er Barði gerði, var meira en hitt, er áðr er greint. Stundum er *Liptota* útþanníng orðanna, sú er allt merkir, þar er sumt er talit, sem hèr:

Sprúngu eigi öngar
út or bæjum sútir,
því at hyrr á hæyvi
heitr gekk fira sveiti.

Hèr er sagt, at *eigi öngir* menn rynni af bæjum, þar sem *allir* runnu. Sumstaðar merkir *eigi eingi* nökkurn eða mikinn, sem hèr:

Fíngr vann eigi engan
eins með vatni hreinu
guðs á virðum víða
vinníng at því sinni.

Hèr er *eigi eingi* sett fyri nokkurum eða miklum vinníngi. Stundum standa tvær neitíngar fyri einni játan, sem hèr:

Ek veit, at ní neitar
nytju logs, því er flytja

---

1) Hèr endast þessi ritgjörð Ólafs í Skbr. 748, en þá byrja kenningar með þessari fyrirsögn: „Hèr er lykt þeim lut bókar, er Ólafr Þórðarson hefir samansett, ok upphefr skáldskaparmál ok kenníngar", o. s. fr. 2) sjá bls. 185, 2. 3) Ísl. Sögur (1847), 2, 390.

meiðar geirþíngs glaðir, gunnr fjarðloga runni.

Hèr segir skáldit, at konan, sú er manni játaðist fyrir flutníng förunauta sinna, neitaði ní.

**Topographía** er þat, ef skáldit segir frá stað þeim, er tíðindin gerðust, þau er hann vill frá segja. Sem hèr:

Firð stóð í bygð breiðri
borg Patera sorgum,
mest áðr lýðr, frá losta
lítt gættr, í bý fættist.

Hennar fóstsystir er *Bethgraphía*, er frá húsi er sagt:

Leygs svelgr, en etr eigi,
júgtanni lið manna:
gánga menn or munni
margreptum fletvargi.

Hèr talar skáldit af smíð hússins.

*Cosmógraphía* er þat, er skáldit segir frá heimsins skipan, skapan, stöðu eða hætti eða setníngu, sem hèr:

Allr lýtr heimr und hylli heilags friðar deilis.

*Cronógraphía* er þat, ef sagt er, á hverjum tíma tíðindin gerðust, þau er hann vill frá segja; sem hèr:

Sjálfráði dó síðan
sólar fróns at nóni,
sá er hèkk, en dag dökti,
döglíngr, á járn-nöglum.

Svo er ok hin sama fígúra, þó at skáldit segi, hvat samtíða er, eða hverir höfðíngjar löndum stýra; sem hèr:

Hákon rèð fyrir hauðri
handsterkr, þá er guð merkti
refsi-þátt hinn rètta
rángri þjóð at ángri
(laust með eldíng æstri
allvirkr höfutkirkju
himna garðs) ok hjörðum
(hirðir) glæpsku firðum.

**Ýpallage** verðr þat, er sá er kallaðr *þolandi*, sem at rèttu er *gerandi*, eða sá gjörandi, sem at rèttu er þolandi; sem hèr:

Framan unnu gram gunnar
gramnis seiðs tamir meiðar
(biðu Jótar lið ljótan)
laga-gángs (daga strángra).
Lofag sjaldan hóf haldit
hatast dygð, ratast lygðir;
tregs halda vegs valdar
veginn arf megin-djarfir.

Hèr er arfrinn veginn kallaðr, sá er maðr var frá veginn, sá er með rèttu hèlt, en þeir tóku, er hann drápu. Ok í öðrum stað er sama fígúra:

Mari sendu vers vinda veitendr góins leita.

Hèr er sagt, at vindarnir væri sendir skipinu, þar sem at rèttu var skipit sent vindunum, þat er at skilja, útsett í þeirra vald eða stjórn; ok í öðrum stað segir svo:

Blès um hvopta hása höfutskrípa-manns pípa.

Hèr er pípan köllut blása, sú sem í var blásit; ok þikkir hon jafnan ljót fígúra, þó at hon finnist í skáldskap sett fyrir sakir skrúðs eða nauzynja.

**Prosópopía** er ísetníng nýrar persónu, ok verðr á 3 leiðir: sú er hin fyrsta, ef skáldit segir, at lífligr lutr tali til líflauss lutar. Sem hèr:

Grund, taktu, bölvi blandin,
bót fyrir glæpsku ljóta;
þèr mun óhlýðni ærin,
Ísland, búa píslir.
þú mátt úfrið óttast,
úþýð, nema vel hlýðit,
fold, þeim er sverðum sjaldan
(siðir breytist hèr) neyta.

Hèr talar skáldit nefndri fígúru eggjandi undirmenn at hlýða vel forstjórum sínum, ok nefnir landit, í stað þeirra er þat byggja. Frá líflausum til lífligs lutar, sem hèr:

Vatn kalla mik
(vil ek efla þik,
hoddveitir!) frams
hauðr-fjörnis grams:
ek hreinsa allt,
ek vermi kalt,
ek birti sjón,
ek bæti tjón.

Hèr er sagt, at ölmusugjöfin kalli sik vatn Krists, ok telr upp dygðir sínar, eggjandi manninn til mildinnar: því at svo sem vatnit slökvir líkamligan eld, slíkt hið sama slökkvir ölmosan synda bruna,[1] ok þvær á þá leið sál, sem vatnit búkinn. Frá líflausum lut verðr *prosópopeja* til líflauss lutar, sem segir í Barúk, at sjór ok skógr bjuggust í grend, ok vildi hvorr annan upptaka: af þí ljóp sandr í sjóinn, ok eyddi svo hans yfirgáng, en logi brendi upp allan skóginn. Hèr er svo um kveðit:

Grænn kvað viðr á víði
(varð skrjúpr í því) djúpan:
út man ek rýma reitu
ríkis míns af þínu;
betr samir bolr með skrauti
blóms, en unnir tómar:
skóg man ek upp yfir ægi
ángrlestan rótfesta.
Votr kvað marr á móti:
man ek vald yfir þèr halda;
skal hrís um lög ljósan
(lamit rót er þá) fljóta.
Sandr luktaði sundum,
sjór fèkk af stað ekki,
en sterkr um bol bjarkar
bani hvers viðar gandi.

Skógr merkir Júða, en sjór *Chaldeos;* þjóðir þær, sem eyddu ríki *Chaldeórum,* merkja sand, en guðspjallig kenníng eldinn, sú er í stað kom lögmáls Júða.

**Apóstropha** er sú fígúra, ef maðr talar til fráveranda manns svo sem við hjáveranda mann, ok setr sitt nafn í fyrstu skilníngu at rèttu, en þess í annarri, er hann talar til; en þó finnst öðruvíss gört. Sem Snorri kvað:

Eyjólfi ber þú elfar
úlfseðjandi, kveðju
heim, þá er honum sómi
heyra bezt með eyrum;
því at skilmildra skálda
skörúngmann lofag örfan,
hann lifi sælstr und sólu
sannauðigra manna!

1) Kristinr. Árna biskups, k. 13.

Þessi Eyjólfr var Brúnason, skáld einkar gott, ok búþegn góðr, en eigi fèríkr. Sama fígúra er ok, ef maðr talar til heilagra manna, sem Ólafr kvað:

Þèr fremist þí með tíri! | Þú ert næst guði hæstum.

Ok í öðrum stað:

Teitr gefr Thómás ýtum | trúarbót fyrir sið ljótan.

Er þessi fígúra jafnan sett í brèfum, er menn sendast í millum, eða þeim *prólógis* bóka, er einhverjum eru ætlaðar til rèttíngar eða framburðar.

**Endíadís** er sú fígúra, er sundrlausir lutir eru merktir fyrir einn úskiptiligan lut, eðr einn úskiptiligr lutr er settr fyrir tveimr skiptiligum lutum, ok er hon undirdregin samfestíng laussa luta ok leysíng fastra luta. Sem hèr:

Skálm vann ok hjalt hilmi | hoddbeiðundum reiðan.

Hèr er úskiptiligr lutr, *sverðit*, merkt fyrir skálm ok hjalt, sundrlausa luti. Ok enn segir svo:

Þýddist karlinn klædda | ek sá karl ok klæði
kona mín, ok þörf sína; | koma inn í því sinni.

Hèr er klæddr maðr settr fyrir sjálfum sèr ok þeim klæðum, er hann gaf konunni, at fá sinn vilja; ok í annat sinn er sagt, at sèr hvort kom inn, karl ok klæði, þar sem klæddr maðr kom inn; ok heitir sú *Endíadís sundrlaus*, er fastir lutir eru settir í stað laussa luta, en sú *Endíadís* heitir *samföst*, er lausir lutir eru settir í stað fastra luta, svo sem hèr má skilja í þessum dæmum, er hèr standa áðr ritin.

**Ebasis** (=Ekbasis) er afgánga efnissins, þá er skáldit reikar afvegis, sem Bragi skáld gjörði, þá er hann setti í þá drápu, er hann orti um Ragnar konúng, þær vísur, er segja um fall Sörla ok Hamdis, sona Jónakrs konúngs ok Guðrúnar Gjúkadóttur, er þeir fèllu fyrir mönnum Erminreks konúngs; ok er sjá vísa ein af þeim:

Knátti örr við illan | Rósta varð í ranni
Erminrekr at vakna | Randves höfutniðja
með dreyrfár dróttir | þá er hrafnbláir hefndu
draum í sverða flaumi; | harma Erps of barmar [1].

Stundum verðr *Ebasis*, þá er skáldit tekr stef af öðru efni, en kvæðit er, sem í Nikuláss-drápu, er stefit er af guðligri þrenníngu. Sem hèr:

Öll þíng boða engla | órofnuðu jafnan
eining í þrenningu, | alls-grams lofi, framða.

---

1) sjá Snorra Eddu, bls. 78, 2.

Stundum verðr *Ebasis,* af þí at skáldit tekr dæmi þeim lutum, sem hann vill frægja eða úfrægja, af öðrum frásögnum. Svo er ok í sama kvæði Nikólaó dæmi tekin af hinum sæla Jóhanne Baptista, at auka hans virðíng; sem í þessi vísu:

Jón laut í höll hreinum
hjarta sals hins bjarta
meyjar mannvits frægrar
mildíngi bragnínga [1].

Ok leiðir skáldit þar lof Jóhannis svo til enda, at þaðan af aukist lof heilags Nikólaí. Slíkt hit sama má ok þessi fígúra vera í lastmælum, at illr maðr er kallaðr annarr Júdas, eða dæmi tekin til nokkurs ílls manns, at auka hans níð. Eru þessir lutir eða hættir *Ebasis* (sá, er Bragi lofaði frændr Áslaugar í Ragnarsdrápu, at hans virðíng sýndist meiri, en áðr var hon: ok hinn, at setja stef í jarteina-kvæði heilagra manna af sjálfum guði, til þess at sýna vinnara allra tákna ok samvinnara sinna vina; svo ok at birta annan helgan mann með annars dæmum, eða lasta annan illan mann með annars illri endrminníng), fyrir nauzun eða skynsemi skrauts eða lastmælis, vel leyfiligir, en ónýtar efnis-afgöngur eru með öllu flýjandi.

**Emphasis** setr undirstaðligan lut fyrir hræriligum lut, sem þá er vèr merkjum nokkut tilfelli mannsins fyrir sjálfum honum, sem at nefna glæpinn fyrir glæpamanninum, eða vizkuna fyrir vitrínginum; ok gengr þessi fígúra um alla þessa vísu:

Píndr er stuldr, þar er standa
(stafnreiðar) himleiða
víða vínga meiðar
(viðir!) hjá torgi miðju;
morð eru hjólum hörðum
hegnd, þau er illa gegndu:
þar er rètt vísar ræsir
rómsæll skipun dóma.

Hèr er stuldrinn kallaðr píndr, ok morðin hegnd, þar sem morðínginn er hegndr ok þjófrinn. Sumir menn kalla *Emphasem,* þat er vopn er kallat með því verki, sem af þí gjörist; sem Þorleifr kvað:

Hefik í hendi
til höfuðs gjörva,
beinbrot búa,
böl Sigvalda,
vo víkínga,
vörn Hákonar;
sjá skal verða,
ef vèr lifum,
eiki-kylfan
úþörf Dönum [2].

Hèr er kylfan kend eðr merkt með þeim tilfellum, sem af henni máttu gjörast, ok hefir ýmsar líkíngar í einni vísu; ok kallar Ólafr þat *finngálknat,* er líkum er skipt á einum lut í enni sömu vísu [3], ok berr bezt, at hinn sami háttr sè haldinn

---

1) sjá Lúkasar guðspjall, 1, 41. 44. 2) Fms. 11, 130. 3) sjá bls. 187, l. 3—11.

um alla vísu, allra helzt einstaka vísum, en eigi hæfir sá háttr í stórkvæðum.

**Exflexigesis** *(=Epexegesis)* er skýríng eða glöggvari greiníng fyrirfarandi luta; sem Eylífr kvað:

Báru (mæt) á móti
málmþíngs viðir pálma
(sveit hrauð) seggja bæti
(sorg), er hann kom til borgar:
svo laðar siklíngr skýja
síns hjarta til bjartir
þeir er fyrða gram færa
fögr verk með trú sterkri.

Er þessi figúra af alþýðu köllut *glósa*, ok er sú grein þar í millum, at þessi figúra, *Exflexigesis*, glósar eða skýrir sanna frásögn, svo sem hinn ágæti Salómon merkir vorn herra, en musterið heilaga kristni; en *ikóna* setr fram tvo luti af líku efni; en *parabóla* setr fram úlíka luti, svo sem þat, at kalla þenna heim *akr*, *þyrn* auðæfin, *fuglana* djöfla, með likíng, en ei með sannleik; *paradigma* dregr saman lík dæmi, ok skýrir hon sjálf, þat er hon talar áðr, með figúru ok eiginligri undirstöðu. *Exflexegesis* hefir fleiri kynkvíslir í latínu, því at hon skýrir eigi at eins umliðna luti, heldr ok eptirkomandi luti, sem í bók Bóetíi, en eigi finn ek þat í noræna-skáldskap.

**Evphónia** er gagnstaðlig *Kakenfaton*, ok verðr hon á margar leiðir; því at hvervitna þar sem *Kakenfaton* er flýtt fyrir skynsemi, at forðast ljótt atkvæði, þá gengr þar inn *Evphónia*, ok standa þær greinir full . . . frammi, þar sem fyrr nefnd figúra er framsett. Ólafr segir ok, at *Evphónia* verðr, þar sem límíngarstafir eru skiptir í þá stafi, sem fegra hljóða, sem í þessum nöfnum, *lœkr*, *œgr*[1]; því at *æ* þikkir hvarvitna lýta mál, nema þar sem skynsemi má fyrir gjalda, at þau orð, sem þat stendr í, dreifast af þeim orðum, sem *á* stendr í. Sem hèr segir:

Því veldr ár, at ærir
akr búmanna spakra;
æra verðr með árum
undan dólga fundi;
ræða gengr af ráða
runa systir ólystug;
órar dregr af œrum
ýtum skemda flýtir.

Ok enn segir svo:

Œli telst, þat er ólu
ósnotran mann gotnar;
ælir vatn, þat er álar
allstrángir fram hallast;
heitir lœr á léru,
læríngar kenníngar;
kallast mær á Mœri
mæríngr, ef gjöf tærist.
Hætta verðr á hættu;
hœtíng, ef böl rœtir;
ást er nær at nœra;
nú er vær konan færi;
skemd tekr æðr, en, œðast,
œði deyr, þá er blœðir.

1) sjá bls. 178. l. 4. 5.

**Lepos** er þat, ef rík persóna er merkt með margfaldri tölu, ok er þat þá kurteisi, ef sá hefir ráðuneyti, er til er talat. Sem Arnórr kvað:

Yppa ráðum yðru kappi, Jóta gramr, í kvæði fljótu [1].

Hèr er konúngsins persóna margfölduð, en ekki heyrir þat, at tala svo til úbreyttra manna; ok ef öðruvíss er gört, þá verðr þat *sólæcismus*, sem fyrr segir.

**Antitósis** (= *Antíptósis*) er umskipti talna eða falla ok tíma með settu endimarki; um fallaskipti, sem hèr:

Þá er ek leyfi mey mjófa hörn mælti þat horna
(mær er þín) fyrir vild sína; hjörþíngs við bör kringinn.

Hèr er rægilikt fall sett fyrir nefniligu falli. Um talnaskipti verðr *Antitósis*, sem hèr:

Sveit fylla ein alla alls framm jóa glamma.

Hèr stendr þetta nafn, *sveit*, sem margfalt nafn, stýrt af margföldu orði, *fylla*. Um tímaskipti standa nóg dæmi í *sólæcismó*, en ekki er nýjum skáldum fallit, at líkja eptir slíkum lutum, er til þess eru at eins sett, at skilja fornskálda verka.

**Antíteton** (= *Antitheton*) verðr, ef hin síðastu orð svara hinum fyrstum, ok verðr hon á svo margar leiðir, sem orðum fær skipt í vísu, svo at regla sè haldin undir rèttri kveðandi; ok standa þessir hættir mest í því, sem *stælt* er kveðit, eða *lánglokum*, sem hèr:

Hákon ræðr með heiðan [rógleiks náir ríki
[hefir drengja vinr fengit remmitýr at stýra
(lönd verr buðlúngr brandi (öld fagnar því) eignu]
breiðfeld) mikit veldi] orðróm konúngdómi [2].

Hèr gegnir þessi orð saman: *Hákon ræðr konúngdómi*, er fyrst standa ok síðast; ok er þessi regla lèttust af fyrr sagðri fígúru, er *Antíteton* heitir. Sú er önnur hennar *species*, ef máli lýkr á þenna hátt í vísuhelmíngi, ok sè tvö mál í vísuhelmíngi, sem hèr:

Hákon veldr ok höldum vald á víðrar foldar
(hárðráðum guð jarðar (vindræfrs jöfurr gæfu
tiggja lèr með tíri) öðlíngi skóp úngum)
teitr þjóðkonúngs heiti; örlyndr skati gjörla [3].

Þetta heitir *stælt*, ok er þat hinn fegrsti háttr. Sú er hin þriðja *species*, er fleiri mál gánga um eina vísu, en tvö, ok lýkst mál í síðastum orðum, sem hèr er kveðið:

---

1) Fms. 6, 196, 1. 2) Háttat. Snorra, 14. 3) Háttat. 12.

| | |
|---|---|
| Ólafr kunni blóthús brenna: | dróttar vinr fèkk helverk hættan. |
| bráðan hitti Magnús váða: | hníga rètt á enskri slèttu. |
| Harald frágum vèr hjörleiks mildan: | sóttum píndr, þá er örlög áttust. |
| hans arfi tók nú við starfa, | ágætt fall sá er hlaut til vallar. |

Hèr er hið fjórða ok hið fimta vísuorð sèr um mál, ok hið þriðja ok hið sètta vísuorð er sèr um mál, ok eru fjögur heil mál í þessi vísu, sem nú var talt. Sú er hin fjórða *species* hinnar sömu fígúru, ef tvö mál gánga jamframm um vísu, ok lýkst mál í helmíngi, ok þó eitt efni um alla með hinum sömum tveim málum; sem hèr:

| | |
|---|---|
| Haki (Kraki | veitir (neitir |
| hoddum) broddum | vella) pella |
| særði (mærði | báli (stáli |
| seggi) leggi; | beittist) heittist. |

Hèr er hið fyrsta ok hið síðasta orð í fjórðúngi saman, ok annat ok hið þriðja, en mál öll lúkast í helmíngum. Þessa vísu má ok kalla *Antíteton*, er fjögur mál gánga um alla vísu, ok eru um mál saman hin fyrstu vísuorð í báðum helmíngum, ok önnur slík, ok hin þriðju, ok með einum hætti hin fjórðu:

| | |
|---|---|
| Mætr Hákon vann: | lángfeðra láð. |
| en Magnús fann: | lögvizku ráð. |
| hjörr Eiríks hèkk: | á rítar slóð. |
| hans bróðir gekk: | at refsa þjóð. |

Þessa vísu þarf skamt at færa til hins fyrra háttar:

| | |
|---|---|
| Mætr Hákon vann, | Haki Kraki |
| en Magnús fann, | hamdi framdi |
| hjörr Eiríks hèkk, | geirum eirum |
| hans bróðir gekk | gotna flotna; |
| at refsa þjóð: | hreytir neytir |
| á rítar slóð: | hodda brodda |
| lögvizku lund: | brendist endist |
| lángfeðra grund. | báli stáli. |

**Antipofóra** (*=Anthypofora*) er þat, ef maðr svarar þeim lutum, sem maðr býst at kæra á hann á þíngi, ok stendr upp, búinn at segja fram sökina, en segir eigi:

| | |
|---|---|
| Þèr get ek, karl, ef þú kærir, | Sakir áttu á mèr miklar; |
| krönk orð búin (forðum | munu nær vera hæri |
| fat ek vorkunnar vinnur); | þær, sem þína aura |
| verðu kyrr ok sit fyrri! | (þat er hættiligt) fætta. |

**Aclacassis** (*=Antanaclasis*) er þat, ef maðr setr tvenna skilnínga gagnstaðliga með einum orðum; sem hèr:

| | |
|---|---|
| Mætum stend ek á móti | rís ek við Ránar eisu |
| mansveigjanda eigi, | runni flærðar kunnum. |

Því heit ek víst, at veita
vígs drengiligt gengi,
þèr heit ek mest at móti
meginstrángliga at gánga.

Hèr er þessi figúra tvítekin, ok sýnd í báðum vísuhelmíngum.

**Antimechisa** (= *Antimetabole)* verðr, ef maðr snýr svo sem með orðum myrkrar skilníngar; sem hèr er ritat:

Sveit lifir ill til átu
annlaust þokumanna,
en klaustrbúi kristinn
kalds, at lifit haldist.

*Þokumenn* eru þeir kallaðir, er alla penínga sína neyta upp í ofáti ok ofdrykkju, ok bera þeir þat nafn sakir snápskapar síns; því at þeir sjá eigi satt ljós rèttrar framferðar, ok lifa at eins til þess at eta, sem ísitjandi myrkvastofu-þoku. En siðlátir menn eta eigi meira en svo mikit, at þeir láti eigi af at lifa; ok þikkir þessi figúra mjök skaðsamlig.

**Aposíópesis** er viljanlig þrotnan máls sakir hrygðar eða úþykkju; sem hèr er kveðit:

Eigi er von, at ek voga
viljag hyrjar þilju
eiga orða gnóga,
(em ek reiðr) konu leiðast:
þar er mèr en frá færum
forðum bænar orðum;
sitja verðr ok sýta
sik brúðr hin óprúða.

Hèr eru viljanliga or vísunni þessor orð sakir reiðiþokka: *ek vil;* ok í öðrum stað: *kastaði;* ok skal svo upptaka: *Eigi er von, at ek vilja (því at ek em reiðr) eiga þá konu orðmarga, er mèr kastaði, þá er ek bað hennar: leiðast vil ek hana, þó at nú vili hon eiga mik; siti hon, ok sýti sik (at skilja, sína heimsku).* Þessi figúra stendr í guðs orðum, þeim er hann talar til Júða fyrir figúru, undir nafni Hjerúsalem-borgar.

**Evphemismos** er gott umskipti stafa í orðinu; sem Davíð setti *exultat* fyrir *exaltat,* sem stendr í þessi vísu:

Þat söng ok í gröf genginn
grundu huldr til stundar
enn með iðran sannri
öðlíngr til refsíngar:
Hugþekka mun hlakka
hróðr-slúng lof-túnga,
mána-valdr hinn mildi,
mín rèttvísi þína.

Hèr er sagt, at túngan *hlakki* yfir rèttvísi guðs, þar sem hitt væri alþýðlegra at segja, at hann *hæfi upp* guðs orð með túngunni; en þetta umskipti var gjört til þess at setja þat orð, er meira þótti vert, í stað hins minna.

**Síneptesis** (= *Symptósis)* er úskaplikt umskipti talna eða skilnínga; sem hèr er kveðit:

Víngarðr hafði ölgefn orðit
(unda vargs), sú er nú eru margar
(neytir skili þann krók, með kæti),
kvennsku hept (ok láti eptir!).
Fyrðum dugir, at ósiðr orða
(oss vægðu, guð!) jafnan lægðist;
vora þó hann í vatni skíru
verka sekt ok píslar merki.

Hèr er bæði skipt tölum ok skilníngum; ok er þessi figúra

með öllu ekki í vana dragandi, þó at persónum finnist skipt í saltara ok öðrum heilögum bókum.

**Onopomenon** (*Anepimonon?)* segir eða h(leypr y)fir stórar sögur með fám orðum; sem hèr:

Berast lèt frá mey mætri
mætr foldsala gætir;
umsníðníng tók auðnu
einn veitandi hreinnar;
áðr, skatna vann vatni
vatnskírn jöfurs batnat,
fastandi bar freistni
friðar-kennari þrenna.

Píndr reis upp með anda
ángrleystu herfángi
hlýrna gramr til himna,
heimsótti guðdrottinn.
Sendi ástar anda
alls-hirðandi virðum;
so kemr drótt at dæma
dauða lífs á hauðri.

Hèr er ávarp Theólogíe fært í tvær dróttkvæðar vísur. Þessi sama fígúra kallast öðru nafni *Brachilogía* ok hefir sömu upprás nafns ok hin fyrri. Sumir meistarar segja, at *Clímax* sè hennar *species*, sú er um jafnar gráður leiðir hverja málsgrein af annari; sem hèr:

Hugsan flýtir lystíng ljóta,
lystíng fæðir samþykt skæða,
samþykt fæðir synd ok nauðir,
synd spenr á sik illa venju:

ill venja dregr nauzun nóga,
nauðsyn leiðir sál í dauða,
dauði spillir æði öllu
andar, lífs með beisku grandi.

**Emophasis** ( = *Homophasis*) glósar myrkan lut með öðrum jammyrkrum lut eðr myrkara; sem hèr:

Sæll er sènn í milli
siðvendis kvikenda
mána ranns af mönnum
mildíngr, sá er barst híngat:

eðr þá er djúp at djúpi
dorgtúns niða borgar
um hljóðraufar háfar
hátt samþykkit vátta.

Hèr eru orð Abbacuch spámanns, þau er hann segir guðdrottinn sènn milli siðvendis kvikenda, ok í þenna heim komanda, sett í hinn fyrra vísuhelmíng, en glósa yfir sett, sú er Davíð segir undirdjúp vatnanna kalla á annat undirdjúp um þær himinborur, sem *katarakte* kallast, ok opnuðust, er Nóaflóð drekti öllum heimi, utan þeim mönnum, sem í örkinni voru. En til þess at þenna myrkleik megi skilja, segir Ágústínus, at spámaðrinn sá fyrir, at guð mundi holdgast, ok var sènn milli tveggja kvikenda, uxa ok asna, er merkja Júða ok heiðíngja, í milli Móýsi ok Helíe í myndskiptíng[1] vors herra á fjallinu, ok milli tveggja *latróna* með sèr krossfestum, ok at lyktum millum tveggja lögmála. Ok þessi tvö lögmál, eð fórna ok hit nýja, kallar Leó pávi hinn málsnjalli tvenn vatnadjúp, þau er annat er yfir himnum, en annat undir himn-

---

1) gizkat; mynd skiptíngar, Ob.

um, ok Davíð segir at ákallast með röddum *cataractarum*, þat er, himinraufanna, þeirra sem vötnin sendu til jarðar í flóðinu Nóa, ok merkja þær höfuðfeðr ok spámenn, postola ok prèdikara, þá er himnesk vötn heilagrar prèdikanar senda á jörðina, til þess at fyrirkoma guðs úvinum, þat er, löstum ok lýtum, ok at döggva hjörtu rètttrúaðra manna með regni heilsamrar kenníngar. Ok er þá at sönnu sènn sjálfr sannleikrinn, þat er sjálfr guð, milli kvikenda siðvendis. Er hit forna lögmál framsagt forðum af þeim feðrum, sem voru fyrir híngatburð guðs sonar svo sem af himni runnin vötn, er fram eru borin milli manna þeirra, sem siðvönd kvikendi ætti at vera í heilagri kirkju, ok samþykkjanda nýju lögmáli fagrliga framflutt ok útskýrð með guðspjalligri kenníng ok af postoligum röksemdum fyrir prèdikara nýss lögmáls. Birtist þá fullkomit samþykki lögmálanna, þat er þau hafa sín á milli, ef fram eru bornar spásögur heilagra feðra um getnat ok híngatburð, prèdikan, pínsl og dauða, upprisu, uppstigníng vors herra, ok ástgjöf heilags auda, ok hinn efsta dóm ok eylíft líf, er í móti berast vitni af nýju lögmáli, at nær öll þessi stórmerki eru framkomin, en þau, sem úorðin eru, munu án a framkoma.

**Epimonon** (= *Epimone*) er sú fígúra, er hit sama orð er optarr en um sinn sett, annattveggja til þess, at uruggligarr megi skiljast, þat sem flutt er, sem víða má finna í *Theólogía*, ella er hit sama orð fyrir fegrðar sakir optar sett, sem í *dunhendu* eðr *iðrmæltum* hætti: verðr þat stundum í upphafi, sem í *greppaminni*, en stundum í miðju eða í enda, ok má þat kalla háttaföll eptir fornum skáldskapar hætti; en sá má nýta, er vill, ok líkja, en hinn únýta, er þat vill. Í upphafi, sem hèr:

Ek em synda bót ek birti sál,
ok sæmdar bót, ek bæti mál.

Í miðju, sem hèr:

Þar er ekki illt fæst ekki öngt
ok ekki villt, ok ekki þröngt.

Í enda, sem hèr:

Þar er úmælt vald þar er algert vald
ok ágætt vald, ok eylíft vald.

Þessi fígúra sýnist í upphafi ok í enda, sem hèr:

Ek blessa þik, ek fæ fyrir þik,
ek bið fyrir þik, ek frelsa þik.

**Antopazía** *(Antipathia?)* er sú figúra, ef tveir lutir eru svo bunnir ok samþykkir, at það megi segjast annarr gjöra, sem annar gjörir, á þá lund sem túnga er köllut samþykk hjarta:

Mánt skínn af mæni
moldar hofs um foldir
alla stund, meðan endist
æfi lands ok sævar.

Veit ek fèlaga fljótum
fróns prýði vel þjóna;
þeim vitu eigi ýtar
auðit lífs nè dauða.

Hèr er túnglinu kent embætti sólarinnar, at skína jafnliga á jörðina; fyrir því at þat hefir ekki ljós af sèr, heldur af sólinni, ok er dökt þeim megin, sem frá henni horfir, en albjart, þat er at henni horfir: en þá sýnist þat hálft bjart, er þat hefir svo lángt gengit frá sólinni, eða á svo lángt til hennar, at þat sè þá í suðri eða norðri, er hon er í austri eða vestri.

**Antrópus patos** *(Anthrópopathía)* er sú fígúra, er þat er kent guðdóminum, sem manndómsins er, sem þat, at hann standi, siti, gángi, reiðist, gleðist, elski, sýti; sem hèr er kveðit:

Adam sá, þann allt í heimi
orði skóp, í göngu forðum;
þenna kendi Stephanus standa
stórum vitr, ok spámenn sitja.

Reiði tala hans bækr, sem blíðu,
brögnum jafnt sem hrygð ok fögnuð,
ástar gnótt, með öðrum háttum
ýta kyns, þeim er guðdóm lýta.

En staðligar hræríngar ok líkamligt tilfelli megu með fígúru, en eigi með sannleik, til guðs talast: ok er þá, sem guð gángi frá oss, ef vèr göngum frá honum fyrir afbrigð hans boðorða, en til vor, þá er vèr krjúpum til hans með iðran undir hans miskunn. Staða hans er vor staða í góðu, eða búið fulltíng í nauðsynjum. Seta hans er dæmíng um fólksins verðleika; því at dómarans er at sitja. Reiði hans er refsíng, sú er hann leggr á illvirki mannfólksins. Gleði hans er gæzka vor. Svefn hans er kallaðr, þat er vèr sofum með svefni dauðligra synda; ok vaknan hans er þat, er vèr vöknum við sjálfa oss. Sýtíng hans er þat, ef hann gefr oss at sýta ill verk vor. Ást hans er þat, er hann gefr oss at elska sik, svo at þar fyrir gefi hann oss þá giptu, at vèr hjálpumst fyrir hans miskunn. Hefir sjá fígúra tekit nafn af *Antrópos,* girzku nafni, því sem *maðr* er á vora túngu, ok *pasis,* þat er *setníng,* svo sem vèr setjum guði mannliga reglu um hræríng ok aðra luti, svo sem þeir villumenn, er *Antropoformite* (Anthropomorphite) heita, er guði ætla mannliga limu, sakir einfeldi eða fátækleiks eiginligs skilníngs, ok skilja eigi, at guð er óskiptiligr

ok óbrugðligr, hvervetna nálægr, eigi með staðligri nálægð, heldr með almætti einum saman.

**Sínatrísmos** (= *Synathroismos*) er sú fígúra, er lof eða lestir eru saman lesnir í einum kapítúló ok klausu eða versi í latínu, en með einni vísu eða með fleirum í norænu; sem hèr:

Abels lofar æfi
ómeinsemi hreina;
öld lofar Enoch mildan
einkend siðavendni;
Nóe lofast öflugs æfi
ágætu hreinlæti;
Sem lofar fært til fremdar
fórnar-hald um aldir.
Trúa lofar Abrams æfi;
Ýsách lofar vísan
von; lofar Jacobs einum
ástsemd hugar fremdum;
skýrr lofar Jósephs æfi
úrskurðr fyrirburða;
guðs lofar ætt ok æfi
Aarons göfug þjónan.
Móýsen lofar ljósan
lagamál hit brennfagra.
Þik lofar allt með öllu,
alls heims jöfurr, heima.

Slíkt sama er þessi fígúra samanlestr lasta.

**Therethema** (= *Erótema*) er sú fígúra, er opt er spurt at hinum sama lut, ok andsvarat eptir sama hætti; sem hèr:

Hverr deyr? Hjarðar stýrir.
Hví? Fyrir sauða lífi.
Hvessu? Hèkk á krossi.
Hvar? Þar er Lazarus jarðast.
Hve nær? Helzt at nóni.
Hverir knúðu at? Júðar.
Hverr nýtr? Heiðni bötnuð.
Hvat geldr? Djöfuls veldi.

Hèr eru 16 mál í vísu, ok er jafnan spurt ok svarat í vísuorði. Má ok þessi sama fígúra vera með minnr þröngdum spurníngum.

Hverr fèll? Hörða stillir.
Hvar? Þar er karlfólk barðist.
Hve nær? Hneig at nóni.
Hver var sök? Öfund vöknuð.
Hverr vo? Hèlt Kálfr darri.
Hverir bǫðu slíks? Þrændir.
Hvat nýtr? heilsa bötnut.
Hvat sýtir? fíra lýti.

# VIÐAUKAR.

## 1. (viðbætir eptir Ob; sjá bls. 107. l. 8).

---

Bragnar hètu þeir menn, er fylgðu Braga konúngi hinum gamla. Virðar heita þeir menn, er meta mál manna. Fírar ok verar heita landvarnarmenn. Víkíngar ok flotnar, þat er skipaherr. Beimar heita þeir menn, er fylgðu Beima konúngi. Gumnar ok gumar heita fólkstjórar, sem gumi heitir í brúðför. Gotnar heita af Gota konúngi, er Gotland er við kent; hann heitir af nafni Óðins, ok dregit af Gauts nafni. Þeir heita drengir, er millum landa fara; þeir konúngs drengir, er þeim þjóna eðr öðrum ríkismönnum. Þeir heita vaskir menn, er batnandi eru. Seggir heita ok kníar; liðar eru fylgdarmenn. Þegnar ok höldar, þat eru bændr. Ljónar heita þeir, er um sættir gánga. Kaskir menn heita kappar, kempur, garpar, snillíngar, hreystimenn, harðmenni, afarmenni, hetjur. Þessi eru þar í mót: kalla mann blauðan, þirfing, blotamann, skauð eðr skræfu, vok, vom, lok, leymu, dasa, drok, dóla, dusilmenni. Örr maðr heitir mildíngr, mæríngr, skati, þjóðskati, gullskati, mannbaldr, auðkýfingr, sælkeri, ríkmenni. Hèr í mót er nískr maðr kallaðr hnöggr, glöggr, mælíngr, smælíngr, glöggvíngr, vesælíngr, gjöflati, þjófr, hvinn, hlenni, fèníðíngr. Spekíngr: ráðvaldr. Snyrtimaðr, ofláti, glæsimaðr, stertimaðr. Þar þvert í mót: raumi, skraumi, skrapr, slokr, skrokkr, skeiðklofi, slinni, flángi, fjösnir, trúðr, lokr, kyrpíngr. Svo heita höldar: halr, drengr, höldr, þegn, smiðr, breiðr bóndi, bundinskeggi, búi ok boddi, brattskeggr. Lastheiti: kauði, fnauði, fóli, fifli, flángi, gassi, gokr, grómr, gogr, gaurr, hriki, glópr, gopi, glónn, glanni, sláni, slappi, strundi, smortr, stortr, hrókr, hrotti, þumr, þrjótr, þrapr, fútr, tángi, motti, vomr, dárbekill, gáði, ginnúngr, gapþrosnir, gunnúngr. Þræla heiti standa í Rígsþulu: lini, stafklápr, önnúngr, lydda. Maðr heitir einn hverr; tá, ef tveir eru; þorp, ef þrír eru; fjórir eru föruneyti; flokkr, fimm menn; sveit, ef sex eru; sjö fylla sögn; átta bera ámæliskör; nautar eru níu; tigr eru tíu; ærir eru ellefu; tólf er toglöð; þyss er þrettán; ferð er fjórtán; fundr

er þat, er fimtán hittast; seta er sextán; sókn er seytján; ærnir þikkja úvínir þeim, er átján mætir; neyti hefir sá, er nítján fylgja; drótt er tuttugu; þegnar eru þrjátíu; fólk er fjörutíu; fylki er fimtíu; samnaðr er sextíu; sörvar eru sjötíu; öld er áttatíu; herr er hundrað. Lýðr heitir landsfólk.

Enn eru þau nöfn, er vèr látum gánga fyrir nöfn manna, ok köllum vèr þat viðkenníngar eðr fornöfn manna. Þat eru viðkenníngar, at nefna einn hvern hlut rèttu nafni, ok kalla þann, er hann vill tilnefna, eiganda eðr veitanda eðr sækjanda þeirra luta. Svo ok, at kenna mann við ætt sína, ok kalla hann föðr eða afa, son eðr bróður þess, er hann nefndi. Svo kvað Þjóðólfr:

Vastu, Ólafsson, austan . . . efldr á vatnit skeflda.

Ái heitir arfi, sonr, arfuni, mögr, niðr, arfþegi, sefi, erfíngi, konr, hefnir, burr. Bróðir heitir blóði, barmi, hnefi, hlýri, lifri, sifr, kundr, kynstafr, niðjúngr, ættstuðill, ættbaðmr, kyn, afkvæmi, afsprínger. Heita ok mágar, sifjúngar, svilar, hleytar, spjallandi, þópti, kompánn, fèlagi, fóstri, vinr, vandamaðr, frændi. Heitir dólgr, andskoti, sökkvi, þröngvir, skaðamaðr, úsvifrúngr, bagi, annskoti, úvin.

Þetta köllum vèr sannkenníngar, at kalla at maðr sè hraustr, harðr, hagr, horskr, kænn, kuðr, ríkr, röskr, reiðr, rammr, ráðugr, snjallr, snarpr, snotr, sterkr, stórr, vitr, vaskr, vænn, varr, voldugr, bliðr, bjartr. Þetta köllum vèr tvíriðit, eða at stuðníng fylgi sannkenníngu, ef maðr er kallaðr alröskr, ofrhugaðr, fullhvatr, vegsæll; og á marga vega er sannkenníngum breytt, ok heyja þær mest orðafjölda í skáldskapnum ok fegra mest kveðskapinn.

Mann skal kenna við verk sín öll, þau er hann þiggr eðr veitir eðr gjörir. Hann má kenna til eignar sinnar, þeirrar er hann á eðr gaf; þá skal svo kenna við þessa luti, kalla hann vinnanda eðr fremjanda verka sinna. Mann má kalla viðarheitum öllum karlkendum; þat má svo kenna við þessa luti, kalla hann vinnanda eðr fremjanda, því at hann vinnr þat er hann gjörir ok reynir. Trè er ok viðr, ok reynir; kallaðr er höggr, stofn eðr stafr, fjorr eða borr, draugr, ok kendr til eignar eða verka. Svo kvað Þórðr S. son:

Hlakkar stofns at hefna . . . herðendr í því [1] sverða.

Svo kvað Ásgrímr Jónsson:

---

1) Rask gizkaði dyn.

Láðs rupla fè fríðu    sverða sækinjörðu
fornbauga herdraugar    sèr veslari heslis [1].

Kallaðir eru menn morðúngar (rètt. njörðúngar) eða nárúngar, miðjúngar eða strengjandi víga eðr verka. Svo kvað Sighvatr:

Undr láta þat ýtar    skenjörðúngum skorðu
eigi smátt, er mátti-ð    skýlauss röðull hlýja [2].

Hvern karlmann má kalla feiti eða fæði hræfugla eðr varga, svo ilrjóð eða gómrjóð. Svo kvað Arnórr:

Austan komtu með allra hæstum
(yggjar márs) í þrænskar bygðir
(fiðrirjóðr!) [en fjandmenn yðra
fálma kváðu] ægishjálmi [3].

Svo kvað Rögnvaldr:

Hvat mun ek yðr eðr öðrum
úlfbrynnindum kynna
(heiðs lofa ek hilmi [4] blíðan
háranns), nema guð sannan?

Maðr er kendr fleygir ok fergir; heitir ok hreytir, mýgir ok meiðir, sækir ok særir, sökkvir ok slöngvir, vælir ok veitir, ægir ok ótti. Svo kvað Arnórr:

(Ótti) kunnit elgjum hætta
æðiveðrs um skelfdan græði
(fengins gulls!), eðr fæðit ella
fremstan aldr und drifnu tjaldi [5].

Þessum heitum skal kenna mann til gulls eðr vopna. Svo kvað Ólafr Leggsson:

Gjarn em ek máls um, mörnar,
mæríng, þann er blik særir.

Svo kvað Snorri Sturluson:

Hann á höpp at sýnni,    hann vèlir blik spannar [6].

Kenna skal mann heitum Óðins öllum, ok allra Ása heitum. Vel þikkir kent til álfa; kent er ok til jötna eðr dverga. Svo kvað Gestr:

Gestr hefir geitis [rastar    (dundi djúpra benja
galdrs miðjúngi skjaldar    dögg) röskligast höggvit [7].

Hèr er maðr kendr við jötun. Sem Sturla Þórðarson kvað:

Risa tóku lángir laukar
lindar álfs við gými sjálfan [8].

---

1) Hèr getr óaldar þeirrar, er var á Íslandi, þann tíð er Magnús minniskjöldr var konúngr í Noregi (1319-1365). 2) Hkr., Ól. helga s., 239, 2: Fms. 5, 81, 2. 3) Hkr, Magn. góða s. 2, 2: Fms. 5, 119, 3: 6, 24. 4) getg., hjálmi, Ob. 5) Fms. 6, 196, 2. 6) Háttat. 40. 7) Ísl. sögur (1847), 2, 300. orðam. 1. 8) Frá [er bætt við eptir Laufásseddu.

*(Brot eptir Ob, sjá bls. 109. l. 9. hèr að framan).*

. . . . . svarðar ok heyrnar, augna ok munns, ok alls þess er á höfði er: sverð Heimdallar: er ok rètt, at nefna sverðsheiti hvert er vill, ok kenna til nokkurs heitis Heimdalls. Svo kvað Bjarni A. son:

Varð þat, er fylkis færðu, (gjör var heipt) or hjörvi
fárverk, brámerki Heimdalls viðir seima.

Hèr er sagt, at augu eru köllut merki brúna. Höfut er kent himinn eða hús, höll eðr snekkja heila ok alls þess, er í höfði býr. Svo kvað Bjarni:

Svo at ýdróttum áttu rams af reikar himni
els rekninga þèlar rauð svörf ofan gnauða.

Svo kvað Skáldþórir:

Dýrgleifar kom dúfa meginskjöldúngi mildum
dags ok krisma lagði mæt í hattar stræti.

Svo kvað Snorri Sturluson:

Holt felr hildigelti gulls í gemlis stalli
heila bæs ok deilir gunnseið skörúngr reiðir [1].

Auga heitir litr, sjón, viðrlit. Þau má svo kenna, kalla sól ok túngl, skript eðr skjöld, ljós eður lopt, gler eðr gimsteina, stein eðr stjörnur, gull eðr geisla, ok alla birti, og kenna til brá eðr brúna, hvarma ok ennis. Svo kvað Einarr Skúlason:

Ok fyrst, þeir er lög lestu, (hætt mál var þat) heila
leyfðar kröf or höfði himintúngl fírar stúngu [2].

Hèr er hauss kallaðr himinn, en augu túngl þess himins. Svo segir í Morginsól:

Hefka ek opt (en æfi ennileiptr af unnar
á ek fljóðs lofa góða) eldspöng degi löngum.

Svo kvað Egill:

Við því tók, sökk sámleit
en tíru fylgdu síðra brúna [3].

Svo kvað Úlfr Uggason:

Innmáni skein ennis Áss skaut ægigeislum
öndótts vinar banda. orðsæll á men storðar [4].

Brár má kalla hrís eðr gras hvarma eðr augna. Svo kvað Ólafr Leggsson:

Hög leit hvarma skógar hlaðnorn við mèr stjörnum.

Grát eðr tár má kalla hagl eðr el, regn eðr dropa: skúrir eðr forsar augna eðr kinna, hlýra eðr brá eðr hvarma. Svo segir í Maríuflokki:

---

1) Háttatal, 2. 2) Geisli, 56. 3) Egilssaga Skallagr., í Arinbj. dr. 8. 4) sýnist vera fyrri vísuhelmíngur við vísuhelmínginn bls. 97, 8.

Knáttu mörg á mergjar
mjöðkarms furu hvarma
hirðsamnaðar himna
hrynregn sali dynja.
Busti beggja rista
barmskúr ofan hvarma
fljóðs á frægja meiða
fjölglyggs himintyggja;
vann sú, er kænst er kvenna,
kvölbannaðar manna
eljun undir stóla
iltún þvegit brúna.

Hár heitir lá, ok haddr þat er konur hafa. Hár er svo kent, at kalla skóg eðr akr eðr gras, eðr viðarheiti nokkuru, ok kent til höfuðs eðr hvirfils, hlýrs eðr vánga, hnakka eðr reikar, svarðar eðr ennis. Svo kvað Snorri Sturluson:

Kom ek inn, þar er sat svanni
svanna enstr í ranni;
gerðr leysti sú svarðar
svarðakr raðar garði.

Svo kvað bróðir Árni:

Skafa sveinar klif krúnu:
kveðr eik meðan reikar:
hjúgr þyrnir hnígr hjarna
(hafskíða stafir ríða):
þola hlusta köl kvistir:
kná skalla rá falla:
ölr kríngist vel vánga:
venr skarði grön svarðar[1].

Kalla má ok snjó eðr mjöll hauss eðr svarðar. Svo kvað Einarr:

Hrynja lét hin hvíta
hausmjöll ofan lausa
strind örriða strandar
stalls af . . . . .[2].

---

## 2. [Viðbætir eptir skbr. 748 og 757, afskr. Grunnav. Jóns].

*Hèr er lykt þeim lut bókar, er Ólafr Þórðarson hefir samansett, ok upphefr skáldskaparmál ok kenníngar, eptir því sem fyri fundið var í kvæðum höfuðskálda, ok Snorri hefir síðan samanfær(a látið).*

Skáldskapr er kallaðr skip dverga ok jötna ok Óðins, ok fundr þeirra ok drykkr þeirra; ok er rètt at kenna svo, ef vill, bæði skip ok drykk, sem annarstaðar í skáldskap, ok eigna þeim.

---

1) Þannig eitt handrit; jarðar, afskr. Grunnav. Jóns; skarða, Rasksedda. 2) Rask bætti við haddar fjalli; heldur vildi eg skarar fjalli.

En skip má kalla dýraheitum ok fugla ok hesta, ok kenna við sæ ok allan reiða skips, en kalla hestaheitum einum, ef við sækonúnga er kent.

Drykk má kalla sævarheitum öllum ok fjarða, bylgna ok vatna allra, ok kenna til horna eðr ölkera, munns eðr góma, tanna eðr túngu.

Dverga ok jötna er rètt at kalla þjóðaheitum öllum ok sækonúnga, ok svo gram ok vísa, ok slíkum öllum, ok kenna dverga til steina eðr urða, en jötna til fjalla eðr bjarga.

Steina má kalla bein jarðar ok sjóvar ok vatna, en hús dverga, en grand þeirra Hamdiss ok Sörla. Ekki skal þat kenna, sem sjálfs síns nafni er nefnt, en þat skal eitt kenna, sem annars nafni er nefnt, en sjálfs síns.

Orustu má kalla namni nokkurs háreystis skarksamligs, glaum eða hljóm, kenna við herklæði eða vopn eða hlífar, ok því meirr, at þá skal kenna við Óðin eða sækonúnga, ef vill.

Skjöld má kalla sólarheitum ok túngls, himins ok skýs; kalla má hann ok vegg eða garð, bálk ok brík, hurð ok gátt, þili ok grind, hleða ok segl, tjöld ok refil, ok eigna jafnan orustu eða Óðni eða sækonúngum.

Öll herklæði eru föt Óðins ok sækonúnga.

Öll höggvopn má kalla eldsheitum, eðr annarar birti, sem leiptr eðr ljós, ok kenna við Óðin eða orustu eðr sækonúnga, herklæði eðr hræ,[1] ok við ben eða blóð. Öll vopn eru tröll ok vargar ok hundar herklæða ok hlífa; en lagvopn má kalla fiskaheitum ok orma, ok kenna við herklæði ok hlífar, sár eðr blóð.

Blóð er kallat sjávarheitum ok vatna, ok kent við hræ eðr ben, sár eðr undir.

Sjó má kalla garð landa eðr men, band ok belti, lás ok fjötr, hríng ok boga; kalla má hann ok heim sækykvenda, hús ok jörð ok götu sækonúnga ok skipa.

Ormr sá heitir Miðgarðsormr, er liggr um lönd öll utan; Því er rètt at kenna orma alla svo til landa, sem sjó, ok kalla band eða baug jarðar. Orma er rètt at kalla fiskaheitum ok hvala, ef þeir eru kendir við láð, við, raun, gras, grjót, gljúfr eðr heiðar.

Orma jörð er gull, rekkja þeirra ok gata. Gull skal einn veg kenna til handar ok sjóvar ok til vatna allra; kalla eld

ok sól, túngl ok stjörnu, kyndil ok kerti, dag ok leiptr, geisla ok blik, ok við alla birti. Enda má gull kenna til snæss ok íss, ok kenna þá til handar. Baugr er fjötr handar, ok hánki ok virgill. Gull er korn eðr meldr Fróða konúngs, en verk ambátta hans tveggja, Fenju ok Menju; en sáð Kraka konúngs, ok fræ Fýrisvalla, byrðr Grana, haddr Sifjar, tár Mardallar, mál jötna. Hríngr heitir Draupnir, fyrir því at hina níundu hverja nótt draup af honum annarr hríngr jafnhöfigr honum; því er gull sveiti hans.

Hönd er hauka jörð, ok gata þeirra ok hestr, skip ok stallr; heitir hönd ok mund (mynd); hönd er og böl eðr nauð boga, eðr töng; kalla má hana fót eðr lim axlar. Rètt er at kalla höndina heitum kvikvinda, ef þau eru kend við öxlina; kalla má höndina ok taung axlar.

Svo má ok horn kalla trjáheitum, ef þau eru kend við drykkju, eðr þat sem þau eru af. Horn ok önnur keruld má kalla sjáfarheitum, skip eðr hús alls drykkjar.

Íss er himinn eða hús sjóar ok allra vatna, ok hjálmr þeirra.

Hundr er vargr eða tröll beina. Þess tröll er allt, sem þat má fara: fè er tröll fóðrs síns, en eldr þess, er hann eyðir, ok viðar; grjót ok ryð, járna; vötn, jarðar ok elds; regn eða skin, snæs ok ísa; hríðir, hjarðar.

Nótt er ángr eða sótt allra fugla.

Snær er sótt orma, ok vetr. Vetr er nótt bjarnar, en sumar er dagr hans.

Hestar tröllkvenna eru vargar, en taumar þeirra eru ormar.

Drykkr varga er dreyri.

Haukar ok rafnar eru hræfuglar, ok svo ernir. Rètt er aðra fugla at nefna til, ok eigna Óðni, eða kenna við orrostu eða hræ eða blóð.

Hvern karlmann má kalla feiti eða bræði hræfugla ok varga, svo ilrjóð þeirra ok gómlitut. Karla má ok kalla trjáheitum karlkendum, ok Óðins ok allra Ása, hvort sem vill lofa eða lasta, ok kenna við herklæði eða vopn, hlífar eðr orrustu, skip eða gull. En ef illa skal kenna, þá má hann kalla illra kvikvenda nöfnum karlkendra, ok jötna, ok kenna til fæðslu nokkurrar. Kalla má hann þá ok grenni svína ok alls fènaðar, svo hunda. Kalla má hann ok konúngaheitum,

ok kenna við nokkurskonar verkfæri, eða þat annat, er hann er stýrandi. Kalla lesti ok þverri alls gagns.

Konur er rètt at kalla trjáheitum kvennkendum, svo ok Ásynjuheitum, ok eyja ok landa kvennkendra, svo ok orustuheitum, svo konúngaheitum, gram eðr ræsi, ok slíkum öllum, ok kenna ávallt við gull ok glys þeirra; svo við ölkeröld ok drykkju; kenna við sjó ok stein, ef vill. Regin heita goð heiðin, bönd ok rögn; kalla má konu þeirra heitum, ok kenna. En ef illa skal, þá er hon kend við hvetvetna herfilegt, þat er hon er stýrandi; þumal ok sveipu, hryðu ok blandausu, skjóðu ok skreppu allra ódáða. Þess beðja er kona hver, sem hana á.

Hár manns má kalla viðarheitum öllum, ok grass, þess er á jörðu vex, ok kenna við svörð eðr hvirfil eðr hnakka eðr enni eðr reik eðr vánga.

Haus manns er kallaðr hús heila, en grund hjálma.

Eyru manns eru köllut skip eða sjáldr kinna eðr vánga, heyrn eðr hlustir. Eyru eru kölluð hlustar augu, eðr sjónir.

Augu manns má kalla skjöld eðr skript, eðr himintúnglaheitum, eðr annarrar birti, ok kenna við brýn eðr hvarma, kinnr eðr brár.

Nef manns er kallat inni eðr skip hors eðr hnerra.

Munnr manns er kallaðr inni eðr skip alls fróðleiks.

Svo er ok brjóst kallat inni eðr skip aldrs ok hugar ok hjarta, ok þess alls, er innan rifja er holdgróit.

Tenn eru kallaðar góma grjót.

Túnga er köllut ár eðr stýri, eðr vopnsheiti, ok kend til orða eðr góma eðr tanna.

Hjarta er kallat steinn eðr korn, hnot eðr epli, ok kent til hugar; hjarta heitir ok akarn ok eisköld. Gollorr heitir þat, er næst er hjarta manns. Hnetr heita fylvíngar.

Heimr er kallaðr hús eðr ker veðra, en himinn erfiði dverga þeirra fjögurra, er svo heita, Norðri, Suðri, Austri, Vestri. Himinn er kallaðr hjálmr eðr salr landa, en braut himintúngla.

Sól er köllut eldsheitum, ok kend til himins.

Sægr heitir sár,
en Simul stöng;
Bil ok Hjúki
bera hann;
þat er kallat,
at þau sè í túngli [1].

1) Sjá bls. 7. l. 27—31.

Or ýmis holdi
var jörð of-sköput,
en or hans sára sveita sjórr;
björg or beinum,
baðmr or hári,
himinn or hausi hans;
en or hans brám
gerðu blíð regin
Miðgarð manna sonum;
en or hans heila
voru þau hin hríðfeldu
ský öll of-sköput[1].

Þat er rètt at kalla jörð hold Ýmis, en sæ blóð hans, en heim, Miðgarð, brár hans, en ský heila hans.

[2] Kvern heitir Grotti, er átti Fróði konúngr; hon mól hvetvetna, þat er hann vildi, gull ok frið. Fenja ok Menja hètu ambáttir þær, er mólu. Þá tók Mýsingr sækonúngr Grottu, ok lèt mala hvítasalt á skipum sínum, þar til er þau sukku á Pentlandsfirði; þar er svelgr síðan, er sær fellr í auga Grottu; þá gnýr sær, er hon gnýr, ok þá varð sjórinn saltr.

## *Frá Fenrisúlfi.*

[3] Amsvartnir heitir vatn, en Lýngvi hólmr í vatninu, en Síglitnir hvoll í hólminum; en Þviti heitir hæll, er stendr í hvolinum, en Gnjöll heitir rauf, er boruð er á hælinum. En Hræða heitir festr, er Fenrisúlfr er bundinn með, ok er henni drepit í gegnum raufina, en Gelgja heitir spýta sú, er fyrir er stúngin. Fjötrinn heitir Gleipnir, sá sem honum heldr; gervir voru tveir fjötrar til hans, þeir Drómi ok Læðíngr, ok hèlt hvargi; þá var gerr Gleipnir or sex hlutum:

Or kattar dyn
ok or konu skeggi,
or fisks anda
ok or fugla mjólk,
or bergs rótum
ok or bjarnar sinum:
or því var hann Gleipnir gerr.

Því er þat ekki eptir síðan, at þat var þá allt til haft. Ár tvær falla or munni honum, heitir önnur Víl, en önnur Vǫn, ok er því rètt at kalla vötn hráka hans; en Gjölnar heita granar hans.

## *Kenníngar gulls.*

[4] Svo er sagt, at konúngr sá, sem rèð Hálogalandi, er nefndr Hölgi; hann var faðir Þorgerðar Hölgabrúðar. Þau voru bæði blótuð, ok var haugr Hölga svo kastaðr, at þar var önnur hver af gulli ok silfri, þat var blótfe; önnur hver fló var af moldu ok grjóti.

---

1) Vafþr. 21: Grímn. 40. 41. 2) Sjá bls. 78—79. 3) Sjá bls. 19—20. 4) Sjá bls. 83.

*Capitulum.*

[1] Svo segir í bók þeirri, sem Edda heitir, at sá maðr, er Ægir hèt, spurði Braga skáld meðal annara luta, á hversu marga lund Æsir breytti orðtökum skáldskaparins, eðr hversu mörg væri kyn hans. En Bragi svarar: tvenn eru kyn þau, er greina allan skáldskapinn. Ægir spyrr: hver tvenn? Bragi svarar: mál ok hættir. Ægir spyrr: hvert máltak er haft til skáldskapar? Bragi svarar: þrenn er grein skáldskaparmáls. Ægir spyrr: hver þrenn? Bragi svarar: sú er ein, at nefna hvern hlut, sem heitir, ok er sú grein svo sett, at vèr köllum Þór eða Óðin eðr Tý, eðr einhvern af Ásum eðr Álfum; ok hvern þeirra sem ek nefni til, þá tek ek með heiti af eign annars Ássins, eðr ek get hans verka nokkurra, þá eignast hann nafnit, en eigi hinn, er nefndr var; svo sem þat er, at vèr köllum Sigtý eðr Hángatý eðr Farmatý, þá er þat Óðins heiti, ok köllum vèr þat kent heiti; svo ok at kalla Reiðartý. [2] En þetta er at segja úngum skáldum, þeim er girnast at nema mál skáldskapar ok heyja sèr orðafjölda með fornum heitum, eðr kunna at skilja, þat er myrkt er kveðið ok hulit: en eigi skulu kristnir menn trúa á heiðin goð, ok eigi á sannindi þvílíkra frásagna, öðruvíss en svo sem skrifat finnst í fyrsta capítuló [3] greindrar bókar, þar sem segir af skapan himins ok jarðar, ok allra hluta, er þeim fylgja. Þar segir ok af því, er mannfólkit viltist svo, at í upphafi heimsbygðarinnar kunnu fáir menn deili á sínum skapara; ok miklu fleiri hlutir eru þeir þar greindir, sem trúlegir eru ok sannlegir.

---

*Konúnga heiti.*

Man ek haukstalda
heiti segja:
allvaldr, fylkir
ok afraki;
bragníngr, öðlíngr,
buðlúngr, döglíngr;
öðlíngr ok gramr,
jöfurr ok tiggi.
Hildíngr ok harri
ok hertogi;
mæríngr, hilmir,
mildíngr ok norr;
lofðúngr, niflúngr,
ok landreki;
þengill, vísi,
þjóðan, konúngr.
Sinnjor, siklíngr,

---

1) Sjá bls. 49. 2) Sjá bls. 154. 3) Sjá bls. 144—153.

sjóli, ræsir,
skjöldúngr, skilfíngr,
skyli ok ýngvi;
ýnglíngr, ylfíngr,
ok eru nú talit
höfutskjöldúnga
heiti nokkur.

*Dverga heiti.*

Tel ek motsogni
ok mjöklituð,
miðvið, muninn
ok mjöðvitnir;
blinviðr, búinn[1],
bumburr, nýi:
bivorr, bavorr[2],
bláinn ok norðri.

Grímr, nár, niði,
níðhöggr[3], dvalinn:
náinn, næfr, nefi[4],
nýfengr ek dólgr;
nýráðr ok nýr,
norðri ok suðri:
skaver[5], skafiðr,
skirfir, virfir.

Alþjófr, austri,
aurvargr ok dúfr:
ái, andvari[6],
önn ok draupnir;
duri[7] ok dagfinnr,
dulinn ok onarr,
álfr ok dellíngr,
óinn ok durnir.

Vindálfr ok vitr,
vivri[8], æi[9]:
varr, göllmævill[10],
viðr ok ölni[11];
ginarr ok þrórr,
gandálfr, þorinn:
þekkr, þrárr, þulinn,
þrasir ok fullángr.

Fáinn, fárr, fili,
fjölsviðr, glóinn:
fiðr, hárr, farli,
frosti ok tjúrgr[12];
hanarr[13], fjörvi[14],
heptifili,
heri, hagstari[15]
ok hornbori.

Hljóðólfr, kili,
hildíngr ok litr:
ráðspakr, lofarr,
reginn ok ljómi;
ráðsviðr, lóinn,
rekkr ok eitri:
toki[16], eggmóinn,
eikinskjaldi.

*Óðins heiti.*

Nú skal yppa
Óðins nöfnum:
Atriðr, Auðunn
ok aldafeðr;
Gizurr, Kjalarr,
Gautr, Viðrmímir[17]:
Gollor, Ginnir[18],
Gunnar[19], Hnikuðr.

Fjölnir, Dresvarpr,
Fengr, Arnhöfði:
Fráríðr, Alföðr,
ok Farmatýr:
Herjan, Fjölsviðr,

---

1) burinn. 2) blavorr, blavi. 3) níðhögr, niðǫttr. 4) neri. 5) skavær. 6) andvarri. 7) dori. 8) vivir. 9) ore, ari. 10) gullmæfill. 11) ølin. 12) tiggvi. 13) hanverr. 14) forvi. 15) hǫgstari, hugstarer. 16) Jaki. 17) Viðrímnir. 18) Grimnir. 19) Ginnarr.

Hnikarr, Fornelfr[1]:
Hroptr, Hjálmberi,
Hárr, Fjallgeiguðr.
Grímr, Gapþrosnir,
Gángráðr, Svipall:
Glapsviðr, Genglir[2]
ok Gángleri;
Herteitr, Harbarðr
ok Hroptatýr:
Geiguðr, Goldnir[3]
ok Geirloðnir.
Hleifruðr[4], Hávi,
Hagyrkr, Sviðuðr:
Síðhöttr, Svafnir[5],
Sigföðr, Þrasarr;
Hrammi, Hjarandi
ok Hengikeptr[6]:
Hrossbársgrani,
Hrjótr[7], Tvíblindi.
Þroptr, Herblindi[8]
ok Herjaföðr[9];
Hvatmóðr, Hlæfreyrr[10],
Hveðrúngr, Þriði;
Göllúngr, Bileygr
ok Geirölnir:
Vöfuðr, Valföðr[11],
Víngnir ok Rögnir.
Sviðurr ok Skollvaldr[12],
Sígautr, Viðurr:
Sviðrir, Báleygr,
Sigðir, Brúni;
Sigmundr, Svölnir[13],
Síðskeggr ok Njótr:
Ölgr, Biblindi[14]
ok Ennibrattr.
Bölverkr, Eyluðr,
Brúnn, Sanngetall:
Þekkr, Þrúðr, Ómi,
Þrundr ok Ofnir;
Uðr, Jǫlnir, Vakr,
Jálkr ok Lángbarðr:
Grímr ok Loðúngr[15],
Gestumblindi.
Sigtryggr, Jörmunr[16],
Saðr, Gunnblindi:
Jafnhárr, Óski,
Jǫlfǫðr ok Þrórr;
Ývíngr[17]; Skilfingr,
Óðinn, Tveggi:
Veratýr, Sigþrórr,
Valgautr ok Yggr.

*Heiti sona Óðins.*

Burir ro Óðins
Baldr ok Meili:
Viðarr ok Nepr[18],
Vali, Ali;
Þórr ok Hildólfr,
Hermóðr, Siggi:
Skjöldr ok Öldnir[19]
ok Itreksjóð.
Heimdallr, Sæmíngr,
Höðr ok Bragi:
heitir Atli[20]
ok Ennilángr,
Þórr, Eindriði
ok Ásabragr,
Björn, Hlórriði
ok Harðveorr,
Víngþórr, Sönnúngr,
Víngþærr ok Rymr.

---

1) Fornölvir. 2) Gangler. 3) Göllnir. 4) Hlæföðr. 5) Svefnir. 6) —kjöptr. 7) Hrjóðr. 8) Helblindi. 9) Herjansföðr. 10) Hlefíngr. 11) Vafföðr. 12) Skoldvaldr. 13) Sölner. 14) Biklindi. 15) Löndúngr. 16) Jörundr. 17) Ýrúngr. 18) Nefir, Nefr. 19) Ölnir. 20) Ali.

*Viðaheiti.*

Viðr, yllir[1], tág
víðir, selja:
pors, mörk, ölviðr,
plóma, spíra;
björk, viðvindill,
beinn[2], fjallrapi;
búss, hlynr ok bók,
beinviðr, mǫpurr[3].
Hasl, heggr, hallarr,
hagþorn, reynir:
ro, álmr ok rót,
reyrr, askr, fyra[4]
apaldr, ösp, lárus[5],
úlfviðr, lykkja:
eik, einir, píll,
elrirr[6], pálmarr.
Lind, lág ok linni,
lýng, skíð, þera[7]:
þöll ok þyrnir,
þinur, storð ok klúngr;
mösur ok grön[8] tvenn
ok marhrísla:
ilstri, vínviðr,
jostr, *cypressus*.

*Túngls heiti.*

Alskírr, geisli
ok eyglói:
máni, miðgarðr,
mulin, túngl ok glámr;
skýðir[9] ok skamr,
skrámr, ártali:
ný, skjálgr, *luna*,
nið, fengari.

*Dægra heiti.*

Dægr, hlyrn ok rökkr,
dagr ok lýsing:
*dies, nox*, svefngaman
ok drǫmnjǫrun[10];
nótt, nis, gríma,
njól, myrkfara:
óljós, draumvör,
*emisperium*.

*Himins heiti.*

Heimr, hreggmímir,
himinn, skatyrnir[11]:
vindbláinn, andlángr
ok vettmímir[12];
víðbláinn, gímir,
víðfeðmir, hrjóðr:
hlyrnir, leipthrjóðr[13]
ok heiðornir.

*Veðra heiti.*

Veðr, byrr, vönsuðr,
vindr, dreki:
glygg, blærr ok gustr,
grap, logn, þoka;
regn, úr, rota,
ríð, mörkvi, el:
fjúk, fok, mugga,
frost, kári, hregg.
Gönsurr, gráði,
gol, ofviðri:
gjósta, grindill[14],
gæla ok óhljóðr[15];
gnegjuðr[16], gönsuðr,
gǫ, dynfari:

1) ullir. 2) basinn, basin. 3) mösurr. 4) fura. 5) laurus. 6) elvirr, elvi. 7) fura. 8) græn. 9) skyndir. 10) drömnjörun. 11) skatynir. 12) vetrimnir, vetrmímir, vetmímir, vætmímir. 13) leiptr, hrjóðr. 14) grandill. 15) óljóðr. 16) geiguðr.

hlömmuðr, ganrekr,
húsbrjótr ok þjótr.

*Elds heiti.*

Gims heiti vil ek
greppum segja:
ægisbróðir
ok elreki:
eldr, eimr, usli,
uði, herkir[1]:
hrǫtuðr[2], hrótgandr[3],
hrímnir[4], eimi.
Leygr, vafrlogi[5],
linnr ok farri:
brandr, fýr, tusi,
brími, nertill;
viti, eimyrja,
velannfasti:
funi, hyrr, fæðir,
furr ok eisa.
Freki, ölgrseti[6],
feykir, ysja:
hröðuðr[7] ok hörvir,
harkr, forbrennir;
hrapi, myln, logi,
hripuðr, aldrnari:
kyndr, bálveginn,
kveyktr ok buði[8].
Brísíngr, brenna,
blossi, gneisti:
gnipall, glæðr, duni,
geiri, tandri;
dunsuðr, dini,
dusill ok snæra.
Nú eru sex tigir
seiðiss[9] heita.

*Orma heiti.*

Skal ek eitrfá
orma telja:
ornir[10] ok ofnir,
ǫlirr[11], japra;
furr[12], flugdreki,
fofnir, ori[13]:
fræníngr ok áll,
fenginn ok óinn.
Grafvitnir. fánn,
góinn, holtskriði:
grafníngr, grettir,
grábakr, trani:
grímr ok grafþvengr,
gargan, eitrúngr:
hríngr, holdvarinn[14],
haugvarðr[15], dreki.
Níðhöggr, náinn,
niðr, holdvari:
lángbarðr, lýðir,
linnr, heiðbúi;
strykr, steinbúi,
stýrir, svafnir;
snákr[16] skorpíó[17],
sneldíngr[18], naðra.
Liðr, japr, bráinn[19],
linni, stefníngr
snillíngr, viðskefr[20]
ok[21] vinduðr;
raðr[22], rabía,
reimir, seimir:
móinn, dalginna,
ok Miðgarðsormr.

*Hesta heiti.*

Glaðr, glær, gyllir[23],

1) skerkir. 2) hrotuðr. 3) hrótgarðr (r. hrótgarmr). 4) hrímir. 5) vofrlogi. 6) ölgr (elgr), seti. 7) hroðúngr. 8) busi. 9) seyðiss. 10) óinn 11) ólitr. 12) fyrr. 13) erki. 14) hollvarinn. 15) höggvarðr. 16) skakr. 17) skorpíon. 18) snelduðr. 19) varinn. 20) viðnir. 21) særfr ok. 22) vinníngr, vinnraðr 23) gellirr.

gullinfaxi:
glitnir, gulltoppr,
gisl, skeiðbrímir;
silfrtoppr, símir,
sleipnir, skevuðr[1]:
goti, skinfaxi,
grani, stúfr ok skær[2].
Fákr, lèttfeti,
fjörsvartnir, valr:
fengr, falófnir,
fetmóðr ok lúngr[3];
vakr, víglitnir,
vindr, tjaldari:
veðr, víðir, vigg
ok vegdraupnir.
Vegbjartr, hölkvir
víngskornir[4], rafn[5]:
alsviðr, alvarr[6],
árvakr, drasill;
blakkr, bölþvari,
bráinn, hástigi:
marr, jór, bautuðr,
mór, jǫrmuni.
Móinn, hastr[7], fjötri,
móðnir, roni:
alsvartr, apli,
askr, málfeti;
blóðhófr, hamskarpr[8]
brúnn, hófvarpnir:
vígr, skinfaxi,
virfill, hrímfaxi.

*Hauks heiti.*

Haukr, hamdir, harmr,
hábrók, tregi:
heiðir, heimþer[9],
hrimnir, kolgíng[10];
ginnarr[11] gamdir
ok geirloðnir:
göllungr[12], ginnungr
ok gaglhati.
Yrligr, ymir[13],
undskornir, valr:
ifjúngr ifli[14],
veðrfölnir;
forseti, viðnir,
fjörsúngr, þrömmúngr:
ölgr, mútari,
ǫglir[15], sauðnir.

*Hrafns heiti.*

Hrafn, holdbori,
huginn, óværi:
blængr, liti,
borginmóði;
hornklofi, viti,
klóakan[16], krákr,
drukr, muninn,
korvuss, geri;
krummi, krumsi,
korpr, boríngi:
spori, ártali
ok árflognir.

*Hana heiti.*

Fegríngr, hani,
fjalarr ok áslákr:
kokr, salgofnir,
kambr, viðofnir;
gylmir, *gallus*
ok *gallina:*
hæna, keila,
hábrók, kaða[17].

---

1) skeyuðr, slevöðr. 2) skærr, skerr. 3) hríngr. 4) vígskornir. 5) hrafn. 6) afarr. 7) hestr. 8) háskarpr. 9) hemdir. 10) köglíng. 11) gimnar. 12) golkíngr. 13) ginir. 14) ifill. 15) öglir. 16) kjalakan. 17) skaða.

*Arnar heiti.*

Örn, gallofnir
ok andhrímnir,
hræsvelgr ok hreggskornir;
egðir, kumrar [1]
ari, blindviðnir [2]:
arnkell, gemlir [3]
ok *aquila.*

*Fugla heiti.*

Gammr, grípr, gaukþjórr,
gaukr, sviplekja:
grágás, heimgás,
gagl ok helsíngr;
geirfugl, geitúngr,
glęða, doðr, kvisa:
ari, nagr, arta,
álpt, már ok haukr.
Óðinshani, álka,
önd, hrossagaukr:
hramn, hæns, himbrin,
hryggjarstykki;
héri, hani, hæna
ok hilduri:
úfr, valr, smyrill,
ugla, skurfir.
Svörr, storkr, súla,
svarr, skaði, sparrhaukr:
stelkr, spörr, svala,
steindelfr, spiki;
skúfr, spói, sæðíngr,
skarfr ok svartbakr:
skeglíngr, skíði,
skjöldúngr, pái.
Karn, igða, kjalarfugl,
kráka, dúfa:
þröstr, þiðurr, þerna,
þeisti, dunna;
trana, tjaldr, titlíngr,
tyrðilmúli:
lómr, lævírki
ok leðrblaka.
Lángvę, lundi,
lóa, fjölmóði:
fýlíng, lóþræll,
friggjaręlda;
rindilþvari, líri,
rjúpa, fjallrota:
jarpi, ertla
ok jaðrakarn.
Akri, doðka,
æðr ok nætíngr:
kreppíngr, flóðskítr,
kjarfilki [4], spætr;
meisíngr, ýfingr,
mýrisnípa:
ritr, hængivakr,
rívanskinna.
Hrókr, gjóðr, hegri
ok haftyrðill:
brandgás, hrotgás
brimorri, márr;
sendlíngr, skrýtíngr,
snæfugl, skári:
vakr, valr, dúfa,
vallófr, stari.

*Kvennaheiti ókend.*

Þessi skal kenna
kellu heiti:
Sága, Sigyn,
Síf, Þrúðr, Iðunn;
Frigg ok Bestla,
Fulla ok Nanna:
Gefjon, Hörn [5],
Gerðr ok Laufey.

---

1) kinnarr. 2) blindvitnir. 3) gelmir. 4) kjarfuni. 5) Hóra.

Reið, selja, strind,
rein, skorð ok fjörn:
björk, veig ok þöll,
brík, þópta, Gefn;
lág, grund ok líð,
lodda, broka:
fit, norn [1], . . . . ,
fold, þírr ok lind.
Sól, fjötra, spaung,
Sjöfn, Nauma, Rindr:
Eir, Þella, List,
Ilmr, tróða, dís;
Njörn, Vör ok fríðr,
nipt, Rán ok Bil:
Líkn, Hlín ok Sýn,
Lofn ok Gná.

*Hugarheiti ok hjarta.*

Móðr, hjarta, negg,
munr, hugr, sefi:
geð, heil, sjafni,
gollorr ok eljun.

*Grýlu heiti.*

Skolli, slapparðr
ok skaufhali:
skollr, melrakki,
skaufi, grýla;
enn er refr ok skröggr,
öldúngr, dáinn;
laufa fettir,
fóa, brunnmigi.

*Heiti á hendi.*

Heiti eru handar
hrammr, dyr ok ravkn:
greip, mund ok spönn,
gaupn ok hreifi;
úlfliðr ok fíngr,
armr, leggr ok bógr:
lámr, hnefi, lófi,
loppa, krumma.

*Heiti Valkyrja.*

Man ek Valkyrjur
Viðris nefna:
Hrist, Mist, Herja,
Hlökk, Geiravör;
Göll, Hjörþrimul,
Guðr, Herfjötr,
Skuld, Geirönul,
Skögul ok Randgníð.
Raðgríð, Göndul,
Svipul, Geirskögul:
Hildr ok Skeggöld,
Hrund, Geirdriful;
Ranngríðr ok Þrúðr,
Reginleif ok Sveið:
Þögn, Hjálmþrimul,
Þrima ok Skálmöld.

*Kvennaheiti ókend.*

Braut er *svarri* ok *sæta;*
sveimar *rygr* ok feima;
*brúðr* er í för með fljóði;
fat ek *drós* ok *man* kjósa.
þekki ek *sprund* ok *sprakka;*
sparik við *hæl* at mæla;
firrumst ek *snót* ok *svarra;*
svífr mèr lángt frá vífi.
Blíð er *mær* við *móður,*
*mála* drekkr á *ekkju,*
kvíðir *kerlíng eiðu,*
kveðr *dóttir* vel *beðju;*
opt finnr *ambátt höptu;*
æ er *frilla* gröm *sveru;*

1) Hèr sýnist vanta orð.

kiljar *kvon* ok *elja;*
kann *nipt* við *snör* skipta.

*Eyja heiti.*

Bókn, Körmt, Brísíng, Vikna,
Brúa, Hírar: Dun, Síri:
Sotr, Þömb: Selja, Hitrar:
Sigg, Rott: Bataldr, Þjótta,
Vigr, Storð, Vörl, Röð, Lygra;
Veig, Fenríng, Tjǫr, Senja;
Hveðn, Vað, Hísíng, Friðnar;
Höð, Borgund: Smyl, Torgar.
Brattr er baldrekr Þjóttu,
berr vindr Raðar linda,
víðgyrðill þýtr Vörðu,
veltr Fenríngar belti.
yglist umgerð Huglar,
ólmr er grásili Stólmar,
fleygir Bólmar baugi,
brakar Lygru men nakvat.
Blár er baldrekr Síra,
Brúgyrðill þvær fyrðum;
sundr springr Lygru lindi,
Leku velt af þröm belti.
Kjöl skolar Karmtar helsi,
klýfr stjórn sila Þjórnar;
börð skera Gizka girði,
grafast borð í men Storðar.

*Eyjaheiti.*

Ey, Ömd ok Örmst,
Öllum-lengri;
Horn, Hrund ok Hugl,
Herðla, Ívist;
Hveðn, Hrafnista,
Hísíng, Skrofa:
Mön, Mǫst, Hasley,
Mýl, Stólm, Bataldr.
Selja, Sólrönn
ok Sortuland,
Sigg ok Salarey
ok . . . . . . . .
Saga, Láland,
Salbjörn, Leka:
Skíð, Strind ok Vigr,
Skólm ok Aldi.
Krít, Kípr, Lygra,
Körmt, Röð, Bjarkey:
Hæríng, Gyllíng,
Hugró, Varða;
Lauga, Lygra,
Lág ok Gizki:
Þriðna ok Þjótta,
Þruma, Kinn ok Hrott.
Nös, Dyn, Nauma,
Nála, Nörva:
Fólskn, Frigg, Fætiler,
Fenríng ok Mön;
Bólm, Bókn, Raufa,
Bönn, Sekk ok Vörl:
Álǫst ok Storð,
Jala, Tjör, Veey.
Örn, Íl ok Rist,
Íra, Lodda:
Sólund, Síri,
Sólskel, Mjǫla;
Hlèsey, Veðrey,
Hítra, Frosta:
Lóend, Vikna,
Lág, Syllíngar.
Fjón, Fjölbyrja,
Frikn ok Senja:
Sælund ok Dímun,
Sæla, Þumla;
Usna, Sjóland,
Askrǫð ok Síld:
Ála, Borgund,
Erri, Torgar.
Hæl, Rǫkstr ok Falstr
ok Helliskor:

Asparnir, Hín,
Jólund ok Hánki;
Mársey, Sámsey,
Mystr ok Víngi:
Hlèsey, Hèðinsey
ok Hnotirnar.

*Fjarða heiti.*

Fjörðr, Sogn, Jali,
Fold, Ófoti:
Ángr, Harmr, Tregi,
Eitri, Vefsnir;
Harðángr, Stafángr,
Heyjángr ok Glaumr:
Goðmarr, Harðsær,
Grenmarr, Hroði.

*Sáðs heiti.*

Akr, ax, sæði,
ögn, barr ok hálmr:
áll, efsta knè,
eigin - skotblað;
blað, knè ok rót,
bygg, rúgr ok sáð;
korn, ginhafri,
korki, barlak.
Grjón ok valbygg,
gróska, dumba:
hveiti, hirsi,
hjálmr, skrúf ok mjöl
bendill, heslar,
bundin, sáðkorn:
flumr, ömstr, þrefi,
frækorn, gnjóði.

*Nöfn Ǫgisdætra.*

*Dröfn* skylr stál, þar er stafni
straumfylgin þvær *Bylgja;*
*Hefring* brestr, en hristir
*Himinglæfa* mar sæfar.
*Hrönn* dregr grönn or grunni,
gadd svelr *Blóðughadda;*
elg venr *Uðr* ok *Kólga*
egghúfs við glym *Dúfu.*
Hjarta heitir eiskǫld, sem
kvað Illugi Bryndœlaskáld:
Enn hèlt úlfa brynnir
eiskaldi framar beisku;
mildr rèð orms um eldi
æstr för þaðan görva.
Þat er *sarkat,* er roð-
it er, sem Hallfröðr kvað:
Kunni gramr at gunni
gunnþinga járnmunnum
(margr lá herr um höggvinn)
holl barkat rásarkat [1].

*Frá híbýlum Heljar.*

*Eljúðnir* heitir salr hennar; *gyllingr,* lykill hennar; *Húngr,* diskr; *sultr,* knífr; *affeldr,* spónn; *hnípinn,* akr; *gángluti,* þræll; *gánglöt,* ambátt; *viðopnir,* garðr; *gjallandi,* grind; *lati,* láss: *blikjanda böl,* hurð; *brotaböl,* þresköldr; *forað,* tjald; *fallanda forað,* forfall; *kör,* rekkja; *körbeðr,* dýna; *frostopna,* kista; *vaníngi,* hundr; *gérfótr,* (hani?); *hryggr,* hestr. Ýglǫð, Ömd.

---

1) Fms. 2, 313, 2.

*Klæðaheiti.*

Einhagi (*slæða*); helfni (*vefjar upphlutr*); tasla (*týgill*); fáng (kyrtill); síðerni (serkr); ripti (s.): veipa (*s.*); lína (*s.*); skeptíngr (höfuðdúkr); motr (*h.*); meðja (*h.*); vimpill (*h.*); ífíngr (*h.*); loðdúkr (*h.*); stafn (*h.*); sveipr (*h.*); ísúngr (*h.*); skúfr (*h. k.*); visl (*h. h.*); dólpr (*k.*): gjarða (*L.*); falda (*k.*); skypill (*h.*); veipr (*h.*); færma (*f.*).

Jótr (*jaxl*); vöf (*hríngar*); vartari (*þvengr*); jǫln (*goð*); brý (*trǫll*); eiða (*móðir*); nipt (*systir*); baðmr (*viðr*); mjötuðr (*bani*); glý (*gleði*). Slækidrengr; sarkat, *roðit*.

*Steinn.*

Sindrsteinn; sísisill; bívivill; bleskr; kogðir; mögðir; gýfíngr. Nagli: darraðr (*í m.*); jalfaðr, aurmulinn, eyþolinn (*í k.*); mellíngr (*í s.*); blindíngr; þolinmóðr; fríðr; hniflúngr; regingaddi; farnagli; stagnagli; varnagli; veraldarnagli; eymylinn (*í t.*); samnagli (*í s.*); fásthaldr (*í s. t.*); þolinn. Blóðvarinn (*sjór*). Iðmǫlinn.

---

[*Brot úr málskrúðsfræði, eptir afskr. Grunnav. Jóns*].

. . . . . . . . *garð* er þat kallat, ef lengi er talat um hit sama efni, sem Guðbrandr kvað í Svölu: *Upp dregr mökk hinn mikla;* ok allar vísur, þær er eptir fara, eru af einu efni allt til stefja fram.

*Snyrða* þikir heldr bragarbót en spell, ok skulu þá standa margir samhljóðendr eptir raddarstaf hinir sömu ok síðarst *t* eða *r*, sem Einarr kvað:

Elfr varð unda gjálfri vitnis fèll með vatni
eitrköld roðin sveita; varmt öldr í men Karmtar.

*Skarbrot* er þat, ef aukit er samstöfu skamri í fyrsta vísuorði, svo at ófegra þikki, sem Ólafr Leggsson kvað:

Skúla er bezt und báli byrræfrs sköput æfi.

---

## 3. Kaflar

úr Eddubók þeirri, er sèra Magnús Ólafsson í Laufási (1573—1636) samansetti eptir stafrófsröð.

*Í arnar heitum.*

Örn kennist viðrir af nafni Óðins í arnarhamnum. Svo kvað Grettir:

Varð í Viðris firði
vígfúss á benstíga
naðr í vífils veðri
vopnhríðar fram skríða.

Kostr man köppum hraustum
Keldhverfínga at erfa;
olli hvatr or helli
Hallmundr, er ek komst undan.

## *Í dýra heitum.*

Hvert dýr má kalla annars nafni, ok kenna við athæfi sitt eðr reiði, fæzlu eðr herbergi. Svo stendr í Bjarkamálum:

Svo skal ek hann kyrkja,
sem hinn kámleita
væli viðbjarnar
veggja aldinna.

Hèr er *mús* köllut viðbjörn veggja, en *köttrinn* vælir hennar. Kend eru yxn, dýr eðr hestar skipaheitum eðr hvala. Sighvatr kvað:

Brýnd voru dör,
boga fylgdi hör,
sparn rastar knör
rádýris vör.

Hèr heitir *hestr* knör jarðarinnar.

Fljótt bað foldar drottinn
Farbauta mög vara
þekkiligr með þegnum
þrymseilar hval deila.

Hèr er *uxinn* kallaðr þrymseilar hvalr.

## *Í eyjaheitum.*

Við allar þessar eyjar er sjór kendr, ok kallaðr lindi ok belti þeirra, svo sem þessar vísur kenna, er kvað Einarr Skúlason:

Blár er baldrekr Síra[1],
ber vindr Raðar[2] linda,
víðgyrðill þýtr Vörðu,
veltr Fenríngar belti.
Yglist umgjörð Huglar,
ólmr er grásili Stólmar,
fleygir Bóknar baugi,
brakar Lygru men nakkvat.
Brattr er baldrekr Þjóttu
Bólm-gyrðill þvær fyrðum,
sundr brestr Lygru lindi,
Leku veltr um þröm belti:
Kili skýtr Karmtar helsi,
klýfr stjórn sila Þjórnar,
borð skera gizka girði,
grafast borð í men Storðar.

Stórt fellr gyrðill Garta,
grefr vindr Þrumu linda,
þýtr svalfjötr Selju,
svellr undrum men Hrundar.
Allt skelfr Brimlar belti,
brestr ern sili Hernar,
æst fer umgjörð Hristar,
ólmr er hríngr Þrimlínga.
Barð rístr Gælu gyrði,
grefr saum fjötr Tauma,
geist fer umgjörð Ostrar,
opt er men klofit Senju.
Brand þvær Bólmar lindi,
bifast stinnr sili Kinnar,
hríngr þýtr Hveðnu[3] laungum,
hart veltr Glanar belti.

---

1) leiðrètt f. Sírar, eptir bls. 230,4. 2) leiðr. f. Herðar. 3) leiðr. f. Hveðru.

### *Í fótar kenningum.*

Kallaðr er fótrinn sigla ok rá, ok kent fótar heiti lær, knè, kálfa. Svo kvað Eyjólfr Brúnason:

Kaupir ár, nè eyri
allrífum skal hlífa,
orðrakkr ilja snekkjur
austri rásir flaustra.

### *Gras.*

Stör, puntr, jóll, jafni, laukr, blómi. Gras skal kenna hár eðr hadd, ull, reifi, fiðr, fax jarðarinnar. Svo segir í Bjarkamálum:

Hniginn er í hadd jarðar
Hrólfr hinn stórláti.

Foldar fiðr, Arnór jarlarskáld.

### *Í gulls heitum.*

Arnór kvað:

Bekks lá eldr ok axla
úlfliðs Dönum miðli.
Ek sá armruð þakka
eitt Skánúnga hánum.

### *Hvalir*

kennast Viðblinda geltir, sem hèr er kveðit:

Vattr kom verst at rètta
(valfinnandi linna,
mærð er-a mjúklig orðin
mín) Viðblinda svíni,

Brimill, stórselr; þaðan brimla brekka, sjór.

### *Í hesta heitum.*

Eldr ok funi heita hestar; því kallast hestr reiðarbrími, því brími er eldr.

### *Hríngr* heitir

hánki, fjötr, virgill, ormr eðr hángi handarinnar, svo kvað Arnórr:

Hengi ek hamri kríngdan
hánga rjúpu tángar
grimnis sylgs á gálga
ginnúngs brúar linna[1].

### *Hús*

er kallat dýrs heiti nokkuru, ok kent til mænis, bustar, glugga, eðr annara nafna, sem á húsi heita. Svo kvað Eilífr Guðrúnarson:

Bifðist höll, þá er höfði
heiðreks of kom br. (bls. 62, 17)

---

1) Í Orkn. sögu kap. 79, 1, er þessi visuh. eignaður Rögnvaldi jarli.

Fletbjörn heitir hèr hús, en súlan fótleggr þess fletbjarnar. Ok enn er svo kveðit:

Leygs svelgr, en etr eigi, júgtanni lið manna (bls. 201, 2.)

Leygs júgtanni ok fletvargr heitir hèr húsit.

## Í jarðarheitum.

Bjarni kvað svo:

Hólmneglda braut hilmir hauðrgjörð fyrir börðum.

Hèr er sjórinn kallaðr hauðrgjörð, ok sagt, at hann sè negldr eyjum ok skerjum.

## Menn

eru kendir svo, at kalla Ása:

Ok orðvísa Ása járnraddar svo kvaddi.

Maðr er kallaðr árr, ruðr eðr boði eignar sinnar, ok kendr við herklæði, vopn, orrustu, hlífar, gull eðr skip. Kalla má hann ok konúnga heitum, ok kenna við nokkurs konar verkfæri, eðr þat hann er stýrandi. Svo segir í drápu Gnoðar-Ásmundar:

Megn' í gegn glyggi (hálft nam hann þat ljúga)
(kvað grefja tyggi) hrafnar trautt fljúga.

Maðr er kallaðr frömuðr eðr rekkir eðr prýðir þjóðarinnar, sá er öðrum veitir sæmd eðr frama, eðr gjörir at meira manni, en áðr er hann. Svo kvað Ólafr Leggsson:

Hreinstólpa áttu hjálpar, hátt sitið hans í rèttu
herrekkir, brag þekkja; hnár, mætr skörúngr, sæti.

Rètt er at kenna mann svo, at kalla hann son jarðar eðr mög, eðr þeirrar höfutskepnu, er maðr er af skapaðr. Svo kvað Ólafr Leggsson:

Heldr var honum, er seldi, oss stillir þat alla)
harðkeypt (sonu jarðar, auðigt líf fyrir dauða.

Ok enn kvað hinn sami svo:

Túngl gaf tryggvinr engla, (fèkk hlyrnir stað stjörnum),
talit dægr, megin lægis sterkr, ok aldir merkja.

Ef illa skal kenna, þá má kalla mann grenni, granna eða gæti svína eðr hunda, ok annars ílls fènaðar.

## Kvenna heiti.

Kona heitir fljóð, sprund, sprakki, svanni, svarri, sæta, snót, ristill, hæll, svarkr, brúðr, drós, hneita, víf, fenna, rygr, ekkja. Hèr á mót standa þessi nöfn: syrpa, snegða, skessa, saurlifra,

firta, fífla, fjappa, flykra, hreysa, herja, hvippa, kolta, gegða, skitja, þæsiblaðra, stegla, glyðra . . . . Ekkjur megu allar þær konur heita, er sitja eptir bændr sína úgiptar. Svo kvað Egill:

Eigum ekkjur — en þær konur
allkaldar tvær, — þurfu blossa.

Hèr kallar hann hælana ekkjur, enda hètu hælar á fótum hans, er hann kvað þurfa verma. Motrur heita þær konur, er hvítum lèreptum falda. Svo segir í Stríðkera vísum:

Þess sit ek (þægra hnossa — at urðhængs jarðar
þrúðr) ávalt (hin prúða, — ýtendr fyrir mik nýtir
hverjum leik) á hráka — greipar svells hins gjalla
(hnuggin!) Gleipnis tuggu: — gefn Stríðkera nefni.

Hèr kallar hann Fenrisúlf tuggu fjötursins Gleipnis, en hráka úlfsins kallar hann á þá, er rennr or munni honum ok Von heitir. Þess kveðst hann á von sitja, at menn mundu kalla hana, konuna, ekkju, þat kallaði hann hæl eðr kera jarðarinnar.

Kona er kend til steins ok allra steins heita. Svo kvað Bjarni A. sk.

Ok liðhraustan leysti — landrifs lengi píndan
Lofn, er herr var sofnaðr, — lagdýrs ofan stýri.

Hèr kallast konan Lofn landrifs: rif er bein, en bein lands eðr jarðar er steinn. Kend er ok kona karlkendum viðarheitum, apaldr, lundr, askr ok viðr. Sem hèr:

Hve fyrir leik (en lauka — stórvænn (styrjar kenni)
Lofn kunni þat stofna) — stenðr línapaldurr mínum.

Ok enn:

þann munda ek við vilja — (alin er björk at bölvi
(valklifs), meðan ek lifða, — brands) algrænan standa [1].

Konu er rètt at kenna öllum Ásynju-heitum, valkyrju-heitum, norna-heitum, orustu-heitum, ok öllum eyja heitum ok landa kvennkendum. Kalla má hana spöng eðr spíru, reið eðr rán eðr þilju, sem hèr er kveðit; Land:

Sigr-unnit kemr svanna — sólmarkar; drepr serkjar
Serkland at mèr grandi — Samland við mèr gamni.

Ok enn, sem kvað bróðir Árni:

Fjötra var sú móins mæt — mærar, ok guði kær.

Spíra, sem hèr er kveðit:

Spíru, semi hönd hèr, — hrínga birtist virðíng.

Rètt er at kalla konu konúnga heitum, gramr, hilmir, ok slíkum nöfnum. Lofðúngr, sem hèr er kveðit:

---

1) Fms. 5, 277, 1.

Lönd verr Lofðúngr röndum
lauks máferils hauka;
hjálmklæðum gefr hilmir,
hnítinga frið lítinn.

Kenna skal konur við gull ok allt glys þeirra, ok allt hvað þær eiga í gripum, ok við allar handvyrðir þeirra, svo við ölkeröld ok drykkju. Kenna má þær við steinaheiti öll; svo til handar ok sjóar. En því er rètt at kenna konu við sjó eðr hönd, at þat á heiti saman ok eign kvinnunnar, svo sem hönd heitir mund, ok svo heimanfylgja hennar. Sær heitir mar, ok svo ver; mar heitir ok hestr, ok má því bæði kenna til sjófar karla ok konur.

En þat er rètt í skáldskap, at hafa þá sögn, er um palla stígr til þess, er hèr merkir. Sem Refr kvað:

Soðs ok síðra hèðna
sundr færir trè grundi.

Þetta skal svo upp taka: trè kalla ek tein; tein kalla ek bein; bein kalla ek við; við kalla ek víði; víði kalla ek sæ; sæ kalla ek mar; mar kalla ek hest; hest kalla ek hrafn; hrafn kalla ek ský; ský kalla ek flóka; flóka kalla ek ullarflóka. Þetta köllum vèr rekit, ok þá figúru hafa orðsnjallir menn mjök í verka sínum, er vèr köllum gátur, sem hèr er kveðit:

Heyr mundriði marnagla,
snýr eigi trè vág at skógi.

Þat hafa menn mjök í kveðskap, þeir er myrkt vilja yrkja, at nefna þann hlut, er heiti á við hinn, er merkir söguna. Sem Rögnvaldr kvað:

Akr verð ek opt fyrir sjúkri
eyfitjar þó sitja
(rjóð er mèr hina mæra
menbrík) njórun síka.
Höðr fylgir at hauðri
hauk (tíui ek svo) mínu
setrs leitandi sútar
slægr á hverju dægri.

Ok enn hèr:

Eigi veit ek, nær ægi
óðflýtir má knýta;
dýr er fiskafæra
feigligt, þat er vèr eigum.

Þat er allt eitt ok taumdýr, því at bæði heita taumar fiskifæri ok viðlög hesta. Þessum figúrum er marga vega breytt í skáldskap.

Köllut er ok kona tröllkonu heitum, ef illa skal kenna; því at rètt er, at hún heiti griðr eðr gýgr þeirra hluta, er hún fer með, sem hèr er kveðit:

Ok óþokkaðr okkar
ostmýgir broðgýgi,
bjúgt elr sorg um saurga
saupstríðir flotgríði.

## *Í sjóar heitum.*

Svo kvað Hallg.:

Snýr á sókn dreyra
sveita glóðheitum;
allr er salr sollinn
sanda dreyrblandinn.

*Í skjaldar heitum.*

Ullr átti skip þat, er Skjöldr hèt; því er skjöldr kallaðr skip Ullar.

*Steinn heitir*

sól eðr birti eðr prýði skipa eðr bóka, því bókstafir eru lýstir, en skip steind. Sem Hallarsteinn kvað:

Hart fló hvast um snertu,
(hregg magnaðist) bragna,
bókar sól, þar er búkar
(benvargs) hnigu margir.

Foldar negg, sem enn kvað hann:

(Flaug) en firna bjúgir
(foldar negg at seggjum)
fjarðelds fleyginirðir
fèllu skjótt at velli.

Lagar hjarta, sem Þjóðólfr kvað:

Ok ljóshömum
við lagar hjarta
herr eistneskr
at hilmi vá[1].

Klifs bein, sem Arnórr kvað:

Kreisti knútu lostna
klifs bein fjörusteina.

*Í vopna kenningum.*

Vopn þat, er stendr meðal fóta manni, heitir sverð eðr brandr, ok öllum sverðs heitum; *item* hellisskrípr, þat skal kenna spjót, örvar, ok öllum heitum lagvopna eðr skotvopna. Kenna má þat sverð við maga, kylli, nýru eðr hlaun eðr hræra. Kalla má brandinn orm(a) eðr fiska(heitum), dólg eðr jötun hússdyra burðarins. Burðardyr má kalla tröð, tún eðr slíðr, umgjörð, höll eðr hirzlu þeirra fiska.

*Í öxar heitum.*

Þá Illugi svarti spurði Gest, hversu mikinn áverka hann hefði veitt Styr, þá kvað Gestr:

Var-at um sár (en sáran
sá ek Vígastyr hníga)
böndum þarf at binda;
beit hjálma stoð þveita,
þá er í brúnar beinum
báglunds goða mági
unda sæg í augu
allrauðan sák falla[2].

---

Bóndi nokkurr sendi húskarl sinn morgun einn at hugleiða um tún. En er hann kom aptr, spurði bóndi, hví hann

1) Hkr, Ýngl. saga kap. 36. 2) Ísl. sögur (Kh. 1847), 2, 299.

hefði svo lengi á burtu verit. Húskarl sagði: ek hefir horft á þat, sem ek hefi sèt. Bóndi spyr: hvat sáttu?

Ek sá fljúga
fugla marga:
aldrtjón Ella[1],
eggdauða menn[2],
ben bíldskorna[3],
buðlúng Dana[4],
þjónustumey[5],
þúnga báru[6].
Ek sá fljúga
öðru sinni:
skorinn línskauta[7],
ok skip Þráins[8],
járn úr afli[9]
útleidda sál[10],
konu kjötnefnda
fyrir kvið neðan.
Þá sá ek fljúga
þriðja sinni:
silki saumat[11]
ok svenska menn[12],
Gunnlaugs bana[13],
ok goða brenni[14],
kú kollótta[15]
ok kvíslatrè[16],
gnúp gildlegan[17],
ok gettu, hvat þeir heita.
Ek sá fljúga
fjórða sinni:
sinnismót manna[18],
ok mjófisk sjóar[19],
hrjóna íshrufu[20],
ok hrept góð heppni[21],
bríkar breidd hauka[22],
bólur á ölskjólu[23],
daun vart vænan[24],
votlands gotinn[25].

[Þýðíng gátnanna, eptir assessor Árna Magnússon: 1) örn. 2) valr. 3) æðr. 4) kráka. 5) þerna. 6) heinbrimi. 7) jaðrakan. 8) gammr. 9) teistikofa. 10) önd. 11) tjaldr. 12) svanr. 13) rafn. 14) már. 15) rjúpa. 16) súla. 17) háhella. 18) lundi. 19) álka. 20) skrofa. 21) dúfa; aðr., veiðibjalla. 22) lófa. 23) skúmr. 24) fýlíngr. 25) vætukjói; aðr. mýriskítr].



## Háttalykill Rögnvaldar jarls.

*1. Ljóðsháttr.*

Skyldr at skemta
þykir ek skötnum vera,
þeim er vilja mitt mál nema;
fornkvæði læt ek
fram um borin,
ef þèr vilit heyrt hafa.
Barn at aldri
þykir ek brögnum vera
þó hefi ek forntíðindi ....[1],
ok andligar sögur
þykjom ek ......[2]
fyrir laungu liðnar.

*2. Kviðuháttr.*

*3.* (ónefnt).

*4. Draughent.*

*Gunnarr* rèð grundu linna,
gætti hann vel dyggra[3] mætta[4];
faðmis láð fengu þjóðir
færi[5], heldr en skapligt væri.
Lestir[6] rèð lofaðr[7] kasta

1) [fregit, fregnat]? 2) [allar kunna]? 3) dygra [dýrra?] 4) þ. e. mæta. 5) færri. 6) lesti. 7) lofðar.

(lofðúngs brögð ýtar sögðu)
urðarlax æskijörðu
út á Rín fenris sútar.
*Atli* tók öðlíng fræknan
(er svo rètt saga þersi);
eptir frá hann álnar driptum,
ekki mjúkr, sonu[1] *Gjúka*[2].
Leggja bað í linnum bygðan
. . . . . . . . . . . . . .

5. (ónefnt).

*6. Þríhent.*

Rètt er, at rekkum þótti
*Ragnarr* hauksnarr . . . . .;
rauð bragna vinr blóði
bensildr ríngmildr, allgildr[3].
Frægr lèt gramr með gnógum
gunnhvatr, ólatr, . . . . .;
satt er, at siklíngr þótti
sjaldhýrr, margskýrr, aldýrr.
Seg ek, at fèll (en flagða
fèkk blóð) mörg þjóð (grástóð);
hjálmsamt[4] lið með hilmi
[hjörr gnast, skjöldr brast]
stóð fast.
Hold beit brátt (en fyldist)
hríngr þuðr (vargs muðr),
óx[5] guðr;
hirð jók [hermenn gerðu
(hjósk lið) þann sið] ófrið.

*7. Belgdrögur.*

*8. Munnvörpur.*

*9. Hinn dýri háttr.*

*Björn* örn bræði[6] (fjörnis
beit reit fírom neitir),
braut [þaut brynja nauti]
bjarg [marg] frekum vargi.
Opt lypt átti at skipta
egg legg í tvau seggja;
hrátt brátt hafði at sláttra
hrafn tafn af því jafnan.
Gramr (hramr) gerði rummo
[gekk (fèkk vargr at drekka
blóð) þjóð, bragníngr] óða
[boð[7] gloð[8] til vígsloða].
Söng löng slíðra túnga;
sleit (beit at flög peita),
bar þar er buðlúngr, hari
bjart, snart í styr hjarta.

*10. Hinn grænlenzki háttr.*

*Sigurð* frá ek seðja
sára skára,
verð skóp[9] vísi
vörgum mörgum.
Ruðr nam rjóða
randa branda
girðr en gerði sá;
snarpa skarpa.
Spurða ek raustan
. . . . . . . . . .
þann liðs legu
lesti festi;
lèt opt jöfurr
ar . . . . . . . . . . .
. . . . . . sveita
saddan gladdan.

11. (nafnlaust).

12. (nafnlaust).

*13. Togdropo hottr.*

*14. Kimlabönd.*

*15. Háhent.*

Hörðu rèð *Hagbarðr*
(hvatir leyfa menn þat)

1) sonum. 2) Gjúkar. 3) algildr. 4) hjálmseimt. 5) ócs. 6) = bræddi. 7) = bauð. 8) = glöð. 9) skap.

aldrklifs epli[1];
ýta var sá gramr nýtr.
Mýll gerði-at margsnjöllum[2]
morðálf skjálfa
í geira glymskúr
geðvángs strángri.
Jöfri var-at aldrklifs[3]
akarn vit hers[4] brak
(stillir vakti stál[5]-göll)
stalldræpt snjallom[6].
Hvasso rèð hugar sess
(hildar var sá gramr mildr)
í branda brakvind
baugnjótr grjóti.

### 16. *Rynhent.*

*Frilleifs*[7] vann ek sagt frá snilli,
siklíngr vakti gunni mikla;
rjóða kunni randar voða
rómu valdr[8] í benja aldo.
Bíta knátti brynju ótti
[brandar skáru svartar randir]
(gera spurða ek þar glaðan vera)
gunnar sól (með ylgjar brunni).
Bragníngr rèð í branda regni
benja linn[9] til sára spenja;
allvaldr[10] rauð, þar er ýtar fèllu[11],
unda naðr í hræva sundi.
Bitran spurða ek böðvar[12] njörðum
brynju snák í hausum dynja;
reiða tóku ríkar þjóðir
randar orm at svarðar strando.

### 17. *Rekit.*

*Óli* fæddi aldinn ara,
allvítt[13] kveð ek hans snilli fara;
eigi frá ek hann armlog spara,
auði gæddi hann drengi snara.
Víða hygg ek bragna bera
buðlúngs namn, er saddi gera;
hraustan spurða ek vísa vera,
vopnum kunni hann benjar skera.
Hjartað dugði jöfri örum;
ýtar fylgðu hilmi snörum;

1) æplis. 2) margsnill. 3) aldr clif. 4) hvers. 5) stall. 6) snjöllum. 7) Friðleifs. 8) valdir 9) linns, 10) ávalldr. 11) felldu. 12) Böðvars 13) attvitt.

segja kann ek frá fylkis förum:
fyrða beitti hann lið með örum.
Harðir otto hermenn saman;
hildíng frá ek við gunni taman,
honum þótti at geirleik gaman;
greppar leyfðu vísa framan.

*18. Detthent.*

Þjóð hefir frètt til *Fróða,*
ferð leyfir menskerði;
hróðr hefi ek hugt at smíða
hríngmildum döglíngi.
Hátt bar hodda[1] veittir[2]
hjálmstall hinn margsnjalli;
allkostigr[3] gekk æstu
öðlíngr at brynþíngi.
Gaf landreki lofðum
linnból hinn margsvinni;
sigrstýrir nam særa
sefþvengar[4] rínvengi.
Frægr vísir rèð fleygja
fjallreyðar glóstalli;
morðkennir gaf mönnum
móins[5] sæti ágæta.

*19. Bálkarlag[6].*

Hafði *Helgi*
í hjörva gný
geðstein harðan,
gott drengja val:
hjálm harðsleginn,
hjól mundriða,
sverð snardregit
ok svala brynju.
Var rönd roðin,
riðu skolkíngar[7],
fèllu fyrðar,
í flogi vopna;
átu[8] ernir
af[9] jöfurs dólgum,
reyfðust ramnar
yfir rækesti[10].

*20. Refrún hin minni.*

Harald frá ek gunni gjörva:
geri[11] varð, þar er lið barðist,
(már kom sigrs til sára
svángr) fullr (þar er spjör
gullu);
því at grástóði gríðar[12]
(gnast lífð), en, brá fasto,
hjaldrgögl nutu hildar
(hvít[13]) svört[14] í dyn rítar.
Benfasti varð bresta
[bitu hjálm svalir málmar,]
í háturnum hjarna
[heitir[15]] kaldr [þar er dreif
sveiti[16]].
(Straung var guðr,) áðr en gengi,
[geirr] (mót) konúngr Jóta,
bendr, sparn, álmr til unda,
(óx) [þvarr] boga starran[17].

*21. Sextánmælt.*

Hríngr brast, hjuggust
drengir,

---

1) hadda. 2) þ. e. veitir. 3) alcostigr. 4) sæfþveingar. 5) móe. 6) Balkarlagr. 7) sjölkíngar. 8) atto. 9) of. 10) ræghæste. 11) gera. 12) gríða. 13) hvítt. 14) svart. 15) heit. 16) svætir. 17) þ. e. stinnan, sterkan, á þjóðversku starr.

hjálmr gnast, bitu málmar,
rönd skar, rekkar týndust,
ruðust sverð, hnigu ferðir.
Brandr reið, blæddu undir,
ben sullu, spjör gullu,
brast hjörr, brynjur lestust,
beit skjómi, dreif sveita.
Sverð ruðust, sæfðust ferðir,
svall ben, valr lá fallinn,
und raut [1], álmar bendust,
ör flaug, beitt varð hjörvi.
Herr fèll, geirar gullu,
gnast lífð, ramn brá fasto,
oddr beit, ernir söddust,
ulfr fyltist, ve skulfu.

*22. Núfuháttr.*

Frág [2] *Ángantýs* æfi
(óð stofna ek svo) góða:
lèt drjúgum brot bauga
bjúg hertogi fljúga
[nema ek ljúga,
en ek mun eigi ljúga].
Kann ek fyri randa runnum
(ráð hèlzt [3] grams við dáðir;
menn lofa vísa vinnur [4])
veg þess konúngs segja [5]
[nema ek þegja,
en ek mun eigi þegja].
Hljóðr rèð hann at kveðja
hauðr benloga rauðum,
því at margkostigr mesta
mildingr of [6] vann hildi
[ef hann vildi,
en ek veit, at hann vildi].
Trauðr var lundr at löndum
linns firir [7] þeim at sinna
(svipr varð at þar sverða)
sára volls ok golli
[ef þat olli,
sem ek veit at þat olli].

*23. Greppa minni.*

Hverr rèð *Hildi* at nema?
Hverir [8] daglengis berjast?
Hverir síðarla sættast?
Hver [9] siklíngum atti?
*Hèðinn* rèð [10] *Hildi* at nema;
*Hjaðníngar* [11] æ berjast;
þeir síðarla sættast;
saman *Hildr* [12] liði atti.
Hverr rýðr hvassar eggjar?
Hverr brytjar mat vargi?
Hverr gerir hjálma skúrir?
Hverr eggjaði styrjar?
*Haraldr* rauð hvassar eggjar;
herr brytjar mat vargi;
hjálmskúr [13] gerir *Högni;*
*Hjarrandi* rèð gunni.

*24. Runhent.*

*Hrólfs* spurða ek hag;
heiðs [14] veitti hann dag;
fló faðmis setr [15];
fáir þóttu kunna [16] betr.
Hann veitti her
hauks lóðar sker;
brast linna láð
við lofðúngs ráð.
*Kraka* þraut ei kapp;
(konúng sótti happ,)
hinn er brynþíng bauð,

1) Þ. e. hraut. 2) frá. 3) hæst. 4) vinr. 5) seggja. 6) oc. 7) ferir. 8) hveir. 9) huærir. 10) ræðr. 11) —íngr. 12) Hildi. 13) hjálmsíur. 14) haðs. 15) setus. 16) cunnu.

at brjóta auð:
því at buðlúngr var,
sá er benjar skar
(honum tíddist hildr),
hugprúðr ok mildr.

*25. Hálfhnept* [1].

Heyja [2] rèð hjörþey
*Hjálmarr* vígsnarr,
auðar var óleið
örbrjót geirmót [3].
Vekja [4] frá ek vítt mjótt
vopnþíng döglíng;
fella spurða ek forsnjöll
fíra kyn víghlyn.
Hausa beit hjálmtýs
hjaldr-liðr [5] allstríðr [6];
sundra nam snarbeind [7]
sverðs egg manns legg.
Veita [8] rèð vellbrjótr
valgjóð ræflóð;
haukum var hjörleiks
hjaldr-mos [9] gefin kros.

*26. Háttlausa* [10].

Á ek frá *Eiríks* mildi
ells brjótandum ranna,
þess er hèt *inn sigrsæli*,
segja einkar gegnum:
því at gullskati gagni
(gram þann lofa ýtar)
rèð, sá er míkstr var heitinn,
í randa gný hverjum.
Rèð gunnstara gildi
Gauts mútari drekka,
því at morðhauka milsku
muninn kunni sèr nýta.
Öl var ógnar gagla
ótrautt gefit ramni;
rèð ylgjar mjöð erni [11]
ógndjarfr konúngr veita.

*27. Haðarlag* [12].

Á ek frá *Ólafi*
(auðar þrámeiðum
slengdi hann [13] svanvengi [14])
selju mens telja.
Frèttu fleystèttar
(fengu gjöf drengir)
harðir hernirðir
hildíngs fèmildi.
Fleygði ás *Óli*
stigu forðum aurborða
meyjum margnýtum
málmi gullhjálmi.
Súngu svanvengis [15]
snótir raustljótar
hott of hafbeittum
hjálmi skersálma [16].

*28. Refrún hin meiri.*

Gættu, at *Gautrekr* þótti
góðr (illr) kyni þjóðar,
(saddr varð svanr) en reiddist
seint (skjótt) konúngr (þróttar).
Frá ek, allvald þann æðstan [17],
opt, sjaldan [18] styr valda;
vörðr gekk fróns (nè forðist)
framm (aptr) í böð ramma.
(Morð óx) mildíngr sparði [19]
(mjök) lítt díguljökla:
lèt ósa röf ræsir
rètt bjúg á her fljúga.
Fíra sættir rak flótta,

---

1) Halfnesst. 2) hæfia. 3) geirniót. 4) væikia. 5) lyðr. 6) alstríðr. 7) —beindr. 8) veitta. 9) —nios. 10) —laus. 11) æirni. 12) Haddarlag. 13) hans. 14) vanvæingi. 15) svanveng… 16) serk sálma. 17) æðist. 18) sjaldar. 19) sverði.

fúss, trǫðr[1], vita lǫðar[2];
þollr var geirs, en gulli,
góðr, illr, kyni þjóðar.

*29. Iðrmælt.*

*Styrbjörn* rèð til styrjar
styrfimr meginsnimma;
hildíngr gekk at hjaldri
hildarfúss und skildi.
Eggþínga skar eggjum
eggjandi fjör seggja;
vargfæðir rauð vörgum[3]
varghollr granar margom.
Hilmir rauð ok hjálma
hjálmskóð[4] í dyn málma;
skjöldúngr kom at skildi[5]
skjaldfimr[6] í bug sjaldan.
Börr lèt vígs at vígi
vígreyr lituð dreyra;
því at gunnþorinn gunni
gunnfreyr[7] hvata kunni[8].

*30. Lánglokur[9].*

*Haraldr* kunni gný gerva
[gekk hilmis lið vekkja
(menn ruðu geir at gunni)
grap smíðaðra vapna].
[Háði herr við prýði
hjörðíng með döglíngi,
hinn er skýndi[10] byr branda]
bendags[11] *hinn hárfagri.*
*Haraldr* kunni gný gerva
(glaðr var ramn fyri Jaðri,
þar er svo at víg á vogi
vargs gráðtapaðr[12] háði:
því at við hodda hneyti,
hjarraðan bur Kjötva[13],
barðist Bokks[14] í firði]
bendags[11] *hinn hárfagri*[15].

*31. Alstýft.*

Frètt er, at *Eiríkr*[16] átti
eggmót, sá er rauð spjót,
(frægr gjörði val víga)
viz mörg (konúngr[17] björg);
því at blóðstari bæði
bens[18] nýtti sèr fen
(frægr þótti sá flotnum
foldar vörðr) ok[19] hold.
Sèr nýtti þá sveita
sár[20] - mútari grár,
ramn fèkk dökkr[21] at drekka
drengja blóð til sprengs;
mor drakk móðr af dreyra
(menn fylgðu vel) sylg
[valdr bar hjálms frá
hjaldri]
(hvötum[22] bragníngi) [gagn[23]].

*32. Flagðalag.*

Hauðr[24] frá ek *Hákon* síðan
harðgeðjaðastan varða;
þjóð sá ræsi rjóða
ráðvandaðastan branda.
Seimfærir klauf sverði
snarpeggjaðosto leggi;
get ek, at gramr fèkk vitni
gráleitaðostom sveita.
Ríkr barg[25] lofðúngr Líknar
ljótrannaðastom sóta;
svan frá ek blóðs til bráða
bjúgnefjaðastan fljúga.

1) trauðr. 2) lauðar. 3) víða. 4) hiálmscúr. 5) skyldi. 6) sciallfimur. 7) — fræy. 8) runni. 9) — lokum. 10) scyndr. 11) bændax. 12) — tapat. 13) Krattva. 14) Bocx. 15) — fagra. 16) Æricr. 17) conúngs. 18) bæins. 19) ól. 20) saar. 21) dæzr (ɔ: dæstr). 22) hvötun. 23) gaghn. 24) Huaður. 25) bar.

Skutu bráðgegnir bragnar
beinskeptaðastom fleini;
álmr sparn hart til hjálma
hvassoddaðastom broddi.

*33. Dunhent.*

*Haraldr* magnaði hildi
(hildr tíddist gram mildum)
[frá ek hann við gný Gunnar]
*Gunnhildar burr* [kunna].
Harðr rauð í svip sverða
sverðs egg konúngr ferðar;
morðs[1] lèt hilmir Hörða
hörð reyr lituð dreyra.
Siklíngr lèt þar sveita
(sveit fylkis rauð neiti),
böðvar þurstr, í bráði
(bráð) mál[2] litað stála.
Vann blóðroðin[3] benja
benflæðr skulat ræði;
sóknbáru[4] gat[5] sára
sárvöndr[6] þvegit árar.

*34. Tilsegjandi.*

*Sveinn* framdi gný grimman
(guðr heitir svo) peitu[7];
hagl brast skógs í Sköglar
(skjald nefni ek svo) tjaldi.
Sóknbjartar skar snyrtir
(sverð nefni ek svo) ferðir;
hríngr brá horskra drengja
(hjör nefni ek svo) fjörvi.
Hjaldrkyndill beit hildar
(harðr brandr er þat) garða;
ljós varð haugs í hausum[8]
(hjör kalla ek svo) gjalla.
Hart skar hildar kerti
(hjálms grand er þat) randir,
því at benlogi brynju
beit (nefni ek svo hneiti).

35. (nafnlaust).

*Knútr* sásk (herr hjósk,)
[hlífð[9] gnast] (rönd brast)
[guðr svall,] (fólk fèll)
fátt (mart) [hvítt] (svart).
Bargsk[10] öld (beit skjöld)
[benskóð rauð þjóð]
(hvast flugu hjálmreyr)
ho (log,) [breið] (mjo).
Guðr var, en gramr *lèð*[11],
*ger, prú*ðr[12] fèkk her[13]
flótta, þar er fèll drótt,
fús trauð, kvik dauð.
þótti þar[14] úlfs ætt
(örva gjörðist hríð snör)
[eigi var fleins flaug]
full svöng [skömm] (löng).

36 . . . . . .

*Ólafr* rauð í eli
Yggjar slíðra bryggjur;
veitt[15] ek, at vísir átti
víða brynju hríðir.
Hirð rèð gramr, í Görðum,
gleðja þussa kveðju,
fæddr, en fylki studdu
fróðan synskar[16] þjóðir.
*Sunr Tryggva* bað seggi
síðan ógnar blíða
vallar baug á vogi
verja[17] sænskum herjum.
Hjaltvendi skar Hrundar
hríðar túngla stríðir

1) morðh. 2) bráðmál. 3) blóð tóden. 4) sóknbáror. 5) gaf. 6) sárvörðr. 7) væitu, 8) húsum. 9) lífð. 10) barsc. 11) gram . . . 12) . . . . uðr. 13) her berjast. 14) þat. 15) þ. e. veit. 16) -sθnskar, svenskar? 17) verjast.

(álms varð hagl á hjálma
hrynja) danskar brynjur.

*37. Konúngslag.*

*Ólafr* náði eggjar rjóða
enskra þjóða vörmu blóði;
hneigiborða háði skerðir [1]
hjörva þeyja Viðris meyja.
Böðvar hauka búðar [2] snáka
beitinirðir [3] agnar girði
rjóða nomo; rekkar komo
randar Freyju[4] þing at[5] heyja[6].
Slíðra[7] túngur snarpar gengu,
sullu benjar, lífðir gullu;
hilmir vakti (hneitir rakti
hjörva sálma) skúrir[8] málma.
Hyggju knarrar harða veggi
hjuggu sverðum vísa ferðir
vægðar trauðar [9] valskar þjóðar [10]
veigar [11] tafni knífum grafna.

*38. Áttmælt.*

Mætr rauð *Magnús* hneiti,
mildr fylkir vann hildi,
snjallr gerði styr stillir,
stóð ógn af gram þjóðar.
Dundi dörr á brynjur,
drótt hilmis [12] rak flótta,
egg brast hörð í höggvi,
hjör beit . . . . . . görva.
Skjöldr brast skreyttr í hjaldri,
skorost randir fyrir brandi,
rít hygg ek málmar mættu,
mörg vopn *bitu* [13] törgur.
Lífð frá ek kallmenn kljúfa,
kyn jöfra skar [14] brynjur,
súngu slög við rínga,
sundr brast hjálmr fyrir málmi.

*39. Hálfhnept [15].*

*Haraldr* var herskárr,
harðráðr, sigrbráðr;
snart (lið sleit frið)
sverðs egg manns legg.
Barg [16] öld (beit skjöld
brandr þuðr, óx guðr,)
[hlaut] gramr geðframr
(gnast álmr) [slög málmr [17]]
Ben svall, brandr gall,
beit egg manns legg,
roðinn var (rönd skar
rendr hjörr) benstörr.
Raut blóð, rann þjóð,
riðu sverð, nè ferð,
álmr rauðs, ræ bauðs
ramsætt, óslætt.

*40. Álagsháttr [18].*

Ört rauð *Ólafr* snyrtis [19]
egg, gall hjörr [20], skar leggi,
dundi bitr á brynjur
brandr, skáru spjör randir.
Bitu rammslegin rimmu
reyr [21], knáttu ben dreyra [22];
ferð, þar er fylkir barðist,
fèll, nè drótt at velli.
Kænn laut lofðúngr linna
láð (segi ek vísa dáðir);
gramr prýddi sá gumna
gjöfum (kunni hann sið jöfra).

1) scærða. 2) böðar. 3) bæitinirði. 4) fræyja. 5) þingat. 6) heyjo. 7) slíðrar. 8) skúri. 9) trauðiar. 10) þjóðir. 11) væigar. 12) hilmir. 13) vapn.... 14) þar. 15) Halfnæfst. 16) bargs. 17) slögmálmr. 18) Áslaxs hottr. 19) snirtis. 20) hjör. 21) ræir. 22) dreira.

Ógnbeiðis[1] naut auðar
öld; leyfum[2] bur Skjöldar[3],
því at ljósan veg vísir
vann; nú er mælt hit sanna.

*41. Skjálfhent.*

Magnús málma[4] regni
morðbráðan frá ek ráða;
hyrbrjótr hauka strætis
hjörskúrir vann gjörvar.
Allnýtr[5] Egða gætir[6]
ósjaldan rauð skjaldar
svell[7] fyr[8] seggja dreyra[9];
sveiti[10] dreif á neiti[11].
Glyggfreyr Göndlar[12]
veggjar
. . . . . . . . . . . . . . .

---

*Vísa dunhend*

á tjaldi í Hólakirkju

(sjá Egils sögu Skallagrímssonar, Kh. 1809, bls. 273. skgr. 5).

Gramr skóp hæstr heima,
heims fegrð ok kyn beima;
frægr hefir sett með sigri
sigrvaldr skipan aldar.
Spenr í sælu sína
sín börn jöfurr stjörnu;
því er alstillir allra
allsannr faðir manna.

---

1) — beiðir. 2) leyfir. 3) Scialdar. 4) í málma. 5) allnýttr. 6) ... ettir. 7) svall. 8) fyrir. 9) drey... 10) svæitir. 11) næitir. 12) göndla.

# Eptirmáli.

Ritgjörðir þær, sem hèr eru prentaðar á bls. 159—212, eru ekki á *Kb*, en finnast í *Ob* og að nokkru leyti í skbr. 748 og 757. Þær eru merkilegar, svo sem fyrstu tilraunir á Norðurlöndum [1] til norrænnar málfræði, og samdar af ýmsum höfundum á ýmsum tímum. Að Ólafur hvítaskáld Þórðarson († 1259) hafi tekið saman þriðju staffræðina, bls. 173—180, og málsskrúðsfræðina, bls. 181—200, þar á getur einginn vafi verið (sjá bls. 200. skgr. 1, og bls. 217. l. 30—1; sbr. bls. 117. l. 4. 5. og Fms. 11, 396: Sturl. 8. þ., bls. 130); en hverjir samið hafi hinar ritgjörðirnar, er óvíst. Fyrsta staffræðin, bls. 160—169, held eg sè elzt, og samantekin af einhverjum lærðum manni, skömmu eptir daga Ara fróða († 1148), á að gizka eitthvað 1150—1160. Um það leyti voru uppi tveir lærðir menn og fræðimenn, hèt hvortveggi Nikulás: Nikulás Hallbjarnarson (eða Bergþórsson), fyrsti ábóti að Múnkaþverá, frá 1155, þar til hann dó, 1160; honum er eignuð vísan á bls. 199, 4. (E. C. Verláffs *symbolæ ad geogr. medii ævi*, Kh. 1821, bls. 4); honum er og eignað lofkvæði um Jóhannes guðspjallamann, og er Árni Magnússon borinn fyrir því, að nokkur erindi þess kvæðis finnist aptan við Jónssögu postula (Finns biskups kirkjus., 4, 41); má vera, að hann sè og höfundur Nikulássdrápu hinnar eldri, hinnar dróttkveðnu (hin ýngri, eptir Hall prest, er hrynhend), sem nefnd er hèr á bls. 203, 6: 204, 1 (þar úr er og vh. á bls. 201, 2). Annar Nikulás, Sæmundsson, var annar ábóti á Þíngeyrum 1148—1158; honum er svo lýst, að hann hafi verið vitur og víðfrægur, minnugur og margfróður, ráðvís og rèttorður; að hans forsögn er ritaður Leiðarvísir Rómferla og borgaskipan á Rómvegum frá Noregi til Jórsala og Jórdanar (sjá Verl. *symbolæ*, bls. 32: *Sciagr. hist. lit. isl.*, bls. 134: ísl. annálar, bls. 64. 66.) Önnur staffræðin, bls 169—173, held eg sè upphaflega samin hèr um bil um 1200 af öðrum höfundi, en hin fyrsta, og hefir sá maður haft fyrstu staf-

[1]) Karlamagnús keisari († 814) reyndi til þess að rita málfræði á þjóðversku, en sú tilraun mun nú ekki vera til. Elfrekur, ábóti og síðar erkibiskup í Kantarabyrgi († 1005), útlagði lat. málfræði á eingilsaxnesku; sú ritgjörð er til enn.

fræðina fyrir sèr, og tekið úr henni orðrètt kaflann á bls. 171, l. 6. neð. til bls. 172. l. 8. (sbr. bls. 161, l. 2. neð. til bls. 166. l. 11.); en síðan hefir annar lærður maður miklu seinna fjallað um þessa ritgjörð, bætt við hana athugasemdum um hljóðin og borið málið saman við hljóðfærasaung. Annars sýnist vanta nokkuð við þessa ritgjörð að framanverðu. En letursháttur þeirra Þórodds rúnameistara og Ara fróða, sem nefndur er í form. bls. 160. l. 7—10, og sem höfundur formálans hefir ætlað að setja fyrstan af þessum ritgjörðum, sú staffræði er nú ekki til, því fyrsta staffræðin, sem kemur næst á eptir formálanum, getur það ekki verið. Viðbætinn við málskrúðsfræði Ólafs hvítaskálds, á bls. 200—212, hefir gert einhver lærður maður frá 14. öld Hann vísar til hinnar næst undangángandi málskrúðsfræði, bls. 206. l. 7 (sjá bls. 185. l. 4. 5. 7. 8) og l. 16 (sjá bls. 186. l. 5); talar aptur með öðrum nöfnum um það, sem áður er komið í málskrúðsfræði Ólafs, t. a. m. *Protheseós parallage* (bls. 200. l. 10) = *Sólæcismus* bls. 185. l. 19—23; *Lepos* (bls. 206. l. 1) = *Sólæcismus*, bls. 185—6; hann nefnir Ólaf, bls. 204. l. 2. neð., og bls. 205. l. 24—26. Í vísu, sem hann tilfærir bls. 201, 6, er getið þess atburðar, að guð laust höfuðkirkju með eldíng, þegar Hákon rèð landi; en það var 1309, þá er Hákon háleggur var konúngur, að Skálholtskirkja brann af lopteldi (sjá Árna bisk. s., bls. 124: ísl. annála, bls. 194). Í vísunum á bls. 207, 3. 4. er getið fjögra Noregskonúnga, er hver ríkti eptir annan: Hákon gamli Hákonarson (1217—1263), Magnús lagabætir Hákonarson (1263—1280), Eiríkur Magnússon prestahatari (1280—1299) og Hákon háleggur Magnússon (1299—1319). Af þeim vísum, vísuhelmíngum og vísufjórðúngum, sem hann tilfærir, er nálega helmíngurinn úr helgum kvæðum, 28 af 62; en í málskrúðsfræði Ólafs er miklu færra tekið úr helgum kvæðum, eitthvað 5 af 120. Af þeim lærðum mönnum, sem uppi voru um miðja 14. öld, þyki mèr Bergur ábóti Sokkason einna líklegastur til að vera höfundur þessa viðbætis við málskrúðsfræðina, svo og, að hann hafi aukið aðra staffræðina, þar sem getur um ýms hljóðfæri, hörpu, simfóni og organ. Og ef svo er, þá þyki mèr trúlegt, að hann hafi einnig samið formálann á bls. 159—160 og safnað saman í eitt öllum þessum ritgjörðum og látið þær fylgja Snorraeddu. Bergur Sokkason var til kenslu á Múnkaþverá vetrinn 1312—13, og síðan að Þíngeyrum hjá bróður Lárenzí-

us, er síðar varð biskup (1322—1330), og frá 1316 ásamt honum múnkur að Þíngeyraklaustri, og hinn kærasti vinur hans; skipaði Lárenzíus biskup Berg príor yfir Múnkaþverárklaustri 1322, og ábóta að sama klaustri 1325. Meðan Bergur var ábóti á Þverá, kom Arngrímur Brandsson, er seinna varð prestur í Odda, út híngað með organ frá Noregi 1329; en 1334 lagði Bergur niður ábótavald fyrir lítilætis sakir og tók múnkaklæði, og var 11 ár í múnkastètt, þar til hann tók aptur ábótavald og forráð að Múnkaþverá 1345. Ekki vita menn, hve nær hann dó. Espólín segir, að hann hafi dáið 1350; en Finnur biskup segist hvergi hafa sèð teiknaða ártíð hans, en þykir líklegt, að hann hafi verið ábóti til 1350. Bergi Sokkasyni er svo lýst, að hann hafi verið hinn helzti klerkur um fram flesta menn hèr á landi, með klausturlegu framferði, mælskumaður hinn mesti, saungmaður og prèdikari, setti hann saman margar helgra manna sögur á norrænu með mikilli snild (Ann. Espól. 1, 38: Finns kirkjus. 1, 591: 4, 45. 124). En um hina svo nefndu Snorraeddu (Gylfaginníng, skáldskaparmál og háttatal), þá er almælt, að Snorri Sturluson sè höfundur hennar, og styrkist það almæli ágætlega af yfirskript Uppsalabókar (sjá formála, bls. IV. l. 30—34) og fyrirsögninni í skbr. 748 (sjá bls. 200. skgr. 1., og bls. 217. l. 30); og að Snorri einnig hafi gert útskýríngu háttatals, þar til sýnast auk annars þau orð benda, sem standa í formálanum bls. 160. l. 17. 18: „En vel má nýta, að hafa eptir þeim (fornskáldunum) heiti ok kenníngar, eigi lengra reknar, en Snorri lofar“. Sýnist mèr þau orð benda til orða Snorra í háttatali, bls. 124. l. 17—19: „Níunda (leyfi) er þat, at reka til hinnar fimtu kenníngar, en or ættum er, ef lengra er rekit; en þótt þat finnist í fornskálda verka, þá látum vær þat nú únýtt“.

Viðuraukarnir frá bls. 213. eru teknir eptir afskript Jóns Ólafssonar Grunnvíkíngs, og er sumt af því að nokkuru leyti borið saman við skbr. 748, einkum heitin á bls. 222—232, en orðamunurinn þar er úr skbr. 757 og öðrum ónefndum afskriptum.

Nafnið, Edda, er trauðlega eldra en frá 14. öld. Það kemur fyrir í kvæðum frá 1345, 1358 og 1370 (sjá dæmin í boðsriti 1844, form. bls. VIII—IX), og í Nikulásardrápu eptir Hall prest, í 4. erindi: „málsnild, aktan skýrra skalda, skil veglegrar Eddu reglu“. Sjá þar að auki form. bls. IV. l. 30, og bls. 222. l. 2, sem og ísl. annála, bls. 114.

Til samburðar við háttatal Snorra er háttalykill Rögnvalds jarls prentaður hèr aptast. Þetta kvæði finnst á pappírsbók í bókasafni háskólans í Uppsölum í Svíaríki (Nr. 28, í 2 bl. br.), eru þar á 41 bragarháttur og 2 vísur með hverjum hætti; en bók þessi er allvíða að framanverðu svo ólæsileg, að hvorki verður sèð neitt mót á bragarhætti, nè komizt að skilníngi á vísunum, og er þess háttar erindum hèr slept; á mörgum stöðum hafa vísurnar verið rángt skrifaðar á blöðunum, og hefi eg reynt til að kippa því í lag, sem eg hèlt að rángt væri, og sett neðanmáls, það sem á pappírsbókinni stendur. Orkneyíngasaga (Kh. 1780, bls. 244) vísar á, að Rögnvaldur jarl og Hallur, son Þórarins breiðmaga, íslenzkur maður, hafi ort háttatal nokkurt, og fer þar um þessum orðum: ,,Þeir ortu báðir saman ,,háttalykil hinn forna, og lètu vera fimm vísur með hverjum hætti, en þá þótti of lángt kveðit, ok eru nú tvær kveðnar með hverjum hætti". Þessi Rögnvaldur hèt fyrst Kali Kolsson og fæddist hèr um bil 1099 eða 1100 í Noregi; hann var Arnmæðlíngur í móðurætt, kominn fra Finni jarli Árnasyni, en í föðurkyn var hann kominn af ætt Hörðakára. Sigurður konúngur jórsalafari gaf honum hálfar Orkneyar og jarlsnafn 1129; hann gaf honum og nafn Rögnvalds jarls Brúsasonar. Rögnvaldur náði fyrst jarldómi 1137, og var síðan jarl yfir Orkneyum, þar til hann var veginn 1158. Hann er stundum kallaður Rögnvaldur kali. Hann var gott skáld og kvað mjög af munni fram, tilfærir Orkneyíngasaga eitthvað 30 lausavísur eptir hann. Hallur fór til hirðvistar til Rögnvalds jarls hèr um bil 1142 og var leingi síðan hirðmaður hans; hafa þeir þá ort háttalykilinn milli 1142 og 1158; er þá háttalykill hinn forni eitthvað 80 árum eldri en háttatal Snorra, því það er ort eptir 1227 og fyrir 1237. En háttalykill hinn forni held eg hafi svo kallaður verið til aðgreiníngar frá hinum sama, eptir það að búið var að stytta hvern hátt um þrjú erindi.

---

## *Misprentanir:*

Bls. 166. l. 28 er undanfeld ein lína, og skal svo standa: sem aðrir enir smæri höfuðstafir jarteina tvo stafi í máli. Má hann ok í tölu vorri jarteina tvö hundruð tíræð. Bls. 167, 37, titulus les titulus er. Bls. 183, 1, aila l. alla. Bls. 197, 33, óbiið l. óblíð. Bls. 195, 1, fjarðheins l. fjarðbeins. Bls. 199, 12, mi li l. milli. Bls. 209, 23, jammyrkrum, l. jammyrkum. Bls. 210, 21, a l. ifa. Bls. 216, 16, Stnrluson l. Sturluson.

Reykjavík í Febr. mán. 1849.

*S. Egilsson.*



